# VERUS CHRISTIANISMUS,

Edur

# Sannur Christen-domur,

J

## Fiorum Bokum,

Hliodande um̃ Rett-Christeña maña saaluhialplega Boot og Betran, Hiartans Angur og Trega fyrer Synndernar, sanna Triv, og H. Framferde.

Samañskrifadur af

**Doctor JOHANNE ARNDT,**
Fordum Generali Superintendente i
Lineborgar-Lande;

Eñ nu med Kostgiæfne wtlagdur a Islendsku
af þeim Sal. GUds Kieñemañe

**Sira Þorleife Arnasyne,**
Firrum Profa Skaptafells Syslu.

KAUPMANNAHÖFN, 1731.
Pryckt i Hans Kongl. Majsts. og Universit. Bokþryckerise af Johan Jörgen Hopffner.

# APPROBATIO.

Denne første Bog af D. Johan Arndts Christendom, oversat paa Jisslandsk, har jeg accuratè igiennemlæst, og confereret med den Danske Version trykt udi Missions Collegii Bogtrykkerie, Anno 1718. men ikke befundet udi Meeningen nogen Difference.

Testerer paa Skalholt Bispegaard
den 27. Septembris. 1725.

Jon Arneson
Superint. Skal.St.

Imprimatur
C. W. Worm.



# D. Johannis Arndt Formaale yfer þessa Bok, til Christens Lesara.

HVijlijk og hverſu vidurſtiggeleg ad ſie Vanbrwkun Heilags Evangelii, a þeſſum ſeinaſta Heimſens tijma, Chriſtenn Leſare, þar um ber vitne ogudlegt og glæpafullt Framferde þeirra manna, ſem med fullum Munne hrooſa ſier af Chriſto, og hans Orde, enn lifa þo vondu og o-Chriſtelegu Lijferne, lijka ſem være þeir Heidingiar, enn ecke Chriſtner menn. Þeſſara manna vondſkulegur Lifnadur, hefur mig tilknwd ad ſamſetia þetta Skrif, ſo ad þeir einfølldu viſſu grant, i hveriu ad ſtæde ſannur Chriſtenndoomur, ſem er i Trwnne, ecke faanytre, helldur þeirre ſem er lifande, og i Verkunum audſiaanleg, hver ed ſig auglyſer med alvarlegre Audmykt, og avoxtum Riettlæteſins; med þvi vier nefnuſtum þeſſvegna Chriſtner; ad vier ecke einaſta trwum a Chriſtum, helldur og einnen lifum i honum, og han̄ i oſſ; þar med ſo ad þad augli-

 ooſt

ooſt verde, ad alvarleg Jdran eige ad fram̃koma af inſta Grunne Hiartans; Hugurenn, Sinned, og Tilhneigingarnar, ølduugis ad umbreitaſt, og allur madurenn ad ſamlijkiaſt HErranum Chriſto, og hans Evangelio; vier og ſo dag fra dege ad endurnyaſt, og verda ny Skiepna fyrer Ord GUds. Hvịad ſo ſem ſier hvert Sæde giefur af ſier lijka Averte, ſo a og lijka Ord GUds, oſſ daglega fram̃ ad giefa andlega Averte, og þar ſem vier erum fyrer Trwna ordner ny Skiepna, ſo ber oſſ og ſo i henne ad lifa. J ſtuttu maale ad ſegia, þad er aformed, ad leida fyrer ſiooner hvernen Adam eige i oſſ ad deya, eñ HErrann Chriſtur i oſſ ad lifa, af þvi, þad er ecke noog ad kunna GUds Ord, helldur a þad þar ad auke, i lifande Verknade ad vottaſt.

J þeſſu fer nu fiolde Manna vilt a þeſſum ſeinuſtu tijmum, ſem hallda ad GUDS Orda Lærdoomur, ſie ecke utann einſomul Vyſende, og ſnilleleg Mælſkukonſt, þar hañ er þo i ſannleika lifande reinſla i Verkunum og Jdkun Gudrækneñnar.

Hier af kiemur þad, ad meun kieppaſt hver um aunann epter Ærugyrnd, og nafnfrægd ſem meſtre, ſo þeir eru faaer ſem þar hafa hyggiu a, ad vera Froomer og Heilager. Margur er ſa ſem aſtundar, ad uppleita Lær-

da

da Menn, til ad verda forfarenn i boklegum listum, bæde i Twngumaalum og odrum Vysdoome. Þar a moote er varla einn, sem þar hefur Epterlongun til, ad læra af þeim Hædsta og Vysasta Lærefødur, Drottne vorum JEsu Christo, hans Hoogværd og Lijtelæte, þo hans Lijferne sie einka epterdæmed, og vissasta Regla til ad lifa epter; ja, sa hædste Vysdoomur, og Líst allra Lista so sem þad fornmællta wtskyrer.

Omnia nos Christi vita docere potest.

Þad er:
Christs Lijferne kenner best
Christnum sier ad haga,
Ord og giorder eigum mest
Epter þvi ad laga.

Þa sem Christi Þienarar vilia vera, sinnur þw oteliande, þeir sem epter hønum breita eru fæster, þo þad kunne ecke ad skie, ad same Christi Þienare, edur sa sem hann er elskande, sie ecke, og lijka einnen epter hønum breitande; so sem Frelsarenn seger sialfur Joh. 12. Ef nockur þioonar mier, hann epterfylger mier. Þvi sa sem elskar Christum, þeim ber ad unna Epterdæmum hans allra heylagasta Lijfernes, sem er ad elska hans Lijtelæte, Hoogværd, Þolenmæde Krossenn, Haadungarnar og Fyrerlytningena, hversu sem Holldenu er

 þetta

þetta ofpocknañlegt, enn allt annad þeckara, enn þo vier gietum ecke a medann vier bwum i þessu holldsens Hreyse, so Grandvarlega og fullkomlega epter HErrans Christi Lijferne breitt, (hvad hid sama eg vil nu strax i ønd verdum Inngangenum og Upphafenu jaata, so eingenn eigne annarlega Meining mijnum Bokum) þa ber oss þo ad elska þad, so ad øll vor Astundan, Ahuge og Andvarpaner þar ad Hnyge. Þvi so lifum vier i Christo, og Christur i oss, epter þvi sem stendur hia, Joh. 1. Pist. 2. Cap. Sa sem seger sig blyfa i hønum sa a ad gaanga so sem hann gieck.

J þessu syndga menn nu þunglega, þvi flester kappkosta allt ad vita, enn gleima ad elska JEsum Christum, hverre Elsku eckert er ædra, nie nytsamlegra. Enn þeim mañe er omøgulegt ad elska HErrann Christum, sem ecke setur sier þad under eins, ad feta i hans allraheiloguste, Lijffsens Spor; ja, ad sønnu finnur þw marga, sem hneyxlast a Christo og skammast sijn fyrer hans Epterdæme og Lifnad, sem er fyrer hans Hoogværd og Lytelmootlegheit, og þad a heima hia þeim sem stendur Marc. 8. Hver sem syn skammast fyrer mig, hia þessare hoorunarsømu Kinslood, vegna hans mun Mannsens Sonur feyla sier, þegar hann kiemur i Dyrd sijns Fødurs. Þad er haalf Christenna manna haattur ad

vilia

vilia oſta ſier einhvers Chriſts, ſem ad ſie mik-els haattar, vegſamlegur, rykur og mektug-ur i Verolldenne; enn þar a mote ad ſinna ecke Chriſto, aumum, og lytelmootlegum, hogværum, lijtelaatum, og foroktudum, og hijrda ecke um hann ad medtaka, vidur-kienna, nie epter hønum ad breita. Þvi mun hañ ſvara ſoddañ Mønnum a þeim dege; Eg þecke ydur ecke; þier villdud ecke þeckia mig i minne Audmykt, þar fyrer kannaſt eg ecke helldur vid ydur, i ydar Drambſeme.

Þeſſe fordarfanleige og ogudleige Heim-ſens Haattur, er ecke einungis mootþrooan-legur, og giegnſtrydugur HErranum Chri-ſto og hans Kienningu, helldur og einnen ſam-ann ſafnar hann daglega GUds Reide og Ref-ſingum, ſo ad hartnær allar Skiepnur, Him-en og Jerd, Elldur og Vatn, ſtryda i moote oſſ, og hefna Raanglæteſens fyrer ſinn Skap-ara; ja allur Heimurenn ſo ſem af Riettfer-dugre Reide tilknwdur hootar oſſ Eideleggin-gu. Hierfyrer þvinguſtum vier arlega med DyrTijd og Hardindum, med Bardøgum og Bloods Wthellingum, ſumer med Hwng-re og Drepſott, og þo vill verda lijtel Leidriett-ing a Mønnunum, þviad plaager þær, ſem næſt undann Eideleggingu Heimſens eiga ad gaanga, haanga yfer oſſ ſo miøg þickt ſam-

ann hrwgadar, ad vier siaaum varla fyrer; ad vier munum verda frij fyrer nockre skapadre Skiepnu. Þviad so sem fyrer Israelitanna wtgaungu af Egyptalande adur þeir frelsnduſt, var ogudlegt og vantrwad Foolk plagad med hrædelegum Refsingum; eins mun og under seinasta Frelse GUds Barna af þessum Heime, Mannanna yfermaatanlegur Ogudlegleike verda straffadur med ovenjulegum Plaagum, sem ei hafa fyrre nockurn tijma heyrst. Er þvi maal komed ad giora Jdran, og taka fyrer sig betre Lifnad, ad snwa sier fra Heimenum til Christum, ad trwa riett a hann, og lifa i hønum, so sem Riett-Christnum hæfer; so vier bwum i Skioole hins hædsta, og stadnæmustum i Vernd GUds. Psal.91. Hier ad hnijgur og so Aminning Frelsarans vors; vaked þier þarfyrer alla tijma, og bidied so þier verded verduger ad umflya allt þad sem epterkomande er, Luc.21. Þessu er samhlioda þad sem stendur i Psalm.12.

Um þetta giefa þier nockud lijted til vitundar, þesser mijner Bæklingar, hvar af þw maatt læra, hvernen þw ecke ad eins kunner ad ødlast Fyrergiefning Syndanna fyrer Trwna a Christum; helldur og einnen, hvernen þier byrie, Naad GUds riettelega ad brwka, til ad komast i riettan maata heilags Lifnadar,

og

og þijna Trw ad votta med Christelegre Skick-
un og himneskre Umgeingne, þvi sa riette
Christenndoomur er ecke innefalenn i Ordum
og ytra Skine, helldur i lifande Trw, af hverre
fegurstu Avexter og tegunder, allra Christe-
legra Dygda frammkoma, fyrer þañ Krapt,
sem hwn ødlast af Christo; Þvi þar Trweñ
er osyneleg fyrer mannlegum Augum, þa
hlytur hwn fyrer Avextena ad auglysast, so
ad hwn synest ecke forgiefens, ad hafa feinged
af Christo allt gott, Riettlæted og Sæluna,
fyrer slyka Avexte verdur hwn syneleg.

Þar fyrer þegar Trwen vonar stød-
uglega epter þeim himnesku Giædunum,
sem henne hafa lofud vered af Gude, þa
uppsprettur Vonen af Trwnne, hver sann-
lega eckert er annad, enn stødug og sijfelld-
leg Bidlund epter þeim Giædum, sem
GUd hefur fyrerheited: Enn þegar þær
somu medteknu Giafer, eru af Trwnne Naa-
unganum wtbyttar, og hwn breiter so vid
Naaungann, so sem GUd høndlar vid hana,
þa holldum vier Kiærleikann hafa sinn upp-
runa af Trwnne. Enn þegar hwn þoler
Krossens Reinslu elld, og giefur sig under
GUds Valld og Vilia, þa holdum vier Þol-
enmnædena fædast af Trwnne, enn þar hwn
er stiniände under Þunganum Krossens, og

 þackar

þackar Gude fyrer medtekna Velgiorninga, þa segum vier ad af Trwnne gieteſt Bænnen: Ef hwn af Samburde, edur Samjofnude Guddooms Maktar, og mannlegrar Eymdar, giefur ſig med Audmykt fyrer augu gudlegs Tignar velldis, þa reineſt Trwen ad vera Mooder Lijtelæteſins. Jſijdaſta maata, ef hwn kiemſt i þingſtu hugarens Angiſter, og er ſtwrande þar um̃, hvert hwn mune bihalldande verda Naad GUds: Edur epter St Paals Ordum til Phil. 2. Verckar ſijna Saaluhialp med Ugg og Otta, þa segum vier trwarennar Avoxt vera GUdhrædſluna.

Hier af er audſied, ad allar Chriſtelegar Dygder, eru Affvæme Trwarennar, og kunna ecke fra henne adſkiliaſt, hellduren vatned fra Uppſprettunne, ſo framt þær eru ſannarlegar, lifande, Chriſtelegar, og upprunnar af Gude, Chriſto, og Heilogum Anda. Þar fyrer kann madurenn eckert þægt verk ad giøra Gude, fyrer utann trwna a Chriſtum, þvi hvadann er ſon Trwarennar Von, hreirn Kiærleike, ſtødug Þolennmæde, audmiuk Bæn, chriſtelegt lijtelæte, og Otte Drottens nema af Trwnne?

Þarfyrer verdur allt ad faa, og uppauſa wr Chriſto fyrer Trwna hver ad er einka brunnur Saaluhialparennar, ja med Trwnne ad

ad fa Riettlæted hia honum og Riettlætesens Averte. J þessu efne skalltu taka þig i vakt um þad, ad þ:v sleinger ecke samann vid Riettlætingena, þijnum eigenn Verkum, þad er uppbirinn Dygdanna, og gaafum þessnya Lijfnadar, þvi einskis mans eiged Verk, Verdskulldan, Gaafur eda Dygder eru hia Gude i nockru gillde, nema alleinasta, sw fullkomnasta Forþienusta JEsu Christi, hvéria vier eigum med Trwñe ad medtaka, um hvad framar sagt verdur i þessarar Bokar. 5. 19. 34. og 41. Cap. Sem og einnen i þremur fyrstu Capitulum annarar Bokarennar, þvi þetta er Grundvøllur vorrar Christelegrar Trwar, hver Grundvøllur, ad veitest ef samann er sleingt, Riettlæte Trwarennar vid Riettlæte Christelegs Lifnadar. Enn med þvi Trwnne er þad eigennlegt, dags daglega Hiartad ad hreinsa, um̃venda þvi, og þad enn betra ad giora, þa er oss þar vid ad kieppast, ad vier hofum og einnen sanna og støduga Trw, hvad vier og vissulega ødlustum, ef vier laatum oss þar um̃ vera um̃hugad ad giora Jdrann, verande þar um̃ visser, ad eingen fær Sælu Fagnadarens af Evangelio, sa sem ecke hefur sannarlegt Angur og Gudlega Hrigd, so sem stendur Matth. 11. Faatækum verdur Evangelium bodad. Þvi hvernen kann Trwen ad

ad endurlifga Hiartad og hreſſa þad, nema þad deydeſt adur med alvarlegre Hrigd, Angre og þeckingu Syndanna. Þar fyrer vil eg þig þar um amintañ hafa, ad þw hallder ecke Jdranena nockurn liettvægann og audvelldann hlut. Hveria GUds Meñ heilager hafa tilhlydelega wtmaalad, brwkande ecke miwkſælldar Ord, þegar þeir hafa um hana talad. H. Paalus ſkipar ſijnu Hollde ad deydaſt kroſſfeſtaſt med ollum ſijnum gyrndum og tilhneyiñgum, ad lijkame ſiñ verde fornfærdur, ad deya Syndenne og kroſſfeſtaſt Heimenum; i þeſſum Ordum merckiaſt ecke vægdarſom mykende uppa Holldſens ſijdu. Ecke helldur hafa heilager Spaamenn miwkleg ord brukad, þa þeir hafa Jdranena fyrer oſſ wtmaalad, med hennar einkiennum, þar þeir wtheimta lijtelæckad og ſundurkramed Hiarta, item ſundurknoſadann Anda, item ſkipa þeir ad rijta ſijn Hiortu, og ad ſnwaſt til Drottens med graate og ecka. Meniar ſlijkrar Jdranar ſiaaſt enn eingar a þeſſum dogum, hverſu ſem HErrañ Chriſtur wtmaalar hana, ad hwn eige ad vera, þar hann ſkickar ad hata ſitt eiged Lijf, ad afneita ſialfum ſier, og þarnæſt ad yfergiefa allt, ef vier vilium hans Læreſveinar vera. Af ollu þeſſu og ſierhveriu er eckert ſkrifad af Laataglaum, edur til gamans, og eige helldur

er

er þetta frammkomt med Leijk og Skiemtun; hvad hid sama, audvelldlega giefst ad skilia, af Psaltaranum i hveriam ad Sio Jdranar Psalmar eru Epterdæme, og Jmynd alvar legrar og angursamlegrar Hrigdar. Eg læt þad hia lijda, ad GUD heimter Jdranena med sijnum Atvordum allvijda, ja, allstadar i H. Ritningu under Hootun eilijfrar fyrerdæm ingar. J Jdranenne kann og einnen Hugg un Evangelij, fyrst ad sijna sinn riettann og eigennlegann krapt: Hvertveggia þetta ver dur Ande GUDs ad Verka i oss fyrer sitt Ord:

Um þessa hreina, alvarlegu og sönnu hiar tans Jdran, hondlar þesse minn Bælkingur, so og einnen um hennar Averte, og allt haatta lag sannrar Trwar, sem og einnen Kiærleikann hver Trwnne er naastædur. Enn med þvi nockur orda tiltæke finnast hier og hvar i þessu Skrife, lijk þeim sem Taulerus, Kempis og adrer Kyrkiu Lærendur hafa brwkad, hver synast meiga ad tileincke ofmiked mannlegu Megne, Kroptum og Giörningum; þa so sem þad er alldeilis ecke minn Meining, ad tileinka nockud mannsens Kroptum i hans Saaluhiaal þar Efnum, helldur stryder þar þvert moot, vil eg goodfwsann Lesara kiærlega umbeded hafa, ad hann slijka Talshætte vilie skilia og wtleggia epter odru þvi sem liooslega kient er

i þess-

i þessare Bok, og ad hann alltijd giefe giætur ad hennar hellsta Inntake, og mun hann þa formerkia ad þetta Skrift stijlar þar uppa, ad vier þeckium medfædda Spilling Uppruna-Syndarennar, og ad vier yfervegum grant, Eymd vora, og vesælldar haattu, ad vierølldungis vantreistum oss siaalfum, og øllum vorum Kroptum, ad vier eckert tilreiknum oss helldur HErranum Christo, uppa þad ad hañ einn life i oss, sie allt, og verke allt, þad er Upphafed, Mided, og Enderenn, vorrar Umvendingar og Sælu. Og ad eg sie i þessare Meiningu, og hallde þetta, þa mun þad syna sig i nockrum stødum þessara Bæklinga, sem eg þar fyrer set a moote Pontificiis, Synergistis, og Majoristis; Enn svo miked sem a hrærer Lærdoomenn, um̃ Rettlæting Trwarennar, þa hefe eg anægianlega þar um skifad, bæde i Fyrstu Bokenne og þeirre Annare. Hier ad auk med kienne Eg, ad eg hefe viliad wtleggia i þessum mijnum Smaabokum alla Articula Trwarennar? Enn þo nefnelega þann Articula um Frijviliañ og um Rettlætingu Syndugs mans fyrer Gude, epter Meiningu og innehallde Christnennar Boka, (hveriar ad eru þessar: Sw oumbreitta Augustana Confessio, hennar Apologia, Articuli Schmalkal-

dici

dici, baader Catechismi Lutheri og Formula Concordiæ.) GUd upplyse oss alla med sijnum H. Anda, so ad vier bæde i Trwnne og Lifnadenum sieum hreiner og flecklauser uppa þann Dag Christi (hver náalægur er) fuller med Averte Riettlætesens, fyrer JEsum Christum, til Dyrdar og Lofs Gude, Amen.



# Annar Formaale

Yfer

Christjanismum D. JOHANNIS ARNDTS, sem giørt hefur sa sæle GUds Kiennemadur, SAMUEL JENSON ILD. epter þad hann hafde sett Bokena uppa Danskt Twngumaal; og er hier innfærdur, so ad Islendsker Almugamenn, kunne af hønum ad merkia, hvad yppar-legt ad sie þetta Skrif, og hvad hrein-ann GUds Orda Lærdoom, þad hafe inne ad hallda.

Yrer margar Hørmungar hlioo-tum vier inn ad ganga i GUds Ryke, seger St. Paall, og þad gietur ecke odruvijs vered, þvi ad Christs Børn eru jaf-nann Krossborn, og hann sem til Himens vill hallda, hrepper hier Annad margfallda, epter þvi sem gamallt GUds manna Ordtæke hli-oodar; Sierdeiles hafa þeir sier þvijlijks ad vænta, sem vilia fyrer utann allt Manngrein-ar Alit, og falskar uppafindingar manna, kienna

kieña og prædika GUds heilaga og saaluhiaalplega Ord: Þvi so sem Orded siaalft lijdur offt og tijdum Mootsøgn, Offsokn, og Aräaser, so meiga þeir og einnenn þola margfallda Areiting, Offsookn og Freistingar, sem þad frambera. Sannleikurenn er þralega Orsök þar til, ad þeim verdur misþyrmt, og þeir meiga vegna hans, þrickiast og þvijngast. Vid soddañ matte Spaamadurenn Ezechiel varverda, þar fyrer sagde Drottenn til hans, ad hann hlyte ad ummgangast med þeim, sem væru eins og hvasser Þyrnar, og hann bygge midt i bland Høggorma. Eins lijka Jeremias, sem hafde saara Kløgun þar yfer segiande: Æ mijn Moder þvi fædder þu mig, a mote hverium, hver madur i Landenu, deiler og þraattar. HErrans Christi eigenn Læresveinar maattu og einnen hafa sömu Kior og Kaste, so ad vor HErra sagde þessvegna til þeirra. Siaa eg sende ydur so sem Lømb a medal Ulfa, og þier munud hatader verda af øllum, fyrer mijns Nafns saker.

Þetta hefur og Orded ad reina sa losleige GUDS madur Sal. Doctor Johan Arndt Høfundur og Meistare þessara Boka, um þañ sanna Christeñdom? Hver ed var fordum Prædikare til Zell, og General Superintendens i Lineborgar Lande: Hann fieck og so ad kienne a þessum hordu Bwsisium, sinna tilheyr-

heyrenda, og leid miked fyrer saker Trwarbragdanne, og þess hreina Lærdooms; bæde i þañ maata, ad hann var af Calvinistum reken burt wr siinu Fødurlande, i þad Furstadæme Anhalt; so og lijka i þvi, ad imser af jaatendum vorrar Trwar hafa miøg illa talad hønum til siidann, og lagt wt a vestann veg allt hans gooda gagnlega og velmeinta Erfide, hvar yfer hañ klagar i einu Sendebrefe, sem hann hefur skrifad i Brunsvig Ao. 1608. segiande ad ecke neitt sem hann hafe adurlided af Calvinistum edur i annann maata, falle sier so þwnglega sem þetta; og hafde eige hans good Samvitska, og Epterdæme Christi og Postulanna, hughreist hann, þar a moot, þa hafde hønum geinged þad so nærre, ad hann hefde daaed af Sorg þessvegna:

Allra hellst maatte hann lijda sodann Lastmæle, og Aaustur, þegar hann hafde lated ganga wt a þrendt þetta agiæta og ypparlega Verk, uñ þann sanna Christendoom, sem er so sem Mergur og stutt Innehalld alls annars, sem hañ hefur laate þa þrick wtganga, og er ecke so sem nockrer hafa raanglega fortaled, nidurskamtad i Fim Bækur, hellldur Fiorar: þar funduzt strax þeir sem lostudu þetta Skrif, og vildu skulda þad fyrer Villulærdooma, og søgde þad være fleckad med

 allra

allra handa Papiſkum Weigelianiſkum, og ødrum þeſſ ſlags Falſkienningum: Fordæmdu þad og einnen þar fyrer, ad i þad være ſo miked innfært, af ſkrifum þeſſ Læremeiſtara Tauleri, og þeirre þiſku Theologia, ſem þeir ſøgdu ecke væru rett ſkylauſar Bækur, þvi þær hefdu vered ſamanſkrifadar i þeirre Papiſku Villu og Blindleika; þar med findeſt i þeirre annare Book, heill Capitule, um̃ Bænena, ſem ſijdar hefde og ſo fundeſt i Veigelii Skrifum; þeir leitudu einnen epter fleyru, ſem þeir kynnu med Laſtyrdum ad wtflæma, og ſøgdu ad þeſſe Bok være i mørgum ſtødum myrk, og oſkiljannleg: Sum ſtadar vær eingen good nidurradan i henne; og i nockrum ſtødum vantade adſkilianlegt, ſem þyrfte þo ad vera til ad ſkilia þad Efne, ſem være vered um̃ ad tala; þvi þad geingur ſo giarnann til, ad ſa ſem vill laſta einn hlut, hann finnur ſier alltid einhveria Atyllu, til ad ſpinna wt af, hvert helldur hwn er ſønn eda logenn? og ecke neitt er ſo vel giørt, ad þad kunne, ecke ad hitta fyrer, þa ſem þvi vilie nidra og færa a verra veg. Enn med þvi þetta Skrif D. Johannis Arndt, var ecke ad ſidur eitt Agiætt og ypparlegt Verk, þa hefur þad ecke einaſta, haft ſijna Laſtendur og mootſtandara, helldur einnen ſijna Elſkara og Forſvarſmenn, hvar

af

af ad rised hefur Agreinigur, þræta og Mootbrooe i meira læga um̃ soddan̄, a medal þeirra, sem vered hafa jafnvel stoorum Gaafum giæddder, hvert striid og O-eining, ad hefur vered so myked, ad fra þvi Leidretting Trwarbragdanna skiede, fyrer þann Sæla GUdsmann Lutherum, þa hefur ecke falled so miked Mas og Disputatia um̃ nockurn bookmaala, a medal jaatenda rettrar Trwar, sem um þennann; og hefur sw þræta og Agreiningur feinged þann Enda um̃ sider ad epter þad, heilar Bækur hafa vered samannskrifadar af vorum Lutheranisku Læremeisturum, einkum af Varenio, Dilgero, Sauberto, Rachelio, Egardo, þeim Jenensisku Theologis, og ødrum fleirum til ad forsvara þetta Skrif, hefur þad orded degenum liooſara, ad jafnvel þo i þessare Bok, so sem i øllum ødrum Skrifum, ad undantekenne H. Ritningu, finnest sumstadar lijtel feil, þa er þar þo langt fra, ad Meistarenn, þar fyrer, edur sialfst Skrifed, skule vera af nockrum Villudome meingad, helldur alldeiles hreint og ofleckad, so ad sa rette og sanne Evangeliske Lærdomur er i þvi openberlega kiendur, og hvad þar verdur frammfært, hnygur allt þar ad, ad hann styrkest og stadfestest: þar med og einnen er þesse Bok sierdeiles naudsinleg og omissande, fyrer alla þa sem vilia erfa GUdsryke. B 3 Ad

Ad Meistarenn hafe ecke helldur, hafst þocknan a nockrum Falslærdoome, er auglioost þar af, ad hann i Formaalanum og Slutningunum, vitnar til þeirra Lutheranisku Kyrku-Boka, so sem er sw Augsburgiska Jaatning, med hennar Apologia edur Forsvars-Skrife; sovel sem þeir Smalkaldisku Articular; baader Lutheri Catechismi, og Formula Concordiæ, og auglyser sijna Meining klaarlega, ad hvad hellst sem i þeim Fiorum Bokum, um þann sanna Christendoom skrifad stendur, þad eige ad skiliast epter Lærdoome greindra Kyrkiu-Boka, og ecke ødruvis; þvi i þeim hinum somu verda fordæmder aller Villulærdomar og Falskienningar; einnen þær, i hverium Veigilius hefur sijdann giørt sig hluttakande, og i þeim Smakaldisku Articulum, verdur Paven wtþryckelega aliktadur, og dæmdur fyrer Antachristum.

So hefur þar og fundest eitt Sendebref Doctor Johañis Arndts, til Hertoga Augustum af Lyneborg, Daterat Zell þañ 7 Junü Ao. 1620. sem er giørt ad Formaala fyrer frамañ hans Skrif, er kallast Reformatio Papatus; i hveriu Brefe Doctor Arndt, leggur wt þañ vondskunnar Leindardom, um hvern talad verdur 2. Thessal. 2. wtþryckelega, uppa Pavadoomen, og sijner ad þad sie Pavedomurenn; sem fyrer

fyrer krofftuga Villudoma og Sathans Uppfinningar er komenn a gang, item ad Pavarner sieu sw Babiloniska Hoora, sem hefur giefed Kongunum a Jordunne ad dreka af Bikar sins Villudoms.

Pad er og sannferdugt um̃ Taulerum og þa Þijsku Theologiam, wr hverium Bokum adskiliannlegt er innfært i Doct. Johan Arndts Skrif, ad þar finnst margt gott hia þeim, so ad Doct. Lutherus hefur þar fyrer hroosad þeim, hverutveggiu mikelega, þvi jafnvel þoad i Frædum Tauleri, finnest þad ibland sem menn kunna ecke rett vel ad medtaka, þa samt er þar eingu ad sijdur margt inne æred gott, gagnlegt og epterteftaverdt, og þessvegna seger Doct. Lutherus, i þvi 23. Sendebrefe til Spalatinum, ad hann hafe hverke i Þijsku nie Latinu nockursstadar funded hreinne GUDS Lærdom, og meir samhliooda Evangelio, eñ i Skrifum Tauleri: Og i ødrum stad seger hann, efter þvi sem sa Nafnfræge D. Sponer fortelur ad hañ hafe funded meira af þeim hreina Guddomlega Lærdome þar i, enn ødrum Schola Lærenda Bokum, a øllum Academiis. Og um̃ þa Þijsku Theologiam seger same Doctor Lutherus, ad nærst Bibliunne og Skrifum Augustini, hafe hann einga Bokstied, af hverre hann hafe, meira lært, og

meine ad menn kunne ad læra, framar ad vita hvad GUD, Christur, Madurenn sialfur, og aller hluter sieu, enn af þessare sømu Þijsku Theologia: So helldur og einnen Velnefndur Doctor Spener, miked af sømu Skrifum, hroosar og einnen Doctor Johann Arndt þar fyrer, ad hann hafe fært sier af þeim adskiljanlegt i Nyt, i sijnum Fiorum Bokum, um þann sanna Christenndom:

Þad hafa Menn og so grandt fornumed, ad Sal. Doct. Johan Arndt, hefur ecke haft rett gott auga a Weigilio, þvi þegar M. Antonius Buscherus Anno 1618. skrifade Doct. Johan Arndt til, og oskade ad hann mætte fa ad vita af honum, hvad hann hiellde um Weigilium, þa svarade Doct. Johan Arndt þar til, ad i Weigilii Bokum være mørg Stycke, sem ecke kijnu ad standast, og ecke væru samhiooda H. Ritningu, Þar eru og geingner a prent Þaankar D. Johannis Arndt, yfer eitt Weigilii Skrif, er kallast Dialogus edur Samtal, i hverium Doctor Arndt kallar Weigelium, hrædelegann bakbitara og einn Fauta, hann seger og einnen, ad þar sie ecke ad finna hia honum nockurn Huggun arneista; Item, ad þar sie eingenn Hogværd, edur Audmykt i honum, helldur einsamall

Hoof-

Hoofmoodur, og þarfyrer sie andvelldt ad slutta, af hvada Anda hann stioornest.

Hvad ahrærer þañ Capitula, um̃ Bænena, sem skal vera ad finna i Weigilii Skrifum og Johann Arndt hitte uppa i einne Bok, fyrer utann Nafn Auctoris, so hañ visse ecke hvers hann var, eñ medtook hañ þo þar fyrer, ad þad var allt rett, og gott sem hann hafde inne ad hallda, epter þvi sem sialfur Doctoreñ underrettar i sinu Afsøkunar Skrife; þa gioerest eingenn þørf ad steita sig a soddañ, þvi þar sem þad er allt rigtugt, sem stendur i sama Capitula, þa vardar ecke miked um̃, hvar þad kann ad finnast. Fader Vor, Trwar-Jatningen, og GUDS Tiulaga Bodord, finnast i mørgum Villumanna Bookum; Enn munde þa nockur vilia vera so galenn, ad hann þar fyrer vilde hverke hafa um̃ hønd, Fader Vor, Tiu Bodordenn, nie Trwar-Jatninguna, af þvi ad þesser Partar Frædanna, finnast og so hia Kietturum; Gulled er Gull, og blijfur Gull, jafnvel þo þad ligge i Ohreinendum, Sannleikurenn er Sannleikur, og blijfur Sannleikur i hvada Muñe sem hann finst, jafnvel þo þad være annars einn ligare, fra hverium, so sem ødrum orettferdugum Medhandlara, sem helldur Sannleikanum fongudum (epter St. Paalls

ordum Rom. 1.) i Raanglætenu, hann a og ma med fullum Rette, takast, og brwkast til Heilsusamlegra Nota og Gagnsemdar; vier megnum eckert a moote Sannleikanum, enn hvad vier megnum, þad megnum vier fyrer Sannleikann, seger same Postule til þeirra i Corinthuborg, og þeim i Philippis, 2 Cor. 3. Skrifar hann um þad, sem þeir heyrde a hia Heydingunum, a þennann Haatt: Hvad Sannarlegt er, hvad Erligt er, hvad Rettelegt er, hvad Skyrlijft er, hvad Astsamlegt er, hvad Velsom er, hvert sem þad er nockur Dygd edur nockurt Lof, þa giefed giætur þar ad, so sem hann og annars bydur i sirra Sendebrefe til Tessaloniseñes Cap. 5. ad prova alla hlute og byhallda þvi hinu gooda.

So hafa og fleire Lutheraniſker, teked wr Villulærenda Bokum, adskilianlegt, sem hefur vered rett og gott, og fært sier þad i Nyt so sem Doctor Johannes Gerhardus (hvern aller Lutheraniſker heydra sem eiñ goodañ Fødur) hefur og eiñen giort ad nockruleite i hans Patrologia, sem er mikenn part wtdreigenn wr Bok Bellarmini, um þa gømlu Kirkiu Historiu-Skrifara, enn þo allramest i þvi kostulega Skrife, er hann kallar Confessionem Catholicam, edur almennelega Jatningu, hver ecke hefur stoorum annad inne ad hallda, enn þad sem er wtdreiged af Bøkum Papiſkra,

ra Læremeistara, og med þvi hinu sama, verda þeirra Villdomar tilbakarekner: So hefur og Tomovius i sinne wtleggingu yfer Spaamennena, fært sier miked i nyt af þvi sem hann hefur funded hia Læremeisturum framande Saafnada. Dad er og hverium manne kunnugt, ad wtleggingar Marlorati, Poli, Merceri, Drusii, Coccei, à Lapide, Pinedæ, Serrarii, Granatensis Feri, Lorini, og fleire annara, yfer Bækur H. Ritningar, eru vor a medal miøg i brwke.

Hvad er og Hortulus animæ, edur saalarennar Urtagardur, sem Daniel Cramerus, hefur laated þryckia, annad enn Papiskt Skrif, er hann hefur hreinsad af Pavans Villudome. Þær gudlegu Epterþreiingar, edur pia desideria, sem Henricus Ursinus hefur lated ganga wt a prent, vorum Søfnudum til brwkunar; vita menn ad sa Papiske Skribent, Hermanus Hugo, hefur vissulega samanteked. Og Sonthoms gyllene Clenodia, sem fyrer 30 ara tijma hefur vered þrickt i Dønsku, i Kaupmannahøfn, er alldeiles tekenn af Munksins Ludovici Granatensis Skrife, sem af hønum kallast Dux Peccatorum. Hier hefur og so nylega vered þrickt i Dønsku, Cardinals Bona Vegviisan til Himnarijkes. So taka menn miked af Bokum Heidingianna, Ciceronis, Plu-

Plutarchi, Senecæ, Virgilii, Horatii, og añ=ra þvijlijkra, og brwka ſier til gagns, jafnvel þo þeir hafe vered ſkær Sannleikanum enn Veigelianar, Papiſtar, edur adrer ſem haft hafa framande Trwarbrøgd; og hvad mun eg vilia fara ſo langt? Sialfur Poſtulenn Paall hefur fært inn i ſijn Sendebref, margt wr Heidingianna Bokum, ſem hefur vered velſagt, og er eingen ſo vitlaus, nema hann ſie verre enn Heidingiar, ad hann vilie ſegia ad þad ſie af hønum illagiort.

So mikid ſem ahrærer hitt annad, ſem i þeſſum D. Johannis Arndt, Fioorum Bokum hefur vered illa uppteked, og adur var aminſt þa er þad liooſt ad ſlikt finſt og ſo i mørgum ødrum, af þeim agiætuſtu og nafnfræguſtu Skrifum, og ſneider ecke þar fyrer, edur ſvipter þennann Bokmaala, ſijnum Ypparlegleika: Þad ad ordenn, ſieu, ſumſtadar, mirk og þwng ad ſkilia, þa er þad auglíooſt, ad ſlijkt hid ſama finſt i mørgum ødrum, lofſverdum ſkrifum, og jafnvel i Bokum H. Ritningar, ſo ſem i S. Jacobs Piſtle, og i Brefenu til þeirra Hebreſku, hvar um Doctor Lutherus ſkrifar, ad þar finneſt harder hnwtar i þeim, ſo ſeger og Heilagur Petur, ad þar ſieu nockrar Greiner i St. Paals Piſtlum torvelldar ad ſkilia. Og þo ad nidurradanen i nockrum ſtødum, ſie ecke

ecke i rettasta læge, þa heimter þad ecke stoora adfindne, þvi menn kunna þvijlijkt vijda ad fornema, ja þraalega i þeim nafnfrægu Claudii Salmasii Bokum, og þetta er miøg so allmennelegt i øllum Skrifum: J stuttu maale ad segia, þar finst, varla nockur sw Bok, af mønum einungis samsett, ad þar sie ecke einhver merkianlegur brestur i, so þad a hier rettelega heima sem Salomon seger i Prædikarens 1. Cap. *Brester kunna ecke talder ad verda.*

Þar fyrer er þad nw um sijder klaarlega bevijsad, af grandvarlegre Yfervegan þessa Efnis, ad þetta Sal. Doctor Johañis Arnds Skrif, er harla gott, ypparlegt, dyrmætt og omissande, fyrer hvert ad margra Augu hafa upploksest, til ad underskande þa hlute, an hverra þeckingar þeir hefdu maatt tapast ad eilijfu, og ecke vera þessverduger ad kallast Christnar Mañeskiur: Þarfyrer eru og margar bækur vorra Læremeistara, fullar af hroose þessarar Bookar, so ad ef einhver vilde safna þvi øllu saman i eitt, sem um hana hefur sagt vered, sa kynne ad giøra þar af fyrer sialfann sig stoort Skrif. Þeir sem a medal vor Lutheranistra, hafa viliad vera nockud skarper, og skoreñorder i sijnum Skrifum um Christelegt Frammferde, sidañ Doctor Johannes Arndt var a døgum, þa hafa þeir matt kannast þar vid ad sa Sæle

Mad-

Madur hefur i þessum 4 Bokum broted ijsen fyrer þa, og hafa þeir so eriad med hans Kvijgu, og brwkad þessar hans Bækur, so sem eins Skolameistara, til þess sem þeir hafa viliad skrifa, og teked miked til laans af þvi, sem hann hefur uppa funded; þessvegna eru og margar þusunder, af þessum Doctor Johannis Arndts Bookum, burtselldar til godra manna, og hefur alltijd vered þorf a ad leggia þær upp aptur hvad epter annad; þær eru og so ad segia i hvers mans hwse brwkadar wt um allt Þijskaland; og hia oteliande Donskum og Norskum: Einnen settar uppa adskilianleg framande Twngumaal, so sem til dæmes, þad Latinska, Svendska, og Hollendska, og eru almennelega svo alitnar, ad þær sieu næst H. Skrift, med þeim yppurstu Bookum verdar ad lesa, og i Lijfe og Lijfnade epter ad filgia.

Þetta hefur mig og einnen leidt til þess ad setia þær uppa Donsku, hvad og so tilforna hefur af imsum giort vered, annars veit eg þo ecke, hvarfyrer ecke hefur geinged wt a prent, nema lijtell Partur af þeim, sem er sw Fioorda Book: Þvi þar eg saa og fornam þad skielfelega Idiuleise, Andvaraleise, Hræsne, og Ogudlegleika, i voru Lande med Ofaate, Ofdrickiu, Banne, Formælingum Asælne, og Raangsleitne vid Naawngann, Lyge

og

og Baktale, eñ þo allra mest Forøcktun GUds Orda, sem med ødrum Løstum hefur miøg so yferhønd feinged, svo ad flester skeita alldeiles ecke neitt um̃, hvad illt þeir giøra; kunne þeir annars ad ummflya veralldlegt Straff, og fegra sijnar vondar giørder fyrer Mønum, so sem GUD sie eingen. Einkum þegar eg merkta, ad i nærsta faaum Bookum Donskum var ad finna, so alvarlega, og i eingum so grundada og velwtfærda Aminning, og vidvørun i giegn Hyrduleise og Ogudlegleika, sem i þessum bokum er Doct. Johannes Arndt hefur giørt; so þad er harla nytsamlegt, ad þær kunne og so ad lesast, af þeim sem annad hvert ecke skilia Dyßku, eda ecke gieta so vel Dyßku lesed, sem sitt eiged Moodur maal; þa dyrfdest jeg ad taka mier þad fyrer i JEsu Nafne, ad leggia þær wt uppa Donsku, sem eg vona verda mune Gude til Æru, og Naawnganum til Gagns og gooda.

Þar fyrer hefe eg og so i wtleggingu þessarar Bookar, fyrst og fremst teked þad i agt, ad Skrifed kinne so miked sem møgulegt være, ad koma ødrum, einkum þeim Faafroodu til Nota, Huggunar, og Heilsusamlegrar Betrunar. Jeg hefe og so i annañ maata, stundad þar uppa i øllum greinum, ad hvad eitt kynne ad vera sem lioosast, og skilianlegast so

ad

ad ecke, einasta feinge þeir Lærdu þad griped helldur og einnen Einfalldur Almwge, og aller kynne ad færa sier þad i nyt; Postulans Ord hafa mig og einnen þar um amint, þar hann seger: *Ef ad Lwdurenn giefur af sier oskil- merkelegt Hliood, hver mun þa vilia bwa sig wt til Bardagans. Jeg vil helldur tala fim ord i Søfnudenum med mijnu Sinne, so ad eg kienne ødrum, helldur enn annars tiu þw- sund ord med Twngunne;* þad er med obeck- ianlegum, og oskilianlegum Ordum. Hvar fyrer eg hefe og einnen i þridia maata, ecke einasta lagt Kostgiæfne þar a, ad Orden skyldu rett wtleggiast, helldur og Meiningenn allra hellst, þvi Boken var i þvi Þyska Twngu- maale i mørgum stødum næsta oskilianleg, so ad Kiennevallded i Hamborg, Lybik, og Line- borg, seger þar um i ødrum Parte siins Skrifs, a moote þeim Guthmanniska Patron, ad Doct. Johan Arndt brwke stundum hørd Ordatiltæke i siinum Bokum, sem væru tekenn wr Macario, Taulero, og ødrum, og þyrfte gooda Wtlegg- ing yfer sig, og þeir Jenesisku Theologi segia i siinum wrskurde um þetta Skrif D. Johannis Arndt, ad sw Þridia Booken þar i, sie i flest- øllum Stødum myrk og oskilianleg. Epter þvi þa, ad þetta Þijska Skrif, var i imsum Stødum nockud oliooßt og þwngskiled, þa villde þad ecke vera nog, ad ganga einasta epter

Book-

Bookstafnum, og brwka snøgfellda Metaphrasin, edur orda þijdingu, hveria adferd, Læresaderenn Lutherus kallar Asnastycke, i þeim Fioorda Wittenbergiska Parte, þeirrar Bokar, vom Dolmetschen, þvi med soddan slag, kan Meiningenn ad formirkvast, og þad sem adur var baagt ad skilia, verdur enn þa vanskilnara, so ad Hieronymus seger þess vegna um soddann. Nær Madur i sinne Wtleggingu vill grant filgia epter ordunum, þa byrger hann opt fyrer Meiningena, og hartnær ad segia þijner hana: Hann færer og Epterdæme þar uppa af skaaldenu Homero, og seger, ad þar sem Homerus være settur uppa Latinu, ord fyrer ord, þa skyllde þar af verda onuglegur Stijll, og hid sama skaalld, sem annars er framar ødrum veltalande, feinge þar med nockurs konar Twngu-haft. Og Gregorius Magnus i hans 28 Sendebrefe, kiemst so ad Orde: Ef ad Menn i Wtskyringunne hallda rykt uppa þijdingu ordanna, þa missa þeir þar med optlega Krapt meiningarennar.

Þegar ordenn sem eiga ad wtleggiast, eru siaalf nogu lioos, þa kann þad ad finna stad, sem Daniel Huetius i sijnu Skrife um Wtlegginguna stendur hart uppa, ad menn skule endelega binda sig vid ordenn, hellst þegar H. Ritning verdur wtløgd; Enn þegar ordenn

eru myrk, og þad er einungis manna Skrif, sem vered er um ad tala, þa rekur Naudsynen a epter, ef men annars vilia stunda uppa gagn Naawngans, sierdeiles þeirra Einfolldu og Faafroodu, ad leggia sig framar til ad wtskyra Meiningena eñ ordeñ. Soddañ wtþyding Meiningarennar, seger og Hieronimus, ad sa loflegaste Mælendis madur Cicero hafe brwkad, þegar hann hafe sett uppa Latinu imisleg Platonis, Demostenis, og Æschinis Skrif, sem og einnen Terentius, Plautus og Cæcilius, þa þeir hafe sett þær Grisku Comœdiur uppa Romversku twngu: Eins lijka sa merkeleige Lærefader Hilarius i þvi hann lagde wt ur Grisku, Wtleggingarnar yfer Job, Psalltarann og adrar Bækur: Og bæter Lærefadereñ þvi vid, ad hann hafe ecke seted yfer þeim sisiande Bokstaf, nie plaagad sig med lumpenne Bænda wtleggingu, helldur hafe hañ sem einn Sigurvegare fært Meiningena, so sem wr Faangelse, i sitt eiged moodurmaal; hann seger og einnen um siaalfann sig, ad hann hafe fra unga alldre giort Wtleggingar yfer adskilianlegt; einkum lagt wt wr Grisku Eusebii Cronicu: Eins lijka hafe þeir 70 Wtleggiarar, er settu Bibliuna uppa Grisku, giort slijkt hid sama, ja eir H. Postular i þvi sem þeir hafa wr Gamla Testamentenu, fært inni sijnar Bæk-

Bækur; þad sama hefur og Lutherus giort þraalega, og hann beviisar i greindu Skrife vom Dolmetschen, ad þad sie rett. Doctor Johan Arndt hefur og brwkad somu adferd i þeirre Þiisku Theologia, og lagt alltijd nockud til sem þurft hefur, so meiningen skyllde verda þess liooſare, hvar um hann talar i Formaalanum, og seger: Ad epter þvi Hofundur þeirrar þiisku Theologia, frammkome i sodd-ann einu Þiisku Sproke, sem vandlaat Sælkiera Eyru þessara tijma, fa ecke griped, þa hafe hann titt og oft hialpad hans baagu Twngutake, uppa þad, sw andlega Meining, kynne þessbetur ad siaast og þeckiast.

J Fioorda maata, er fyrer saker þess hins sama, og til þess ad einn og sierhver kunne þess liooſara, ad siaa þa rettu Meining, þad og einnen giort, ad þar sem sa siotte Capitule i þeirre Firstu Bok, nockud af þeim Fertugasta, og meste Partur þeirrar þridiu Bokarennar, voru so oskilmerkeleger, ad Almwga foolk kunne ecke ad hafa þar eigenleg not af, nema þeir være odruviise lagader, þa er allt þviisliikt epter þeirre wtskyringu, sem ad nockru leite er giord af odrum Theologis, og ad nockru leite af sialfum Doct. Johan Arndt; hier þannig sett og frammfært, ad hver einn kann strax ad fornema þa sonnu og saaluhiaalplegu Mejning.

Af sømu Orsak er þad og einnen hier i fimta maata teked i Agt, ad þar sem ad Auctor sumstadar i þessare Bok, vijsar til adskiliannlegra greina Bibliunnar, enn færer þær þo ecke inn, hvar af þad kann ad koma, ad þeim Stickium i þessare Bok, sem so eru asigkomenn, verdur annad hvert slept, edur þau verda o-þægeleg, og neida þa til, sem vilia komast fyllelega ad Meiningunne, ad fletta alltijd upp Bibliunne, og giæta ad hvernen þar stendur, þa eru soddann Skriftarennar greiner, sem Auctor einasta vysar til, hier innfærdar ord fyrer ord i þessare Utleggingu, þeim til Epterlætes sem lesa vilia, so ad þeir þurfe ecke i hvert sinn ad þeim ad leita sier til mædu og Leidenda.

I Siotta maata þar Meistarenn i fáeinum Stødum, hefur undannfellt þad merkelegasta, sem heyrde til Efnenu, an efa þessvegna ad Taulerus, og adrer, epter hverium hann hefur geinged, hafa giort hid sama, þarfyrer med þvi þad var omøgulegt, fyrer þa Faafrodu, ad þeir kunnu, ad skilia soddann, utan þad være sett til sem vantade, þa er nu hvad eitt aptur innfært i sinn stad, so sem þad er nockurn part af sialfum Meisteranum, og nockurn part af ødrum Rettchristnum, Lærendum skyrlega wtlistad, hvad menn

menn kunna sierdeiles ad siaa i Annarar Bokar 25. og þridiu bokar 1. 2. 4. 17. og 22. Capitulum.

J siounda maata er og i þvi falle, stijlad uppa Lesarans, einkum þess Einfallda gagn og nytseme; ad þar sem ad ordeñ voru sumstadar, so sem adur er sagt, nockud færd wr læge, hellst i þeim Capitulum uñ GUds Heidur og Vegsemd i añare Bokenne, og uñ Verk Naattwrunnar i Firsta Parte þeirrar Fioordu Bokar; þad er ad skilia i hans 2. 3. 4. og 6. Capitula, og af þvi ad þad sem fyrer utann skamtlega nidurradan verdur frammsett, er bæde oskilianlegt og leidenlegt ad lesa, þa er hier allt soddann sett aptur i rett lag, og þær greiner sem færdar voru af vega, eru nu komnar aptur til sijns retta plaaß og sama stadar.

Er so med allre Kostgiæfne þar uppa ervidad ad i þessare book finnest ecke neitt, sem menn þurfa ad steita sig a, helldur ad hver einn meige hafa a henne Velþocknan, sier til Uppbyggingar, Huggunar og heilsusamlegrar Frammfarar i þvi hinu gooda, hvar uppa eg hefe stundad af fremsta mætte, og ecke geinged epter mijnu eigenn Hofde, helldur raadfært mig opt og tijdum vid adra, sem kunu Efned vel ad understända, og kiemur so allt þetta nu ummsijder i lioos, og fyr-

er dag a þann haatt innrettad, med stoorre Mædu og stærstu Gaumgiæfne, sem adur hefur sagt vered. JESU Christi blessadur Ande, hiaalpe þar til, ad hver einn sem les þessa Bok, mætte so lesa hana, ad hann þar med mætte lesa til sin GUds Jmynd, þad nya Lyferne Christi, GUds Ryke og eilijfa Saaluhiaalp, hveria Drottenn vyrdest ad skeinkia og veita, oss øllum alleina fyrer JEsu Christi Skulld, Amen.





# Registur yfer Capitulana i þessare Fyrstu Book.

na og alvarlega Jdran ad hugga sig vid Christum, og hans Forþienustu.

IX. Oskickanlegt Lijferne Mannanna afneitar Christo, og sannre Trw i þessare Olld.

X. Lifnadur Veralldarennar Barna, er Christo JESU aldeilis mootstædelegur, þarfyrer er þad raangur Lifnadur, og þeirra Christenndoomur er fals Christenndoomur.

XI. Ad sa sem ecke breiter epter Lijferne HErrans Christi, giøre ecke alvarlega Jdrun, og ad hann sie ecke Christenn, nie Gllds Barn: Item, Hvad ad sie, sw ønnur, edur sw, Ny a Fæding, og hvad Oked Christi sie.

XII. Sann-Christnum manne byriar ad deya fra sier sialfum og fra Heimenum, enn lifa Christo.

XIII. Sier hver Christenn madur a ad degia sier og Heimenum sialfkrafa, vegna Christi, og eilijfrar Saaluhiaalpar, til hverrar vier erum skapader og endurleister.

XIV. Ad sann-christnum Manne birie ad forakta Heimenn, epter Dæme Christi, og sitt eiged Lijf i þessum Heime ad hata.

XV. Ad Gamle Madurenn eige i sann-Christnum Manne daglega ad deya, enn sa Nye ad endurnyast. Item, Hvad þad sie, ad afneita sier sialfum, og hver helst ad sie sa sanne Krossenn Christi.

XVI. Ad Riett Christnum Manne verde alldrei hlie a stryde, i millum Holldsens og Andans.

XVII. Ad Christenna Manna Arfleyfd og Audæfe, sieu ecke af Heime þessum; þvi byrie þeim ad brwka þau so sem þeir sieu framande.

XVIII. Hvad þwnglega Gulld stiggest, þegar Menn virda meir þad stundlega enn þad eilijfa; og hvarfyrer ad vier eigum ecke, ad festa vor Hiørtu vid skapadar Skiepnur.

XIX. Sa sem i sijnu Hiarta er hinn Aumaste, hann er Gude Kiæraastur, og

fyrer Christelega Þeckingu, sinnar eigenn Eimdar, finnur madur GUDS Naad.

XX. Fyrer sanna Jdran betrest vort Framferde daglega, og verdur Madurenn med þvi moote, hentugre til GUds Rykis, og stirkest til eilijfs Lijfs.

XXI. Um̃ þa riettu GUDS Dyrkun edur Þioonustu.

XXII. So sem Tried af Avertenum þeckest, so vottast Sann-Christenn madur af eingu ødru betur, enn af Kiærleikanum, og daglegre Lifnadarens Betrun.

XXIII. Sa madur sem vill vara og þrooast i Christo, hann hlytur ad sla sier fra miklum veralldar Selskap.

XXIV. Um̃ Kiærleikann til GUds og Naawngans.

XXV. Um̃ Kiærleikann til Naawngans sierilæge.

XXVI. Hvarfyrer oss byrie ad elska Naawngann.

XXVII. Hvarfyrer vier eigum ad elska vora Ovine.

XXVIII. Hvernen og hvarfyrer ad Skaparenn eige meir ad elskast, enn allar adrar Skiepnur, og hvernen vor Naawnge eige ad elskast i Gude.

XXIX. Um Fridþægingu vid Naawngañ, an hverrar ad GUD tekur i burtu sijna Naad.

XXX. Um Averte Kiærleikans.

XXXI. Ad eigen Elska, og sialfs Þootte fordiarfe, og ad eingu giore, jafnvel þær bestu, hædstu og prydelegustu Gaafur.

XXXII. Trwen sem verkar fyrer Kiærleikann, bevijsar mannenn Christenn, og Gude Þeckann, eñ ecke stoorar Gaafur.

XXXIII. GUD alytur ecke Verckenn edur Personurnar; helldur so sem Hiartad er eins og sierhvers, so dæmer GUD um hans Giørninga.

XXXIV. Mannsens eigenn Kraptar, kunna eckert ad giora, edur wtrietta til sinnar Umvendunar og Saaluhiaalpar, helldur giorer GUDs owtseigianlega Naad þad allt samann i Christo, þegar Madurenn

urenn ad eins stendur ecke a moote þeirre sømu Naad, helldur ad hlydest hana, og lætur GUd høndla vid sig, sem einn Lækner høndlar vid þañ Siwka. Item, þeir verde ecke hluttakarar Christi Forþienustu sem ecke giøra sanna Jdran og laata af illu.

XXXV An heilags og Christelegs Lifnadar er allur Vijsdoomur, allar Lister og Speke, og jafnvel þecking allrar Heilagrar Ritningar, til forgiefens.

XXXVI. Þeir sem ecke lifa i Christo, helldur hafa sitt Hiarta fast vid Heimenn, þeir hafa ecke nema þann ytra Bokstaf Skriftarennar, enn smacka ecke hennar Krapt, og þad folgna Manna sem þar er inne.

XXXVII. Þeir sem ecke epterfilgia Christo i Trwnne, i Lifnadenum, og i daglegre Jdran, kunne ecke ad fryast fra sijnum Hiartans Blindleika, helldur blyfa þeir i sijfelldu Myrkre, þar med gieta þeir ecke riettelega þeckt Christum, nie haft nock-

nockurn Fielagskap edur Sameining med Honum.

XXXVIII. Ochristelegt Liferne er orsøk til Vantrwar, til Falslærdooms, Afvegaleidslu, og Forherdingar: Item, um þa eilijfu Naadarfullu Utvalning.

XXXIX. So ad sa heilnæmeLærdoomur, og GUds orda hreinleike vardveitest, er ecke einasta þørf a Spurningum og Disputatium, sem og imislegum goodum Bokum, helldur og einnen þar ad auke, a sannre Jdran og heiløgum Lifnade.

XL. Nockrar nytsamlegar Reglur, hvernen Madurenn a ad skicka sier i sijnu Christelegu Frammferde.

XLI. Sem er stutt Agrip yfer þessa Fyrstu Bok: Item ad allur Christenndoomur sie innefalenn i þvi, ad GUds Mynd uppbyggest i Mannenum, Enn satans Mynd upprætest.

XLII. Nidurlag þessarar Bokar, og hvar fyrer hun tale so miked um Jdranena

og

og hennar Averte. Item ad Madur-
eñ skule ecke akta fyrer Veralldarennar
Dooma; og hvernenn hann eige ad
vakta sig fyrer andlegre Drambseme,
og ad eingar andlegar Gaafur kunne
ad faast an Bænarennar.



# Errata.

Pag. 5. lin. 19. mismuur, les mismunur. p. 6. lin: 6. alld, les ad. p. 15. lin: 13. uppvakad, les uppvaked. p. 16. lin: 4. edlishættis, les edlishætter. p. 17. lin: 27. oʒ, les og. p. 19. lin: 6. kvikdar, les kviknar. p. 23. lin: ult. nylia ifgun, les nya lifgun. p. 30. lin: 8 siafum, les sialfum. lin: 20. eigenn, les eingenn. p. 36. lin: 13. huggum, les huggun. p. 53. lin: 20. og, les eg p. 55. lin: 1. ho, les þo. p. 70. lin: 2. lijde, les lijda. p. 77. lin: 19. hiar, les hia. p. 101. lin: 22. orusteinne, les orustunne. p. 104. lin: giæsa, les giæfe. p. 132. lin: 4. iklædest, les iklædast. p. 136. lin: 26. yferkond, les yferhond p. 196. lin: 2. mikunar, les miskunar p. 200. lin: 19. kiærleikuranum, les kiærleikanum. p. 210. lin: 17. þvetta, les þvætta. p. 212. lin: 3. niema, les neina. p. 226. lin: 22. gort, les gott. p. 227. lin: 27. fugioreft, les fullgiorest p. 232. lin: 5. burttekner, les burtteknar. p. 233. lin: 24. harted, les hatred. p. 237. lin: 4. dyrdum, les dyrdkum. p. 243. lin: 25. skiedar, les skiedur. p. 259. lin: 20. forma, les forna. p. 271. lin: 7. hondla, les hondlad. p. 275. lin: 6. vi, les þvi. p. 278. lin: 9. rofstyrnum, les lofstyrnum. p. 322. lin: 5. bæra, les bera. p. 329. lin: 17. ande, les anda. p. 333. lin: 20. villa, les vilia. p. 343. lin: 11. arfleid, les arfleifd. p. 365. lin: 2. vottan, les vottar. p. 368. lin: 25. ar, les þar. p. 373. lin: 28. vart, les part. p. 377. lin: 7. da, les ad. p. 384. lin: 7. ganga, les gange. p. 392. lin: 10. Drottens, les Drottenn. p. 406. lin: 13. sannans, les samans. p. 428. lin: 19. varta, les vanta.

Og hvad fleira hefur maatt yfersiast i Þrickingu þessarar Bokar, er vinsamlegur Lesare bedenn, ad lagfæra, og lesa i Maaled.

):( ):(



# Fyrsta Bok.

## Um̄ þann Sanna Christinndom.

Hvernig ad saa gamle Adam, eige daglega ad dejdast i einum rettchristnum Manne, og Christur aptur a moot ad lifa i honum: item hvernen madur eige dag fraa dege ad endurnyast, til GUds Myndar, og lifa i nyrre Fædingu.

## Cap. I.

## Um̄ Guds Mynd i Manninum.

Eph. 4.

Endurnyest i Anda ydvars Hugskots, og iklæded ydur þeim nya Manne, sem epter Gude er skapadur i Rettlæte og Heilagleika Sañleikans.


Uds Mynd i Manninum er lijking mannlegrar Saalar, Skilnings Anda, Hugskots, Vilia, og allra utvortis, og innvortis, lijkamañs, og Saalarennar Krapta, vid GUd, þaa H. Þrenning, og vid alla hennar Guddomliga Edles-hætte, Dygder, Vilia og Eiginnlegleika; þvi so hliodar þar um̃ Raadslegun Heilagrar Þreñingar, Gen. I. Laatum oss giøra Manninn efter Mynd og Lijking Vorre, hver ed Drottna skal yfer Fiskum Sioafarens, og Fuglum Loptsens, og yfer Fienadenum, og yfer allre Jørdunne, og yfer øllum Skridkvikendum, sem hrærast aa Jørdunne.

Af þessu er liost, ad H. Þrenning hefur afmaalad sig i Manninum, so ad i hanns Saalu, Skilninge, Vilia og Hiarta, jaa i øllum hanns Lifnade og Athøfnum skyllde lioma og leiptra, skiær GUds Heilagleike, Rettlæte og Giæska; lijka so sem i Heiløgum Einglum finnst eckert annad enn Gudleg Elska, Kraptur og Hreinleike. J þessare Mynd villde GUd hafa sitt Ynde og Epterlæte, so sem i Børnum sijnum; þvi lijka sem einn Fader sier sialfann sig med Lyst og Glede, þegar hann horfer aa sitt afkvæme; eins hefur GUd haft sina sierdeilis Unadsemd i Mañinum fyrer Falled: þess vegna

vegna seger hann i Ordskv. B. 8.cap. Min Lyst er ad bua hiaa Mañaña Sonum. Og þott GUD Drottinn hefde stora Velþocknan aa ollum siinum Verkum, samt hafde hann þo hid mesta Ynde og Epterlæte i Manninum, þviad i honum leiptrade fullkomliga GUDs hin skiærasta Jmynd. Þess vegna gaf GUD almaattugur inn i Mañsens Saalu þriar ypparlegar Dygder, so sem þan stærsta Heiman-mund, sem ad var Skilningur, Vilie, og Miñe; hveriar Daader edur Krapta, Heiløg Guddomsens Þrenning vardveitir, helgar og upplyser, jaa, pryder fagurliga med siinum Naadargafum og Verkunum.

Þad er med riettu eitt Viilæte, a hveriu madur sier einhvers skiira Mynd og Liiking, og ecke kañ neitt i Sañleika Eptermyndan ad heita, nema þad sem hefur Liiking þess, epter hveriu þad er myndad, og maalad; Liikasem i einum Speigle, kann eingen Mynd ad siaast nema hañ, so sem fyrer einn getnad, drage i sig liiking eins annars hlutar; og þess skiærare sem speigelleñ er, þess augliosara syner sig mynden i honum; eins liika, þess hreinne og Skylausare sem mañsens Saal er, þess skyrlegar og fullkomlegar liomar GUDs mynd i henne. Þarfyrer skapade GUD Mannenn med ollum Kroptum Saalar og Liikama alldeilis hreinann og oflecka dann ad i honum

skyllde berlega siaast GUds Mynd, þo ecke sem einn daudur og faanytur Skugge siest i einum Speigle, helldur so sem ein sonn lifande Mynd og lijking þess osynelega GUds, og hanns innvortes huldu myndar, sem er yfer allann maata fogur: Pad er ad skilia, Mynd þess Guddomlega Vijsdoms aatte auglioslega ad þeckiast i Mannsens Skilninge; Mynd hanns Guddomlegrar Giæsku, Laanglundargieds, Hogværdar og Polenmmædis, i Mannsins Skaplynde og giedsmunum; Mynd GUDS Kiærleika og Miskunseme i gieds tilhneigingum mannlegs Hiarta; Mynd hanns Riettlætis, Heilagleika og Hreinleika i vilianum; Mynd hanns Blijdlyndis, Aastudleika, Giedgiæsku og Sannleika i ollum Mannsens ordum og athofnum; Mynd hañs Almættis i meddeildu Herradæme yfer allre Jordunne, og otta þeim sem oll Dyr skylldu hafa af Mannenum; Ad sijdustu aatte Mynd Guddomlegrar Eilijfdar ad þeckiast i Mannsins Odaudlegleika. Af þessare GUds Mynd skyllde siaalfur Madurinn þeckia GUd sinn Skapara, so og lijka siaalfann sig: Skaparann i þann maata, ad hann være Allt, og sie einasta hædsta Vera, af hverre ad aller hluter hefdu sijna veru og varanlegleika, og ad hann være verulega aller hluter, hvers Imynd Madurenn var; Pvi fyrst

Madurenn er Imynd GUds giæsku, þaa fylger a epter, ad GUd sie ad Verunne sa hærste Goode, og allt Gott, hann sie verulega Miskunsemen, Lijfed og Heilagleikinn, hvarfyrer ad øll æra, dyrd, prys, vegsemd, magt, og styrkleike, heyre eingri skapadri Skiepnu til, utan Gude alleina, þvi hann er allt þetta sialfur verulega; Þessvegna þegar eiñ aaleit Christum, so sem sliettann og einfaldann Mann, og spurde hann ad, segiande, Matth. 19. Goode Meistare, hvad skal eg giøra, so eg eignest Eilijft Lijf? þa svarade Drottenn: hvad kallar þu mig Goodann, eingen er Goodur, nema GUd einn. Þad er, GUd er alleina verulega Goodur, og fyrer utan hann, og aan hanns, kann eckert i sannleika gott ad vera. Sialfann sig, aatte Madurinn ad þeckia, af medskapadre GUds mynd, aa þann haatt, ad þar være stor mismuur, aa mille GUds og Mannsins; Madurinn være ecke sialfur Gud, helldur Guds eptermynd, og lijking, i hverium GUd einsaman vilde laata sig siaa, so ad i Manninum lifde eckert, nie lyste, eckert verkade, nie villde, elskade, nie þeinkte, talade, nie gledde sig, utan GUd sialfur; Þvi ef ad nockud annad skyllde merkiast i Manninum, enn þad sem GUd siaalfur framkvæmde og giorde, þaa kynne Madurenn ecke ad vera GUds-mynd, helldur þess, sem i honum frammleidde sijnar verkaner,

og giørde ſig auglioſann, ſo ølldungis aa Madurinn ad vera Gudi aahaangande og innlijfadur, ad hann audſyne GUds vilia ſkiæra hlydne, og laate GUd einann verka og raada i ſier ed øllu leite, enn afneyte ſijnum eigen vilia. Pad heiter, alld vera GUdi adeilis epterlaatur, og undergefen, þegar madurinn er hans hreint, klart, og heilagt Verkfære, i hveriu GUd fram̃kvæmer ſinn vilia og verkaner, ſo ad madurinn fram̃fylger ecke ſijnum eigeñ vilia, helldur hefur GUds Vilia fyrer ſiñ Vilia; hañ elſkar ecke ſiaalfan ſig, helldur Gud alleina, hañ ſtundar ecke epter ſinum eigeñ heidre, heldur Guds Heidre; hann ſæker ecke epter Veralldar audæfum, helldur er aanægdur med þad, ad eiga GUd, og hefur þeſſvegna aungva elſku aa Heiminum, nie nockrum ſkøpudum Skepnum. Stuttlega ad ſegia, eckert ſkyllde lifa nie verkun hafa i Mañinum, nema einſamañ GUd, i hveriu faled er hædſta Sakleyſe, hreinleike, og heilagleike Mañſins; Pvi þad er aan efa ſu diupaſta hlydne, og þad ædſta mein leyſe, þegar Madurenn frammfylger eige ſijnum eigenn vilia, helldur leiſer GUde einum alla verkun og alla fram̃kvæmd i ſier ad hafa: Menn ſkylldu vera ſo ſem ſmaa børnenn, ſem hafa þann ſtærſta Einfalldleika til ad bera, þvi hiaa þeim er eingenn Siaalfs-elſka, ecke nockur Ærugirnd og eckert Sier-

Siergiæde, til ad þykiast ødrum meire. Med þessum hætte skyllde Madur bædi utvortis og innvortis vera af Gude gagntekenn og stiornadur, hvar uppa vier høfum dæme a vorum Endurlausnara JEsu Christo, hver ed var ein fullkomen GUds Jmynd, med þvi hann ad øllu leite, offrade sinn vilia Gude, siinum himneska Fødur i allra diupustu hlydne, audmykt og hogværd, firrande siaalfann sig øllum heidre, og allre elsku til sialfssins, allre eigenn nytsemd og aabata, Ja allre vellysting og glede; og leifde einsømlum Gude, i sier og fyrer sig, allt ad huxa, tala, og giora. J stuttu maale ad segia: hann hiellt GUds Raad og Vilia, fyrer sitt raad og vilia, þarfyrer hroopade GUd af Himne ofan, segiande, Matth. 3. Þesse er Sonur miñ Elskulegur, i hverium mier velþocknast, So er þaa JEsus su retta GUds Jmynd, af hverium eckert annad liomar og lyser, enn þad alleina, sem er siaalfur GUd: Þad er adskilia, hin skiærasta Elska og Miskunseme, laanglundarged, Þolenmæde, Hoogværd, Blydlynde, Heilagleike, Huggun, liif og eiliif Sæla. Med þessum hætte villde saa osynelege GUd verda i JEsu Christo mønnunum synelegur og openber, iafnvel þo hann sie eñ þaa uppa laangtum ædre vijsu og maata GUds Jmynd, epter siinum Guddome, þvi hañ er siaalf-

ur GUd, jaa Hebr. 2. Liome GUds dyrdar og utþryckeleg imynd hans Persónu. Hvarum vier nu ad þessu sinne eckert tølum, helldur alleina um̃ þad, hvernig hann lifde og umgieckst vor a medal i sijnum heilaga manndome hier a Jørdunne. Soddan eitt heilagt Sakleyse hefur og einnig vered GUds Mynd i Adam. O! ad hann hefde þeckt hana og vardveitt i sannarlegu lijtelæte og undergefne, og giætt þess ad hañ var ecke sialfur saa hærste goode, helldur eptermyndan þess allra hærsta gooda, er sig hafde myndad i honum; Enn þar Adam villde nu vera sialfur saa hærste goode, eg meina sialfur GUd, þaa fiell hann i þaa hrædelegusta Synd, sem var hin stærsta af øllum syndum. J annan maata aatte Madurenn ad þeckia sialfann sig med þeim hætte, ad hann fyrer veitingu þessarar GUds Myndar, være hluttakare vordenn Guds heitrar Elsku, sem yfer hann hafde floted i allra sætustu vel-lystingu, þarmed hefde hann og einnig ødlast, fegnud, Frid, lijf, Rooseme, Styrkleika, Krapt og Lios, uppaa þad einn GUd være allt i honum, Lifde, og hefde sijnar Verkaner alleina i honum, og þar med skyllde eingenn Wrugirnd, eingenn Sialfselska, eingen eigen hrosan vera i Manninum, helldur skyllde GUd einasta vera Mannsins Vegsemd og

Æra,

Æra, og bijhallda heidrenum alleina. Hver einn hlutur hallast ad sier lijku, enn ecke þvi sem honum er olijkt, og menn gledia sig af sijnum lijkum, og hafa Ynde af þeim; so villde GUD uthella sier, og øllum Fiesioodum sinnar Giæsku yfer mannen, so hann hefde sijna unadsemd i honum. J þridia og sijdasta maata aatte Madurinn þad og so ad skynia af GUDs Mynd, ad hann være fyrer hana Gude innlijfadur, og ad i þeirre Einingu være innefalen̄ han̄s hærsta hvild og rooseme, Fridur, Fognudur, Lijf, og æfvarande Sæla, sosem þar þvert a mote, ad hugarens orooseme, Angist og kvalning Samvitskunnar, kiemur af eingu ødru enn þvi ad Madurin̄ slepper GUDs Mynd, snyr sier fra GUDe, og misser þann hærsta og eilijfa Gooda.

# Cap. II.
# Um̃ Fall og Hrøsun Adams
Rom. 5.

So sem fyrer eins Manns ohlydne urdu marger Synduger, so verda marger Riettlaater fyrer eins Manns hlydne.

FAll Adams er su ohlydne vid GUD, fyrer hveria Madurenn snere sier fra GUDe, til siaalfs sijns, og rænte GUD sijnum heidre, þar hann villde giora sig siaalfann ad Gude, hvers

vegna hann miste GUds Mynd, edur þad fullkomna erfda riettlæte sem honum var medskapad. Hann var a Augum skilningsins blindadur, i vilianum ohlydenn, og þverudar fullur vid GUd, i ollum Kroptum hiartans Gude og GUds Sinne fraahverfur og afundenn. Þesse svivirding hefur utkviislast og floted til allra manna fyrer holldlega fæding, og giorer þad ad madurinn er andlega daudur, barn reidennar og fordæmingarennar, nema hann verde frelsadur þar fra fyrer JEsum Christum vorn Lausnara. Vare sig þarfyrer einfallder Christner menn, ad þeir reikne ecke Adams fall fyrer eina liettvæga Synd, sem ecke hafe vered nema einfallt Eplis-aat; þeir skylldu helldur vita, ad Adams hrosun var i þvi innefalen, ad hann villde sialfur vera GUd: Þad sama hefur og Diofulsens fyrsta Synd vered, og er þad nærsta hrædelegt og vidurstyggelegt Ohæfu verk ad seilast med ofurdaadugum Tyrannaskap uppa GUds dyrdarlega Haatign. Þesse Synd giordest fyrst i hiartanu, sijdan hefur hun brotest ut, og vorded opinber, þegar madurin̄ aat af þvi eple sem honum var bannad. Þetta kan̄ betur ad skiliast, ef vier berum þad samann vid Fall og hrosun Absalons. Fyrst var hann einn Kongs son; þarnærst hinn allra dæelegaste, 2. Sam. 14. So ad

fra

fra hvirfle til ylia var eingenn fleckur eda lyte a hønum; i þridia maata var hann sijnum Fodur hinn allrakiæraste, so sem raada maa af Harma-kløgun Davids: 2.Sam.18. Enn med þessa vegsemd villde ecke Absalon laata sier nægia, helldur girntest ennframar ad vera Einvallds-Herra yfer øllum Israel, og hripsa til sijn konunglega æru; hvad þegar hann var buenn einusinne ad hugfesta, tok hann til ad votta sig opennberann ovin sijns Fodurs, og sat epter hans lijfe. 2.Sam.15. Eins-lijka var þvi vared fyrer Adam: Fyrst var hann GUds son, þarnærst hiñ frijdaste a medal allra skapadra Skepna, og hafde eingenn lyte a Saalu edur lijkama, og i þridia maata var hann GUds elskulegt Barn; og þar hann villde nu ecke vera aanægdur med þennann heidur, nema hann være GUd siaalfur, þa vard hann GUds Ovinur, og hefde þad møgulegt vered, þa hefde hann, raaded sialfann GUd af døgum.

Hvernig kunne þar nu ad vera, nockur Synd hrædelegre, og vidurstyggelegre eñ þesse? Hier af kom su Olucka, ad Madurinn er vordinn samlijkur Døflenum uppa hiartalæged og giedsmunena, þvi sømu Odæde unnu þeir baader, og þar med er Madurinn nu vordinn af GUds Mynd og lijking, Andskotans Imynd og Verkfære giefenn fyrer allre Ill-

skú

skn Diøfulsins; Hann er og i stadenn fyrer þa Gudlegu, Himneskn, og Andlegu Mynd, sem hann hafde, aulldungis vordinn Jardneskur og holldlegur, og so sem eitt Oarga dyr, þvi uppa þad Diofullenn kynne ad rootsetia sijna vondsku Mynd i Mannenum dyrfdest hann med þad fyrsta, fyrer sijn kyndugu, banvænu, og svikafullu Ord, og flaaræde, ad saa sijnu Hoggorms-sæde i mañenn, sem var þetta, ad hann elskade mest sialfann sig, vard metorda-giarn, stundade sinn eigenn vilia, og keptest epter ad vera Gude lijkur: Þarfyrer kallar Ritningen þa alla, sem eru druckner af metorda-girnd, og Sialfs-elsku, Nødru-Kyn, Matth. 3. Og þa sem hafa naatturu Diøfulsens i sier, Hoggormsins Sæde, epter þvi sem þar steudur, Gen. 3. Eg vil setia Ovinskap a millum Høggormsins Sædis og Kvinnunnar Sædis. Af þessu Hoggorms Sæde, kann eckert upp ad vaxa, nema skelfeleger, og hrædeleger Avexter, sem er Mynd Andskotans og afspreinge Diøfulsens, Joh. 8. Þvi lijka sem eitt Sædeskorn hefur i sier og hylur alla naatturu, og eigennlegleika þeirrar plontunar sem uppver, bæde hædena, Digurdena, leingdena, breiddena, þarmed og einnig greinernar, laufblødenn, blomsturenn, og Aavextena, so madur maa maklega undra sig þar yfer, ad i þvi lit-

la

la fræe kunne ad vera huled eitt Trie so stoort, med so otelianlega mørgum Avextum. Einslijka huldist i þessu daudlega og bannvæna Hoggorms-Sædi, eg meina i Adams ohlydne og Sialfs-elsku, (sem hver madur erfer epter annann fyrer holldlegann Getnad) eitt bannvænt Trie, þaked Bondum Avextum, i hverium Sathans mynd kann berlega ad siaast med allre sinne Banart og Bondsku.

Giefum giætur ad einu ungbarne, hversu þvi fylger strax fraa modurlijfe þesse medfædda naatturn spilling, einkum sialfs-elska og ohlydne, sem hreifer sier hiaa þvi, iafnvel medan þad er en nu i Bøggunne, og þegar þad tekur nockud til ad staalpast og vaxa upp, þa siaaum vier ad su medfædda eigen Elska, eigenn Begsemd, eigen Hrosan, Hefndargirne, Lyge, Forøktun annara, og Baktal, tekur alltid meir og meir til ad briotast ut hia þvi, og strax þarepter geysar so sem i einne Fylkingu tilsamans Drambseme, Stoltheit, Hrokaskapur, Gudlostun, Eidar, Bloot, Formælingar, Fals, Svik, Otruskapur, Forocktun vid GUD, hans Heilaga Ord, Forelldrana og adra Yferbodara; Hier ad auke Hatur, Ofund, Reide, Deilur, Fiandskapur, Hefnd, Mannslag og allskyns Svijvirdingar; sierdeilis þegar þar bætest nu vid a ofan utvortis Hneixle

og

og tilefne til ad syndga, sem eru aalijka og Yf-
ersetu-konur, hiaalpande uppa þess gamla Ad-
ams og Dioful sens fordiorfunar Foostur, þvi
þaa tekur til ad flioota ut af hiortum þeirra
Ungu Ohrenleike, lostasamar hugrenningar,
Saurlijfis þaanckar, Obliugar munnrædur,
Klaamtal, lauslætis hegdan i ordum og giord-
um, lysting til ølværdar, Svall, Ohoof i fæ-
de og Klædadragt, liettferdugleike, Frillulifn-
adur, Hoordomar, Ofneytsla, og Dryckiu-
skapur; hier bridder og einnig a sier, Agirne,
Okur, Svik, Fals, Underferle og Kyndugskap-
ur. J stuttu maale ad segia allskyns Vamm-
er og Skammer, Hrecker og Skaalka-por, og
þad i so margann og adskilianlegann maata,
ad ei kann med Ordum ad utsegiast, epter þvi
sem Jeremias vottar i 17.Cap. Hiartad er all-
deilis raangsnued og fordiarfad, hver kann ad
þeckia þad? og þad sem enn þaa er hrædelegra,
ad þar bætast vid falsker Lærdoomar og Villu-
andar sem leida afvega, þaa leidest i lios GUds
afneitan, Skurdgodadyrkun, Hatur og offokn-
er vegna sannleikans, Synd a mote H. Anda,
Spilling Truarbragdanna, Raang-færsla
Ritningarennar og skelfelegar afvegaleidslur:
Siaa, allt þetta eru Avexter Hoggorms-Sædi-
sins, og Andskotans myndar i Manninum.
Hver hefde i fyrstunne kunnad ad þeinckia, ad i so
litlu barne nyfæddu, kynne ad hyliast slijk Glæpa-

hruga, soddan eitt vondt og banvænt hiarta, so hrædelegur Basiliskus, edur Hoggorma Kongur, ef þad yrde ecke opennbert i vondum lifnade, og sialfs GUds eigenn munnur ecke vitnade um Mannsens vondar Hugrenningar allt fraa Barndome, i Skopunar-Bokarennar 6. og 8. Cap. O! hvilijk vond Root, sem af sier gefur so banvænt Trie. O! Skielfelegt Hoggorms og Nodru-Sæde, ut af hveriu, ad frammkemur so leid og vidurstyggeleg mynd, þvi allt þetta kviknar hid innra, og ver ut þadan, verdur so mestan-part fyrer utvortis hneixlaner, uppvakad og utlockad. Og þarfyrer hefur Drottiñ JEsus so alvarlega bañad allar hneixlaner. Matth. 8. Af þvi i Bornunum er huled Sæde Hoggormsins, og i þeim dylst heimuglega Root og Upptøk allra Glæpa og Svivirdinga, sem þar inne fostrast, eins og bannvænt Eitur og Olifian i forgiptugum Orme. Laat þier þessvegna, o madur! verda kendt, hver ad sie Synd Adams, og Uppruna-spilling vors kynferdis. Giætþu ad þvi gaumgiæfelega, ad su fleckun og spilling er stærre, en hun kunne med Ordum ad verda utskird, ellegar Mannlegur Skilningur kunne hana ad grunda. Lærþu ad þeckia sialfann þig hver og hviilijkur þu siert vordenn fyrer Adams Fall, sem er af GUds Mynd

Andskotans Mynd og bijlæte sem innebindur i sier alla Diøfulsins naatturu Illsku og vanart: Lijka so sem aller GUds Eigennlegleikar, Dygder, og Edlishættis voru innibundnir i GUds Mynd, og so sem Madurenn bar fyrer Falled mynd þess Himneska, þad er, hann var allur Himneskur, Andlegur, Guddomlegur, og Einglunum lijkur, so ber hann nu epter Falled mynd þess Jardneska. 1. Cor. 15. Þad er hann er innvortis vordinn ølldungis Jardneskur, Holldlegur, og sem eitt Oarga Dyr.

Siaa þu, er ecke þin Grimd og Reide, so sem eins greniande Leons? Er ecke þin Ofund og ofedianleg Grædge lijkust Hunda og Ulfa naatturu? Slektar ecke þin otukt og ohreinleike epter saurugum Villugølltum. Jaa ef þu villt rannsaka þann Innra Mannenn, þa finnur þu i sialfum þier eina Verølldu fulla af Vondum dyrum, og iafnvel i Tungunne einnesamann, þeim litla lim, sosem Jacob seger 3 Cap. Þu finnur hia þier ein vijdann pitt fullann med slæma orma, eitt hreise krøkt af ohreinum øndum, eitt Hrejdur edur Bæle alseted af Saurugum Fuglum hvarum skrifad stendur hia Esaiam 13. og i Openberingar B. 18. Cap. Og vier þroustum so mjøg i Illskunne ad eckert Villu-Dyr er stundum so grimmlegt, eing-

eingenn Hundur so grimmur og ædesfullur, eingenn Ulfur so graadugur, eingenn Refur so klokur og kyndugur, eingenn Basiliskus so Forgiptugur og hefndargiarn, eckert Svijn so saurugt og otierlegt sem Madurinn. Fyrer saker soddan Vondsku sem giører mennena lijka Villu-Dyrum, kallar Christur Luc. 13. Herodem Ref og adra hanns maka, otierleg Svijn og Hunda Matth. 7. Gefed ecke, seger hann, Hundum Helgedoma, og kasted ecke Perlum ydar fyrer Svijn.

Þegar madurenn snyst nu ecke fra soddan Vanart, nie giørest nu skepna i Christo, helldur deyr utaf i sijnum Syndum, þa verdur hann i soddann drambsamre og hrokafullre naatturu um alla Eilijfd, eitt olmt Leon, eiñ olmur Hundur, einn glepsande Ulfur, einn Eytur ormur, og bannvænn Basiliskus, og kann alldrei ad verda fri fra soddan svivirdingu helldur maa hañ bera og bijhallda Sathans mynd æfennlega i þeim eilijfu Myrkrum i Helvijte, so þad verde augliost og openbert ad hann hafe ecke lijfad i JEsu Christo, og ecke endurnyast epter Gllds mynd, so sem þar um stendur i Openberingar B. 21. og 22. Cap. Þarfyrer utan eru Hundarner og Fiølkyngismeñ og Saurlijfesmenn, og Manndraparar og Skurgooda-dyrkarar, og aller þeir sem elska og giøra lygena.

# Cap. III.
# Hvernig madur Endurnyest i Christo til Eilijfs Lijfs.

Gal. 6.

J Christo duger hvercke Umskurn nie yfet hwd, helldur ny Skepna.

ENdurfædingen er verk Heilags Anda, fyrer hveria ad madurinn verdur af Barne Reidennar Barn Naadarennar, af Barne Fyrerdæmingarennar, Barn Saluhialparennar, af einum Syndara Rettlaatur, og þad fyrer Trwna, Orded og Sacramenteñ, hver ad endurnya vort Hiarta og Skilningarvit, item Viliann og Tilhneigingarnar, so og einnig hugferded og Skilningenn, sem verda hier af upplyst, og helgud i Herranum Christo, og fyrer Herrann Christum, og so allur Madurenn ny skepna. Og hefur þa Endurfædingen tvennslags Velgiorninga, og Heiller inne adhallda, sem er, Rettlætingena og Helgunena edur Endurnyungena, Tit. 3.

Hver einn Christen Madur hefur tvennslags uppruna edur fædingar Root i sier; Su eina er holldleg, af Syndenne herfelega kvolud, fordæmd og bølfud, hafande sinn uppruna af Adam. Fyrer þessa Fæding tijngast

Sæde

Sæde Hoggormsins, Bijlæte Andskotans, og sa Jardneske madur. Onnur Fædingenn er Andleg, Heilog, Himnesk, Sæl og Blessud, ein Nyfæding edur Endurfæding, hver ad sinn uppruna hefur af Herranum Christo fyrer Trwna. Fyrer hana kvikdar og kvijslast ut Sæded og Mynd Guds med andlegum hætte; Jaa, saa Himneske madur sem epter Gude er giordur, þvi so sem su Gamla Adams onaattura og uppruna Spilling er i oss, so a i oss ad vera JEsu Christi nytt kynferde, nytt affspreinge, nytt heimkynne og allt nytt; og er þetta saa Gamle og Nye Madur, su gamla og nya Fæding, sa Gamle og Nye Adam, su Jardneska og Himneska Mynd, su Gamla og Nya Jerusalem; Hollded og Andenn; Adam og Christur i oss; Item saa Ytre og Innre madur.

Enn hvernig vier verdum Endurfædder af JESU CHRJSTO vilium vier nu siaa: So sem su Gamla Fædingen greidest og utkvijslast holldlega af Adam, so skedur Endurfædingen af Herranum Christo, fyrer Ord GUds, hvert ad er, so sem Sæde til nyrrar skepnu: Vier erud Endurfædder seger H. Petur i sijns fyrra Pistels 3. Cap. ecke af forgeingelegu, helldur af oforgeingelegu Sæde, fyrer Ord GUds lifanda, sem blijfur ad Eilijfu og S. Jacob 1. Cap. Hann hefur geted oss epter sinne

ſinne Villd, fyrer Sannleikſens ord, uppa þad vier værum Frumburdur hans Skepnu: Þetta Ord uppvekur og frammleider Trwna, og Trwen aptur a mote, høndlar og umfadmar orded, eñ i ordenu JEſum Chriſtum, og Heilagann Anda, af hvers verkan og Krapte, ad madurenn ſijdan endurfædeſt; Stuttlega ad ſegia: Endurfædingen ſkedur fyrſt, fyrer Orded og Heilagann Anda, Joh. 3. Og þad ſama nefner Herrann Chriſtus ad fædaſt af Andanum. J annañ maata fyrer Trwna, ſo ſem þar ſtendur, 1. Joh. 5. Saa ſem truer ad JEſus ſie Chriſtur, hañ er af Gude Fæddur. J þridia maata ſkedur hun fyrer Skijrnena, Joh. 3. *Nema nockur verde Endurfæddur af Vatne og H. Anda, þa kann hann ecke ad iñganga i Guds Rijke:* Af þeſſu ſkulum vier eumframar ſiaa.

Af Adam hrepte madurenn þa allra ſtærſtu og meſtu Olucku, ſem er Syndena, Bolfunena, Reidena, Daudann, Diøfulenn, Helvijte, og Fyrerdæmingena, þvi þetta eru Avexter þeirrar gømlu uppruna Syndar: En af Herranum Chriſto hefur Madurenn aptur feinged fyrer Truna, þañ allra Hærſta Gooda, ſem er Rettlæte, Naad, Bleſſan, Lijf og Eilijfa Saaluhialp. Af Adam hefur Madurenn erft Holldlegann Anda, og þeſſ Jllgiarna Anda Oferdrottnan og grimmann

Tyr=

Tyrannaskap, eñ af JEsu Christo Heilagan Anda med hanns Aastgiøfum, Huggunarfullre Stioornann og sætustu Jbud, þvi so sem Ande Mannsens er, so er hans Upprune, Fæding og Eigenlegleike. Luc. 9. Pier vited ecke hvers anda þier erud, sagde Drotten vor JEsus. Af Adam hefur madurinn Anda ofstækis, Hroka og Drambsemdar. Hver saa sem vill Endurfædast, og Endurnyast, hann hlytur ad faa af Christo fyrer Truna lijtelaatann, þydann og einfaldann Anda, af Adam høfum vier feinged Vantruna, jaa eiñ Gudløstunarsamann og leidann Anda; Þessvegna verdum vier ad ødlast af JEsu Christo fyrer Trwna, þann Anda sem er trulyndur, þægelegur og vegsamar GUd; af Adam feingum vier ohlydugann, þvermoodsku-fullann, og þverbrotenn Anda, en hiaa Herranum Christo verdum vier ad faa fyrer Trwna, hlydeñ, audsveipan, og vingiarnlegann Anda, af Adam høfum vier Reidegiarnann Anda, ovilldarfullann, hefndargiarnann og manndraapssamann, eñ af JEsu Christo eigum vier fyrer Trwna, ad kieppast epter ad naa Anda langlundargieds, manngiædsku og goodgirndar: Af Adam hefur madurenn fyrer holldlegann Uppruna og Fæding, Aagiarnann og omiskunsamann Anda, sem einungis stundar

ſitt gagn, og hripſar til ſijn Annara. Eñ af Herranum Chriſto hlytur hann fyrer Trwna ad odlaſt Anda miſkunſemennar, Gudrækninnar og Orlæteſins, af Adam hefur madurinn erft, ohæverſkann, oſtyrelaatann og ofurdaadugann Anda, þar a mote verdur hann ad faa af Chriſto, Skirlijfann, hreinann og bindyndiſſamann Anda; Af Adam hefur mannenum hlotnaſt, eiñ lygegiarn Ande ſem tallar oſanneude, og er backmaalugur, eñ hia HerranumChriſto, hlytur ad faaſt Ande ſañleikans, ſanngirnennar og Stødugleikans: Ad ſijduſtu hefur fra Adam innj mannenn runned eiñ holldlegur Ande, hvilijkann ad hafa Skynlauſar Skepnur og Villudyr; enn af Chriſto edluſtum vier fyrer ſanna Trw, og hiartanlega Bæn, Himneſkan og Gudlegann Anda: Þeſſvegna byriade Chriſto uppa ſig ad taka Mandoomenn, ad verda getenn af Heilogum Anda, og af honum ad ſmyriaſt fyrer utann mæling: Jaa þeſſarar orſakar vegna hlaut yfer honum ad hvijlaſt Ande Drottens, Ande Vitſku og Skilnings, Ande Raads og Styrkleika, Ande vidurkenningar og otta Drottens, ſo ſem Eſaj: ſeger i ſinum II. Cap. Uppa þad mannleg naattura endur-nyeſt i honum og fyrer hann, og vier yrdum i honum, af honum, og fyrer hañ enddurfæddер

er og ny Skepna, sem medtæke af hønum Anda Vitsku og Skilnings, fyrer Anda Heimskunnar; Anda Lærdomsins, i stadenn vors medfædda blindleika; Anda Otta Drottens, fyrer Anda GUds forocktunar. J þessum umskiftum edur umbreitingu, er inne faled, þad Nya Liif, og Avexter þeirrar Nyufædingar. Þvj so sem vier vorum aller i Adam andlega dauder, og kunnum eckert gott ad giora, nema ad drygia verk Daudans og myrkranna, so byriade oss ad lifna og uppvekiast i Christo til Lioossins Verka. So sem vier gaungum til Syndarennar, liika sem ad Arfe, epter Adam, so verdum vier fyrer Trwna ad faa Riettlæted af Herannum Christo. So sem oss er af Adams hollde medfædd og innrætt Drambseme, Lauslæte, Agirnd, og allskonar Saurugleike, eins hlytur vor Naattura fyrer Heilagann Anda ad endurnyast, helgast, og hreinsast af ollum Hofmood, Lostaseme, Agirnd, og Ofund, og vier verdum ut af Christo iñ til vor ad draga nyann Anda, nytt Hiarta, nyann Hug og nytt Sinne, so sem vier hreptum af Adam hollded, sem er Syndunum underworped.

Fyrer þessa Endurfæding er Drottenn vor JEsus nefndur Es. 9. vor Eilijfur Fader, og a þennann haatt faaum vier ny liajsgun til

Eiliifs Liifs, endurfæduſtum af Chriſto, og verdum i honum Ny Skepna: Oll vor Verk ſem Gude eiga ad þoknaſt, þau hliioota ad koma af þeſſare Endurfædingu, þau hliioota ad hafa ſinn uppruna af Chriſto, af H. Anda og Trwnne. So lifum vier þa i þeire Nyu Fædingu, og ſu Nya Fæding lifer i oſſ, vier lifum i Chriſto og Chriſtur i oſſ, ſo og einig i Andanum, og anden Chriſti i oſſ. Þeſſa Endurfæding og hennar avexte nefner H. Paulus Eph. 4. Ad Endurnyaſt i Anda Hugſkotſens, og afklædaſt þeim Gamla Manninum; ad um̃myndaſt i Guds Mynd, ad Endurnyaſt i Þeckinguna epter Mynd hans ſem oſſ hefur ſkapad, Col. 3. Hann nefner hana Endurfæding og Endurnyung H. Anda, Tit. 3. Item ad taka i burtu Steinhiartad, og gefa aptur kiøtlegt Hiarta. Ezech. 11. So er af þeſſu þa auglioſt i hvern maata ad Endurfædingenn hefur ſinn uppruna, af Holldgan og Manndome Herrans Chriſti, ſem er af þvi, ad Madurenn hafde ſyndgad af Ærugirnd, Drambſeme, og Ohlydne, og hafde ſnued ſier fra Gude, þa kunne ſliikt ohæſu fall og hroſun ecke ad ſtraffaſt ſem verdugt var nie leidriettaſt, nema fyrer allra ſtærſta Liitelæte, lægíng og hlydne ſialfs Guds Sonar. So ſem Herrann Chriſtur hafde umgeingne a Jordun̄e medal Man̄anna i allra liitelaatlegaſta maata, eins verdur

ur hann i þier ad lifa, og Mynd GUds i þier ad Endurnya. Gief þu þig nu til ad horfa a Herrann Christum, hversu hann var hinn allra Astudlegste, allra lijtelaatlegaste, allra hoogværaste, hinn allra hlydugaste, og þolennmoodaste, og lærdu af honum, aaset þier ad lifa i honum: Giæt ad, hveria orsok kantu ad finna ad hañ lifde a þeñan haatt? Sañlega þa einustu, ad hann være þier eitt epterdæme, Speigell, og Lijfs regla epter ad lifa. Jaa hañ sialfur er su rietta Lijfs regla: Ecke er S. Benedicti Regla, edur nockurs annars manns umingeingne vor Lijfs regla, helldur Christi Epterdæme, hvar til Postularner vijsa aller sambyckelega: Eins lijka er þvi vared um hanns Pijnu, Dauda og Upprisu, sem er ad þu med honum deyer fra Syndunum, og so lijka aptur uppriijser andlega i honum, med honum og fyrer hann; og gaanger so i nyum lifnade. Um þetta efne maattu lesa þañ II. og 31. Cap. sem hier epter koma. Hefur þar fyrer Endurfædingen vor sinn uppruna i hiaalprædisfullum Bruñe Pijslareñar, Daudans, og Upprisuñar Drottens vors JEsu Christi. Hier fyrer tekur hinn Sæle Petur so til orda. GUd hefur Endurfædt oss til Lifande vonar, fyrer Upprisu JEsu Christi fra Daudum. Og hier af kemur þad ad Postularner leggia Pijnuna Herrans Christi fyrer Grundvoll Jd-

ranennar, og nyrrar hlydne, sem þetta skule vera uppa bygt, Rom. 6. 1. Pet. 1. Hageđ ydar dagfare, seger Postulenn, međ ottablendne, so leinge sem þier ganged, vitande ađ þier erud ecke keypter međ forgeingelegu Gulle edur Silfre, helldur međ dyru bloode Christi, so sem hins oofleckađa og Saklausa Lambs. Hier sier þu, ađ orsøken til vorrar Heilagrar ummgeingne, er þađ dyra og allra Heilagasta lausnargialld vorrar Endurlausnar. Same Heilagur Petur skrifar i 1. Pist. 2. Cap. Christur hefur vorar Synder bored a sijnum lijkama uppa Trienu, ađ vier deydder fra Syndunum lifdum riettlætenu, fyrer hvers beniar vier erum heilbrygđer vordner. Og sialfur Herrann Christur seger, Luc. 24. So byriađe Christo ađ lijđa, og ađ rijsa upp fra daudum a þridia dege, og predikast laata i sijnu Nafne Jđran og Syndanna fyrergefning; Af þessum ordum er liooſt ađ ur Grun̄e Pijnunnar, daudans og upprisunar Herrans Christi, uppsprettur bæđe Predikun ordsens og Jđranen: Er þa Pijslen Herrans Christi bæđe fullnægia fyrer vorar Synder, og vor Endurnyung fyrer Trwna. Þetta hvert um sig og hverutveggia under eins heyrer til vidriettingu mannsens, þvi þađ er og einnig Avoxtur og verkan Pijnunnar Christi ađ hun verkar i oss Endurnyungena og Helgunena, 1. Cor. 1.

med þessum hætte fæduſtum vier ad nyu i Chriſto, og Heiløg Skiirn, fyrer hveria ad vier ſkiirnuſtum i Chriſti Dauda, er eitt medal til þeſſ, ad vier fyrer krapt hans Dauda, deyum fraa Syndunum, og riiſum ſiidann upp aptur af Syndunum fyrer hans dyrdarfullu uppriſu.

# Cap. IV.

# Hvad Sønn Jdran ſie. Item hvad ad ſie Kroſſenn og Oked Chriſti.

Gal. 5. v. 24.

Þeir ſem Chriſto tilheyra, þeir kroſſeſta ſitt Holld med þeſſ girndum og tilhneigingum.

SØnn Jdran og umvendan til GUds, er verk Heilags Anda, i hveriu, og fyrer hvert madurenn kannaſt vid ſiinar Synder, og þecker þær af Løgmaalenu, og þar iafnframt GUds riettlætis Reide i gegn þeim; er alvarlega, og af inſta hiarta angurbiteñ, og þad ſem hann hefur illt giort villde hann giarnann ogiørt være: En af Evangelio þecker hañ Guds naad og ødlaſt fyrer Trwna Syndanna fyrergefning i JEſu Chriſto: Fyrer þeſſa Jdran frammkvæmeſt deyding og kroſſfeſting holldſins, ſo og einnig allra holldlegra velliſtinga, og hiartans tilhneiginga: Þa

hreif

hreifer sier og under eins lifgun Andans, hier med fylger þad a epter, ad Adam deyr i oss, med allre sinne Spillingu, og þar a mote lifer i oss JEsus Christus fyrer Trwna: Hier er þa þetta tvennt, hvert ødru ahangande, ad epter deyding holldsens kemur strax uppris-an edur Endurnyung Andans; Item, epter fornfæringu þess gamla mannsins ylmande Lifgun þess nya. Þo saa ytre madurenn for-diarfest, þaa sem adur endurnyast sa nye dag fra dege. Deyded ydar lijkamans limu sem eru a Jørdunne, seger Paulus Col. 3. Sö tru-ed ad þier sieud dauder Syndeñe, eñ Lifed Gu-de i Christo JEsu, vorum Drottne, Rom. 6.

Enn hvarfyrer ad deyda eige hollded fyrer sanna Jdran, þad vilium vier nu gaum-giæfa. Vier høfum nylega þar um talad, ad madurenn være fyrer Adams fall og hrøsun vordenn olldungis Diøfullegur, Jardneskur, Holldlegur, an GUds og kiærleikßens. Hann være einnig vorden annarlegur fra GUds el-sku, hneigdur til Heimsens, so hann allstad-ar og i øllum hlutum kappkoste, ad hyga sem mest um sialfann sig, ad gediast sier, ad siaa um sinn eigenn hag, og meta mest þad sem hønum sialfum kynne ad snuast til Heidurs og Vegsemdar: So er þa þetta, sem nu er sagt verkun og avøxtur sa, sem Fall Adams leidde

epter

epter sig, þa hann stundade þad, ad giora sig ad GUde, flækiande so allt sitt kyn i einne, og hinne somu hormungu. Enn þesse forðiarfanleg spilling mannlegrar naatturu verdur ad fa umbreiting og hlytur ad leidriettast, fyrer sannarlega Idran, þad er, fyrer sannarlegt og alvarlegt Aangur, so og fyrer Trwna sem umfadmar fyrergefning Syndanna, og fyrer deyding sinnar eigenn Elsku, drambseme og holldlegra vellystinga, þvi ecke er Idran og umvendan i þvi innefalen, ad þu legger af og rymer langt burt þær þungu Synder, helldur ad þu ganger inn til sialfs þins, og ransaker þig hid innra, umbreiter so hugarens og Hiartans instu fylsnum, og endurbæter þar allt, snuer þier sijdann fra sialfs þins eigen Elsku til GUds Elsku. Fra heimenum og ollum veralldlegum tilhneigingum, til þess andlega og himneska Lijfsens, og verder so fyrer Trwna hluttakande dyrmætrar Forþienustu JEsu Christi. Hier med fylger þad a epter, ad madurenn a ad afneita sialfum sier, Luc. 9. Þad er ad temia sinn eigenn Vilia, ad gefa sig allann uppa GUds vilia og raad, ad elska ecke sialfann sig, ad hallda sig hinn audvirdelegasta og Overdugasta af ollum daudlegum Monnum, ad afneita ollu þvi sem hann hefur, Luc. 14. Þad er, ad sinna ecke

Heim-

Heimenum, nie Heimsins Fordilld, nie Herlegheitum, ad hallda sinn eigenn vijsdom, krapt og gaafur fyrer ecke neitt, og forlaata sig ecke uppa neinn hlut, ecke uppa nockra skapada Skepnu, nema GUd alleina; sitt eiged lijf ad hafa, þad er, ad deyda holldlegar vellistingar og girnder, Hofmood, Ágirnd, Lostaseme, Reide og Ofund; a siasum sier ogied ad hafa, allt sitt eiged einskis ad virda, ad hroosa sier af eingu, sier sialfum ecke neitt ad tilreikna, nie sijnum eigenn kroptum; ad deya Heimenum, þad er, Girndum holldsins, fysn augnaña, og drambsömu liferne, og ad krossfestast af Heimenum, Gal.6. Siaa þetta er su sanna Jdran, an hverrar eingenn getur vered JEsu ChristiLæresveinn; þetta heiter ad snua sier sannarlega og einlæglega fra heimenum̃, fra sialfum sier, og fra Dioflenum til GUds: An þessarar Jdrunar kann eigenn ad odlast fyrergefning Syndana, og verda saaluholpenn, Act. 26. Þesse Jdrun og Yferbot er afneitun sialfs sijns, sa riette Kross og Ok Herrans Christi. Um̃ hvert ad hann talar sialfur, Matth.11. Taked a ydur mitt ok, og læred af mier, þviad eg em hogvær, og af hiarta litelaatur. So sem hann segde: Fyrer hiartanlegt innvortis litelæte, aattu ad temia og stilla þitt Siergiæde, og Metordagirnd; fyrer hogværdena attu ad stod-

va

va þina reide, og hefndargirne. Þetta er i sannleika þeim nya Manninum sætt ok og liett byrde, hverju sem holldenu finst þad vera hinn þyngste og beiskaste Kross; þvi þad er ad krossfesta sitt holld med þess girndum og tilhneigingum, Gal. 5. Þarfyrer villast þeir miøg, jaa mikelega, sem ecke hallda annann kross vera til, helldur enn mootlætingar og rauner Veralldarennar; þeir kannast ecke vid ad su innre idran og deyding holldsens, er sa riette kross, sem vier eigum daglega ad bera epter Herranum Christo, i þvi ad um̃bera vora Ovine med stoore þolenmæde; þarmed og einnig ad yfervinna med hogværd og lijtelæte, illskuæde og hofmood þeirra, sem oss svivirda og baktala, epter hoogværdar dæme Herrans Christi, sem gaf sig ecke neitt epter Heimenum, nie øllu þvi sem i hønum var. Þetta Ok Christi, sege eg, er sa riette kross, hvern vier skylldustum til ad bera, hvad ef vier giørum, þa deyum vier heimenum, enn þesse deyding skedur ecke med þad slag, ad vier gefum oss til Klaustra, og holldum vandlega uppa Setninga og Reglur Munkanna, iafnvel þo vier sieum þa hid innra fuller af elsku til Heimsens, fuller af andlegre drambseme, og forakte annara, so sem Phariseearner, jaa fuller af Vellystingum, Øfund og heimugligu Hatre; helldur

ur heiter þad ad deya Heimenum, ad deyda Hollded med ollu og ſierhveriu þvi ſem þad hefur lyſt til, jaa ad hafa hid innra med ſialfum ſier, ſijfellt Aangur og Jdran fyrer Syndernar, hvar med madur hid innra ſnyr ſier fra Syndunum til Guds, deyr daglega hid innra i hiartanu fra heimenum, og lifer i Chriſto fyrer Trwna, i hreinu lijtelæte og hogværd, og huggar ſig og gledur vid GUds Naad i Chriſto JESU.

Til þeſſarar Jdrunar erum vier af Herranum Chriſto kallader, jaa til þeirrar ſonnu og innre hiartans betrunar og um̃vendunar fra heimenum til GUds. Og ef vier giorum þvilijka ſanna og alvarlega idran, þa hefur Gud lofad oſſ fyrergefningu Syndanna, og ad Chriſti fullkomna riettlæte og hans allra Heilagaſta Hlydne ſkule oſſ tileinkaſt fyrer krapt Trwarinnar: An þeſſarar innre Jdrunar ſtodar Herrann Chriſtur eckert manninn, fyrer utann hana fær hann einga hlutdeild i Naad og Forþienuſtu Krapte JEſu Chriſti, ſem alleina kann ad um̃fadmaſt af einu ſundurmordu, truudu og audmiuku hiarta; Su er meiningen ad avoxtur Pinunnar Herrans Chriſti i oſſ er þad, ad vier fyrer ſanna Jdran deyum Syndunum; En Aavoxtur uppriſunnar er þeſſe, ad Herrann

Chriſt-

Christur life i oss, og vier i honum; Hier af verdur ny skepna i Christo, og ny endurfæding, hver alleina duger fyrer Gude, Gal. 6. Laatum oss þarfyrer kendt vera, ad þeckia sanna Jdran rettelega, hennar naatturu og eigennlegleika, þvi marger fara villt i þvi, ad þeir meina, ad þad sie noog til sannarar idranar, ad laata af þeirre ytre afguda-dyrkan og Gudlestum, Manndraape, Hoordome, Saurlijfe, Þiofnade, og þeskonar ytre svivirdingum, glæpum og lostum, og i sannleika, þa hefe eg ecke þar a mote, ad þetta sie su ytre idran, sem Spaamennerner itreka, og leggia fyrer þraasamlega, so sem lesa maa hia Esajam i 55. cap. og Ezech. 18. og 33. og vijdar annarstadar. Eñ þad er þo ecke so olldungis, edur su fullkomna idranen, sem utheimter eñ þa laangtum meira, þvi predikaner Spaamañaña og Postulaña stefna laangtum diupara iñ, nefneliga iñ i hiartad, og utheimta eñ þa ypparlegre Jdran, sem er, ad madurenn og so deye fra sinne drambseme, agirnd og vellystingum, afneite sier og hate sialfann sig, sege upp Heimenum med ollu þvi sem hans er, gefe sig allann a valld og naadarvilia GUds, krossfeste holldet, offre Gude daglega Harm-þrungnu sundurmordu og lijtelaatu hiarta, so sem þeirre foorn sem honum alleina

þocknast i daglegre endurnyungu; Soddann innelega hiartans Idran og yferboot, syna oss allvijda Psaalmar Davids.

So er þad þa su rietta Idran, þegar vier hid innra komustum-vid af alvarlegu angre, og beiskre hrygdar tilfinningu; jaa kremiustum og meriustum i hiartanu, eñ læknustum aptur fyrer Trwna um̃ fyrergefningu Syndanna, og berum so ur bytum hugsvølun, hreinsun og forbetrun þess innra mannsens, af þessu ser madur ecke a mis vid þad, ad ecke kome a epter betrun og endurnyung lifnadarens; eñ hver sa sem giorer alleinasta þa itre Idrun, halldande sig fra stoorglæpum opennberlegum, vegna ottans, sem hann hefur af straffenu, eñ innre madurenn helldur samt vid þær holldlegu tilteigingar þess gamla Adams, og hyrder ecke um̃ ad iklædast alvarlega Christo fyrer innvortis nyann lifnad; þeim sama manne er fyrerdæmingen vijs, og hønum hiaalpar ecke neitt, þo hann kalle Herra Herra! helldur hlytur hann ad heyra þessa skelfelegu Raust: Eg þecke ydur ecke þvi þad er vijst, ad ecke munu þeir aller, sem segia Herra Herra, inngange i rijke Himnaña, helldur þeir sem giøra vilia mins Himneska Fødurs, seger Christur. Hvar fyrer ad aller meñ i øllum Stiettum, bæde Leiker og Lærd-

er

er hliota ad vera under þessum̃ doms urskurde Drottens; þvi Christur þecker eingva af þeim fyrer sijna, sem ecke giora sanna Jdran og yferboot, og ecke verda ny skepna i Christo.

# Cap. V.
# Hvad Sønn Trw sie.

1. Joh. 5.

Hver hann trwer, ad JEsus sie Christur, hañ er af Gude fæddur.

TRwen er stødugt Trwnadartraust Hiartans, nær madur reider sig efunarlaust uppa GUds naad, sem oss er fyrerheiten i Christo JEsu, um̃ fyrergefning Syndanna og Eilijft Lijf. Hver Trw ad upptendrast fyrer Ord GUds og Heilagann Anda i vorum Hiortum; Fyrer þessa Trwna veitest oss fyrergefning Syndanna gefens, an vors verdugleika, einasta af Skiærre Naad fyrer forþienustu vors Frelsara JEsu Christi, uppa þad vor Trw stande ohræranlega stødug a stadføstum Grundvelle: Og þesse fyrergefning Syndanna er vort Riettlæte, þad sanna støduga og eilijfa sem gillder fyrer Gude; þvi þetta er ecke Einglanna, helldur GUds Sonar hlydnes, verdskulldunar og bloods Riettlæte,

læte, eñ verdur vort, fyrer Trwna, þarfyrer megna oss eckert til motþroounar vorar Synder nie ofullkomlegleike vors lifnadar, helldur verdur allt soddann huled med lyknarskylu JEsu Christi forþienustu, Psalm.32. Eñ af þessu støduga og fasta Trauste epterfylger þad, ad madurenn gefur Gude aldeilis sitt Hiarta, og nægest einungis med hann eiñ, til allrar hugarhægdar, og Roolegheita, helldur sig ad honum, verdur hluttakande alls þess, sem Gude og Christo tilheyrer, og giørest eiñ Ande med GUde; hann ødlast af hønum nya krapta, nytt Lijf, nya huggum, og endurnæring, Frid og Fognud, andlegann Sætleika, ylmande hressing og rooseme Saalarennar, og þar med Riettlæte og Heilagleika, þvi hvar hellst sem soñ Trw er, þar er Herrann Christur med øllu sijnu Riettlæte, Heilagleika, Endurlausn, Forþienustu, Naad, Syndanna fyrergefningu, Sonarleifd, og Arftoku eilijfs Lijfs; og þetta er su nya Fæding sem kemur fyrer Trwna a JEsum Christum. Hierfyrer kallar Postulenn i sijnu Brefe til Hebræos i 11. Cap. Trwna Hypostasin; þad er ørugt traust a þeim hlutum sem madur vonar epter, og fullvissa um þad, sem hann sier ecke; þvi GUds lifande Ord og Ande giører Trwna so ørugga og sterka, og mann

mannen so alldeilis vissann i hug og hiarta, um̃ þau andlegu giæðenn, að hann kann ecke að efast, helldur finnur og smackar kroptuglega Guddomlegann Sætleika, og hefur Hiartans Frid og roo i Gude; Hvarfyrer eiñ Christeñ madur verdur so ohræddur og einbeittur i hugannm, ad hann fyrer þessa somu huggun dyrfest iafnvel ad ganga a mote daudanum, og laata sig laanga epter hønum. Þetta er, sa riette styrkleike i þeim Innra mannenum, og hugpryde Trwarennar; hvarum lesa ma i Pistlenum til Eph. 3. Phil. 1. 1. Joh. 2. og 3. Cap. Þetta er su Diorfungen i Gude, sem Paull umtalar, 1. Tess. 2. Su rietta Plerophoria, edur Fullvissa sterk og vafalaus, 1. Tess. 1. Þvi þad sem eg voga ad deya uppaa, þad ma endelega giøra mig sterkann i Saalunne, og telia mier Trw hid Innra fyrer Heilagann Anda. Þad ma vera ein innvortis lifande og Æ varande Huggun; Þad ma gefa mier Daad og Dug, efla mig og styrkia, so sem einn yfernaatturlegur, gudlegur og himneskur kraptur; þad ma yfervinna og utsløkva hia mier, bæde Ottann fyrer Daudanum og Elsku til Heimsins; Ja þad ma vera soddann innvortis styrking, vantur, og Saattmaals band vid Christum sem hverke Daude nie Lijf kann ad raska. Þarfyrer seger hinn

Sæle Johannes, 1. Joh. 5. Allt þad sem af Gude er fædt þad yfervinnur Heimenn.

Pad er ecke liettvægur edur litels verd-ur hlutur ad vera fæddur af Gude, helldur er þad eitt lifande Lijfsens Verk: GUd fæd-er ecke af sier daudt Foostur, hann giorer ecke neitt daudt, lijflaust edur oduganlegt verk, helldur so sem hann er saa sanne og lifande Gud a Himnum, so hlytur og einnig ein lif-ande og ny manneskia af honum ad fædast. Trwenn vor er af Gude, hun er su Sigur-vinning sem Heimenn yfervinnur. Hvad-hellst sem a ad vinna Sigur, þad hlytur ad hafa i sier mikenn styrkleika; þar fyrer ef ad Trwenn a ad vera sigurvinning yfer Heim-enum, þa ma hun endelega vera eiñ lifande, Sigrande, øflugur og Guddomlegur kraptur; Jaa sialfur Drottenn JEsus ma giora þad alltsaman i oss fyrer Trwna. Fyrer þennann kraptGUds, drøgustum vær aptur iñ tilGUds, hneigustum til ad trwa honum, elska hann, og honum ad innplantast og innlijfast: So ad vier rickiustum fra Adam so sem ødru daud-legu, bannvænu og bølvudu Trie, og verd-um innplantader JEsu Christo, sem er þad lifanda og blessada Vijntrie, Joh. 15. Lijka sem einn Plontunar kvistur sem verdur inn-ræ ttur i eina gooda Eik, hann grænkar, blomg-ast

ast og færer Avoxt a henne, enn fyrer utan hana, (verde hann ecke innplantadur, eda falle i burt aptur,) þa þornar hann og visnar; allteins erum vier, fyrer utann Christum, bølvud trie, og øll vor verk eru Synd, vort vijn er Drekanna eitur og grimmrar Nodru gall. Deut.32. Enn i JEsu Christo verdum vier Riettlaater, og Saaluholpner. Hierfyrer seger H. Paulus, 2.Cor.5. Þañ sem af eingre Synd visse, giørde Gud ad Synd fyrer oss, so vier yrdum i hønum þad Riettlæte sem fyrer GUde gillder.

I hønum verdum vier og so endurnyader, helgader og hæfeleger til goodra verka; enn adurenn vier verdum hønum innrætter og innlijfader kunnum vier ecke neitt Gott ad fram̃kvæma, helldur erum vier i vorum Syndum og yfertrodslum dauder. Hvernig kann ein daud Manneskia edur andvana lijk, ad gaanga standa edur giora nockud gott, nema þad faae aptur lijfed; eins lijka af þvi þu ert af naatturunne til, daudur i Syndenne og aldeilis framande fra þvi lijfe, sem er i Gude, þa kantu eckert þacknæmelegt verk ad giora Gude, nema þu siert adur lifande giordur fyrer JEsum Christum, og af Syndarennar dauda uppvaken til eilijfs Lijfs. Þarfyrer seger Christur: An mijn faae þier einskis orkad og S. Paal seger: af GUds Naad er eg, þad eg er.

Þegar þu hefur nu odlast lijfed i Christo, ert endur fæddur og endur nyadur, og kannt ad giora þau goodverk sem Gude eru þeck og þægeleg, þa muntu lokseus fa og finna Naadena, Fyrergefningu Syndanna, og allt annad gott, þo alleinasta fyrer saker Forþienustu og verdskulldunar JEsu Christi, enn ecke fyrer neina forþienan þinna eigenn verka, þvi hvad heiløg sem þin verk kunna ad vera, þa kunna þau þo ecke af sialfum sier ad stilla GUds Reide, helldur hlytur hun einungis fyrer verdskulldun JEsu Christi ad stodvast. Þar med er og einnig hia þeim stoor ofullkomlegleike, og Synduger flecker, so ad Esajas 64. Cap. maa þar fyrer segia. Vær erum allir tilsamans, so sem hiner Ohreinu, og allt vort Riettlæte er sem saurugt klæde blood falls siukrar kvinnu og hinn Sæle Jacob. i 3. Cap. vier briootum aller margfalldlega. Hvarfyrer, vorar at hafner kuña eingvañveigeñ af sijnum eigenn dugnade ad standast fyrer GUds straanga Riettlæte edur honum ad þocknast, helldur meiga þær alleina af skiærre Naad verda honum þacknæmelegar vegna Christi verdskulldunar og Forþienustu, og fyrer hans blood, sem hreinsar oss og þvær af ollum Syndum, og sier i lage, utslietter, burttekur, og skyler þeim lytum sem fiñast a vorum Goodverkum. So kiem-

kiemur þa þin riettlæting fyrergefning þinna Synda, þiñ Heilagleike og Endurnyung, sem og einnig su velþocknan sem GUd hefur a þinum goodverkum, einasta af Christo fyrer Trwna. Eñ Trwen i Manninum er so sem eitt nyfædt daalijted Barn, sem liggur ber og naken fyrer augum sins Frelsara og Saaluhialpara, og fær af honum, so sem af sijnum Fodur allt gott, sem er, Fyrergefning Syndanna, Riettlæted, Froomleikann, Heilagleikann, Naadena og H. Anda. So iklædest þesse auma og nakta barn-kind GUds miskunseme, utbreidande og upphefiande baada sina arma til hanns, og medtekur Naadena af Gude i Christo JEsu, samt alla heill og blessan, og þesse medtekning GUds Velgiorninga, giorer mannenn einasta Froomann, Heilagann og Sælann.

Þarfyrer kemur vort Riettlæte einasta af Trwnne, eñ ejngannveigenn af verkunum; af Trwnne sege eg, sem JEsum Christum umfadmar, og giorer hann allann, so sem hann er, med ollum hans giædum, sijna Eign og Eigenndom: So hlytur þa ad rijma laagnt burtu, bæde Synden, Daudenn, Diofullenn, og Helvijte, og þo allar Synder Veralldarennar lægie a þier, þa kynnu þær þier þo eingann Skada ad giora, so sterkur, maatt-

ugur og lifande er Christur med sinne Forþienustu i þier fyrer Trwna. Nu med þvi ad Herran Christur lifer og byr i þier fyrer Trwna, þa skulum vier einganveigen laata þad koma i hug ockar, ad hans ibwd sie daudt og magtarlaust verk, helldur lifande og idiusamt, þvi hann verkar i þier fyrer Trwna; Eñ þad er tvennt sierdeilis, sem ein lifande Trw gioerer ad verkum: Fyrst innplantar hun þig Herranum Christo, og gioerer hann allann þina eigen eign: Þarnæst endurnyar hun þig i hønum, so þu ummyndest, lifer, og bloomlegur verder, þvi ecke er kvisturenn annarsvegna innrættur i Eikena, enn ad hann bloomgest a henne, og fære Avoxt. So sem ad Hoggorms Sæded, (þad er su vonda og Dioffullega naattura, af hverre ad uppspretta vonder og eitrader Avexter) fiell inni mannenn fyrer Adams fall, og svikræde Andskotans; Eins innsaaest Trwenn i vor hiortu, fyrer Ords Guds og H. Anda, So sem Guds Sæde, i hveriu allt guddomlegt edle, dygder, og Eigenlegleikar sig hallda og þar dyliast med forundrunarlegum hætte, vaxa upp sijdan og verda ny mynd GUds hin listelegasta og bloomlegasta, eitt Nytt Trie, hvers Avoxtur ad er Kiærleikurenn, Þolenmæden, lijtelæted, Hoogværden, Fridurinn, Skijrlijfed, Riett-

Riettlæted, og ein Ny manneſkia, jaa þad Heila GUds Rijke i mannenum; þvi ſu ſanna og Saaluhialplega Trw endurnyar allann mannenn, hun hreinſar hiartad ſamteinger þad, og feſter vid ſialfann GUd, giorer þad og einnig lauſt og lidugt fra Jardneſkum hlutum, hana hungrar og þirſter epter Riettlætinu hun verkar kiærleiks verk adſkilianleg, utvegar Frid, Fognud, þolennmæde, langlundarged, hugprydе i ollum kroſſe og mootgange; Þeſſe Trw yfervinnur Heimenn, gioрer oſſ GUds born erfingia allra himneſkra giæda og ſamarfa Chriſti. Enn ſie ſa nockur, ſem ecke þykeſt hafa þennann Styrkleika Trwarennar til ad bera, og finnur ſig veiktrwadann og huggunarlauſann, hann vareſt þo ad falla i orvænting, helldur treiſte uppa Naadena, ſem i JEſu Chriſto er lofud og fyrerheitenn, hver ed ſtodug og obrygdanleg varer; Og þo vier kunnum ad raſa og falla af mannlegum breiſkleika, þa ſkeikar þo ecke GUds Naad, helldur ſtendur oranſkanlega ſtodug og feſt, ef vier annars rijſum upp aptur fyrer ſanna og alvarlega Jdran. Chriſtur er og varer æfennlega Chriſtur og vor Saaluhialpare, hvert ſem hann er med Sterkre, edur veikare Trw hondladur, medtekenn og umfadmadur, ſu veika Trw hefur eins mikla

hlut

hlutdeild i Christo sem su sterka, þvi hver einn, hvert hann er veikrar edur sterkrar Trwar bijhelldur øllum Christo til eignar, Naadareñar fyrerheit eru øllum sameigenleg og vara æfennlega: Af þessum Grundvelle ma Trwenn hvijlast fyrer utan allann Ugg og Otta, hvert hun er veik edur sterk: Eñ samt skalltu dreypa a þitt briost og vokva þad med goodre von, hver vokvunar drope gefur þinu Hiarta hressing, og lijfgar þad i soddann vidløgum, ad GUD mune a sijnum tijma færa þier skiærann og tilsinnelegan Fognud, þo hann dyliest um̃ stundarsaker i þinum hiartans fylsnum, þvi hægre hønd Drottins kann øllu um ad breita, Psal.77. Og eñ aptur; Þo hinn rettferduge rase þa verdur hønum þo ecke i burtkastad, þvi Drottenn helldur i hønd med hønum. Psal.37.

## Cap. VI.

# Hvernig GUds Ord eige ad hreisa Magt siñe, og lifa fyrer Trwna i Mannenum̃.

Luc. 17.

*Siaed ad GUds Rijke er hid innra hia Ydur.*

SOkumþess øll vor velferd er komenn under endurfæddingunne, og endurnyungenne, þa hefur GUD þad allt laated uppteiknast

nast i Heilagre Ritningu, sem fyrer Trwna a i mannenum andlega ad ske, og hefur þvi uppmaalad þann Nya mannenn ad ollu leite i sijnu Heilaga Orde. Af þvi ad Guds Ord er Guds Sæde i oss, þa maa þad endelega vara og gefa af sier andlegann avoxt; og þad sem Ritningennn utvortis kenner og vitnar, þad ma vissulega þar af framkoma fyrer Trwna, annars mætte þetta Sæde vera daudt Sæde. Jeg sæ vel skiled i Andanum og Trwnne, ad þad er sem Skriften seger, 1. Joh. 5. Andenn er sa sem vitnar ad Andenn er Sannleikur.

Ecke utgaf sa allra hæste Gud Ritningena til þess, ad hun læge so sem daudur bookstafur a Pappirnum, helldur ad hun fyrer Andann og Trwna synde sig lifande, og þar af skyllde vor innre madur alldeilis nyr verda, annars være Skriptenn oss ecke nytsamleg og hialpade oss ecke neitt. Allt hvad H. Ritning kenner hid ytra, þad a fyrer Christum ad uppbyggia eina manneskiu i Andanum og Trwnne hid innra. Þvi so seger Postulenn: Hvad skrifad er til forna, þad er skrifad oss til Lærdoms; og øll Ritning af Gude inngefenn er nytsamleg til Lærdoms, til Umvøndunar, til Betrunar, til Leidriettingar i Riettlætenu, so ad hver Guds madur sie algiør og til alls goods verks hæfelegur. Þarfyrer hvad hellst sem vier lesum i Guds Orde, þad

a ad

a ad finna stad i vorum Hiörtum, so þad vardveitest þar og verde brwkad Saalum vorum til andlegra og eilijfra nota. Ecke eigum vier ad aalijta H. Skript, lesa hana, eda Heyra so sem onnur sliett booka vijsende, vid hver menn eru ecke alltijd faster so þeir riette sig þar epter, helldur byriar oss bæde ad hlyda GUðs Orde med stærstu hiartans alwd, og lijka ad skicka oss, so sem þad fyrer seger, uppa þad vier verdum ecke lijker þeim hinum faavijsa, hver med þvi hann heyrer GUðS Ord, enn giorer ecke epter þvi, þa bygger hann sitt Hus a Sande, sem fær miked fall; edur þad fare fyrer oss, sem Bethsemitis fordum, þegar þeir giægdust inni Ørk Drottins, ad lestur og heyrn H. Ritningar verde oss ilmur daudans til daudans, og i stadenn fyrer heilsusamlega lækning ad skadlegre Forgipt; Ja so fullkomlega hlytur þad sem Skripten kenner hid ytra ad stadnæmast i vorum briostum hid innra, oss til andlegra nota og uppbyggingar, ad iafnvel sialfar þær Historiur sem standa i Bibliunne, meiga med sinne meiningu og hellsta inntake og so innþreingia sier i vor hiortu, og gefa þar af sier lærdooma, vidvaranir, Aminningar og hugganer: Margar af þeim meiga einnig, so sem adrar Figurur, a oss uppfyllast, hvar fyrer S. Paull seger

seger nm þær sem tilſiellu i Gamla Teſtamentenu, ad þær hafe Sked oſſ til fyrermyndar, og iafnvel þo þær ſialfar, epter þeirra eigenlegre merkingu, ſieu fyrer laungu uppfylltar a ſierdeilis Perſonum, þeirra til ſtande og ødru adlutande; Samt meiga þo þeirra epterlijkingar og yferveganir enn þa gillda og brukaſt til aminningar, huggunar, vidvorunar, og annara þvilijkra nytsemda. Cain og Abel eru fyrer laungu dauder og þeirra Hiſtoriur fullkomnadar, en þær Epterlijkingar sem af þeim teknar verda i Andlegann maata eru enn nu vid lijde. Gief giætur ad ſiaalfum þier, og muntu finna hia þier bæde Cain og Abel med þeirra naatturu og eigennlegleikum: Pad er ad ſkilia bæde þann gamla og nya mannenn, med þeirra Avøxtum, verkunum og edlishaatum, ad þeir baader eru hver a mote ødrum. Cain vill drepa og myrda Abel, þad er Hollded vill deyda og fyrerkoma Andanum, enn þo ad Andenn edur ſa Andlege madurenn lijde a lijkamanum, þa vinnur hann þo Sigur fyrer Trwna, eins og Abel giørde, ſo ad GUd talar enn nu fyrer hann, þo hann ſie laatenn, epter þvi ſem Poſtulenn vottar til Hebr. 11. Cap. Pad er laangt ſijdan Syndaflooded kom yfer Jørdena, enn þad kann þo, ei ad ſijdur, enn nu, ſo ſem ein

ein Figura, edur Fyermyndan a þier ad fram̃koma, i þann maata, ad Holldsens vonda art og naattura dreckest, so ad sa trwade Noe Life i þier og halldest vid magt. GUd maa giøra einn nyann Saattmaala vid þig, og þu vid hann. Sa villte samblendingur Babel, sem af einsømlum Hofmod, og ostilltu gede villde klyfrast upp i Himenenn, maatte fyrer sijna drambseme steypast og umturnast; þier, Christenn Manneskia, til vidvorunar, so ef þu villt vera stolltur og obilgiarn, þa hlytur þu og so fyrer ad ganga til grunns og fordiarfast, og kannt ecke ad bijhallda GUds Mynd. Abraham hlaut ad yfergefa sit Fødurland og Skylldfoolk, so mattu einnig fyrer saker JEsu Christi ganga fra øllum þinum eignum, og yfergefa allt þitt, þad er, ad setia allt i hættu vegna GUds Rykes og hans Riettlætis, og laata eckert i Heimenum hindra þig þar fra, helldur missa allt annad fyrr, enn þu taper þvi, uppa þad þu kunner med Forfødurnum Abraham ad verda af Gude blessadur, og komast inn i þad fyrerheitna Rijke Himnanna. Þessvegna seger Christur hiaa, Luc. 14. Hver sem ecke hatar (þad er virder lijtels hia mier) Fødur og Moodur, konu og børn, brædur og Systur, og þar til sitt eiged lijf; Item, Hver hann ecke afneitar øllu þvi hann a, hann fær ecke minn Læresveinn vered. Og Matth. 10.

Sa sem elskar Fødur eda Moodur, Son eda Dottur, meir eñ mig, hann er mijn ecke verdugur. So sem Abraham vardest vid Fimm Konga, so hlytur þu og so ad hallda strijd, vid Fim mektuga Slæma og hatursfulla Konga, sem er, Heimurenn, Hollded, Daudenn, Diøfullenn og Syndenn, og fa Sigur a þeim. Þu maatt vissuliga gaanga med Loth ut af Sodoma, og geima þig oflecka dann fra Heimenum, og afneita hans ogudlegu athæfe: Og þa þu hefur þad einusinne giort, maattu ecke siaa þig um hønd eda lijta aptur, eins og kona Loths, hvar um vor Drottenn talar hia, Luc. 12. Helldur hlytur þu ad hallda aframm i þvi, ad hafa Veralldarennar giaalijfe alltijd ad hatre, og standa stødugur i þvi hinu Gooda allt til enda. Aller þeir Bardagar sem Israels børn hielldu vid Heidingiana meiga vera þier ein fyrermyndan uppa þad Strijd, sem er aavallt a millum Holldsins og Andans, og ein Vidvorun, ad þu laater þig ecke af Holldenu sigradann verda, helldur ad þu fyrer Trwna og andañ berer þig mannlega ad i orustunne. Under sømu grein er þad og einnig, sem skrifad stendur um Kennemannsskapenn i Moisis Bookum, um Tialdbwdena, um Sattmaals-Orkena, um Naadarstoolenn; allt þetta nær heim

til þin fyrer Trwna i Andlegann maata, þier heyrer til Reykelsenu ad veifa og Foornunum ad slaatra; þiñ Endurlausnare JEsus ma ad nockru leite vera, og ad nockruleite vercka þetta allt, og framkvæma i þier, i þeim Nya Mannenum, og Andanum. Þetta, getur allt inneluktst i Trwñe, jaa optlega i einu andvarpe þvi allt GUds heilaga Ord, og Naatturan giørvøll med øllum skøpudum skepnum, sækia so sem rennande lœker ad einum stad, og stefna hvert med ødru til samans a Mañenn so sem annad Centrum, edur midpunct.

So er og einnig Nya Testamented, epter bookstafnum og þeim ytre hlioom, sem eyrunn merkia, klaar vitnisburdur um þad sem innvortis, og i Andlegann maata a i Mañenum ad Ske. Allur þess kraptur og verkan ma alldeiles hafa sijna framkvæmd i oss, þreyngia sier og einnig þar iñ med magt, med þvi ad allt GUds Rijke er innra i oss. Lijka sem Christur er fyrer H. Anda epter Manndomenum getenn og fæddur af Mariu meyu, so ma hann einnig fyrer meddeilingu, styrkingu, aukningu og vidhalld sinnar Naadar og Trwarennar, i mier epter andlegri vijsu, verda getenn, fæddur, lifa, dafna, og proo-ast. Og med þvi eg er vordenn Ny Skepna i Christo þa a eg i honum ad lifa, og framganga,

ganga, so sem hann foraktade Heimenn, var hier i stoorum eymdum, sem einn framande madur, leid Sorg, neyd, forsmaan, freistingar og offsokner; og yfervann þad allt med stærstu þolenmæde, audmykt, og Hoogværd; eins lijka ma eg giora, so sem eiñ limur a hanns lijkama; Jeg maa og so med hønum forakta og forsmaa vegsemd þessarar Verallðar, hallda mig framande i Heimenum, og giora mig alldeiles frasneiddann hañs haattalage; jeg hlyt med Christo ad frammgaanga i audmykt, forakte Heimsens, þolenmæde, hogværd og kiærleika: Med hønum ad vera miskunsamur, fyrergefa mijnum ovinum; Elska þa og giora Fødursins vilia: Med hønum af Dioflenum freistadur ad verda, og med hønum freistingarnar yfer ad viña: Jeg ma med hønum fyrer sannleikans saker, sem i mier er, verda hatadur, hæddur, spottadur og foraktadur, med hønum ma eg lijda og pijnast, so sem aller Heilager, og þola giarnan allt illt fyrer hans skulld ef þorf gierest, jafnvel sialfann Daudann; og þar med vitna og vitanlegt giora fyrer hønum og øllum utvølldum i verke og sannleika, ad hann hafe vered i mier, og lifad fyrer Trwna, og eg i hønum.

Med soddann hætte, hlyt eg ad verda samlijkur Christi imynd; eg hlyt med hønum ad jardast, og med hønum uppvakenn ad verda til ad gaanga i Endurnyungu lijfdaganna: Jeg hlyt ad iklædast Christo og Skijrast med hañs Skijrn: jeg ma lijda, verda hæddur, og krossfestur med hønum, so ad eg faae ad riikia med hønum. Og a mote øllu sodban ma eg taka, ecke einasta med þvi ad lyda Þolenmoodlega Kross og motlætingar, helldur og einnig ad giøra daglega Idran, og bera innvortis aangur og Sorg fyrer Syndernar, sem og einnig ad deida þañ Gamla Mannenn. Þu hlytur, miñ Broder og Syster, daglega ad deya med Christo, og krossfesta þitt holld; Eñ giører þu þad ecke, þa ertu ecke innlijfadur þinum Herra Christo, hefur ecke helldur Christum i þier, helldur einasta fyrer utan þig, jaa, fyrer utan þijna Trw, hiarta og Anda, eñ med soddann hætte stodar hann þig eckert, þvi ef hann a ad hiaalpa þier, þa verdur hañ endelega i þier sijna vistarveru ad giøra. Þarfyrer spyr S. Paull þa i Chorintho, 2. Cor. 13. Hvert þeir þeckte sialfa sig, ad JEsus Christus være i þeim, utan þeir væru burtskwfader; enn sie Christur i þier, þa er hañ þar vissulega lifande, og vill þar drottna, hugga og hialpræde veita. Þetta alltsaman

skedur

skedur fyrer Trwna, þvi fyrer Trwna byr Christur i Hiartanu sem Paulus seger Eph.3. Og hin sama Trw giører þig bæde lifande og upplyser þig, hun upplykur þinum Augum, Hiarta og Siñe, so þu fiñur i þier lifande krapt GUds Anda, ja hun er i þier lios vitnisburdur um þad sem Skriften, og su heyranlega Rausten vitna hid ytra hvad S. Paall Hebr. 11. kallar Trwnadar-traust og fullvissu um þad sem ecke kann ad siaast: Soddan Trw og hugskotsins upplysingu til ad skilia ord H. Ritningar i andlegann maata, til ad verka og framkvæma heill og blessan, og til ad formerkia lifande kraft GUds orda, þa veiter og upptendrar H. Ande i hiartanu. Þarfyrer skrifar Lucas so um Lydiam, ad Drottenn hafe opnad hennar hiarta, so hun hafe giætt ad þvi sem af Paale sagdest, Act.16. Og David bidur a þennann haatt, Drottenn opna þu min augu, so og siaae þa hina furdulegu hlute i þinu Løgmaale. Ps.119. Er þessvegna (so ad vier komum aptur til efnesins) nogu auglioſt og opennbert, ad þad sem Skriftarennar bokstafur og heyranleg Raust utvortis vitna, þad ma vissulega, þegar þad verdur lesed, edur med heyrnene medteked, þreyngia sier iñ i vor hiortu, þar formerkiast og

hafa sijnar verkaner til Saaluhialpar, hvad og eñ framar kañ ad siaast þar af, ad allar Predikaner Christi, Spaamannanna, og Postulanna, eru styladar uppa eiñ og sierhvern af oss, so ad Christur fyrer þa orsok seger til sinna Lærefveina, Marc. 13. Hvad eg sege ydur, þad sege eg øllum. Ja øll Christi krapta-verk og daasamleger giorningar, meiga þreyngia sier iñ til min og hvers eins fyrer sig. Ja þeir eru þarfyrer skrifader, ad þeir koma einum og sierhverium af oss til Saaluhialpar nota, og i vissann maata a hverium einum af oss uppfyllast. Christur hefur ødrum hialpad, hann ma og sannarlega hialpa mier, þvi hañ er og lifer i mier, hañ hefur giort þa blindu siaande; jeg er og so Andlega blindur, þar fyrer mun hann og so giora mig siaande. Og a þennann haatt meiga øll hans daasemdar-verk mier tileinkast, so eg eige einnig hlut i þeim. Kom þarfyrer, o madur og lær ad þeckia þad þu ert blindur, þu ert lamadur, þu ert vanfær, daufur, Spitelskur, og med fleiraslag Vesæll: Eñ Christur kañ og vill hialpa þier, hañ hefur giort þa daudu lifande, jeg er og so i Syndunum daudur, þarfyrer mun hañ og so giora mig i sier lifande, so eg kunne ad verda hluttakande þeirrar fyrstu upprisu.

Hier

Hier fyrer er þad ecke nog, ho vier lærum H. Ritningu, eda hlydum þvi sem hun frañsetur um Andleg og eilijf giæde, vier hliootum vissulega ad hafa hlutdeild þar i, ef ad heyrn og lestur GUds Orda skal verda oss ad gagne. Hier fylger þad a epter, ad þad sem Skriften talar um Endurfædingena, Endurnyungena, og adra innvortis andlega gooda hlute, þa meigum vier ecke fara a mis vid þa, ef ad lestur og heyrn GUds Orda uñ slijkt skal verda oss til nytsemdar: Eñ þa høfum vier retta hlutdeild þar i, þegar vier ecke einasta heyrum og lesum Skriftena, helldur og einnig høfum þad sama hia oss sialfum i verke og sañleika. Þad sem Skriften talar med utvortis ordum uñ GUds Mynd þad a og einnig ad vera i mier fyrer Trwna hid innra: Skriften utmaalar GUds Rijke med bokstafnum, þad a og einnig ad vera i mier fyrer Trwna: Skriftenn seger giorla fra þvi, ad Christur sie einasta Brunnur og Uppspretta vorrar Endurfædingar og Saaluhialpar, hann hlytur og einnig ad vera i mier fyrer Trwna hid innra: Skriftenn utmaalar mannsins Fall hid ytra, og hvernig hañ kunne ad riettast vid aptur: Eñ hvad stodar mig soddan, nema su vidrietting gioerest og so i mier, ad eg rijse upp, og

komest a fætur aptur. Skriften seger grant fra þeirre Nyu Jerusalem; þad hialpar mier ecke neitt, utan eg verde og so hluttakande þeirrar Himnesku Jerusalem, ja verde og so eiñ hennar limur. Skriften vitnar utvortis um̃ þa Nyu Fæding og Nyu Skepnu, soddan hlytur allt i mier ad vera, jeg hlyt fyrer Trwna ad hafa hlutdeild þar i, og vera ein Ny Skepna, annars gagnar heyrn og lestur Skriftarennar mier alls eckert þar til. Þad er alltsaman Trwarennar verkan i oss, ja GUds eigen framkvæmd og hans Rijke i vorum Hiortum.

## Cap. VII.

## Hvernig Lögmaal GUDS sie skrifad i allra Maña Hiortum, og sannsære þa, bæde um þeirra Skylldu, og þañ Dom sem epter mun koma, so þeir sieu a deige Doomsins Oassakanleger.

Rom. 2.

Med þvi þeir Heidnu giøra Løgmaalsins Verk, þa bevijsa þeir ad Løgmaalsins Verk sieu skrifud i þeirra Hiørtum.

AF

Af þvi ad Hœdstur Gud skapade Mannenn epter sinne Mynd i fullkomnu Rettlœte og Heilagleika, og prydde hañ med allrahanda Gudlegum Dygdum og Daadum, giørande hañ so sem nockurskonar furdanlegt og ad-daanlegt meistara stycke, og sitt œdsta og yppverlegasta verk af øllum synelegum Skøpudum Skiepnum, þa innþryckte hañ so fastlega i Samvitsku mannsins Primur mieg dyrmœtum Eigennleleikum, ad þeir kunna alldrei, og ecke um alla eilijfd ad udsliettast. Sa fyrste er Vitnisburdur naatturunnar ad þar sie eiñ Gud til. Annar er medfœdd Vidurkenning þess sijdasta Doms. Pridie er naatturuñar Logmaal edur naatturlegt Riettlœte, fyrer hvert ad gioreft greinar-munnur a mille Heidurs og vanheidurs, og a mille glede og hrygdar. Þvi alldrei hefur nockurn tijma so grimm Piod tilvered, alldrei so fraleitt Villu Folk ad þad hafe neitad þvi, þar være eiñ Gud til; þvi naatturan bœde hid innra og ytra, bevijsar þad øllum mønnum med vigtugum røkum, ja þeir hafa funded þad i þeirra eigen Samvitsku, ad þad være ecke einasta eiñ Gud til, helldur og einnig være hann, eiñ Riettlaatur Gud, sem straffade þad vonda, eñ launade þad gooda, med þvi þeir hafa i sijnum Samvitskum funded og formerkt,

annad hvert hrædslu edur glede, og alyktad þar af, ad Saalen mannsins være odaudleg, so sem liost er af Platone, hver um þetta efne høndlar miked vandlega. Og i siidasta maata hafa þeir þad raaded, af þessu løgmaale naatturunnar, edur medfæddum naatturlegum kiærleika, ad GUD være Hofundur alls þess gooda, sem i naatturunne fyndest, þvi ætte hønum med astundan Dygdanna af hreinu Hiarta þionad ad verda; Þessvegna hafa þeir hallded ad Dygden være sa hædste Goode; Hvarfyrer og einnig Socrates, og adrer fleire Heims-spekingar hafa stiptad Skola, i hverium Dygdirnar skylldu lærast. Af þessu siaaum vier, ad GUD hefur laated þo eiñ liitenn neista af liose naatturunnar, edur nockurskonar meniar af medskøpudum vitnisburde um GUD, verda kyrrann hia Mannenum epter Syndafalled, uppa þad hañ lærde ad þeckia siñ uppruna, hvadan hañ være komenn, og skickade sier þar epter. Vid þetta hafa kannast nockrer Heidner meñ, og a medal annara Skaalded Aratus, hvers ord H. Paall framfærer so hlioodande, Act.17. Vier erum kyn GUds. Liika og so Manilius sem seger

An dubium est habitare Deum sub pectore nostro
In cælumq; redire animas, cæloq; venire.

Þad

Þad er:

Ad GUd bygge (efa þarf
Eingenn) Saaler manna
Upptek þeirra og apturhvarf
Er til Himna ranna.

Eñ af þvi ad Heidinganner hafa þvert a mote sinne Samvitsku foraktad þennann naatturlega vitnisburd um GUd, og undereins hañ sialfann, þa eru þeir sialfer orsok i sinne eigen fordæmingu, og hafa einga afsokun. Þvi alyktar H. Paall a þennan haatt: Rom. 1. Saa sem veit GUd vera, en spir þo ecke epter hønum, og astundar ecke hañ rett ad þeckia og dyrdka, hann verdur a dege domsins Oassakanlegur. Og ennframar giorer Postulenn þa alyktun; Ad med þvi Heidingarner hafe þeckt GUds Riettlæte, þar þeir vissu af naatturunne, ad þeir giørdu þad illa, og voru skylldug er til ad lijda þar daudann fyrer, eñ hafa þad þo ecke einasta sialfer giørt, helldur hast þocknan a þeim sem þad giørdu, þa hafa þeir þar med dæmt sialfa sig. Og i sama Pistels 2. Cap. seger hañ. Sialfra þeirra inbyrdes þanckar, sem hafa aklagad þa, eda afsakad, þeir hafa yferbevijsad þeim, ad domureñ mune um sijder koma. Nu ef Heidnar Pioder sem af Naatturunne vita, ad þar er eiñ GUd til, eñ leita hañs þo ecke, þvert a mote sinne Samvitsku, hafa einga afsokun:

un: Hvad miklu siijdur munu þeir þa kunna sig ad forsvara, hverium Gud hefur sitt Ord openberad, og boded til Idrunar fyrer JEsum Christum siñ Eingetenn Son; þad er, ad þeir liete af Syndunum, og sneru sier fra siijnu ogudlegu athæfe, uppa þad þeir fyrer Trwna, yrdu niotande Herrans Christi Forþienustu og eilijfrar velferdar.

Þarfyrer mun hver og eiñ fals Christeñ sem hefur þeckt nafned Drottens i þessu lijfe, og ecke giort Idran og yferboot, hafa Tvo hin sterkustu Vitne a mote sier a Siijdasta dege: Fyrst sitt eiged hiarta og Samvitsku, edur naatturunnarLøgmaal; þarnæst GUds openberad Ord, sem þa mun dæma hañ, hvarfyrer þar mun fylgia a epter ein Skelfeleg alyktun, sem Christur fyrer-seger a þennan haatt: Bærelegra mun verda Sodoma og Gomorrha a þeim dege. Item. Drottningen af Sudre mun uppriisa til ad dæma þessa kynslood. Þar af munu og so þær eilijfu kvaler og piisler i Helviite koma, ad GUd hefur giørt Saalena odaudlega, og Samvitskuna i Saalenne, sem hverke kañ Gude ad gleima, nie helldur til hañs komast ad eilijfu; hvar af Saalen mun hafa Skelfelegar hrellingar og kvaler, sem verda þess þyngre, sem hiner Ogudlegu, hafa meir fyrer Idrunarlaust hiarta

saf-

safnad sier Reide GUds uppaa dag domsins. Þvi so sem hædstur GUd hefur gefed Heidnar þioder, epter sijnum rettferdugum doome, i fraleitt siñe, af þvi þær hafa foraktad þad innra naatturunnar Logmaal og Samvitskuna (so sem GUds Riettlæte innskrifad i heirra Hiortu) og hafa motstaded, þvi og einskis aktad, og þar þeir hafa so giort, þa hafa þeir sialfum Gude i motstaded, og hañ fyrerlited, og þarfyrer eru þeir fallner, vegna þeirra hugskots blindne, i hrædelegar og afskaplegar Synder og Svivirdingar, og safna sier þessvegna GUds Riettlætis Reide yfer Hofud. Allteins er haattad og vared þeim fals-Christnu, af þvi þeir forakta bæde þad innra og ytra orded, og vitnisburdenn GUds, og vilia ei alleinasta einga Jdran giora, helldur standa þeir iafnan mote H. Anda og lasta GUd, þvi slepper GUd þeim i fraleitt Sinne, so ad þeir verde verre en Heidingar og Tyrkiar; ja sender þeim a ofan megna villudcoma, ad þeir trwa lygunum, so þeir verde aller dæmder, sem ecke trwa sannleikanum, helldur samfagna Ranglætenu.

Hier af kemur þad ad svo margar andstyggelegar Svivirdingar breidast vijdt ut a medal þeirra Christnu, og rijkia hia þeim stoor lega; so miked og diofulegt stærelæte og

pragt,

pragt, so stoor og osediänleg agirnd, vidurstyggelegt ohoof, lostaseme, ymisleg odæduverk og skammarlegar athafner, hvad allt ad hefur siñ uppruna af forblindudu forherdtu og fraleitu sinne mañsins, af þvi þeir Christnu vilia ecke i lifnadenum og frammferdenu epterfylgia þeim audvirdelega, faatæka, hoogværa og lijtelaata JEsu Christo, helldur hneixlast þeir a hønum, og hallda fyrer Smaan og minkun, hans allraheilagasta lijferne, sem GUD hefur þo gefed Heimenum, so sem annad Lios, ad aller skylldu ganga epter hans Footsporum. Hier fyrer yfergefur sa Riettlaate GUd þa, so þeir fylgia epter dioflenum, þeir taka fyrer sig hañs lifnad fullann og andstyggelegann af allra handa slags illsku, hreckvijse, lyge og miskunarleyse, til ad fullkomna verkenn myrkranna, þvi þeir hafa sier þad einusinne i huga fest, ad vilia ecke ganga i liosenu, fyrer hveriu Christur tekur þeim þo vara, segiande. Joh. 12. Ganged i liosenu a medan þier hafed liosed so myrkurenn høndlz ydur ecke.

Ad sijdustu med þvi GUd Drottenn, hefur refsad Heidingunum med skelfelegum blindleika, og fraleitu Sinne, þessvegna ad þeir hafa ecke epterfylgt þvi liose, sem þeim var med skapad, þad er ad Skilia, þeirra eigen Samvitsku, og naatturu Logmaale, edur so

sem

sem S. Paall seger, Rom. 1. Þeir hafa ecke hirdt um ad þeckia GUd, og eru þessvegna sialfer seker i sinne Saalartøpun; Hvad miklu vissara er þa ad þeir mune alldrei fa eilijft Lijf, sem ecke einasta eru af naatturunne, helldur og einnig fyrer GUds openberada Ord, og þañ Nya Sattmaala, sem skrifadur er i þeirra Hiortum, Uppfrædder og Sannfærder, og ackta þo ad eingu þessa Naad og Saluhiaalp, hvar um so skrifad stendur, Jer. 31. Pad skal vera sa Nye Sattmaalenn, jeg vil gefa mitt Løgmaal i þeirra Hiørtu, og innskrifa þad i þeirra Hugskot, og eingen mun læra annann, og ei eiñ brodurenn annann, segiande: Peckt tu Drottenn. helldur skulu þeir aller Smaaer og Stoorer þeckia mig, seger Drottinn, þvi eg vil fyrergefa þeim þeirra misgiørninga og alldrei meir i minne leggia þeirra Synder. Ef vier syndgum motþroanlega, seger Paall, Hebr. 10. Epter þad vier høfum medteked sañleikans kynning, þa høfum vier einga Foorn fyrer Syndernar framar mier, helldur hrædelleg epterbid Domsins, og þess vandlætingasama ellds, sem motstandarana svelgia mun: Pegar nockur brytur Moisis Løgmaal, þa hlytur hañ ad deya miskunarlaust fyrer tveggia edur þriggia vitnan. Hvad miklu meira straff, meined þier þa, ad sa mune verdskullda, sem Son GUds under Footum tredur, og blood Testamentesins saurugt reiknar, fyrer hvert hañ er helgadur, og Svivirder anda

Nad-

Naadarennar, þvi vier vitum þann sem seg-
er. Min er hefndenn eg mun endurgiallda;
og eñ aptur, Drottenn mun dæma sitt Foolk:
Hrædelegt er ad falla i hendur lifanda GUds.
Þesse maals grein a ecke heima hia þeim, sem
annad hvert Syndga af vanvitsku, edur breisk-
leika, helldur hinum sem vitanlega og mot-
þroanlega standa a mote þeim sannleika, er
þeir grant þeckia, og fram ana so andvara-
laust i sijnu Raanglæte, Forherdingu og id-
runarleyse.

## Cap. VIII.

## Ad eingenn kunne fyrer utan Sanna og alvarlega Jdran, ad hugga sig vid Christum, og hañs Forþienustu.

### Num. 9.

Þeir ohreinu gætu ei hallded Paaskana.

ORdeñ Frelsarans eru so hlioodande, Matth.
9. Heilbrygder þurfa ei læknarans vid,
helldur þeir sem Siuker eru. Eg hefe ecke kom-
ed ad kalla Riettlaata, helldur Synduga til
Jdrunar. J þessum ordum verdur oss lios-
lega kennt, ad Herrann Christur kallar ad
vijsu Syndarangeñ þa til Jdranar og yferbot-
ar/

ar, hvar med þad fylger, ad ei kunne nockur til hans ad komast fyrer utan sanna Jdran, edur umvendun fra Syndunum, og Saaluhialplega Trw, þvi eckert annad er Jdranenn, eñ ad deya Syndunum fyrer sannarlegt angur og hrygd, og fyrer Trwna ad ødlast fyrergefning þeirra, og ad lifa Riettlætenu i Christo JEsu. Ma þar fyrer endelega ganga undan i umvendanenne alvarlegt og sannarlegt angur, so ad Hiartad verde sundurkramed og hollded krossfest. Og kallar H. Paall þetta Hebr. 6. Umvendan fra daudum verkum þad er, ad hallda sier fra þeim verkum, hverra verdlaun er daudenn. Þegar vier afleggium ecke þesse vondu verk, þa stodar Christur oss ecke neitt med allre sinne Forþienustu; þvi vor Endurlausnare frambydur sig oss, sem eiñ grædare, og sitt H. Blood, sem þad allra dyrmætasta og heilsusamlegasta læknismedal vid Syndenne. Nu er þvi svo vared, ad eingenn læknis medøl, hversu kostuleg sem þau eru, kunna ad hialpa, ef sa siuke vill ecke hallda sig fra þvi sem hañ skadar. Þar fyrer er blood og daude Herrans Christi þeim ecke ad neinu gagne, sem ecke setia sier þad i huga ad fordast Syndernar, þar fyrer seger H. Paall, Gal. 5. Hverier hellst sem slijkt giøra (hañ meinar holldsins verk) þeir ødlast ecke Guds Rijke,

þad er, þeir hafa einga hlutdeild i Christo. Hier ad auke, ef Herrann Christur og hañs H. blood skal verda oss til lækningar, þa verdum vier adur siuker advera, þvi þeir Heilbrigdu þurfa ecke Læknarans vid, helldur þeir sem Siuker eru; Nu eru þeir ecke andlega siuker, sem ecke giora Jdran og Yferboot, og ecke eru vegna sinna Synda i insta Anda hrellder og sorgbitner; sem ecke hafa harmþrunged og sundurkramed Hiarta; þeir sem ecke eru hræd̄der fyrer Reide GUds; sem ecke setia sier þad fastlega i sijnum huga, ad fordast Veralldlegar Girnder, helldur sækia epter Metordum, Rijkedæme og Vellystingum; þesser, sege eg, eru ecke siuker, og hafa þvi ecke þørf a Grædaranum, hvarfyrer ad Herrann Christur stodar þa eckert. Gefed þessvegna giætur ad, Gott Foolk: Drottenn vor JESUS Christur er komenn ad sønnu til ad kalla þa syndugu; en þad til umvendunar. Hvarfyrer? Þvi alleinasta eitt Jdrande Hiarta, eitt mared, sundurknosad og trwad Hiarta, er medtækelegt fyrer Herrans Christi dyra blood, Dauda og Forþienustu: Eñ sa er Heppenn og Sæll, sem hid innra i Hiarta sijnu, finnur og formerker þetta Heilaga Kall, hver ed hefur gudlega Hrygd og Angur fyrer Syndernar,

sem verkar ummvendan til hiaalpræðis, hvers eingann idrar, 2.Cor.7. Þessa gudlega hrygd verkar og frammleider H. Ande fyrer Logmaaled, og innvirdulega umþeincking pijslanna Drottens JEsu; þvi Christi pijna er ecke einasta yferfliotanleg huggunar Predikun ut af Naadenne, helldur og einnin hin vigtugasta og alvarlegasta Aminning til idrunar, sem og einnig Speigill GUDs skelfelegrar Reide. Þvi ef vier vilium grenslast epter, hver vered hafe orsøk til hans saarbeiska blessada Dauda, þa finnum vier einga adra, eñ vorar Synder; ef vier yfervegum og einnig GUDS kiærleika, i hverium astarhita, ad GUd gaf Son sinn blessadann ut fyrer oss, þa finnum vier eitt merkelegt og undrunarlegt epterdæme, bæde uppa GUds straanga Riettlæte, og hañs stooru miskunseme: Og med þvi þessu er svo haattad, hver skyllde þa vilia leika sier ad Syndunum, sem þykest hafa hreina Aast til JEsum Christum, og veit hañ hefur med sijnu bloode borgad fyrer þær. Settu þier fyrer sioner, o madur! þu sem ert drambsamur og ærugijrugur, med hvad mikelle Forsmaan, og hvad diupu Hiartans lijtelæte ad JEsus Christur vard ad bæta fyrer þiñ Hofmood, og metordagirnd, eñ þu

hefur þo enn þa stoort Dramb i þier, og kañt ecke saddur ad verda af vegsemd þessarar Veralldar: Gief giætur ad, med hvad miklum armood og Faatækt Christur vard ad betala fyrer þina mauragirnd, eñ samt ertu hertekenn af ofedianlegre ahyggiu og girugheitum: Hugleid þu, med hvad stoorre Angist og Daudans kvalræde, hañ maatte bæta fyrer þinar Hollds Vellystingar, eñ þu hefur eingu ad siidur alla þina glede og unadsemd i Sællijfe og Kræsingum, hvernig kañ þad þa ad vera þin Lyst, sem hefur orsakad þinum Herra JEsu Christo soddan Pijnu? Hvernig getur þad vered þin glede, sem orsakade þinum Frelsara þa hædstu Hrygd allt i Daudann? Taktu þad til yfervegunar, minn Broder og Syster, med hvad diupre audmykt og þolennmæde þiñ Endurlausnare giorde forlikun fyrer þina reide, heipt, hatur, laangrækne, hefndargirne og oblidkanlega gedsmune, eñ þu varar þig þo ecke, ad verda heiptarlega reidur af litlu efne, og hefndargirnen þyker þier næsta sæt, ja sætare eñ þitt eiged Lijf; og hvad er þetta, ad þier gediast þad so vel, fyrer hvert þiñ Frelsare maatte drecka þañ beiska Daudans Kaleik.

Þarfyrer, hverierhellst sem nefnast Christner, eñ aptra sier þo ecke ad lifa i marg-

þroo-

þrooanlegum Syndum, a mote Samvitsk-
unne, þeir sömu krossfesta uppa nytt Christ-
um, og hafa hañ fyrer Skimp, so sem þar
stendur, Hebr. 6. Þarfyrer er omøgulegt, ad
þeir mote Herrans Christi Forþienustu, sem
hañ under footum troda; þeir reikna saurugt
blood Testamentesins: Hebr. 10. Þad er, þeir
hallda þad ecke fyrer hreinsun sinna Raang-
lætinga, og skeita ecke neitt um þad, ad þvi
var uthellt til fyrergefningar þeirra Synda,
þeir svivirda naadarennar Anda; þad er, þeir
forsmaa, med sijnum ogudlegum lifnade, þa
allra hærstu og stærstu Naad, sem þeim er
frambođen: So JEsu Christi blessad Blood,
sem fyrer þa er uthellt, ma hroopa Hefnd
yfer þa, og afhenda þa Riettlætisdoome GUds,
hvar af vier meigum maklega skelfast, þvi
sannlega er þad hrædelegt, ad falla i hendur
lifanda GUds, so sem stendur i sama capitu-
la, þvi vor GUd er ecke eiñ daudur og vanmaatt-
ugur Afgud, sem ecke gete hefnt þeirrar Svi-
virdingar sem honum er giord, helldur er hann
einn lifande GUd, einn Sterkur Vandlaatur
GUd, sem bæde kann og vill, med hordum
pijslum, a þeim ad hefnast, sem forakta hans
frambodna Naad. Og i sannleika, þa telur
vort Hiarta oss Trw um þad, ad þar kome a
epter stoort GUds Reide-Straff, þegar
madur vill ecke laata af Syndunum, en heyr-

er þo hversu smaanarlegann Dauda Gllds Eingetenn Sonur, hefur maatt lijde fyrer þær.

Þetta er nu orsøken hvar fyrer Jdranen var bodud og predikud um allann Heim, strax epter dauda Drottens vors, sem er bæde þessvegna, ad hañ hafde daaed fyrer allar Heimsins Synder, 1. Joh. 2. og ad aller menn aattu ad giøra idran, um allar endemerkur veralldarennar, Act. 17. Og inntaka so þennann gudlega og kroptuga læknisdoom i sijn idrande og truudu hiortu, uppa þad, þesse Gllds dyrmæta Naad yrde ecke til onytis, helldur skyllde strax færa med sier Syndanna Fyrergefning. Hvernig kunna Syndernar þeim ad Fyrergefast, sem ecke hata þær, nie hafa obocka a þeim, helldur laata þær sier alltijd falla vel i ged, og vilia ecke þær yfergefa. Þad er daarlegt apa-spil, ad vilia fa kvittun sinna afbrota, eñ hirda þo ecke neitt uñ ad endurbæta sig; ad hugga sig vid JEsu Christi Forþienustu, enn forlysta sig þo i ymislegum vømmum og Skømmum, hveriar Drottne vorum komu i Daudann. Þar eru, ad vijsu, margar manneskiur, sem alldrei hafa giørt sanna Jdran um alla þeirra Æfe, enn vilia þo hartnær med sialfskylldu heimta Syndanna Fyrergefning. Þeir hafa ecke nockurn tijma sett sier i huga ad bæta Naad sitt,

ad

ad hepta sijna Agirnd, Drambseme, hatur, Ofund, hræsne og þvilijkar Synder, helldur iafnvel magnast þeir i soddan vondsku Dag fra Dege, og vilia þo tileinka sier Christi Forþienustu. Soddan mønnum þyker þetta fara æred vel, og hallda fyrer viist, i sinne eigen heimsku, ad þeir sieu vel Christner menn, med þvi þeir vita og trwa, ad Herrann Christur hefur daaed fyrer þeirra Synder, þa meina þeir sig fyrer þad medal Saaluholpna verda, hvernen sem þeir haga sijnu frammferde.

O þu vesæla og forblindada manneskia, sem ber fyrer þig falskann Christenndoom; alldrei hefur GUds ord kent þier, ad med þvilijkum hætte faaest eilijft lijf; Þad hefur alldrei neinn af Spaamønnunum og Postulunum fyrrum nockurn tijma predikad; en þad er vidkvæded og meininginn allra þeirra sameigenleg: Vilier þu faa kvittun þinna Synda, þa giør fyrst Jdran, og snw þier fra illu, laattu þier þinar Synder leidar vera, kom sijdan, og bid GUd audmiuklega um Fyrergefning þinna Raanglætinga vegna JEsu Christi Forþienustu, og trw þvi fullkomlega, ad hañ so giøre. En hvernig ma þad segiast, ad sa giøre Jdran fyrer sijnar Synder, sem ecke asetur sier i huganum ad fordast þær frammvegis? Ellegar hvernin

kañ hañ þær ad fordast, ef hañ ber eckert angur i sier, þar af, ad hann þær driigt hefur? Þarfyrer kenner HErrann Christur þad med øllum Spaamønnum og Postulum, ad þu eiger ad deya fra Heimenum og fra Syndenne; Þad er krossfesta, afleggia, og dempa þiñ Hofmood, þina Agirnd, Lostaseme, Reide, Hatur og Vellystingar, og snwa so aptur af øllu þinu Hiarta til Drottens, og biidia hann ad forlaata þier misgiørdernar: Þar þu so giører, þa verdur þu afleystur af Syndunum, Ja klaar og frij fra þeim, og þa breider sa himneske Græðarenn fadmenn a mote þier, og tekur vid þier baadum høndum, lijka sem Mooder hiwkar ad siinu Barne. Enn farer þu annann veg þa stodar þig ecke neitt JEsus Christur, og eckert gagn hefur þu þar af, þier til Saaluhialpar, þo þu siert ad hroosa þinne Trw med mørgum og føgrum ordum, þviad su sanna Trw endurnyar mannenn, utslokur og deydir Syndena i hønum, og lijfgar hann i Christo, so ad hann lifer i Trwnne a Christum, i hans kærleika, lijtelæte og Hoogværd og þolennmæde; og med soddann hætte er JEsus Christur þier Vegurenn til Lijfsens, og þu aptur i hønum Ny skepna. 2. Cor. 5. Enn sie so, þu hallder aframm i þvi ad syndga,

og

og afetur hier enn þa ecke ad deya fra Raanglæt-
enu, helldur ert fagnande og gladvær i øll-
um þess Gamla Adams athøfnum; hvernig
kantu þa ad vera ein ny Skepna, ellegar
heyra Christo til, ef þu Krossfester ecke þitt
Hollo, med øllum þess Syndum girndum og
tilhnegingum, Gal.5. Þarfyrer, þo þu
heyrer iafnvel a hverium dege Tiju Predikaner,
gaanger til Skripta, og taker Sacramentum i
hverium Maanude, þa er þad allt forgefens,
og stodar eckert til ad fa fyrergefning Syndaña,
ef þu fram-ber ecke sañidrande, sundurknosad,
og trwad Hiarta, sem einasta er medtækelegt
fyrer þessa heilsusamlega lækning. Adviisu eru
þau Ha-verdugu Sacramenta og GUds Ord,
heilsusamleg medøl og hin kroptugasta lækning,
eñ þo ecke, nema hia þeim, sem i innsta anda
og af øllu Hiarta, taka idran þar fyrer, ad
þeir hafa Syndgad, og hafa vidbiood a sijn-
um forna vonda lifnade, eru sijfelldlega styn-
iande, med trwudum andvørpum uppi Him-
enenn; Þvi hvad stodar þad Steinenn, þo
þu smyrier hann og yfer døggver med þvi
allra kostulegasta Salve, edur þeim bestu
Smirslum? Eda hvad ætlar þu, þu muner
uppskera, þo þu saaer a medal þyrna og
þyrstla? Er þvi hier raadlegast, i HErrans
Nafne, ad uppræta, sem fyrst, þessa þyrna,

sem þad gooda Sæded nidurkesia, þvi Christur stodar þa eckert, sem liggia i Syndunum kyrrir; Eckert hanns Fæding, þeim ecke hirda med hønum ad endurfædast; Eckert hanns Daude, þeim sem ecke setia sier þad fastlega i sinne ad deya fra Syndunum; Eckert hans Upprisa, þeim sem forsmaa i hønum ad rijsa upp fra vondu athæse; Eckert hanns Uppstigning, þeim sem ecke vill lifa himnesku lijferne og frammferde.

Enn ef þu idrast med þeim fortapada Synenum, barmar þier nidur saker þinna afbrota, og hefur leida og andstygd a Syndunum, og gefur þig fra þeim; ef þu bidur GUd graatande um Naad og Fyrergefning, segiande med Tollheimtumannenum, GUd vertu mier Syndugum lyknsamur, lijtur so under eins, i Trwnne, uppa JEsum Christum, þann Krossfesta, hanns bloodugu Under, eins og Israels Syner uppa Eir-ormenn, þa er þier strax til reidu frelsed og fyrergefningen, Ja Naad og Giædska Drottenns, hversu miklar, margar og hrædelegar Synder, sem þu hefur drijgt: so miked gillder og afrekar þad dyrmæta blood JEsu Christi, og hanns Heilage Daude; so stoor fullkomlegleike er i Endurlausnenne, sem sked er fyrer Christi Forþienustu, hveria ein idrande manneskia,

umm-

ummfadmar med Trwnne. Gllð medtekur giarnan Jdran og yferboot fyrer Syndernar, og fyrergefur oss þær ut af skiærre Naad, vegna siins Sonar JEsu Christi: Ja þad er GUds hærsta og mesta Epterlæte ad vera Miskunsamur, og fyrergefa Syndernar naadar samlega, þarfyrer seger hann. Jerm. 31. Mitt Hiarta brestur i sundur, og eg hlyt hønum miskunsamur ad vera og Hos. 11. Mitt Hiarta hefur snwed sier umm i mier, og min Miskunseme er brennheit. Pa frammleider Daude JEsu Christi þann rietta Avoxt, og siiner sinn eigenlegann krapt og verkaner, hvar af ad Heilager GUds Einglar fagna, þegar blooded JEsu Christi kemur Syndugum monnnum til eilijfs gagns og gooda, fyrer hveria þad var i Pijnunne uthellt.

# Cap. IX.

## O-skickanlegt lijferne Manaña afneitar Christo og Sannre Trw i þessare Olld.

2. Tim. 3.

Þeir hafa Skin Gudrækninnar, enn hennar krapte afneita þeir.

Af þvi ad hver einn hroosar sier þar af, ad hann sie Christenn, þo hann giore eckert Christ-

Christins manns verck, þa verdur Christo þar med afneitad, ja hann verdur forracktadur, spottadur, lastadur, hwdstrijktur, krossfestur og Deyddur, so sem þar stendur i Pistlenum til Hebr. 6. ad sumer krossfeste GUds Søn uppa ny, og hafe hann fyrer skemtan, og Spaamadurinn Daniel hefur i sinnar Bookar 9 Cap. fyrer spaad; ad Christur mune a sijdurstu døgumm alldeiles upprættur verda, hvert skiliast a um̃ Krossfesting Drottenns vors JEsu Christi i Borgenne Jerusalem, þegar Gydingarner hroopudu segiande, burt burt med þennann, Krossfestu, krossfestu hann; En þad være betur, ad Christur være ecka a þessum døgum med ogudlegum lifnade krossfestur og upprættur, epter þvi menn siaa hann hartnær ecke neinstadar nie finna, Jeg meina hans Heilaga Edla lijferne, þvi hvar lijferne Christi ecke er, þar er ecke helldur Christur sialfur, hversu sem menn vilia hroosa sier af Trwnne og Lærdomenum: þvi hvad er Trwenn an Christelegs lifnadar? Hun er eitt avaxtarlaust Trie, so sem hinn Sæle Judas Postule kallar þa følsku Postulana, ecke annad, enn ofriossom Trie, tvisvar daud og upprætt; af soddan er Heimurenn a þessum døgum fullur, hvar um Christur og so talar hia Luc. 18. segiande. Þegar Mannsins Sonur kemur, meined þier ad hann

mune

mune siña Tru a Jørdu? J hverium ordum
su eilijfa GUds Speke, meinar i sannleika,
ecki soddann Trw, sem Heimurenn a þessum
døgum hroosar sier af med fullum munne,
enn neitar henne þo i framferdinu; hann elsk-
ar Christum i orde, enn ecke med verke og
sannleika: Helldur meinar Frelsarenn hier
eina sanna og lifande Trw, þa manneskiu
sein er alldeiles endurfædd fyrer Trwna, eitt
gott Trie med sijnum Trwar avextum, hann
meinar þann mann i hverium Christur lifer
og byr fyrer Trwna, Eph. 3. Af soddan Trw
finnur hann nu vissulega lijted a Jordunne
þvi hvar su rietta og sanna Trw er, þar er
Christur og hanns H. Lijferne, og hvar menn
breita ecke epter Herrans Christi lijferne fyr-
er Trwna, þar er hverke Trwen nie Christ-
ur, helldur verdur Christo þar utskwfad og
afneitad. Vor Endurlausnare seger so hiar,
Luc. 12. *Sa sem afneitar mier fyrer mønnum
Hønum mun afneitad verda fyrer Einglum
GUds.* Þesse afneitun skedur ecke alleinasta
med munnenum, (þegar Trwen og Herrann
Christur er afsvarenn) helldur og einnig i
verkunum og lifnadenum, (hver afneitun ad
er almennelegre) nær menn vijsvitande og af
illgirne standa a mote Christo og H. Anda,
so sem Postulenn vottar i Pistlenum til Tit-
um

um 1. Cap. Ad þeir vantrwudu segiast þeckia GUd, enn neita þvi þo i verkunum. Ja, i sannleika ad segia, Christo verdur eingu sijdur afneitad med ogudlegu og diøfullegu framferde, sierdeiles med hræsne og Skine Heilagleikans, enn med munnenum, so sem Epterlijkingen utvijsar af þeim manne, sem hafde tvo Sonu, Matth. 21. Til þesseina sagde Faderenn, Son minn, far þu i Dag ad vinna i Vijngarde mijnum, enn hann svarade, og sagde: ei vil eg þad giøra, epter a idrade hann þessa, og gieck i burt. Og hann gieck til hins annars, og sagde slijkt hid sama; enn hann svarade, og sagde, ja Herra, enn for ecke. Hver af þeim Tveimur giørde Fødursins Vilia? ان efa, sa sem sagde nei og for þo. Hver af þeim foraktade Fødurenn? Sa sem sagde ja, og for hverge. Med sama slag eru þeir Fals-Christnu a þessum døgum, sem segia: ja, ja, HErra, HErra, epter þvi sem þar stendur Matth. 7. enn eru þo innvortis þær allra ørgustu og motþrooanlegustu manneskiur, og giøra aulldungis ecke Fødursins vilia; og eiga hier heima ord Postulans, þar hann seger: Ad þeir hafe utvortis Skin Gudhrædslunnar, enn hennar krapte afneite þeir. Og hvad er þad annad, ad afneita krapte Gudhrædslunnar, enn ad afneita Trwnne og Christo, og giørast Heidinge under Christens manns nafne?

Þa

Þa hina sømu nefner Heilagur Paulus riett-elega Børn Vantrwarennar. Eph.2. Þar þeir hafa einga Trw, þeir kasta fra sier goodre Samvitsku, og þvi lijda þeir Skip-brot a Trwnne, 1.Timoth.1. Þessum sem so bruka Christed Nafn, enn giora eckert Christelegt, þejm mun HErrann Christur afneita a Efsta dege, segande: Fared fra mier Bølvader, þvi eg þecke ydur ecke.

# Cap. X.

## Lifnadur Veralldariñar Barna er Christo JEsu alldeilis motstædeleg-ur, þarfyrer er þad raangur lifnadur, og þeirra Christeñdomur er Fals-Christenndomur.

Matth. 12.

Sa sem ecke er med mier, hann er a mote mier.

HVer sem vill riett rannsaka og yfervega, lifnad og Sidu þessara tijma, og bera þa saman vid Lærdom og lijferne HErrans Christi, hann munde sanna þad vissulega, ad flestra Manna lifnadur, a þessum døgum, er HErranum Christo alldeiles gagnstæde-legur, þvi hvad er nu hvers manns almenn-eleg Syslan og frammferde annad enn Agirnd,

Bwk-

Bwkforg, Ohoof i mat og dryck, Okur, Fysn Holldsens, Girnd augnanna og drambsamlegt Lijferne? Pad er nu, an efa, þad mesta og besta i aullum Heimenum. Hver er sa sem ecke stundar epter Stooru Nafne, Stooru Alite og Virdingum a Jørdunne? Hvar drottnar nu ecke sa sterke Diøfull og hanns Siø ohreinu Andar hoopum saman, og hallda eitt i þvi ad drijgia Ohlijdne, Reide, Prætur, Orustur, Oeining, Hefndargirnd, inbyrdis hatur, Ofund, Osamþycki, Ranglæte, Ohreinleika, Fals, Svik, Roogburd, og adrar fleire odygder? J einu orde ad segia; lifnadur Heimsens barna a þessum tijmum, er ecke utan Elska til Heimsens, Sialfs-Elska, og astundan sinnar eigen æru, og gagnsemda: Par a mot er Christur og hans H. lijferne, ecke annad en hin allra skylausasta og skiærasta Elska til GUds og mannanna, Mannudlegleike, Hoogværd, Polenmæde, audmykt og hlydne allt i daudann, miskunseme, Riettlæte, Sannleikur, Skijrlijfe, Heilagleike; Hann sinnte ecke Heimenum, ecke hans Heidre, Virdingum nie vegsemd, ecke audæfum nie vellystingum; Hann afneitade sialfum sier, Hanns lijferne var sijfelldur Kross, Hrellingar og motkast, sijfelld Epterlaungun og andvarpan til GUds Rijkis, og alvarleg girnd til ad framfilgia GUds Vilia. Nu

Nu seger vor HErra Matth. 12. Sa sem ecke er med mier, hann er a mote mier; Enn lifnadur þessarar Veralldar a aldeiles ecke skylldt vid Christum, hann kemur eingan veigen saman vid hann; þvi þar er hartnær eingenn sem hefur eitt Hiarta, Sinne, gieds-mune og anda, med Christo, sem sierhver madur a þo adhafa og Paall seger 1. Cor. 2. Vier høfum Sinne Christi, og aptur i Pistlenum til Phil. 2. aminner hann oss, ad hver og einn sie so sinnadur sem JEsus Christus var; Þessvegna eru aull Heimsens børn JEsu Christo gagnstædeleg, og sa sem er i mote Christo, hann er Anta-Christur; Ef ecke i Lærdomenum, þa samt i lifnadarens haattum; Og fyrst ad so geingur til, hvar hellst a Jordunne eigum vier þa ad leita epter sañ-Christnum monnum? Sannarlega munu þeir vera lijtel Hiørd, epter ordum Frelsarans Luc. 12. Hveriu ad ei er olijkt þad sem Esajas Spaamadur i 1. Cap. seger um Søfnud Erwadra, og sannarlegt GUds Folk, þar hann samlijker þvi vid eina litla Tiallдbuud i Vijngarde, og litenn laufskaal i alldingarde, og vid þann stad sem er umsetenn. Item samlijker Micheas i 7. Cap. Hiord Drottens vid Vijnber þau, sem Vijnberia mennerner annadhvert hirda ecke um ad taka, ellegar verda epter Ovarlega a Vijntrienu i

gardenum, so segiande: Aavi mier geingur lijka sem þeim manne sem seinne leit berianna hefur i Vijngarde, þar madur finnur einga Vijnþrwgu ad eta, eñ villde þo giarnan hafa funded þañ besta Avøxt. og H. David Ps. 74. samlijker þeirre riettu GUDs Christne vid eina Turtildwfu a Huss-þekium uppe, og vid eiñ einmana Fugl. og i Psal. 102. vid þa Naattuglu sem sig fylsnar i eydehusum. Enn hvar þeir eru i Heimenum, sem GUD ottast, þad veit sialfur Drottenn. Christus JEsus verdur hia þeim, ja i þeim, allt til Veralld-arennar enda, Matth. 28. Og skilst ecke vid þa Fødurlausu, Joh. 14. Sa faste grundvøllur GUDs stendur stødugur, og hefur þetta Inn-sigli: Drottenn þecker sijna, 2. Tim. 2. Eñ hver-ier ad sieu hañs, þad stendur þar hia: Hver sa sem ad nefner nafned Christi, hañ vijke fra Raanglætenu; eñ sa sem þad vil ecke giøra, hañ laate þad haaleita og heilaga Nafn Drottens vera Onefnt, hañ laate þad vera i fride, og nefne sig epter hverium ødrum, sem hønum þocknast.

## Cap. XI.

## Hver sem ecke breiter epter Lijf-erne Herrans Christi, og giorer ecke alvarlega Idran, hañ er ecke Christeñ nie helldur GUDs Barn. Item Hvad ad sie su Nya Fæding, og Oked Christi.

1. Pet.

I. Pet. 2.

Christur liet oss epter Dæme, so ad vier skylldum epterfylgia hanns Footsporum.

HErstur GUd hefur gefed oss sin Elskulegann Son, ad han være vor Spaamadur, Meistare og Lærefader, hvern han þessvegna afhendte oss med haarri Raust af Himne ofan, og baud ad vier skylldum hlyda hønum. Þessu Embætte framfylgde Herrann Christur alvarlega, so sem byriade sonnum Lærefødur, ecke alleinasta med ordum, helldur og einnig med verkum, og Epterdæmum siins flecklausa lijfernis. Hierfyrer seger H.Lucas, Act.1. Þan fyrra bookmaala giørda eg ad sønnu, þu Theophile, um allt þad sem JEsus hoof ad giøra, og kenna allt til þess dags hann var uppnumenn.

Hier framsetur Gudspiallamadurenn epter takanlega þetta Ord, ad giøra, og lætur þad ganga nærst undan Lærdomenum, teiknande þar med, ad Verkenn og Lærdomuren, eige alltijd ad fylgiast ad, þvi riettum Lærefødur ber sialfum fyrst ad giøra, þad sem han vill ødrum kenna; Slijkann Lærefødur audsynde Herrann Christur sig med siinu sialfs Epterdæme, hvers lijferne ad er sannur Lærdomur, og Book Lijfsins; Þvi þessvegna vard Sonur GUds, Madur, og hafde hier umgengne a Jordunne med Mønnunumm, ad

hañ giæfe oss lifande Epterdæme þess Himneska lijfsens, sem være gudlegt, flecklaust, meinlaust og fullkomed, uppa þad vier epterfylgdum honum, so sem liooſe i dimmu Myrkre: Hversvegna hañ kallar sig **Lioos Heimsins, hveriu ef nockur epterfylge, þa gange hann ecke i Myrkrunum,** Joh. 8.

Hier af er berlega lioost, ad þeir blijfa aller i Myrkrunum, og ødlast alldrei Lioos Lijfsins, sem ei epterfylgia Herranum Christo i Trwnne, og i hañs lijferne. Eñ hvad eru Myrkuren? Eckert annad en idrunarlaust liferne, sem H. Paulus Rom. 13. kallar **verk myrkranna, hver vier eigum daglega ad afleggia, og iklædast Herklædum liooſſens,** og þad heiter i einu orde ad giora Jdran. Vier hofum adur synt nogsamlega, ad Soñ og Gudleg Jdran, asamt med sannre Trw, umbreitte olldungis manninum til ad krossfesta Hollded, og fyrer Heilagann Anda nytt Lijf ad stunda. Þarfyrer so vier værum ecke i þeirre Villu, ad hallda Christenndoomen alleinasta ad vera toom Ord, helldur ad vier skylldum hafa eitt lifande, og synelegt Epterdæme uppa Andann og þann nya Mannenn, þa sette GUd oss bersynes fyrer Augu, sinn kiæra Son, ecke alleinasta so sem eiñ Frelsara og Medalgaangara, helldur og einnen, so sem Speigel sannarlegrar Gudrækne, og eitt

lif-

lifande dygda Epterdæme, og Mynd nya Mannsins, i hverium ecke a ad drottna Adams Holld fyrer Syndena, helldur GUD sialfur, so ad vier dags daglega kunnum ad endurnyast til hans Myndar, hvarum vier höfum epterfylgiande undervijsun ad merkia:

Vier reinum daglega aller og vitum, ad Naattura vor er Syndug, þad er, Hollded Blooded, likamenn og Saalen er ohreint af allskyns Saurindum, og ohreckt illskunnar, Syndaña og Glæpaña; hvad allt er bæde verk og vanart Andskotans, sem er kroptugur i holldlegum manne, einkum i hansvondum og raangsnunum Vilia; þvi raangsnuenn Vilie er Root allra Synda. Ef hañ være ecke þa være ecke Synden, eñ þad er vondur vilie, sem sier snyr fra Gude og hañs Vilia; þvi hvad hellst sem sier snyr fra Gude, so sem þeim hærsta Gooda, þad kañ olldungis ecke odruvijse ad vera eñ illt, J þessu frahvarfe og burtvikningu fra Gude, var beggia þeirra Diöfulsens og Mannsins, Fall innefaled; og hier af kom Synden inni Heimenn sem dregst fra einum manne til annars fyrer holldlegann getnad. Af þessu er liooft ad Holld og Blood vort, foostrar i naatturunne og upprunanum, Sinneslag og Sæde Andskotans, og ad vor Holldlegur Vilie, er innefalenn og

fordiarfadur af Diøfulsens Eitre, sem er, Hofmoodur, Lyge, Losta seme, og allar þær ódygder sem GUD hatar, og fyrer þetta vonda Sinnislag, nefner Herran Christur Pharisearana Diøfulsens Børn, Joh. 8. Og suma af sijnum Læresveinum avarpar hann med Satans nafne, so sem Diøfullenn sialfur sie Agirnden, Lygen, Drambsemen, og allskonar raangsnwenn Girnd, med hveriu naatturlegur og holldlegur madur er fleckadur. Hier fyrer er þad epterfylgiande, ad so marger, sem lifa idrunarlaust, og eru fuller Drambsemdar, Agirndar, Losta semdar og Øfundar, þeir life aller i Diøflenum, og hafe Sinnislag og naatturu Diøfulsens. J þessara tølu eru þeir, hverier helllst sem med utvortis Skini, taka uppa sig mynd froomleikans, enn blijfa þo samt hid innra i Hiartanu Diøflar, epter orde þvi, sem Herrann Christur talade vid Gydingana; og þo þetta sie einasta skelfelegt ad heyra, þa er þad þo i raun klaar Sannleikur:

Hierfyrer, af þvi þad er so astadt, ad vor Naattura er so skadlega og hryggelega raangsnwen og forspillt, þa var þar stoor naudsyn til, ad hun leidrietting feinge, og endurnyadest; hvad med eingu mote kunne ad skee, nema sa hæste Goode nidurbrite þa stærstu oluckv, og ad

ad GUd iklæddest mannenum; Þvi ecke vard Sonur GUds sinna vegna Madur, helldur vorra vegna, uppa þad, hann forlijkade oss vid GUd med sialfum Sier, giorde oss hluttakande þess hærsta Gooda, og hreinsade oss ad nyu, og helgade, þvi hvad hellst sem heilagt skal vera, þad hlytur ad helgast fyrer GUd og med Gude: Þvi so sem GUd er i Christo Persoonulega, so hlytur hann og so ad vera i oss fyrer Trwna, og oss ad innlijfast; Madurenn hlytur ad lifa i GUde, og GUd i hønum; vier i Christo, og Christur i oss: GUds Vilie a ad vera i Mannenum, og Madurenn hlytur ad lifa epter GUds Vilia: Og med soddan mote verdur vor sæte Endurlausnare JEsus Christur heilsusamleg Lækning vorre spilltre Naattwru; og þvi framar sem Christur lifer i Mannenum, þvi meir umvendast og endurnyast mannleg Naattura. O hvad sæll og heppenn være sa madur, i hverium sa allra Heilagaste JEsus hefde allar Verkaner, hvers vilie ad være Christi Vilie, hvers þaankar ad væru Christi þaankar, hvers gedsmuner væru Christi gedsmuner! so sem Postulenn seger 1. Cor. 2. Vier høfum Christi Sinne; hvers Ord og Ræda være Christi Ord og Ræda: Og so a þad i Sannleika ad vera. Christi haablessadur Lifnadur, er þad

nya Lijferne i mañenum, og þad er sa nye madureñ, sem lifer i Christo fyrer H. Anda. Christi Hoogværd a ad vera þess nya mannsens Hoogværd; Christi Audmyкt, þess nya mañsins Audmyкt; Christi þolenmæde þess nya mañsins þolenmæde, og so framveges; so ad allt Lijferne Christi sie þess nya mañsins Lijferne; þvi seger S. Paall Gal. 2. Eg life nu ecke, helldur lifer Christur i mier. Þetta er med riettu ad epterfylgia Christo, og sanna Jdran ad giora; þvi med þessum Hætte forgeingur sa gamle Madurenn, og þad holldlega Lijfed deyr, eñ þad andlega Nya og Himneska Lijfed kemur upp aptur, og sa sem þvi lifer, hann er Sann-Christenn madur, ecke ad nafnenu, helldur i verke og sannleika. Hvilijkur madur er sannarlegt GUds barn, af Gude og Christo JEsu fæddur, i Christo endurfæddur og fyrer Trwna Lijfgadur.

Og þo vier i þessa hollds breyskleika kunnum ecke ad naa þessu fullkomlega, þa eigum vier þo ad stunda þar epter, andvarpa og bidia þar um af hiarta, vier eigum ad leggia þar allt kapp og Stundan a, og oska af insta Anda ad Lijfed Christi, og hans Rijke sie i oss, enn ecke Diofulsens. Þar uppa eigum vier ad erfida med Strijde, og straangre Barattu, ad sa gamle madurenn deydest

fyr-

fyrer daglega Jdran og Yferboot; Ad so mikluleite sem hver eiñ deyr sialfum sier, ad so mikluleite lifne Christur i honum, Slijkt sem Dofnar af Spillingu vorrar naatturu fyrer H.Anda, so miked kemur aptur af Naad GUds; Slykt sem Hollded krossfestest, so miked lijfgast Andenn; So miked sem Verkenn myrkranna foreydast, so miked upplysest Madurenn; So miked sem sa ytre madurenn geingur til Grunns og deydest, so miked endurnyast sa innre, 2.Cor. 4. Þvi meir sem dregur ur mannenum uppa Holldlegar Tilhneigingar og lifnad holldlegann, so sem er: Sialfs-Elsku, eigen Vegsemd, Reide, Agirnd og Vellystingar, þvi framar lifer Christur i Mannenum; þvi leingra sem Mannsins Hiarta gefur sig fra Heimenum, fra Fysn Holldsins, girnd augnanna, og drambsomu Lijferne, þess yfergnæfanlegar finnur hañ, og formerker Sætleiks Jlm GUds Fødurs, JEsu Christi, og H.Anda, sem bwa i hans Hiarta; Hier þvert a mote, þess meir sem Naatturann, Hollded, Myrkrenn og Heimurenn drottna, og hafa yferraad i mannenum, þess minna er i honum af Naad, Anda, og Liose GUds og JEsu Christi.

Eñ þesse nyr lifnadarens Haattur, er holldenu beiskur Kross, þvi þad underokast,

þiaaest, og fær krossfesting med øllum girndum og tilhneigingum, eñ i þessu er þa innefalenn allur kraptur og Avoxtur Jdranarennar. Holldsog Bloods Sinnislage er so vared, ad þad vil vera sialfraadt, lifa i andvaraleyse og allskyns vellystingum epter sijnum eigenn Gedsmunum og Hentugleikum; og soddann Liif helldur Holded, þad besta, sætasta, og ununarsamlegasta: Þar a mote er Herrans Christi Lijferne Holldenu, og þeim gamla mannenum þyngsta Kross, eñ þeim nya og andlega mannenum sættOk, liett Byrde, og hin lystelegasta Hvijld, þvi hvar skyllde madur finna þa sønnu Rooseme, nema i riettre Trw a JEsum Christum, og i hans Hoogværd, Lijtelæte, þolenmæde, og kiærleika, þarfyrer seger Frelsarenn, Matth. 11. Taked uppa ydur mitt Ok, og munud þier Hvijld finna Saalum ydar. Ja sa sem elskar JEsum Christum riettelega, hønum er þad hin stærsta Glede, ad meiga deya fyrer hans Skulld. Þetta er þad Sæta Oked Christi, hvert oss er skipad ad taka uppa oss, so ad Saaler vorar endurnærest, og komest i sijna Roosemdar Hvijld.

Ef vier setium oss nu fyrer i Huga vorum ad hlyda þessu Bodordi Christi, so ad vier iklædustum hans Lifferne, þa verdum vier

er ad briota af oss Ok Diofulsens, sem er, þad holldlega, sialfraada, og andvaralausa Lijf, og meigum ecke laata Hollded Drottna, edur veita yfergaang Andanum; þvi allt hvad i mannenum er, verdur ad ganga under Christi Ok, og takast til faanga under hans Hlydne, bæde, Viliens, Rænan, Skynsemen, Lystingen, og allar holldlegar Adams girnder.

Hollde voru er þar mest um gefed, ad hafa loflegann ordstijr, Heidur, Virdingar, Rijkdoom og Sælliife, og þetta yferfliootanlega; Eñ ad þvinga þetta allt saman under Oked HErrans Christi, og lijtels ad akta hia hans Forsmaan, Haadung og Faatækt, ad hallda sig overdugann þess, og sneida sig hia þvi sem Heimurenn aliitur stoort, og þad sem sumer eru ad beriast fyrer med bardögum og stoore Mædu, þad er Christi kross, med hverium Hollded verdur i gegnum stunged: enn Christi mikla Faatækt, hans stoora lijtelæte, og Edla lijferne, þad er allt i sannleika hid sætasta Ok, og hin hægasta byrde Andanum. Hvad var annad lijferne HErrans Christi giörvallt, eñ Heilog Faatækt, stærsta Foroktun og saarustu Pijsler? hañ kom ecke i Heimenn til þess, ad hönum være þioonad, helldur ad hann sialfur þioonade oss, og kostade þar til sijnu lijfe og bloode, ad Synder

vorar

vorar yrdu afmaadar og utslettar. Eigennlegt ged og Sinne þess Holldlega mannsins, er þad, ad sækia|epter Virdingum og Vegsemd, og vilia vera mikels metenn: Sa andlege þar a mote elskar Faatækt og lijtelæte HErrans Christi, og girnest i ejngu gillde ad vera halldenn. Aller stunda epter þvi ad vera nockud, eingenn vill læra ad vera ekkert; þetta a heima hia lifnade HErrans Christi; hitt hia Adams lifnade. Holldleger menn, og þeir sem ecke hafa lært þad, hvad Christur JEsus er, sem er þad skiærasta lijtelæte, Hoogværd og kiærleike, þeir hallda þad Heimsku, ad lifa so sem Christur lifde; enn þar a mote meina þeir þa viisa og forstanduga vera, sem lifa epter sinne Hugar-lund, i lysteseme og allre Hægd, þeckiande sig ecke lifa i Dioflenum, þar þeir, i þessare sinne Heimsku, þocknast best sialfum sier, þyker vænt um sig, og aliita sinn lifnad þann besta og soomasamlegasta. Þesser aumu menn eru þannen faangner af lioose sinnar holldlegrar Vitsku, og koma ødrum med sier i þessa somu hrædelegu villu. Hier a mote þeir, sem eru af þvi sanna og eilijfa lioose upplijster, þeir skelfast i sijnum Anda, þegar Heimsens Fordildar flockar geysa fyrer þeirra augum, sumer med Hofmood og Drambseme, sumer i vel-

i vellystingum, sumer i Reide, Hefndargirnd og þesskonar avoxtum þess holdlega liifs; þeir stynia og andvarpa þar yfer þunglega, segiande: O Gode GUD! Hvad langt er þesse fra JEsu Christo Syne þinum, og hans kynningu, fra sannre Jdran, fra riettum Christenndoome, og Avextum Guds-barna Endurfædingar? Hann lifer en nu i Adam og þeirre gømlu Fædingu, Ja i sialfum Dioflenum: Þvi ad lifa i Syndunum motþrooanlega, er eckert annad enn ad lifa i Dioflenum.

J þeim manne sem ecke er liifed Christi, hañ er og so an Jdranar, ecke sañ-Christenn, ecke GUds barn, Ja hann þecker ecke riettelega JEsum Christum; þvi sa sem Christum vill riettelega þeckia fyrer sinn Frelsara og Saaluhialpara, og fylgia hønum epter, so sem Lijssens Reglu og Mæle-Snwru, hønum hlyder ad vita, ad hañ sie hrein Elska, skiær Hoogværd, þolenmæde og lijtelæte. Þessar JEsu dygder eiga i þier ad bwa, og þær attu ad elska, og i insta Hiartans grunne adfesta. So sem madur þecker eitt Aldine edur Jurt af Smecknum, og þeirre ylman sem þad af sier gefur, eins lijka attu Christum ad þeckia, og vita, af Reynslunne, ad Hann sie þad besta og sætasta Aldin, hvadan þin Saal drage til

sin

sin undrunarlegann Styrk, og nyan lijfgunar anda, þarmed og einnig sierlegann Fognud, og Sættleiks Huggun. Og med soddann Hætte smackar þu hvad sætur ad Drottenn sie; Ps. 34. so þeckest Sannleikurenn, so finnur madur þann eilijfa og allra hærsta Gooda. Pa kemst þu fyllelega ad þeirre Raun og so, ad eckert kann ad upphugast betra, ununarsamlegra, sætara, dyrmætara, og roosamlegra, helldurenn lijferned JEsu Christi, Ja eckert þad sem lijkara sie eilijfu Lijfe.

Enn þarsem þad er nuhid allrabesta Lijferne, so a þad og so ad vera oss hid allra hiartkiærasta? Hvarfyrer vilium vier þa ecke þetta framar øllu elska? Enn i hverium þeim manne sem Lijferned Christi er ecke, hann kann ecke ad vita, hvad ad sie Fridur og Rooseme eilijfs Lijfs, hver hellst ad sie sa hærste Goode, hvad eilijfur Sannleike sie, hvad ad sie sannarlegur Fridur og Fognudur, þad sanna Lioos, og sa sannarlege Kiærleike, sem er i Christo JEsu, þvi seger hinn Sæle Johannes 1. Pist. 4. Cap. Hver sem elskar, hann er af GUde fæddur, og hann þecker GUd; sa sem ecke elskar, hann þecker ecke GUd, þvi GUd er kiærleikurenn: Af þessu er auglioost, ad su nyja Fæding, sem er af GUde, med sijnum Avextum, og su nyja Hlydne, er ecke innefalen i eintomis ordum og utvortis

skine, helldur i lifande krapte, og andlegu Saalarennar edle, sem ætijd hefur med sier þa ædstu dygd, Elskuna, af þvi ad GUd er kiærleikurenn; þvi af hverium, sem einn er fæddur, þess hins sama Eigennlegleika hefur hann i sier, og sa sem segest vera af GUde fæddur, hann audsijne þad med kiærleikanum, þvi Gud er kiærleikurenn.

Eins er þvi og so haattad og vared um þa sønnu GUds kynningu, hun er ecke innefalen i einsømlum ordum og þeckingu GUds, helldur Lifande Krapte og Trwnadartrauste til hanns, hvar med ad fylger heilsusamleg astudleg, og krøptug hugsvølun; þvi madurenn smackar hid innra, fyrer Trwna, GUds Sætleika, og unumarsamlega Vingan, so þad er þa ein lifande og lysteleg þecking, sem hann hefur i Hiartanu a Gude, um hveria David rædir i Psalm. 84. segiande: Mijn Saal og minn Ande, gledur sig i þeim lifanda GUde. og i Psalm. 63. Betre er þin miskunseme, enn lijfed: Hier er utmaaladur sa lifande Fognudur, og sætleike GUds þeckingar, sem flooar yfer Trwad Hiarta; og so lifer madurenn um sijder i Gude og GUd i hønum; so þecker madurenn GUd rettelega, og verdur aptur af Gude þecktur.

## Cap. XII.

# Sann-Christnum manne byr-iar ad deya fra sier sialfum, og fra Heimenum, eñ lifa Christo.

2. Cor. 5.

Christur hefur fyrer alla daaed, so ad þeir sem lifa, lifde ecke sier sialfum hier epter, helldur þeim, sem fyrer þa hefur daaed og upp aptur rised.

Þesse grein er ecke alleinasta ein ypparleg Huggunar grein, sem vitnar klaarlega, ad Christur sie fyrer alla daaenn, helldur og einnig ein agiæt Lærdooms grein, um eitt heilagt framferde, og syner oss, ad vier eigum ecke ad lifa sialfum oss, helldur þeim sem fyrer oss er daaenn. Ef vier eigum nu hønum ad lifa, þa hliootum vier adur ad deya fra sialfum oss og Heimenum, þvi þad kann ei annars ad vera enn sa sem vill lifa i Christo, hann deyr fra Heimsens girndum, Enn ef þu setur þier ad lifa sialfum þier og Heimenum, þa kantu ecke ad hafa gagn af Hønum.

Enn þar er Þrennslags Daude til: Fyrst er andlegur Daude, þegar madur deyr sialfum sier, dag fra dege, þad er fra girndum sins hollds, Agirnd, Hofmood, Vel-lyst-

lystingum, Reide og þesskonar løstum Añar er naatturlegur Daude; Pridie er eilijfur Daude: Um þañ annañ Daudann talar H. Paall Phil. Cap. 1. Christur er mitt lijf og Daudenn er minn Avinningur. so sem hann segde; þo ad einn sann-Christen madur deye, þa er þo Christur hans Lijf, og Daudenn hans Avinningur, þviad hann ødlast þar med eitt betra Lijf og Rijkedæme, sem er þad eilijfa, i stadenn þess tijmanlega, og er honum þad stoor Abate. Enn þockenst nockrum ad hneigia Grein þessa, einnig uppa þann audlega Dauda fra Syndenne, þa ser hann ecke villt epter mijnum doome, þvi sæl er su Saal, hverrar lijf ad er HErrann Christur; þad er i hverre Christur lifer, edur su sem epterfylger Christi lijferne, þad er hans hoogværd og lijtelæte. Enn a þessum tijmum, hafa flester, þvi midur, iklædt sig Andskotans lijferne, so Diofullenn er þeirra Lijf, med þvi þeir hafa lyst til Agirndar, Drambseme, Sællijfis, Reide, Hædne, og annara þvilijkra lasta, sem er Diofulsins lijferne, verck og edlishætter.

Enn þu madur giættu ad þier med allre vareygd, gack þu athugasamlega, og skodadu vandlega, hver i þier lifer, þa verdur þu hinn allra farsælaste, og luckugefnaste ef þu matt friaalslega og fyrer vijst segia: Christur er mitt lijf, ecke alleinasta i ødru lijfe, helldur

og einnig i þessu lijfe: Ad viisu er þar stoor Naudsyn til, a medan þu hier lifer ad Christur sie þitt lijf, og Daudenn med þad siidarsta þinn avinningur, þvi hvernig kann nockud ad vera abatasamara enn þetta, ad deya fra Agirndenne, Drambsemenne, Lostasemenne, Neidenne, Hatrenu, og ødrum þvilijkum ødygdum, so ad i þier lifi aptur HErrann Christur; þvi so miked sem hver einn deyr Heimenum, so miked lifer Christur i hønum. Stundadu þessvegna þad, ad Christur life i þier tijmanlega, so þu lifer aptur i hønum eilijflega.

Hvar ad er stoor girnd epter þessum Heime, þar kañ eingeñ Fridur edur Rooseme ad vera, þarfyrer hlytur madur ad deya fra øllum Jardneskum Vellystingum, adureñ Christur skal lifa i hønum. Þetta kenner oss sialfur GUd med ymislegum Figurum gamla Testamentesens: Þegar Sara var fyrer alldurs saker daaens kvidar, og kvenn-leger Edlishætter voru horfner fra henne, þa vard hun friooßøm, og fædde Isaach, (hvert ord ad merker Hlaatur); Hun kunne ecke ad fæda þann frialsa kvinnu Son, fyrr eñ lijkame hennar var daudur fra Kennlegum girndum; Eins lijka hliota holldlegar girnder ad deya i þier, adur enn þu fær getnad, og fæder glede andans. Abrah-

Abraham var ecke fyrerheited gefed um Christum, ej helldur giørdur vid hañ Saattmaale um Umskurena, fyrrenn hañ var vikenn fra sinne Fooſtur-Jørdu, og skilenn vid sijna Arfleifd: Eins lijka er þvi vared fyrer manenum, so leinge sem hann hefur fastann hug vid Heimenn, þa er hønum omøgulegt i hiarta sijnu, ad smacka JEsum Christum med sijnum sætleiks ylm, og hann til sijn ad inntaka.

Sträx sem Herodes var daudur, kom HErrann Christur aptur i Gydingaland Matth. 2. Þetta er þannig til eptertekta: so leinge sem þitt Hiarta byr yfer þeim Ref, Herode, med hanns iardneſkum brøgdum og kyndugſkap, þa hlytur Christur ad vera landflootta, og fordast ad hafa sitt adsetur i þinne Saalu, Herodes hlytur vissu-lega ad deya, so ad þar med life JEsus i þier. So leinge sem Adam i þier Drottnar, kann Christur ecke i þier ad lifa. Hier fyrer vottar H. Paulus Gal. 2. Eg life nu ecke, helldur lifer Christur i mier, og til Coloss. 3. seger hann til lifande manna: þier erud dauder, og ydar lijf er huled i Cristo; Eñ þa er hver og eiñ sannarlega daudur, þegar hañ hætter ad vera þad, sem hann hefur vered, þad er þegar hanns Synd deyr i hønum. Ef vier

lifum i Andanum, þa gaungum einnig i andum; seger H. Paall. Rom. 6. Ecke er þad nog, ad gloosa miked med mørgum ordum af Trwnne og Andanum, helldur eiga ordenn ad beviisast i avextum og verkum. Til allra talar Postulenn Paulus Rom. 8. Ef þier lifed epter holldenu, munud þier deya, en ef þier deyded fyrer Andann verkenn Hollds sins, þa munud þier lifa.

Pad er skrifad um Saul son Kis 1. Sam. 15. ad hañ hafe hlyfst vid ad drepa Agag, Amalechita Kong, þañ honum byriade þo ad hoggva i sundur, epter GUds skipan og bode: so eru þar og einnig, þvi verr, heilmarger, sem næra og foostra heimuglega siinar girnder, hverium þeir attu þo ad fyrerkoma, og med øllum Rootum ad foreyda. Pad er ecke nog, þu farer kyrrt med þina vonda leste, þu hlytur þa aulldungis ad dempa og deyda, annars verdur þu drifenn fra Riikenu sem Saul, þad er fra eiliifu liife.

Øll H. Ritning med siinum Historium, Figurum og fyrermyndunum, bender oss þar til, ad vier eigum ad fylgia epter heiløgu HErrans Christi Liiferne. Ja su stoora Heimsens Bok, Naattwrann, vitnar og einnig þar um, med þvi hun setur oss fyrer sioоner GUd sialfann og hans Elsku til vor. Pad

eru margar manneskiur so giordar, ad þeim ma maklega samlijkia vid Vetrar eikur, sem þa eingenn bloð hafa, eñ fa þau aptur þegar vorar, og blyd-vidred kemur; Eins er þvi vared fyrer Hræsnurum; a medan Vetur motlætinganna geysar, hallda þeir inne Holldsins girndum, eñ so snart sem Sumar motlætisens fegrast aptur med sinne blydu, og þeim geingur allt ad oskum, þa hreifa sier hia þeim, og briootast ut hoopum saman ymislegar odygder; En eiñ Sann-Christenn madur er Froomur, bæde i Medlæte og Motlæte, hañ hefur GUD eins kiæran i lucku og Olucku, blydu og striidu, i ørbyrgd, og Auranægd.

Vier lesum i fyrre Bok Kongaña 20.cap. um Achab, ad Drottenn hafe gefed Kongenn af Syria i hans Hendur, so hañ slæe hañ i hel, til eins vitnisburdar þar um, ad GUD være sterkare, eñ aller hans Oviner, og hañ villde straffa þa riettviislega, sem lostudu hans Nafn: Eñ sem Achab hafde þennann siñ ovin i Orusteinne yferunned, kallade hañ, hañ siñ Broodur, og liet hann fara, þvi kom einn Spaamadur til hans, og sagde, af þvi þu lietst þann bølvada mann fra þier, þa skal þin Saal vera i Stadenn fyrer hans Saal. Motlijka kalla marger synduga leste, siina

brædur, laata þa lifa, kiaſſa þa og kræſa (ſem þeir ſkylldu þo deyda og drepa) og þar med meiga þeir ſialfer tapa ſinne eigenn Saalar velferd.

An Holldſins deydingar, kann hverke Bænen, nie nockurt verk gudrækninnar i Mannenum ad bwa. Þetta var orſøken fordum ad hærſtur Glld baud Skynlauſum Skepnum Daudaſtraff, ſem kiæme nærre Sinai fialle þvi heilaga, Exod. 19. Hvad miklu framar ſkylldum vier þa deyda i oſſ beſt-iulegt athæfe og giørder, ef vier vilium upp-ſtijga a Gllds Heilaga Fiall, Bæner fyrer honum ad framflytia, og Ord hans ad grun-da, enn ef vier giørum þad ecke, þa mun ſa eilijfe Daude yferfalla oſſ.

I Skopunar Bok 32. Cap. leſum vier, ad þegar Jacob glijmde vid Eingelenn, var honum gefed nytt nafn Iſrael, (ſem þyder Høfdinge Gllds) og hann kallade Stadenn Pniel, af þvi hann hafde ſied Gllds Auglit; enn adur hiet hann Jacob (þad merker Foot-trodara). Þetta dæme ſkalltu ſo athuga: Ef þu foottredur ecke adur þinar raangſnwn-ar og vondar girnder, fyrer Heilagann An-da, þa kantu alldrei Iſrael, edur Gllds Høfd-inge ad verda, og til þeſſ ſtadar Pniel, edur auglitis Drottens ad komaſt.

Þeg-

Þegar hinn same Forfader Jacob, vill=de fa ad nioota þeirrar dæelegu Jung=frwr Rachelar, þa vard hann adur ad taka til egta þa augndøpru og ofrijdu Leam; eins lijka ef þu villt vera su daafrijda Rachel i auglite þins Himneska Jacobs, þad er, ef ad þin Saal a ad vera hiartanlega kiær Brwdur JEsu Christi, so sem Rachel var Jacobs, þa hlytur þu fyrst ad vera Lea, þad er, þu maatt mis þock=nast sialfum þier, vera sialfum þier leidur og gramur, þu matt forakta sialfann þig, enn hvad marger verda, þvi midur, a taalar dregner, sem Jacob, og meina þeir hafe sodd=ann eitt Christelegt Lijferne, soddann eina daafrijda Rachel, sem GUd mune elska, enn nær þeir gaa grant ad Sannleiknum, þa siaa þeir, ad þeir hafa sængad med þeirre lioottu Lea, þad er, ad þeirra Lijferne hefur vered slæmt og herfelegt fyrer GUds Augum. Þar=fyrer skal oss þar um fyrst og fremst hugad ve=ra, ad vier, yfer allt fram, sieum lijtelsverd=er i vorum Augum, so sem Lea var hin oa=siaalegasta i sijns Fødurs hwse; lærum aud=mykt, Hoogværd og Polenmæde, so verdur hver af oss um sijder su dæelega Rachel. Fyr=er hennar skulld þioonade Jacob i heil Sio Ar trwlega, og fannst hønum erfidis þungin liettbær, so og einnig tijmaleingden, af Ast

þeirre, sem hann hafde a henne: So hafde JEsus Christus Trygda-brwdgumenn vorra Saalna, þann þyngsta og hardasta þrældoom i þessum Heime 33. Ar vegna vor. So sem þar stendur, Matth. 20. Mannsens Sonur kom ecke til þess, ad hønum være þioonad, helldur ad hann þioonade, og giæfa sitt Lijf til Endurlausnar fyrer marga. Þvi skylldum vier þa ecke hiartanlega elska þennann brwdguma Christum, og afneita Heimsens girndum, sem hønum eru møtstædelegar.

## Cap. XIII.

## Sier hver Christenn madur a Fwslega ad deya sier, og Heimenum, vegna Christi Kiærleika og eilijfrar Saaluhiaalpar, til hverrar vier erum Skapader og Endurleister.

2. Cor. 8.

Þier vited Naad vors Drottens JEsu Christi, ad þo hañ sie Rijkur, vard hann þo Faatækur ydar vegna, uppa þad þier yrdud fyrer hans fatækt auduger.

Fyrer saker þins Drottens og Frelsara JEsu Christi, attu ad deya fra sialfum þier, fra

fra Syndunum, og fra Heimenum; þu att ad giora þad ſem gott og riettviiſt er, og lifa Heiløgu og flecklauſu liiferne: Sannlega ecke þar uppa, ad þu þar med forþiener nock-ud, þvi Christur hefur þier allt gott forþien-ad, helldur a þetta ad ſke af einlægre elſku, og hiartans Aſt til hans, og af þvi, hann leid Daudann fyrer þig. Enn elſker þu Christ-um, þa attu ecke ad eins ad elſka hann med Orde og Tungu, helldur og einnig med Verke og Sannleika; ef þu elſkar hann, þa attu ad hallda hanns Bodord, ſo ſem hann hefur þier kent, Joh. 14. *Ef nockur elſkar mig, hann vardveiter min Ord, og Fader minn mun elſka hann, og til hans munum vid ko-ma, og viſtarveru hia hønum giøra.*

Og þetta er Kiærleikurenn til GUds, ſeger Johannes, ad vier geimum hans Bodord og hans Bodord eru ecke þung, 1. Epiſt. 5. Og Frelſarenn ſialfur vottar, Matth. 11. *Mitt Ok er ſætt, og min Byrde er liett;* ſem villde hann ſegia: þeim ſem Christum riettelega elſka, er þad Hiartans Lyſt og glede ad giora þad gooda. Elſkan giorer alla hlute lietbæ-ra, og verdur alldrei þreitt; Eñ þeir ſem ecke umfadma Christum med Elſkunne, giora ecke neitt gott, nema med Ovilia, leidendum og tregleika, þeir kunna ecke nema med erfid-iſmunum ad giora hid gooda; enn Aſtvin-

ur JEsu Christi, gledst iafnvel af þvi, ad hann ma lijfed utleggia fyrer hann. Postulenn H. Paall seger til Phil. Cap. I. Oss er ecke einasta gefed ad trwa a Christum, helldur og einnig ad lijda og deya fyrer hann. Giæted ad Moise um hvern Postulenn seger i Pistl. til Heb:.11. Cap. v.24. Fyrer Trwna villde Moises ecke leingur, þa hann giørdest stoor, kallast Dottur Sonur Pharaonis v.25. kioosande helldur ad þvijngast med Foolke GUds, helldur enn hafa stundlegt Epterlæte Syndarenar v.26. Og hiellt Christi Vanvirdu fyrerstærre Rijkdoom, enn Egyptalands Fiesioodu, þvi hann leit a Launenn.

Athuged Epterdæme Danielis Cap. I. Hvernig hann var, med sijnum Stællbrædrum, burttekenn ur tolu þeirra Herleiddu og skickadur i Kongsins Þienustu, þar ad auke uppfoostradur med Mat og Dryck af Kongsins Borde, þangad til hann var hæfelegur til þess Embættis, sem hann var uppalen til, enn hann matte lijtels þessa Vellysting, asamt med sijnum Felogum, og bad Droottsetann, ad þeim mætte helldur gefast Alldine til Fædslu, og Vatn til Dryckiar: Soddan verkade hia þonum og þeim, su Elska sem þeir hofdu til Spekinnar, ad þeir mættu i sijnum Hiortum upplyster vera af þeim Himnesku Vijsdoome. Taktu þig þessvegna i vakt, þu Christenn madur, so ef þu villt giarnan ødlast ad

Herr-

Herrann Christur, sem er Fodursins eiliif Speke, sie til Herbergis i þinne Saalu, þa laattu það vera þiñ alvarlegasta asetning, að þu hallder þig fra holldlegum girndum, so sem ødrum kræselegum Riettum: Þvi so sem þeir ungu sveinar urdu enn alitlegre, þegar þeir hielldu sig sparsamlega, og i stille, med aldine og vatn, til að gledia Naudsyn naatturunnar; so mun og einnig þin Saal verda fyrer augum GUds hin daafrijdasta, og iafnvel hanns guddoomlegrar naattwru hluttakande, so sem H. Petur seger i Ødrum Pistle Cap. 1. Ef þu hellldur þier fra Syndum og holldlegum girndum.

Postulenn Paulus seger, Gal. 6. Heimurenn er mier Krossfestur, og eg Heimenum: Það er: Eg er daudur fra Heimenum, og Heimurenn fra mier: Epter hans dæme eru þeir Sann-Christnu að sonnu i Heimenum, þeir lifa i Heimenum, enn loda ecke i Elskunne til hanns, ecke sinna þeir Heimsens Hoffrakt, Epterlæte, Virdingum, Fysn Holldsins, Girnd augnanna, og Drambsømu Lijferne, helldur reikna þeir allt soddan faanytt, so sem Skugga og einskis verdt: Med soddan mote er Heimurenn þeim Sann-christnu Krossfestur og Daudur, og þeir Heimenum; Það er þeir hallda fyrer þreck Heimsens

sens virdingar, Audlegd og Vellystingar, so þeir hafa Christum til Avinnings.

O! hvad margfalldlega er þad hiarta farsælt, sem af Gudlegum Naadarstraumum er so yferhellt, ad þad hefur einga lysting til Heimsens Audæfa, Vegsemdar og Vellystinga; þarfyrer skyllde hver einn Christenn madur bidia GUd oaflaatanlega þarum, ad hann af sinne Naad villde gefa sier soddan Sinnislag.

Sa vijse Kongur Salomon seger i Ordskvida Bok 30. Cap. Tveggia hluta bideg þig Drottenn, ad þu vilier ecke sinia mier, adur enn eg dey: Afguda dyrkun og lygar laat þu vera langt fra mier; Faatækt og Rijkdoom gef mier ecke, enn laattu mig hafa minn deildann matar verd. Sann-Christenn madur ma bidia med sama slag, sinn GUd dags daglega, seigande: Um tvo hlute bid eg þig Drottenn, ad eg gete daaed sialfum mier og Heimenum: Nema menn gete og giøre þetta, þa er þeirra Christenndoomur einsomul Hræsne; hvarfyrer Herrann vill segia til þeirra eg þecke ydur ecke. Finnest nu Holldе og Bloode þetta beiskur og straangur Kross, sier sialfum og Heimenum ad deya; þad er: lijtels ad virda allt þad sem i Heimenum er, so ad madur naae sinne Arfleid a Himnum; þa yfervinnur þo Andinn og Elskan

an til Christum þad allt saman; þad verdur Andanum sætt Ok, og liett Byrde. Og þo ad slijker menn, sem eru dauder fra veralldlegum girndum, hafe a sier Heimsins Hatur, þa eru þeir samt af Gude elskader; þvi ovinaatta Heimsens, er Vinaatta hia Gude; og þar þvert a mote, Vinskapur GUDS, er Heimsens ovinskapur; þarfyrer hverhellst sem vill vera Heimsens vinur, hann verdur GUds ovinur, seger hinn Sæle Jacob Cap. 4. og sialfur Christur vottar þetlega, Joh. 15. Ef þier værud af Heimenum, þa elskade Heimurenn þad hanns være; enn fyrst þier erud ei af Heimenum, helldur hefe eg utvaled ydur af Heimenum, þarfyrer hatar ydur Heimurenn. Heimureñ er lijka sem Siooar hafed, sem lijdur einasta i sier lifande Skepnur, eñ hinu sem daudt er, og ecke hefur Lijfs Anda, þvi kastar þad og skyrper wr sier, so skwfar Heimurenn þeim fra sier, sem eru dauder fra hanns naatturu, og i gegn þeim er hann andvijgur; enn hina hefur hann i Haavegum, sem frambruna med Fordildar haattum, drambe, yferlæte og miklu Skraute. Þeir eru Heimsens elskuleg Born.

Stuttlega ad segia: Sa sem er kommenn so langt, ad hañ i sijnu Hiarta, er daudur fra Drambseme, Agirnd, Vellystingum, Reide, Hefndargirnd, og ødrum þvilijkum odygdum, og lætur þær ecke drottna i sier,

þeim

þeim hinum sama er Heimurenn daudur, og hañ Heimenum; Hañ lifer i Christo og Christur i honum. Þarfyrer hverier hellst, sem so eru, þaa þecker Christur Fyrer sijna, eñ til hiña annara mun hañ tala a Doomsdege: ecke þecke eg ydur, sem villde hann segia: þier kønnudust ecke vid mig fordum, helldur skomudust þier ydar fyrer mitt lijferne, mitt lijtelæte, mijna Hoogværd, og þolennmæde, þarfyrer skamast eg nu mijn fyrer ydur; þad er meiningen, sa sem hier i Heime hirder ecke um ad lifa med Christo, hann fær ecke ad lifa med honum annars Heims, og þess manns Heilagleike sem Christur hefur hier ecke vered, þess Saaluhialp verdur hann ecke sijdar i Eilijfdenne.

Gief nu giætur ad vandlega, hverium þitt lijferne hellst lijkest, og sameinast i þessu lijfe, Christo edur Dioflenum; þvi þeim hinum sama skalltu epter Daudann samteingdur vera um alla eilijfd. Sa sem sialfum sier deyr, hann kann sijdan audvelldlega Heimenum ad deya, enn ad deya fra Heimenum, er ad elska ecke Heimenn, nie þad sem i hønum er epter þvi sem þar stendur 1. Joh. 2. *Sa sem Heimenn elskar, hann er ecke af Fødurnum, helldur af Heimenum.* Hvad hirdir sa um Heimenn, sem hid innra og i

Hiart-

Hiartanu er honum daudur? Og hver sem Heimenn elskar, verdur fliott af honum underokadur, so sem Samson og Dalila, og maa þvi lijda allar þær Sorger og kvalningar sem Heimuren med sier fœrer. Elskan Heimsens heyrer til þeim Gamla Mannenum, enn ecke þeim Nya. Þvi Heimurenn er ecke neitt annad, enn Heidur, audæfe, vellystingar, Girnder holldsins, fysn augnanna og drambsamlegt lijferne: og i þessu hefur sa gamle Adam sijna Vellyst og Epterlæte; enn sa nye hefur alla sijna Glede i JEsu Christo alleina; Christur er hans fognudur, æra, ynde, og epterlæte.

GUds mynd sem er fyrer Christum endurnyud, er manne hin stærsta Pryde og begsemd, epter henne skulum vier helst stunda. Skyllde sa Astudlege og ununarsamlege GUd, ecke kunna betur ad gledia þig og forlysta, enn skapadar skepnur, sem eru fordiarfadar? seger Taulerus riettelega. So kenner oss Ritningen, ad madurenn sie ecke skapadur vegna Heimsens, helldur Heimurenn vegna mannsins; madurenn er ecke skapadur til þess, ad hann hallde sig kræselega, hafe allt Epterlæte og bijlijfe, safne saman audæfum, hafe stoor Volld, mikenn Rijkdoom, Eigner, Goods og garda, hafe tijguglegann Klæda-

bwn-

bwnad, med fordild og Ohoofe, rake saman Gulle, Silfre og Gersemum. Ecke er madurenn kommenn i Heimenn fyrer saker nockra tijmanlegra, og forgeingelegra hluta, hvad yppar leger sem þeir kunna ad vera, eda til þess, hann skule vera æfennlegur Innbyggiare, og Erfinge Jardarkringlunnar, og hafa alla sijna Unun, lyst og glede i henne, so sem i annare Paradis, og vona ecke neins, nie þeckia neitt annad, enn þad sem hann sier fyrer augunum; til soddan er madurenn ecke skapadur, og ecke lifer hann hier fyrer þa skulld; þvi vier hliootum vid þetta allt ad skilia, og høfum hier eingann blijfanlegann Sama-stad; og þo vier fædustum i þennann Heim hoopum saman, þa tekur daudenn oss i burt aptur med eins miklum fiøllda; vier verdum hiedan af hønum med vallde burtdrifner, og hann leifer oss ecke ad taka eitt Sandkorn med oss, af øllu þvi sem vier høfum haft hier under høndum. Af øllu þessu er degenum lioosara, ad vier erum ecke skapader til þessa tijmanlega lijfs, og Heimur þesse er ecke Høfud-orsøk til vorrar Skøpunar; þvi ef þad være af Gllde ødruvijse alyktad, þa hielldum vier hier vid stødugléga; enn fyrst vier meigum aller i burtu hiedan, þa maa þad, an alls efa, hafa sked, fyrer ann-

annann Tilgaang, ad vier erum komner i þennan Heim: Lijka so bevijsar þad klaarlega vor Upprune, sem ad er sialfur GUD, og Mynd GUds, hveria vier berum i Christo JEsu, og til hverrar vier erum endurnyader; þad sama syner þad, ad vier erum allra hellst skapader til GUds Rijkis, og vegna eilijfs Lijfs, til hvers vier og einnig erum af Christo endurleyster, og endurfædder fyrer Heilagann Anda.

Hvilijk Faavitska er þa þetta, ad lijma sitt Hiarta vid þad tijmanlega, og þvinga sijna Saalu med þessum Heime? Madureñ er þo ætladur og kalladur til þess, sem er langtum betra: so er og Saala mannsins þusundsinnum ædre og veglegre eñ allur Heimurenn. Madurenn er a medal allra synelegra Skepna sw allra ypparlegasta, af þvi hann ber i JEsu Christo Mynd GUds, og er til hennar endurnyadur, hverrar dijrmætur verdleike er so mikell, ad allur Heimurenn med øllum sijnum Rijkdoome, og aller menn med øllum sijnum efnum og kroptum hafa ecke kunnad einasta eina Saal ad endurleysa, eda GUds Mynd henne aptur ad bæta; helldur hlaut Christus JEsus þessvegna ad laata sitt Lijf, ad su Mynd GUds sem var afmaad og topud, endurnyadest aptur i mannenum fyrer

Heilagann Anda, og madurenn mætte so aptur verda GUds Herberge, Hws og Bwstadur.

Skyllda eg nu virda mina Saalu so lijtels, hveria Christur hefur med so dyru verde keypt, ad eg gefe hana fyrer eina Handfylle af Gulle og Silfre, fyrer þessa Heims Rijkdoom og Vegsemd, eda fyrer vellysting mins Hollds? þad sie langt fra mier, þad vil eg med GUds Hiaalp alldrei giora, þvi ecke være þad annad, enn at kasta Perlum fyrer Svijn, nidur i Skarned. Hvad Christur sialfur og so meinar, þar hañ seger Matth. 16. Hvad stodar þad mannenn, þo hañ eignest allann Heimenn eñ lijde skada a Saalu sinne. Af þvi Saalen mannsins er odaudleg, enn Heimurenn forgeingelegur, þa megnar hann ecke ad endurkaupa eina Saal, þo allt hans fordildar Foruneyte fylgest ad.

## Cap. XIV.

## Ad Sann-Christnum manne byrie ad forakta Heimenn, epter Dæmi Christi, og sitt Lijf i þessum Heime ad hata.

Luc. 14.

Ef nockur kemur til mijn, og hatar ecke sitt Lijf, hañ getur ecke minn Læresveinn vered.

Joh. 12.

Sa sem elskar sitt Lijf, hann tijner þvi; og sa sem hatar sitt Lijf i þessum Heime, hann vardveiter þad til eilijfs lijfs.

SA sem sialfann sig vill hata, hønum byriar fyrst þar um ad huxa, ad hann elske ecke sialfann sig; þar nærst ad hann deye dags daglega fra Syndunum; i sijdasta maata ad hann strijdi sijfelldlega vid sig sialfañ þad er vid sitt eiged Holld. Þeim manne sem um sijna Saaluhiaalp er hugad, er eckert haaskalegra, edur hindrunar meira, enn elska sig sialfann: Enn ecke a þetta ad skiliast, um þann rietta og naatturlega Kiærleika, til ad hallda vid sialfs sijns Lijfe, helldur þann raanga Holldsins Kiærleika edur Philautiam, fyrer hvern madurinn helldur af sier oskickanlega, annadhvert meira enn af øllu ødru, edur eins miked sem af øllu ødru; og þannig a þesse straffsverda sialfselska, ad skiliast i allre þessare Bok. Eingenn hlutur a ad elskast um fram allt, nema GUD alleina: Elski nu madurinn sialfann sig fram yfer allt, þa

giører hann ſig ad GUde, og er ſialfur ſinn eigenn GUd.

Hvad hellſt af Jardneſkum Hlutum ſem madurinn elſkar fram̃ yfer allt, med þad er hann anægdur, og þar er hanns hiarta faſt vid, ja þad ſama hertekur manninn, giører hann ad ſijnum Þræl, og ſvipter hann ſijnu agiæta Frelſi: So marga Jardneſka Hluti ſem þu elſkar øllu framar, ſo margra hluta Þræll og Faangi ertu. Enn ef þijn elſka er alldeiles hrein og einlæg til GUds, ſo ad þu elſkar hann fram̃ yfer alla hlute, þa hefur alls eingenn faangad þig, helldur ertu ad øllu leite frij og friaals. Hier fyrer ſkalltþu ſiaa þig vel fyrer, ad þu girneſt ecke neitt, ſem þier kann Hindrun ad giøra i GUDS Kiærleika. Ef þu girneſt ad eiga GUD ad øllu lejte, þa ber þier, þig allann hønum ad gefa: Enn ef þu elſkar þig ſialfann, og hefur meſta þocknun a ſialfum þier, maattu og ſo hafa, mikla Sorg, Otta, Sturlun, og mæd-uſom umſvif fyrer ſialfum þier; Enn elſker þu GUd, ſo þu hafir þina unadſemd i hønum, og varpir þu allri þinni Ahyggiu uppa hann, þa vill hann bera alla Um̃ſorgun fyrer þier, þig hæfer þa hverke Hrygd nie Otte. Ein manneſkia ſem i øllum hlutum elſkar ſialfa ſig, og ſtunᷘdar alleinaſta ſitt Gagn, Heidur

og

og Lof, hun kemst alldrei til Nooleg heita, þvi allt iafnt fellur eitthvad uppa sem hun sturlast af, þarfyrer er þier þad ecki allt gott, sem kann ad efla þig i Rijkedæme, giora þier miked Nafn og stoorar Virdingar, helldur er þad gott fyrer þig, ad forsmaa slijkt allt, og ad uppræta Root Girndanna, sem so mikelega hindrar þig i Elsku GUds.

Allt þitt eiged Gagn, Hroos og Virdingar, eru asamt med Heimenum hverfular og fallvalltar, enn kiærleike GUds varer ad eilijfu. Su Rooseme, Fridur og Unadsemd, sem kemur af Elsku til sialfs þijns, edur jardneskra Hluta, varer ecke leinge, hun kann a Augabragde ad umbreitast; enn þar sem Hiartad hefur sijna Hvijld i Gude, og er inntiked af Elsku til hans, þar er eilijfur Fridur. Hvad hellst ecke kemur af Gudi, þad hlytur ad forganga; þarfyrer gef giætur ad þessare Reglu sem er stutt: Yfergef þu alla Hluti so finnur þu fyrer Trwna alla hluti, þvi ecke finnur sa GUd, sem sialfann sig og Heimenn elskar.

Orietteleg Sialfs-elska er jardnesk, og ecke af GUde. Eigenn-Kiærleike hindrar þa Himnesku Speke, þvi sa sanne himneske Vijsdoomur, helldur ecke mikid af sialfum sier, og sæker ecke epter þvi, ad hafa stoort nafn

og alit a Jordunne; og þessvegna er hann halldinn lakur og lijtelsverdur Hlutur i Heimenum, og er nu ad mestu gleimdur, iafnvel þo þad verde margt um hann talad og predikad; þvi þar sem menn eru laangt fra soddan i Lijfi og Fram̄ferde, og giora ecke epter þvi sem kēnt verdur og predikad, þa verdur þesse himneska Speken, so sem ønnur hulin Perla, sem faar manneskiur vita nockud af ad segia:

Ē vilier þu hana riettelega þeckia, og hennar niootande ad verda, þa maattu yfergefa mannleg Vijsende, Giedþeckni a sialfum þier, og o-tilbærelegann Eigenn-Kiærleika, og muntu i stadenn fyrer þann Jardneska Vijsdoom, ødlast þa Himnesku og gudlegu Speke, sem er ad sønnu faanyt og lijtels verd fyrer Heimenum, enn fyrer GUde miøg tignarleg og eilijf.

Omøgulegt er þier ad elska GUd, nema þu hatir sialfann þig, þad er, hafir þu oged a sialfum þier, fyrer drygdar Synder, Krossfestir þitt Holld og deyder þinn eigenn Vilia. Þess innelegar sem hver einn elskar GUd, þess helldur hatar hann sijna eigenn Spilling, og krossfestir sitt holld med þess Girndum og Tilheigingum; og þvi leingra sem þu gefur þig fra sialfum þier, og Elskunne til sialfs

ijns

þijns, fyrer Krapt GUds Anda, þvi meir naalægist þu GUd og hans elsku fyrer Trwna; þvi so sem sa ytre Fridurenn kemur þar af, þegar madur girnest ecke neitt hid ytra, so komum vier til GUds, þegar vier hid innra yfergefum, allt þad sem er faanytt og forgeingelegt, og Hiartad vort er vidskila vid skapadar Skepnur, og einum Gude ahangandi. Enn sa sem sialfum sier vill afneita, hann ma ecke fylgia epter sijnum eigenn Vilia, helldur Herranum Christo, sem seger, Joh. 14. Eg er Vegurenn, Sannleikurenn og Lijfed. Ef menn fara af Vegenum, villast þeir; an Sannleikans þeckia þeir ecke neitt riettelega; an Lijfsins kunna þeir ecke ad lifa: Þarfyrer er þad meining vors Herra: Horfed a mig, Jeg er Vegurenn, vid hvern þier eiged ydur ad hallda; Jeg er Sannleikurenn, hverium þier eiged ad trwa; Jeg er Lijfed, hveriu þier eiged ad lifa, og vona uppa; Jeg er sa Vegurenn, sem alldrei forgeingur; sa Sannleikurenn, sem alldrei prettar; Jeg er þad Oendanlega eilijfa Lijf; Jeg er sa beinaste Vegur til þess odaudlega lijfsens, fyrer mina Forþienustu; sa ædsti Sannleike i minum ordum; þad eilijfa Lijfid fyrer miñ Dauda, og krapt minnar Uppristu. Ef þier hallded ydur a þessum Vege, þa leider Sannleikurenn

enn ydur til eilijfs Lijfs. Vilied þier nu ecke villt fara, þa fylged mier epter; vilied þier Sannleikann þeckia, þa trwid mier; vilied þier eignast eilijft Lijf, þa huggid ydur vid minn Dauda.

Eñ hver er nu þesse ohullti Vegur, þesse Sannleikur, þetta edla obrigdula agiæta Lijf. Vegurenn er JEsu Christi dyrmæta Forþienusta, Sannleikuren er Christi heilaga Ord, Lijfed su eilijfa Saaluhialp. Ef þu girnest ad vera upphafenn i Himenenn, þa trwdu a JEsum Christum, og vertu audmiwkur i Heime þessum, so sem hañ audmykte sig; þad er sa riette Vegur. Vilier þu ecke vera svikenn af Heimenum, þa um̃fadma hanns Ord med Trwnne, og fylg þvi epter med heilögu Fram̃ferde; Þad er Sannleikurenn, ef þu girnest ad lifa med Christo, þa ber þier ad deya fra Syndunum, og verda ny Skepna med honum, i honum, og fyrer hañ; og þad er Lijfed. Þannig er Christur Vegurinn, Sañleikurinn og Lijfid, bædi i sinne Forþienustu og med sijnu Epterdæmi. Vered Christi Epterbreitendur, sem elskuleg Børn seger H. Paall Eph. 5. Laatum oss þarfyrer leggia alla Stunden a, med stærstu Kostgiæfne, ad vor Lifnadur verde sem allra lijkastur JESU Christi haablessada Lijferne; þvi þo þar være eckert ann-

annad til, med hveriu þeir Fals-Christnu, kynnu til baka ad rekast, sem eru einasta ad nafnenu Christner, þa mætti Epterdæmi Herrans Christi þar til nægia. Eiñ Christenn madur ma skammast siin ad lifa i Sælliife og Vellystingum, þar Drottenn vor JESUS Christur hefur framleidt sitt Lijf i Eymdum og Harmkvælingum allt til dauda. Enginn Goodur og trwlyndur Striidsmadur er so sinnadur, ad hañ gleime ecke allre Gladværd og Lysteseme ef hañ horfer uppa þad, ad siñ Foringi er ad beriast allt i daudann. Siaaer þu þiñ Herra i Forsmaan og Haadungu, eñ stundar epter Æru og Vegsemd, þa er þad viist Teikn þar til, ad þu þioonar ecke trwlega under hans Merkium. Aller vilium vier heita Christner, enn þeir eru so faair, sem vilia breita epter Christi Lijferne. Kynni nockur þar med ad verda vel christenn, ad hann stundade epter Riikdoom, og faanytum Virdingum, þa hefde Frelsarenn vor, alldrei skipad, ad virda soddan lijtels hia eiliifum Giædum. Giættu ad hanns Lijferne og Lærdoome, og muntu strax merkia, hvad oliik þau eru Heimenum. Æ! su Satan, sa Stallurinn, þeir Reifarner, sem hann brwkade, voru þeir ecke klaar Speigell þar uppa, ad hann sinnti ecke Heimsens Hoffrackt?

Nu vitum vier, han kom ecke til þess ad hañ leidde þig afvega, med sijnum Epterdæmum, helldur ad hañ bædi, med sijnum Lærdoomi og þeim, færdi þig a Veg Saaluhialparennar: Þarfyrer hroopar hann, og segist vera Vegurenn og Sannleikurinn. Og af þvi hønum þocknadist ad inngaanga i sijna Dyrd, fyrer Forsmaan og Hørmungar, þa fylger þad a epter, ad þu stefnir Leidena til Helvijtis, med þvi ad sækia epter Metordum og Vegsemd þessarar Veralldar. Snwdu þvi aptur af þeim Breida Vegenum, og gacktu hanns Veg, sem ei kann ad fara villt; fyllg þeim Sannleika, sem ei kann ad pretta; og lif þu i hønum sem er sialft Lijfed.

O! þann hrædelega Blindleika: Ad eñ ormur, einn vesæll Jardar-madkur, keppest vid ad giora sig so stoorann, enn Drottenn Dyrdarennar lijtelæckade sig sialfviliuglega i Heimenum. Þarfyrer, trwud Saala, nær þu sier þinn Brwdguma, þann himneska Isaach, koma a mote þier footgaangande, þa maattu skammast þin ad rijda mote hønum a einu haau Cameldyri. Þad soomir miklu betur ad breita epter Rebeccu, þvi þegar hun saa Isaach, fyrervard hun sig, stie fliootlega nidur af Ulfalldanum, hulldi sitt Andlit og kom a mote hønum gaangande, so skalltu hid snarasta

sta stygia nidur af Cameldyri þins Hiarta, og i stærstu audmykt koma a fæte, a mote þijnum Brwdguma JEsu, og mun hann med storre Naadar-elsku, breida ut baada arma a mote þier, taka þig i fadm, og leida þig i þad Herberge, sem hann hefur mesta þocknan a.

Gack þu ut af þinu Fødurlande, og þins Fødurs hwsi, og kom þu i þad land, sem eg mun vijsa þier, sagde GUD til Abrahams Gen. 12. Gack þu, o! Christenn manneskia, og so fra þijnum eiginn Kiærleika, og Lystehwse þins eigenn Vilia, þvi Sialfs-Elskan dæmir ranglega, forblindar Skilningenn, hrekur Viliann afvega, saurgar Samvitskuna, og lokar aptur lijfsins Porte; hun kañast hverke vid GUD nie Naaungann, utrekur Dygdernar, situr epter ad hafa Virdingar og Vegsemder, sæker epter audlegd, og er soolgin i Vellystingar og Sællijfi og hefur Heimenn i meira Alite, helldurenn Himineñ. Sa sem elskar sitt lijf, hañ glatar þvi Joh. 12. eñ hver sa sem sitt lijf hatar (þad er afneitar sialfum sier) hañ mun vardveita þad til eilijfs lijfs. Sialfs-Elska er Root til Jdrunarleysis og eilijfrar Glotunar, so ad þeir, sem ad eru druckner af Sialfs-Elsku, Virugirnd og almanna lofe, þeir eru fyrer utan Lijteleted, og þecking sinna Synda: þarfyrer sa þeir einga fyrergefning Syndanna, þo

þeir

þeir leitudu heñar med miklum Taarafollum/ þvi þeir graata meir yfer sijnum Motgange/ enn þvi/ ad þeir hafa styggt Gud: J þeirre Meiningu stendur um Esau/ ad hañ hafe eige fundid Jdran/ þo hann hafde leitad hennar med graatande Taarum. Hebr. 12. Þvi hañ var ecke hugsiwkur um Guds Naad og Synd-anna Fyrergefning/ helldur um Vidrietting sijns tijmanlegs Skada.

Hia Matth. 13. stendur/ Himna Rijke er lijkt þeirre Perlu/ saker hverrar einn kaup-madur sellde allt hvad hann hafde/ og keypte þa sømu Perlu. Hier af maa skilia/ ad ef madur vill ødlast þa Himnesku-Perluna/ sem er Gud sialfur/ og þad eilijfa Lijfid/ þa maa hann þarfyrer setia allt i vogun/ yfergefa allt þess vegna i sijnu Hiarta/ og reikna þad allt hia þessare Perlunne lijtels og einskis verdt. Christur kom af Himnum ofan/ ecke til ad leita ad sijnu/ helldur voru Gagne/ og Abata Luc. 19. Hvarfyrer leitar þu þa ecke epter honum alleina/ sem segiast maa ad hafe forgleimt sialfum Sier/ og gefed sig ut fyrer þig? Einne riettsinnadre Brwdur/ er þar mest umhugad/ ad hun gediest eingum/ utan sijnum Brwdguma: hvernig kemur þad þa til/ ad þu/ sem ert Brwdur JEsu Christi/ ert gefenn fyrer þvi ad þocknast Heimenum? Su Saala er hreinferdug Christi Brwdur/ sem

sem ecke elskar neitt i Heimenum, utan Christum alleina fram̄ yfer allt. Taktu þessvegna fyrer þig þad hollasta Raad, sem er ad sinna eingu ødru i Heimenum eñ honum einum, so Brwdgume þiñ virde þig sinnar Elsku, og hañ fadme þig ad sier med sijnum Astar ørmum. Sw ast sem ecke virder Christum i øllum hlutum fram̄ yfer allt annad, er sem ein Hoorkona; eñ ecke hrein Jungfrw; Eñ eins Christens manns Saal a ad vera skijrlijf Mey: Þeir eru ofleckadar Meyar, sem fylgia epter Lambenu, hvert sem þad fer, so sem þar stendur Apoc. 14.

Þad finnst bijfalad i Moisis Løgmaale, ad þeir yppurstu Prestar, sem voru Christi Fyrermyndan, skylldu taka sier Jungfrwr til egta Lev. 21. Christur er sa riette Hofud prestur, hann vill hafa þa Saalu kiæra, sem er ein Jungfrw, og ecke elskar neitt i Heimenum, Ja ecke sig sialfa til jafns vid hann, helldur hañ alleina yfer alla hlute: þarfyrer seger vor HErra Luc. 14. Ef nockur kemur til mijn, og hatar ecke allt annad, og þar til sitt eiged Lijf, hann getur ecke minn Læresveinn vered.

Ein manneskia a ad hata sig sialfa: Enn hvad er ad hata sialfann sig? Þar til svarast a þennann haatt: Vier berum aller i vorum bar-

barme, þann Gamla Mannenn, erum og einnig sa Gamle Madurinn med Syndareñar Vondsku, sem vid oss haanger, so leinge vier lifum; hvers naattura og eigennlegleike, ad ecke er neitt annad, enn ad giora illa, styggia Gud, hafa Velþocknan a sialfum sier, stunda sijna eigen Æru og nytsemd, laata epter Holldenu; þvi holld og blood yfergefur ecke sijna vondsku, þad elskar sig sialft, heidrar sig sialft, og hroosar sier, þad sæker epter sijnu Gagne i ollu, og hirder ecke neitt um þad, þo adrer hafe þar af Skada, þarf lijted til ad reidast, er øfundsiwkt, hatursfullt, laangræked, Hefndargiarnt, og i ødru soddan vidurstyggelegt. Og þetta allt samman erum vier sialfer epter Spillingu vorrar Naatturu, giorum þad sialfer, og þad kemur af voru Hiarta, so sem Christur vottar Matth. 15. Þess vegna eigum vier, ad hafa Hatur a sialfum oss, þad er vanart og vondsku þeirre, sem i oss rijker; vier eigum einganvegen ad hafa Velþoocknan a soddann Løstum, helldur Vidbiood, dempa þa og krossfesta; vier eigum ad temia og þvinga sialfa oss, og þvilijkar vondar Girnder og Tilhneigingar, leggia litla Virding a oss sialfa, afneita oss sialfum, og skilia oss vid alla osk ickanlega Sialfs-elsku. Þetta heiter nu ad hata sialfann sig, og sitt

eiged

eiged Lijf, ef vier vilium vera Christi Lære-sveinar. Hver hann ecke so giører, helldur elskar sig sialfann, hann elskar sijnar Odygder, sijna Drambseme, sijna Agirnd, Reide, Hatur, Ofund, Lyge, Flærd, Oriettlæte og sijnar vondar Lystingar, og kann þessvegna einganveigen ad þoocknast GUde, edur ad vera Goodur og riettsiñadur Christeñ Madur.

## Cap. XV.

## Ad Gamle madurenn eige i Sann Christnum manne daglega ad deya, eñ sa Nye ad endurnyast, item Hvad þad sie ad Afneita sier sialfum, og hver hellst ad sie, sa sanne Krossenn Christi.

Luc. 9. v. 23.

Ef nockur vill mier epterfylgia, hann afneite sialfum sier, og take sinn Kross uppa sig, og epterfylge mier.

UM þañ Gamla og Nya Mann, talar so Postulenn H. Paall Eph. 4. Aflegged epter hinne fornu Breitne, þann Gamla Mannenn sem sig fordiarfar i girndum Villudoomsins, enn endurnyest i Anda ydvars Hugskots, og iklædest þeim Nya Mannenum, sem epter GUde er skapadur i Riettlæte og Heilagleika Sannleikans. Enn orsokena leggur hann til, seg-ande

ande 1.Cor.6. Þvi þier erud med dyru verde keyp- ter; þarfyrer dyrked GUD i ydar Lijkama, og i ydrum Anda, ſem GUds eru. So blijfur þar þa vid, ad vier eigum Gude til Dyrdar, ad iklædaſt þeim Nya Manne, og afleggia þañ Gamla; Eñ nu er ſa Gamle Madurenn eckert annad, eñ Drambſeme, Agirnd, Loſta- ſeme, Raanginde, Reide, Ovilld, Hatur, Ofund, og adrar þvilijkar Odygder: þetta allt a ad dempaſt og deydaſt i Sann-Chriſtnum manne, ef ſa Nye Madurenn a ad uppkoma og endurnyaſt daglega.

Þegar nu ſa Gamle madureñ deyr, þa lifnar aptur a mote ſa Nye; ſo ſem þegar Drambſemen dodnar og dvijn, þa kemur þar aptur i ſtadenn, fyrer GUds Anda, Lijte- læted; þegar Reiden deyr, þa kviknar Hoogværden; þegar Agirnden utſlοknar, þa eykſt Trwnadartrauſted til GUds; þegar Elſkan til Heimſens er fraanumen, þa leiptrar Kiærleikurenn til GUds. Þetta er ſa Nye Madurenn med ſijnum limum. Þeſſer eru Avexter H. Anda þetta er ſu lifande og kropt- uga Trw þetta er Chriſtur i oſſ, og hans Ha-Edla Lijf, Þetta er ſu nya Hlydnen, þetta er þad nya Bodord, þetta er Avextur Endurfædingarinnar i oſſ, og hverier ſem i henne lifa, þeir einer eru GUds Born.

Hier af kemur þad sem sagt er, ad mannenum bere ad afneita sialfum sier, sem er Sialfs-heidre, sijnum eigenn Vilia, eigen Gagne, sialfs sijns stooru Alite, og hvad fleira af soddan löstum vera kañ: Ja hañ ma vijkia so opt fra sialfs sijns Rette, reikna sig overdugann alls, og sitt eiged Lijf lijtels verdt. Þvi Sann-Christenn madur, og sa sem gaafadur er med Lijtelæte JEsu Christi, þecker vel, ad madurenn hefur ecke Rett til nockurs hlutar, sem kemur ad ofan fra Gude, helldur sie þad allt skeinkur og gaafa GUds naadarsamlega Örlætis, og hierfyrer brwkar hañ þetta so sem annad adkomande Laan med Sonarlegum Ugg og Ottaseme, sier til Naudþurftar, eñ ecke til Vellystinga, ellegar eigenn Gagns Aeru og Vegsemdar.

Laatum oss bera saman þañ, sem ad nafnenu er Christenn, og er siergoodur, vid þañ sem reinest Sann-Christenn, og er astundande þa Afneiting sem nu er um̃rædt: Þegar sa Gamle, edur Munn-Christne, Madurenn verdur foraktadur, þa eyrer hann þvi illa, hann verdur ofolennmoodur, hefur i frame Brixl og Illyrde, vill hefna sijn bæde i ordum og verkum, og iafnvel svijfst hañ ecke med bloote, og dyrum eide, ad setia þar under sitt Höfud, ad hañ skule ei slijkt so bwed hafa:

Þetta er ſa Gamle Madurenn, ſoddan einn illgiarn Daare, ſem a ad burtrymaſt; Eñ ſa nye Madurenn, hverium vier eigum ad iklædaſt, er, þar þvert a mote, Hoogvær og Þoleñmoodur, girneſt eingar Hefnder, helldur Aarnar ſijnum Ovinum goods, og reiknar ſig þeſſ maklegann, þo hañ ætte langtum meira ad lijda.

Uppa ſoddan Afneitun ſialfs ſijns, ſoddan Þolennmæde, Lijtelæte og Hoogværd, høfum vier þad fullkomnaſta dæme, Drottennvorn JEſum Chriſtum, hvered þeſſvegna ſo ſagde, Matth. 20. *Mannſins Sonur er ecke komenn til þeſſ, ad hañ laate ſier þioona, helldur til ad þioona.* Og Luc. 22. *Eg em midt a medal ydar, ſo ſem, ſa er þioonar,* Og Cap. 9. *Mannſins Sonur hefur ecke þad, ſem hañ høfud ſitt adhneige.* Item Pſal. 22. *Eg em madkur enn ecke madur.* So afneitade H. David ſialfum ſier, þegar Simei bølvade hønum, ſegande: *Drottenn hefur boded hønum þad.* Sem villde han ſegia: Eg em veſæll ormur i Auglite Drottens, og eñ laangtum þyngra verdugur. J ſtuttu maale ad ſegia aller Heilager, og Gllds Spaamenn hafa afneitad ſialfum ſier, og hallded ſig þeſſ omaklega, ad hreppa nockud gott af Gude, og hafa þeſſvegna umbored allt þolennmoodlega: Hafe nockur bølvad þeim, þa hafa

þeir

þeir aptur a mot blessad, hafe nockur ossookt
þa, þa hafa þeir þackad Gude þar fyrer;
hafe nockur lijflaated þa, þa hafa þeir beded
fyrer þeim; og geinged so fyrer margar Hor-
mungar iñ i Ellds Rijki. So sier þu hvad
þad er, ad afneita sier sialfum, sem er ad hallda
sig omaklegann þess gooda, enn maklegann
alls ills.

Þesse Afneitun er sa Kross Herrans
Christi, sem hañ skipar oss ad bera, Luc. 9.
Sa sem vill miñ Læresveinn vera, seger hañ,
hañ afneite sialfum sier, og take sinn Kross
uppa sig, og fylge mier epter: Þetta Lijf-
erne Herrans Christi er Gamla Mannenum,
Hollde og Bloode, þungur Kross, Straff,
og jafnvel Daudenn sialfur; þvi Gamla Mañ-
sins Gedsmuner og Vilie, er laangtum fram-
ar, ad lifa epter sinne eigen Hugarlund, i
allskins Vellystingum, Sialfræde og And-
varaleyse, eñ ad breita epter Christi Lijfelæ-
te, Hoogværd og Þolennmæde, edur ad ta-
ka hans Lijferne uppa sig; a hveriu ad er þo
hin stærsta Naudsyn.

Øll su Vondska, sem mannenum er af
Adam medfædd, hlytur ad deya i riettchrist-
num manne. Þvi ecke iklædest þu Herrans
Christi Lijfelæte, nema þu afklædest Dramb-

lemenne; ecke hañs Faatækt, nema Agirnden dempest; Vilie madur þola Christi Forsmaan, þa hlytur Metorda-Girnden hia hønum ad deya; vilie hañ iklædest Christi Hoogværd, þa maa Hefndargirnen dodna; vilie hann hafa hanns þolenmmæde til ad bera, þa ma Reiden og Offenn læcka sig.

Þetta alltsaman a ad ske, ecke fyrer sialfs eiged gagn, Forþienan, Verdkaup, Lof edur Vegsemd, helldur einasta vegna Elskunnar til Christum, og af þvi hann hefur so sialfur fyrre giort, og þetta var hanns Lijferne, og af þvi hann hafde oss þad boded, ad vier skylldum fylgia hønum epter alla vora Lijfdaga: Þetta er GUds, og JEsu Christi Mynd i oss, og vor stærsta Æra, med hveria vier skulum laata oss nægia, og stunda þar epter hid kostgiæfelegasta. Og hvad er þad; ad madurenn sæker so miøg epter Heimsens Vegsemd, hann verdur þo eingubetre þarmed fyrer Gude enn adrer menn? so sem bæde vor Fædingar og Andlaats tijmi syner: Sa ypparste og megtugaste i Heimenum hefur Lijkama af Hollde og Bloode, so sem sa lijtelmootlegaste, so ad sa eine Madurenn er eingu betre, enn hinn annar af naatturunne til; sa eine fædest lijka sem hinn annar; og eins meiga þeir baader deya i burtu: Hverin

gegner

gegner þa sw Heimska, ad vier þiaaum oss, og þvingum so stoorlega, sinn med hveriu mote, og sækiun eptir Upphefd, Audæfum, og Vellystingum: Ollu soddan velldur Sialfselskan, sem oss er fyrerboden, þvi vier eigum ad hata oss sialfer; Enn hver sem elskar þañig sialfan sig, hefur þocknan a sialfum sier, er stolltur og hofmoodugur, sæker epter Æru og afhallde, hann snyr Saalu sinne og Lijfe fra Gude og Christo, til Heimsins og sijns sialfs. Enn nu kemur Christur og seger: Ef þu villt verda hoolpenn, þa maattu hata sialfann þig, afneita sialfum þier, þu maatt ecke elska sialfann þig, añars misser þu þijna Saalu; eñ sa Gamle Adam vill þad ecke giora, hañ vil alltijd vera nockurshaattar i Verølldenne, jafnvel þo hañ sie i riettre raun ecke neitt.

Æ hvad faaer eru þeir, sem þeckia i sier þessa Adams Spillingu, strijda a mote henne og dempa hana! Vier erum med henne getner, med henne fædunst vier, og meigum þo fra henne deya i þessu Lijfe. Allt þad sem oss er i Adam medfædt, og hia oss er uppruñed, hlytur i Christo ad deya: Vor Drambseme skal deya i Christi Lijtelæte, vor Agirnd i Christi Faatækt, vorar Vellistyngar i Christi bitru Pijnu, vor Metordagirnd i Christi Forsmaan, vor Reide og Hefndargirne i hanns Poleñmæde.

Hver hellst sem a þennann haatt deyr sier sialfum, hann gietur audvelldlega þadan i fra daaed Heimenum, og forsmaad hann, med øllum hans Rijkdoome og Agiæte, so hann girnest einga veralldlega Æru, Rijkdoom og Vellystingar, helldur hefur alla sijna Audlegd, Vegsemd og Velþocknan i Gude alleina, sem er einasta hanns Rijkdoomur, Æra, og unadsemd: Soddann madur er riettur Utlendingur og Pijla-grijmur i þessum Heime, enn þo GUds Heimamadur, og GUd mun skioott hefia þad gledelega jubil eda fagnadar Ar i hans Hiarta, uppfylla hann hier med andlegum Fride, og hallda med hønum sijdan Jubilæum æternum, edur eilijft Fagnadar Ar i eilijfu Lijfe.

# Cap. XVI.

## Ad Riett-Christnum Manne verde alldrei hlie a Strijde, i millum Hollds og Andans.

### Rom. 7.

Eg sie annad Løgmaal i mijnum Limum, sem strijder a mote løgmaale mins Hugskots.

I hverre einne Riett-Christenne Manneskiu, eru tvennslags menn, sem er Ytre madurenn, og Innre madurenn, hverier tveir, þo

þo samteingder sieu, þa eru þeir sijfelldlega osambycker, so ad Lijf þess eina er Daude þess annars; Life sa Ytre madurenn, og hafe yferraad, þa deyr sa Innre; enn Life sa Innre madurenn, þa hlytur sa Ytre ad deya, so sem Postulenn vottar, 1.Cor. 4. Ef vor Ytre madur fordiarfast, seger han, þa endurnyast þo daglega sa Innre. Þessa baada nefner same Gllds madur, Rom. 7. Løgmaal Hugskotsins, og Løgmaal sinna Lima; Item, Gal. 5. Hollded og Andann: Hollded, seger hann, girnest a mote Andanum, og Andenn a mote Holldenu, og þesser eru hverier a mote ødrum, so þier kunned ecke ad giøra hvad þier vilied; Vinne nu Andenn Sigur, þa lifer Madurenn i Christo, i Gude, i þeirre nyu Fædingu, og kallast andlegur: Enn ef Hollded yfervinnur, þa Lifer Madurenn i Dioflenum, og i þeirre gømlu Fædingu, heyrer ecke til Gllds Rijke, og nefnest holldlegur; þvi holldlega ad vera sinnadur er Daudenn, seger Paall, Rom. 8. Þarfyrer fær madurenn nafned i Heilagre Ritningu af þeim sem hefur yferraadenn i hønum, og nefnest annadhvert Holldlegur edur Andlegur.

Þegar einn Christenn madur yfervinnur nu vondar girnder i þessu Strijdenu, þa er þad vottur til Styrkleikans, og yferburda Andans i innre mannenum; Enn ef Holld-

sins Tilhneigingar vinna Sigur, þa er þad merke til Vanmaattkar Trwarennar og Andans, þvi þesse Tvø eru eitt, epter St. Pauls ordum, 2.Cor.4. Epter þvi vier høfum Trwarennar Anda, þa trwum vier, þarfyrer tølum vier og einnig.

Sa sem sig sialfann, og sijnar eigenn girnder yfervinnur, og helldur sier so i taume, hann er øflugre, enn sa hinn sterkustu ovine sigrar: Þarfyrer stendur so i Ordsk.B.16.Cap Betre er þolenmoodur madur enn sterkur, og sa sem er Herra sijnns Sinnes, hellldur en sa sem Stade yfervinnur: Þarfyrer ef þu villt faa Sigur, þa sigradu sialfann þig, slaa þinne Neide nidur, þinne Drambseme, Agirnd og raungum girndum, og hefur þu þa umturnad Andskotans Rijke, hver med soddann Haattum Drottnar i Heimenum. Þar finnast margar Strijdshetiur, sem kunna ad yfervinna sterka Stade og Festingar, enn faaer yfervinna sialfa sig. Ef þu, Christenn madur, lætur epter Holldenu ofmiked, þa deyder þu Saalena og Andann; enn nu er þad betra, ad Saalen vinne og Andenn, so Lijkamenn meige og so under eins vardveittur verda, helldurenn Hollded og Lijkamenn faae Yferkønd, og tapest so bæde Saal og Lijkame, þvi so wrskurdade Frelsare vor eittsinn, Joh. 12. Sa sem elskar sitt Lijf, hann tijner þvi, og

sa

sa sem hatar sitt Lijf i þessum Heime, hann vardveiter þad til eilijfs Lijfs. Enn hversu sem þetta Strijd er strangt ad afstanda, þa leider þad þo epter sig frægelega og sæla Sigurvinning, og fegurstu Coronu: Vertu trwr allt til Dauda, seger Sonur GUds, Opinb. B. 2. Cap. Og mun eg gefa þier Coronu Lijfsins. Og 1. Joh. 5. Vor Trw er Sigurvinningen, sem Heimenn yfervinnur, nu er Heimurenn i þinu hiarta, þarfyrer yfervinn sialfann þig, og hefur þu þa Heimenn yferunned.

Eñ ef einhver seger: Skal eg strax þarfyrer vera fordæmdur, ef Synden leggur mig stundum under, a mote mijnum vilia, og skal eg þarfyrer wtsliettast ur tolu GUds barna? epter þvi sem þar stendur. 1. Joh. 3. Sa sem giører Syndena, sa er af Dioflenum. Þad er langt fra þvi, ef þu finnur vera i þier Strijd og Baraattu Andans vid Hollded, so þu giører þad sem þu villt ecke giøra, (so sem H. Paall seger,) þa er þad vijst merke til trwads Hiarta, og ad Trwen edur og so Andenn mootþæge holldenu; Þvi H. Paall keñer oss med sijnu Epterdæme, ad þetta Strijd staaest i þeim goodu og trwudu, þar hann medkenner berlega, Rom. 7. Ad hann finne annad Løgmaal i sijnum Limum, sem strijde a mote Løgmaale sijns Hugskots, og take hañ til Faanga under Syndarennar Løgmaal, so

hañ giøre þad sem hañ vilie ecke, og Vilienn, ad søñu, sic med sier, eñ ad framkvæma þad gooda, gete hañ ecke, þvi þad gooda, sem hañ vilie giøra, giøre hañ ecke; eñ þad vonda, sem han vilie ecke giøra, þad giøre hann. Hierfyrer hroopar hañ upp sorgarlega, so segande: Eg aumur madur, hver mun frelsa mig af Lijkama þessa dauda, þad er fra þessum lijkama, i hverium Synden og Daudenn sitia, sem plaaga mig. Þessu er lijkast þad sem Frelsaren vor seger, Marc.14. Anden er ad sønnu reidubwenn, enn Holldeð er veikt;

Þarfyrer rijker ecke Syndenn i mannenum, so leinge sem þetta strijd merkest i hønum vera, þvi ecke ma þad segiast, ad sa Drottne yfer, a mote hverium sijfeldlega er strijdt; eñ su Synd sem ecke drottnar, þar Andenn strijder a mote henne, hun kañ ecke Mannenn ad fordæma. Þad er Tilviliun allra Heilagra manna iafnt, ad hafa Syndena, epter Sancti Paals Ordum; Eg veit ad i mier, þad er i mijnu Hollde, byr eckert gott. Item seger hiñ Sæle Johannes, 1.Pistl.1.Cap. Ef vier segium, ad vier høfum ecke Synd, þa drøgum vier oss sialfer a tælar. So fordæmer oss ecke su Synd, sem byr i oss, helldur su sem i oss drottnar. Og med þvi madurenn strijder a mote Syndenne, og verdur henne ecke samþyckur, þa tilreiknast hun hønum

um ecke, so sem Postulenn vottar, Róm 8. Þarfyrer er nu eckert fordæmanlegt a þeim, sem eru i Christo JEsu, þeir sem ecke ganga epter Holldenu helldur epter Andanum, þad er, þeir sem ecke leifa Holldenu ad hafa Yferhønd. Eñ hverier hellst sem ecke hafa siifelldlega þetta Striid, þeir eru ecke endurfæddter; þvi Synden Drottnar i þeim, og hefur Yferraad; þeir eru Syndarennar og Sathans Þrælar, og fordæmder so leinge sem þeir laata Syndena hafa valld yfer sier.

Þetta Striid fyrermyndadest med þeim Cananitum. Jos. 13. 15. Hverium, so sem Epterstødvum af þvi Foolke, leift var ad bwa a medal Israels Barna, i þvi fyrerheitna landenu, eñ einganveigen ad hafa þar Yferdrottnan; Israel ætte ad hafa yferraadenn, eñ ecke þessar Epterleifar Cananitanna: Allteins eru þar eñ þa Epterleifar Syndanna hia þeim Heiløgu, eñ þær meiga ecke hafa yferhønd. Sa nye madurenn sem kallast Israel, GUds Høfdinge, hañ skal drottna, eñ sa Gamle skal þvijngast og dempast.

So þeckest þa sa Nye Madurenn, af þvi siifelldu Striide, sem hann hefur vid þann Gamla Mannenn, og medþvi styrkest hann einnin og hellst vid magt; so sem Cana-

ans Land var inntekeð með Strijde, og þvi með sama mote bijhallded. Styrkleike og Sigurvinning Andans sijner þann rietta Israelita, og þa Nyu Manneskiu; enn kunne, so sem optber vid, Hollded, edur Cananitenn, ad fa yfermagt, þa a Israel, edur sa nye madurenn, ecke leinge ad lijda hans Tyrannaskap yfer sier, helldur hlytur hann ad fa nyann Hermanns Hug, fyrer Naad GUDs, i JEsu Christo, og fyrer sanna Jdran og Syndanna Fyrergefning, ad rijsa upp aptur af Fallenu, og bidia þann sanna Josuam, þann Himneska Høfdingiann yfer GUDs Her, ad hann styrke hann aptur, fyrer sinn Heilaga Anda, og vinne Sigurenn i hønum. Og þegar so skedur, þa verdur su fyrre Synden hulen, utslett og fyrergefenn, og madurenn aptur til Lijffens endurnyadur, og JEsu Christo innplantadur. Og þo þier, good GUDS Børn, finned i ydar Hollde, enn þa margann og adskilianlegann ofullkomlegleika, og þier geted ecke allt giort og framkvæmt epter ydar Hugskots Asetninge og Vilia, þa laated ydur þad samt fastlega innrætt vera, ad ydur tilreiknast krøptuglega Forþienustan JEsu Christi, þier sem sannarlega umvendest, og giøred hreina Jdran, og ad hans fullkomlegasta Hlydne hylur allar ydar A-

virdingar og Fleckun. Þetta er ſa riette maate ad ødlaſt Tilreiknan Chriſti Verdſkulldunar, þegar daglega er giørd Jdran, og jafnañ er uppſtaded epter hvert Fall. Enn þo ad einn ogudlegur og idrunarlaus madur, ſem lætur vijſvitandi Syndena i ſier drottna, og gefur taum holldſins girndum, vilie tileinka ſier Chriſti Forþienuſtu, þa er þad ølldungis forgefens og ſtodar eckert; þvi hvad ſkyllde Chriſti Blood gagna þeim, ſem tredur þad under Footum, og er idrunarlaus og vantrwadur, med þvi þad er aulldingis omøgulegt ad þockaſt Gude fyrer utan ſanna Jdran, Trw a JEſum Chriſtum, og Betrun Lijfnadarens.

# Cap. XVII.

## Ad Chriſtenna Manna Arfleifd og Audæfe, ſieu ecke af Heime þeſſum, þvi byrie þeim ad brwka þau ſo ſem þeir ſieu Framande.

I. Tim. 6.

Vier høfum eckert innbored i þennann Heim, þvi kunnum vier ecke neitt i burtu ad bera, enn ef vier høfum Klæde og Fæde, þa laatum oſſ nægia.

MEd þvi ad hinn goode GUd, hefur ſkapad ſtundleg Giæde þeſſvegna, og gefed þau

þau mannenum, ad þau væru Lijkamanum og þessu fallvølltu Lijfe, a medan þad varer, til Studnings og naudsynlegs Upphelldis; þa er tilhlydelegt, ad flijka þeim ecke til annars, helldur ad medtaka allt af giæsku-rijkum Gude med þackargiørd Ugg og Otta. Enn hvad hellst, sem kann ad vera um fram̃ þad naudsynlega, so sem er Gull og Silfur, Matur, Dryckur og Klæde, þa skulum vier vita, ad þad er gefed af Gude, til ad reina med þvi Mannen, so þar af meige siaast, hvernin hann med þad høndle, og hvert hann vilie alltijd hallda sig vid GUd, og segia af gladværu hiarta med Asaph, Psal. 73. Nær eg hefe þig ad eins Drottenn, þa hirde eg hverke um Himenn nie Jørd. GUd vill proofa Mannen, hvert hann vilie nægiast med hann einn, og hafa alltijd Auga a þeim Himnesku, og osynelegu Audæfum, og gledia sig yfer þeim i Vonnene, eda hann vilie falla fra Gudi, og þvi Himneska, enn forlysta sig i Jardneskum og tijmanlegum giædum, so hann gefe sig allann til þess stundlega Lijfs, og hallde Jardneska Paradiis ædre enn þa Himnesku.

Þarfyrer hefur GUd laated Mannenum epter ad eiga Kiørenn vid sialfann sig i soddan Søkum, og reyner hann fyrer Audlegd,

legd, Virdingar, Høfdingia Gunst, og stoorar Gaafur, hvert hann vilie hallda sier fastlega vid sig; ellegar ramvilltur af glampa og glingurs fegurd þess jardneska, falla i þad Sinne ad snwa sier fra Gude; hvert hann vilie lifa i Gude, eda fyrer utan hann; hallda med Gude, eda a mote Gude: So þannig auglyjist hver og einn og verde uppvijs ad þvi, sem hønum hefur bwed i Briooste, og sialfur utvaled, og hafa þvi einga Afsokun; so sem Moises umgetur, segiande: Deut.30. Siaa, eg tek i Dag Himen og Jørd til Vitnis yfer ydur, eg hefe lagt fyrer ydur Lijfed og Daudann, Blessanena og Bølsvanena, so þu utvelier Lijfed og verder blessadur;

So eru þa aller Hluter i Heimenum setter fyrer vor Augu ecke til Vellystinga og Sællijfis, helldur so sem eitt framlagt proof, a hveriu vier kunnum audvelldlega ad forgrijpa oss, ef vier snwustum fra þeim hærsta Gooda. Þetta er þad bannada Tried med sijnum Avøxtum, hverra Nautn oss er fyrerboden i þann maata, ad vier elskum ecke so miog þennann Heim, ad vier hofum i hønum, allt vort Ynde og hiartans Epterlæte; so sem flester menn, þvi midur! giora a þessum tijmum, sem hafa sijna stærstu Lijsteseme i Kræsingum Matar og dryckiar, skrautlegre Klædadrægt, og ødrusoddann tijmanlegu,

og

og snwa sier so þar med fra þeirre riettu Unun og Glede i Gude.

Enn sann Christner menn skulu þeinckia ad þeir sieu hier framande og Pijlagrimar, hverium þetta Jardneska a ad þiena til Lijfsins Naudsynia; enn ecke til Sælgiætis; þeim byriar ad hafa alla sijna Vellyst, Ynde og Roolegheit i Gude einum, enn ecke i Heimenum; enn ef þeir giora ødruvijsi, þaa fiøtra þeir sig i Syndum, og eta med vondre Lijstingu, eins og Eva, af þvi forbodna Trie. Gudhræddер menn i Heime þessum, hafa einga brennande Girnd til Kræsinga, helldur eru þeir hwngrader epter þeirre Fædu, sem ei forgeingur; þeir samlaga sig ecke Veralldarinnar Paafuglum med Fordildar Skraute, Dreisse og saabreittu Klæda-Snide, helldur gledia þeir sig innelega vid Hiaalprædis Kyrtil JEsu Christi, og hafa stoora Laungun epter þeim Himneska Bwninge sinna Forklaarudu Lijkama. J stuttu maale ad segia: Øll Hollds Lyst Veralldarinnar er riett-Christnum mønnum ecke utan Kross, Freisting, lockan til þess vonda, Gall og eiturleg Forgipt: þvi hvad sem Madurenn snerter med syndsamlegum Girndum og Tilhneigingum, og brwkar Holldenu til Epterlætis, þad er alltsaman Saalunne banvænt Eitur, hversu vel sem

þad

þad ma synast ad vera Lijkamanum til Lækn-
ingar og Heilsubootar. Eingenn vill þeckia,
eda læra ad þeckia riettelega, þad forbodna
Trie, enn aller griipa þo til þess, og vilia af
þess Avoxtum Sæler vera.

Einn riett-Christenn madur brwkar alla
Hlute med Vareygd og Otta-eme, sem einn
Gestur og Framande, og sier sig vel fyrer,
ad hañ hverke i Mat nie Drick, Klæda burde
Hwss-umgeingne sinne, eda brwkun nockra
Veralldlegra Hluta, stygge GUd hañ Himn-
eska Hws-Fodurenn, ecke helldur hneixle
sijna Samvistar menn, hann varast sem kost-
giæfelegast alla Vanbrwkun, og er med Aug-
um Trwarennar iafnadarlega horfande uppa
þau eilijfu og epterkomande Giædenn. Hvad
stodar þad lijkamann, sem innan Skams a
ad foreydast af Ormum og Modkum, þo
hann lise i allskonar bijlijse og Vellystingum
þessa Heims? Nakenn kom eg af Lijfe minnar
Moodur, og nakenn mun eg i burt aptur
fara, seger sa gudhrædde Iob. 1. Cap. Vier
Vesælar Manneskiur færum eckert annad
med oss inni þennann Heim, enn nakenn,
þurftugann, og brothættann Lijkama, so
sem adra byrde; hveria vier, ad sonnu, ecke
aptur i burtu berum, þar hun verdur Her-
faang Daudans, þegar vor Saala vijkur fra
sijnu Hreise; jaa i Raunenne færum vier

faatækare i burtu, hellduren̄ þa vier komum; þvi þegar vier fæduſtum, hofum vier bæde Lijkamann og Lijfid; þar er til taks i kringum oſſ, allt þad ſem Naudſyn er a, bæde þad ſem vier erum lagder i, Reifarner, Fatnadurenn, og Vokvunen, bæde af Mat og Dryck, enn vid þetta allt ſkilium vier i Andlaatenu.

So hvad hellſt vier hofum haft fra Moodurlijfe, allt framm ad Dauda-Stundunne i Heime þeſſum, af Mat og Dryck, Klædnade og odrum Hwſſnaudſynium, þad hefur allt vered braud, Medaumkunar og Angiſtar, og einſomul lijfſins Naudþurſt, ſem Daudenn oſſ fyrermunar ad brwka a einu Augna-blike. Þarfyrer er eingen̄ hlutur aumare enn Madurenn, þar ſem hann liggur daudur, ſierdeiles ſa, ſem ei hefur vered i Gude rijkur. Giætum þeſſvegna ad oſſ, daudleger menn, þvi vier erum hier i Heime Framande og Pijlagrijmar. Allt þad jardneſka er ecke nema Styrkur til ad hialpa vid Lijkamans Upphellde, og med þvi vier hliootum ad ſkilia vid allt þetta, þegar vier deyum, hvert vier vilium, edur ecke, hvarfyrer plaagum vier þa og þvijngum vorar aumu Saaler med þvi ſo mikelega; þvi epter daudann er þad oſſ ecke til neins gagns? Hvada Vitleyſa er þad,

þad, ad vera vakenn og sofenn i þvi, ad saman safna Aude og peningum med kvalrædis Hugsyke og þrautum, handa faanytum og breiskum Lijkama, hvad hann kann þo ecke burt med sier ad færa ur Heimenum? Veitstu ecke ad þu ert Gestur og Framande fyrer Gude? Veitstu ecke ad þar er til aňar betre Heimur eň þesse; eitt annad betra Lijf og lijkame, enn þesse daudlege lijkame, og þetta auma og fallvallta lijf?

Siaa, mijner Dagar eru sem þverhandar breidd, og mitt Lijf so sem ecke pared fyrer þier Drottenn, seger David i Psalm. 39. Fyrer Gude og GUds Augum er þad so, jafnvel þo marger Menn meine þad ecke sialfer. 13. Moisis.B.25. Cap. seger Drottenn. Landed heyrer mier til og þier erud fyrer mier Framande og Gester. Nu med þvi ad HErrann seger, ad vier sieum hier Framande, þa fylger þad a epter ad aňars stadar sie vort Fodurland. Þetta kunnum vier ad finna og formerkia, ef vier virdum fyrer oss Tijmann og Eilijfdena; þaň synelega og osynelega Heim; þad Jardneska og Himneska Heimile; þa daudlegu lijfernis Haattu, og þa odaudlegu; þad forgeingelega og oforgeingelega; þau tijmanlegu og eilijfu Giæde: þvi nær vier berum þessa Hlute saman, hveria vid adra, med gloggre yfervegan, þa hreinsast vor Saal, so vier

siaaum margt fyrer Trwna, sem annars er huled fyrer ollum þeim, er soddan ecke gaumgiæfa, helldur vellta sier i Jardneskꝛu Endeme þessa Heims, eru socker i veralldlega Bwksorg, Agirnd og Okur, steinblinder ad siaa um Hag Saalarennar, hversu sem þeir eru skarpskygner i þvi tijmanlega; þvi þeir meina ad þar sie eingen hærre og stærre Glede, eckert ypparlegra og betra Lijf enn i þessum Heime, sem þo er eckert annad, fyrer þeim riettrwudu, eñ Utlendingskapur og eiñ Taara-Dalur; jaa, ein myrk Gryfia og dyblissa æred diwp.

Þar fyrer eru þeir, sem elska þennann Heim, og leita epter sinne Paradijs i hønum, ecke forsiaalare eñ skynlausar Skepnur: þeir deya i burt eins og fenadur, so sem Psalmaskaallded vottar; Þeir vita ecke hvad sa Innre Madurenn er, hafa einga Himneska þaancka i sier, kunna ecke ad gledia sig i GUde; helldur gledia þeir sig i faanytu Skarne Veralldarennar, i hveriu þeir hafa allt sitt ynde, og nær so er komed, eru þeir vel til Frids. O! þær skynlausu Skepnur, vesælar og blindar Mañeskiur, þær sitia i Myrkrum Faavitskunnar og Daudans Skugga, og fara um sijder i eilijfa kvala dimmu. Vier kunnum og so ad siaa, good GUds Børn, ad vier i þessum

Heime sieum wtlender og Piilagriimar, ef vier athugum Dæme Christi og fylgium hønum epter; hann er ordenn vor Vegviisare, vort Form og Fyrermyndan, i hverium einn Christenn madur skal sig daglega speigla, og bera sig ad liikiast hønum. Christur var hiñ Gøfugaste allra manna i þessum Heime; eñ hvad var hans liiferne? eckert annad eñ Vesælldar orbyrgd, og Faatækt Veralldlegrar Æru, Riikdooms og Vellystinga; þar þetta þrent eru þo Priir Afguder þessa Heims Barna, epter þvi sem Skallded hefur sagt.

Qvæ tria pro trino Numine mundus habet.

Pad er:

Audur, Vellyst, Heidurs Hoot
Hugnast Verolldunne,
Priu Skwrdgodenn þesse lioot
Pionkun faa af Henne.

A ollu soddan sem Heimureñ mikels metur, hafde Christur Leida, lifde hier, sem einn wtlendingur, sem einn þræll; villde ecke hafa (so ad segia) neitt gott af Heimenum, um alla siina Liifdaga, og seger þessvegna Matth.8. Mannsins Sonur hefur ecke hvar hann sitt Høfud adhneige. Eins hefur þvi vered vared, um þañ Heilaga Gllds Mañ David: adur en hañ var kalladur til Riikesins, þa var hañ faatækur, liitelmootlegur, og foraktadur,

og eñ nw þegar hañ var ordenn Kongur, virdte hañ einskis alla þa Konunglegu Vegsemd hia Fognude eilijfs Lijfs, þvi seger hann Psalm. 84. Hvad elskulegar eru þinar Tialldbwder Drottenn allsheriar. Saalu mijna forleinger og tregar epter Forgarde Drottens. Mitt Hiarta og mitt Holld gledie sig i þeim lifanda GUde. Betri er einn Dagur i þinum Fordyrum, enn þusund adrer. sem villde hañ segia: eg hefe ad sonnu Riiked; eg hefe undersaata og Folk; eg hefe Konunglega Høll, og Zions Slot; eñ þetta er eckert hia þinum Tialldbwdum Drottenn. Ecke var helldur aunnur Meining Jobs. Cap. 19. þegar hañ gladdest i sijnum Endurlausnara. Gief giætur ad Petre, Paule, og ødrum Postulunum, þeir høfdu fastann Huga a þeim eilijfu Audæfum, eñ ecke þeim stundlegu; þeir tooku fyrer sig Lijferned JEsu Christi, geingu i hans Kiærleika, Hoogværd, og þolennmæde; þeir forsmaadu Heimenn: ef nockur bølfade þeim, þa blessudu þeir aptur a mot, þeir giørdu þacker, þegar þeim voru Haadungar tillagdar, lofudu GUd i offsooknunum; þegar þeir voru hwdstryckter, þa umbaaru þeir ad þolenmoodlega, segiande Post. G. 14. Fyrer margar Hørmungar byriar oss inn ad ganga i GUds Rijke. Þegar þeir voru aflijfader, þa bagdu þeir fyrer sijnum ovinum,

og sögdu med HErranum Christo: Fader fyrergef þeim þad; og med Stephano, Drottenn tilreikna þeim ecke þessa Synd: So alldeiles voru þeir dauder fra Reidenne, Hefndar-Girndenne, Hatrenu, Ærugirndenne, Drambsemenne, Elskunne til Heimsens og sialfs þeirra; þeir lifdu i Christo, og i hans kiærleika, Hoogværd, lijtelæte, og þolennmæde; Hvad er i Christo ad endurfædast fyrer Trwna, ef þetta er ecke?

Haattur þessa Edla Lijfernis, er þeim aulldungis okunnigur, sem þennann Heim elska, þvi þeir sem ecke lifa i Christo, vita ecke ad þar er riettferdugt athæfe i hönum Eph. 4. Þeir eru dauder i Syndunum, i þeirra Reide, Hatre, Ofund, Agirne, Okre, Drambseme, og Hefndargirnd og so leinge sem ein Manneskia framm-anar i soddann Glæpum, so leinge giörer hun ecke Jdran, nie lifer i Christo fyrer Trwna, hverju sem hun fegrar sig utvortis fyrer Mönnum, og þyker fyrer sier vel fara. Hier a mote skynia þeir Sann-Christnu, ad þeir eige ad ganga i Footspor HErrans Christi, og sitt Lifnad ad laga epter hans lijferne, og þeir eige ad utdraga af hönum Reglu Lifnadarens og Lærdoomsins, so sem af lögtekenne Bok og Bibliu: og þa fullkomnast þad sem Paall seger,

ad i Christo sie Sannleikuren/ eda þad rietta Lijferne, so meñ meiga vel segia.

Omnia nos Christi vita docere potest.

Þad er:

Christs Lijferne kenner best
Christum sier ad haga,
Ord og giørder eigum mest
Epter þvi ad laga.

Þeir segia med Postulanum 2. Cor. 4. Vier alijtum ecke þad synelega, helldur þad osynelega: þvi þad sem synelegt er, þad er stundlegt, enn þad sem er osynelegt, þad er eilijft, og Hebr. 13. Vier høfum hier ecke blijfanlegann Sama-stad, helldur leitum vier þess epterkomanda.

Og fyrst vier erum nu framande og wtlendingar i þessum Heime, og høfum hier ecke blijfanlegann Stad, þa er audvitad ad vier erum ecke skapader vegna þessa Heims, helldur eigum vier annann Heim vijsann, annad Fødurland, og annad Adsetur; vegna hvers vier skylldum iafnvel missa tvær Verallder, ja Lijf og Lijkama, eñ vier þvi tøpudum. Hvad þegar riett-Christenn veit og gaumgiæfer, þa fagnar hann af insta Hiartans grunne, ad hann sie skapadur til eilijfs Lijfs, og leggur þar alla Stundan a, ad hann verde audugur i Gude; hann skilur og

einnin

einnin grant, hvad veiæler og blinder ad sieu Heimsens Gicker, og hvad stoor Heimska ad sie foolgen i þeirra Hiarta, ad þeir vegna tijmanlegra Hollds-Muna, þvinga so sijnar Edla Saaler, ja missa þær þarfyrer ad eilijfu.

# Cap. XVIII.

## Hvad þwnglega GUd styggest, þegar menn virda meir þad stundlega, eñ þad eilijfa; og hvarfyrer ad vier eigum ecke ad festa vor Hiortu vid skapadar Skepnur.

### Num. II.

Siaa, ad Elldur Drottens kviknade upp a medal þeirra, og uppbrende þad sem ytst var i Herbwdunum.

Þegar Almwge Israels Folks, mægladi fordum a mote Mosi segiande: Hver mun gefa oss kiøt ad eta? vier minnustum þeirra Fiska og Alldina, sem vier aatum i Egipta lande fyrer ecke neitt. Pa var þad Fyrermyndan uppa þa meñ, sem under Nafne Evangelii, stunda ecke nema þad Jardneska og Holldlega, sem er stoort alit, audæfe og Vellystingar, og kappkosta langtum framar ad verda rijker, helldureñ Sæler og Saaluhoolpner, langtum

framar ad þocknast monnum enn Gude; þeir leggia sig meir epter Holldsins Girndum; enn þvi rietta Volæde Andans: Soddan er Atferd Heimsens Barna. Hier i mote er þad Merke a þeim riett-Christnu, ad þeir aliita meir og framar eilijfan Heidur, og lioomande Vegsemd, þa sem epterkemur, helldurenn stundlegt glijngur Veralldarennar, med sijnum glansa; þa þyrster epter þvi Himneska, enn sleppa þvi Jardneska; þeir astunda þad osynelega, enn gleima þvi nærverande, ja, þeir krossfesta sitt holld so Andenn life i þeim. J stuttu maale ad segia: þeir epterfylgia HErranum Christo, sem ad er hid hellsta Inntak og Atride Christendoomsins, so sem Augustinus ad orde kemst: Hofud Summa Trwarennar, er ad breita epter þeim madur dyrkar. Og Plato hefur, af lioose Naattu-runnar, skiled so miked i þessu, ad hann hefur sagt: Fullkomlegleike Mannsins er innefalenn i þvi, ad breita epter GUde. Pad er oss uppa sett, ad vier laatum HErrann Christum, vera Form og Reglu vors Lifs-Framferdis, og ad allt vort Raad, Astundan og Paanckar hnijge þar ad einasta, ad vier komustum til hanns, ad vier verdum fyrer hann Saalu-hoolpner, og kunnum med honum eilijflega ad lifa, so ad vier med glede þreijum þar

epter,

epter, ad afleggia vort Jardneska Hreise. Og mun oss þetta heppnast, ef ad allt vort Erfide, Syslan og Embættis ydia framm-kvæmest i Trwnne, i kiærleikanum, i Von til eilijfs Lijfs; edur med liooſare ordum ad segia: ef ad vier gleimum ecke Saaluhiaalp vorre, i hveriu sem vier tøkum oss fyrer ad giora.

Af þessum GUds Otta vex i mannenum brennande Girnd til þeirra eilijfu Giædaña, enn su saara Epterlaungun til þess Jardneska dempast: þad kenner H. Paall miøg merkelega til Col. 3. segiande: Allt hvad þier giøred med Ord og Verk, þa giøred þad allt i Nafne Drottens vors JEsu Christi, þackande Gude og Fødur fyrer hann.

Nu merker Nafn GUds: GUds Heidur, Vegsemd, lof og Dyrd. GUd Lijka sem þitt Nafn er, so sie einnin þinn Lofstijr allt til Jardarennar Enda, seger David i Psal. 48. Ef øll vor Verk og Frammferde hneigiast hier ad, þa hallda þau Stefnu til þess hins eilijfa, og eru soddan Athafner sem i Gude gioraſt, og munu fylgia oss epter ad lidnum þessum Lijfs stundum; J einu orde ad segia: vier hlioótum ad leita epter Gude þeim ædsta Gooda, og eilijfu Lijfe i øllum Hlutum, ef vier vilium ecke missa GUd og þad eilijfa Lijfed: þetta kenner oss H. Paal miked vel, þegar hann i 1. Pist. Tim. 6. varar oss vid Agirnd-

enne,

enne, og seger: O! þu GUds madur fordastu þetta; hann kallar einn Christenn mann, GUds mann, þvi hann er af GUde fæddur, og hann lifer i GUde, er GUds-barn og Erfinge. So sem Heimsens madur, er þar þvert á mote, sa sem epter Veralldar vijsu lifer, og hefur sitt Hlutskipte i Heimenum, hvers kvid GUd fyller med sijnum Aud Ps. 17.

Langt fra þessu skal einn Christenn madur vera, hann skal stunda epter Trwnne, og kiærleikanum, og hondla þad eilijfa Lijfed, hvar til hann er kalladur; og fare ei þannig, þa bindur madur sig i þyngre Synd, hveria riettlaatur GUD, vill straffa med eilijfum Ellde; Hvad oss verdur afmaalad og fyrermyndad med Historiuñe i 4. Mosis Bok. II. Cap. Þvi þegar Israels Syner sooktu epter sinne Magafylle, kveikte GUD Elld uppa medal þeirra, og fordiarfade þeirra Herbwder: Þad hefur vered einn undarlegur Elldur, einn Hefndar Elldur, elldur GUds Reide og Vandlætingar. Þarfyrer, nærhellst vier siaaum þessar Plaagur grassera, hvert helldur þad kann ad vera Elldur, Vatna-Flood, Orustur, Hungur, Drepsoott, eda annad þviumlijkt, þa latum oss strax til Hugar koma, ad þad sie Riettlætis Refsing, send af hærstum GUde, i hanns Reide, sem þar af alleina orsakast,

orsakast, ad menn gleima þvi himneska, eñ sækia epter þvi jardneska, metande meir þad nærverande, eñ þad epterkomanda; ja Lijkamans giæde, meir enn Saalarennar; hvert ad er hid stærsta Ohacklæte, og Forakt vid GUd, sem hann vill straffa, bæde tijmanlega og eilijflega. Þeinke einn og sierhver med sialfum sier, hvert þad er ecke hid stærsta Ohacklæte, ad menn sinna ecke þeim eilijfa og Almaattuga GUde, af hverium þeir hafa feinged bæde Saal og Lijkama, enn giora aptur amot þær daadlausu Skepnur, Verked Meistarans, ad Afgudum? Er þad ecke hin stærsta GUds foracktun, ad elska framar Skepnurnar eñ Skaparann? hallda sig meir til þess forgeingelega, enn þess oforgeingelega? Drottenn GUd hefur ad sonnu giort Skepnurnar, og alla Hlute, til vorrar Naudþurftar, enn ecke til þess ad vier lijmum vor Hiörtu þar vid, þvi hann einn vill fyrer þvi verda, og þau kiör hia ofs hafa, ad vier elskum hann ummframm allt. Allar Skepnur eru so sem Footspor GUds, og hanns Vitnisburdur, sem a ad vijsa oss til GUds, ad vier meigum blijfa hia hönum stöduglega. Þeim Afguda-Dyrkurum, sem Heimenn elska, enn kasta GUde fra sier, snyst su þeirra Elska, sialfum i Helvijtis baal, so sem Epterdæme Sodomæ

og

og Gomorræ utvijsa; einnig sa Elldur, sem GUD tendrade upp i Herbwdum Israels barna og fyrer skommu var aminst: Soddan er einn Speigell og Vidvorun um þañ eilijfa Elld og Fyrerdæming.

Allar Skepnur GUds eru ad sonnu i sier sialfum goodar, enn þegar madurenn fester sitt Hiarta vid þær med Oleifelegre Elsku, og giorer þær so sem ad Skwrdgoduin, þa verda þær Bølfanenne underorpnar, og ein Svivirding fyrer GUde: eins og Afguder af Gulle og Silfre eru andstygd fyrer hønum, vegna þeirrar Vanvirdu, sem vid þa haanger, ad þeir eru so sem GUD tilbeduer, hvarfyrer og einnin ad þeirra Dyrkendur verda Helvijtis-Ellds-matur, hversu sem Gull og Silfur er af sier sialfu gooder hluter skapader.

I Sumu ad segia: hver einn Christenn madur a ad hneigia sitt Hiarta Girnd og Epterlaungun til þess eilijfa, og hallda þad fyrer sinn Rijkdoom og Æru, so mun hann og um sijder ødlast eilijft Lijf, þvi hvar þinn Fiesioodur er, þar er þitt Hiarta Luc. 12. Hier a mote hlytst um sijder af Elsku til Heimsens og Girndum Holldsins eilijf Fyrerdæming: þvi Heimurenn forgeingur med allre sinne fysn; enn sa sem GUds vilia giorer, hann blijfur ad eilijfu. Hierfyrer avarpar hinn

Sæle

Sæle Johannes þa trwudu, segiande: 1.Joh.2. Sonakorn, elsked ecke Heimenn, nie neitt þad sem i Heimenum er; hvar med hann giører Heyrum kunnugt, ad GUDs Vilie sie, ad vier elskum ecke nockra Skepnu; af þvi Elskan er, ad segia, allt mannsins Hiarta, og þess agiætasta tilhneiging, og heyrer þessvegna GUde alleina til, so sem þeim ædsta og ypparsta Gooda.

Þad er og hin stærsta Heimska, ad elska þann Hlut, sem ecke kann ad elska oss aptur a mót: tijmanleger og daudleger Hluter hafa einga Elsku til vor, þessvegna er þad til onytis ad vier elskum þa; GUD skylldum vier langtum framar elska, fram̃ yfer allar skapadar Skepnur, þvi hann elskar oss; ja so hiartanlega, ad hann hefur, af heitre Elsku, skapad oss til eilijfs Lijfs, endurleyst og helgad.

Þad er og einnin naatturlegt ad hver Hlutur elske sinn Lijka: þessvegna skapade GUD þig epter sinne eigenn Mynd og Lijkingu, ad þu elskader hann sialfann, og þinn Naaunga. Vor Saala er lijka sem Vax, sem bijhelldur hverre þeirre Mynd sem a þad verdur þryckt; so skyllde madur og so fa ad siaa innþryckta GUDs mynd a þinne Saalu; hun er so sem einn Speigill, er syner þad allt, sem er a mots vid hann, Himeneñ stundum, Jord-

Jordena stundum: eins er þin Saala, til hvers Hlutar sem þu snyr þier, þess mynd syner hun; samt er hun þar til skøpud, ad hun syne einasta a sier GUDs mynd.

Patriarchenn Jacob var framande i Mesopotamia, og þioonade i 14. Ar fyrer sijnum Kvinnum og i 6. Ar fyrer sijnum Launum, alls 20. Ar; þo hafde hann alltijd i sætre Minningu sitt Fødurland, og huxade þangad aptur ad hverfa, sem hann og giørde, med þad sijdasta: eins lijka a vor Hugur og Sinne, midt i þessa Lijfs Umsvifum, og Erinda-giørdum vorrar Kollunar, ad þreijia epter voru eilijfa Fødurlande.

Allt hvad Madurenn hefur i sier hid innra, hvert þad er gott edur vondt, þad hefur hann af þeim, er hann elskar; elske hann GUD, þa hefur hann allar Dygder, og allt gott af GUde; en elske hañ Heimenn, hefur hann allt illt og allskyns Læste af Heimenum. Þegar Koongurenn Nebucadnezar elskade Heimenn meir enn Hoofe gegnde, miste hann mannlega Asynd, og mannlegt Haattalag, og vard sem skynlaust Villudyr. Textenn seger utþryckelega, ad hañs Skynseme og yferlitur hafe komed til hans aptur, þarfyrer fylger þad a epter, ad hann hafe adur mist sitt Forstand, og mannlega Asynd;

ſo miſſa þeir og einnin aller ur ſijnum Hiortum GUDs mynd, og verda i innra mannenum Ulfar, Hundar, Leon, og Birner, ſem hafa alla ſijna Elſku i Heimenum og a Heimenum. J Stuttu maale ad ſegia: vid hvad hellſt, ſem einn feſter Hiarta ſitt hier, þad mun ſijdan openbert verda, og þvi mun hann eilijflega bijhallda, hvert ſem þad er GUD, eda Heimurenn: Bijhallde hann Heimenum, þa verdur þar ecke annad af enn Elldur, ſo ſem adurſogd Fyrer-myndan vottar.

# Cap. XIX.

## Sa ſem i ſijnu Hiarta er hinn Aumaſte, hann er GUde Kiæraſtur, og fyrer Chriſtelega Þeckingu ſinnar eigenn Eymdar, finnur madur GUds Naad.

Eſa. 66.

Til hvers ſkal eg lijta, nema til þeſſ Faatæka, ſem hefur ſundurmarenn Anda, og ſkelfeſt fyrer mijnum Ordum.

Þeſſa Maalsgrein hefur ſa Naaduge og Miſkunſame GUd ſialfur frammſett, fyrer Munn Spaamannſins Eſajæ, ad hañ endur nærde vor-kromdu og hrelldu Hiortu med ſijnu naadar Tillite. Skule nu GUd alijta-

þig i sinne Naad, þa hlytur þu sialfur ad hallda þig Aumann og Overdugann Gllds og Manna Huggungar, þu hlytur ad reikna þig alldeiles einskis verdann, og ad horfa i Trwne einasta uppa JEsum Christum.

Hver hellst sem þykest vera nockud, hann er enn nw ecke Aumur i sijnu Hiarta, og ecke medtækelegur fyrer Naad Gllds; þvi seger H. Paulus, Gal. 6. Ef nockur helldur sig vera nockud, þar hann er þo eckert, hann leider sialfann sig afvega: Orsöken er þesse, ad einn Glld er Allt, þarfyrer, ef þu villt læra ad þeckia Glld riettelega, þa hlytur þu ecke einasta ad vita, ad hann alleina er allt, helldur og einnig ad yfervega, og sanna þad sama i þinu Hiarta. Ef þu villt medkenna þad i verke og Sannleika, ad Glld einn sie Allt, þa fær þu ad reikna þig, so sem ecke neitt, i þinu Hiarta, þu hlytur ad vera so liettvægur og slæmur hia sialfum þier, sem þu værer eckert; motlijka og David, þegar hanns Kvinna Michol forsmaade hann, af þvi hann dansade og liek fyrer Ørk Drottens; Jeg vil enn nw, sagde hann, verda lijtelsiørlegre, og eg vil vera lijtelmotlegur i mijnum Augum. 2. Sam. 6. Sa sem þykest vera nockurs haattar, hañ er þad sem Gud giorer ad eingu; ja, af hverium hañ giorer Daara og Heimskingia: En þær

manu-

maneskiur, sem ecke hirda umm ad vera halldnar i nockru gillde, og reikna sig sialfar fyrer eckert, þær eru þad Efne, af hveriu saa Hærste Verk meistare giører nockud, og jafnvel Spekinga fyrer hanns Auglite. Sa sem virder sig fyrer Gude hinn Aumasta, og øllum siidre, hann er i Alite GUds sa Hellste; og sa sem med Paale þykest vera hinn meste Stoor-Syndare, þann reiknar GUd med siinum þeim Heiloguſtu.

Siaa, þetta er þad Liitelæted, sem GUd upphefur; su Eymden sem hann aliitur; þad mannleysu Afhrak og ecke neitt, af hveriu hann giører nockud. So sem GUD hefur giørt af eingu, Himen og Jørd, þa herlegu og daasamlegu Bygging, so vill hann giøra þa Manneskiu, sem ecke er neitt i siinu Hiarta, til þess, sem er nockud merkelegt.

Gief giætur ad David, hversu ad GUd saa til hans Eymdar, og giørde hann ad siinu veglegasta Verkfære. Liit til Jacobs, er sagde Gen. 32. Minne er eg Drottenn allre þeirre Miskun, og øllum þeim Sannleika, sem þu hefur veitt þiinum Pienara.

Horfþu a sialfann Herrann Christum, hviliika Vegsemd, hefur GUd giørt af hanns Eymd og nidurlægingu, ja af hanns stærsta Audvirdelegleika, þar hann giørdest Bølfan,

og so sem Madkur vorra vegna, og hinn laksaste og forsmaanarlegaste a medal Manna anna Barna.

Lijka sem einn Verkmeistare tekur Nya Materiu, þa sem Manna hondur hafa einga Spilling a giort, til ad giora af sierlega Hagleiks Smijde sinnar Kunstar, so byriar þeim manne ad vera eckert (þad er oskemdum af eigenn-þootta) sem GUd ætlar nockud wr ad giora: Enn sa sem miklar sialfann sig, og helldur sig ad vera nockud, hann kann ecke ad vera skapfelldlegt Efne til Gudlegs Meistara-Verks; þvi þad er eckert, ja, þad er hid faanytasta, sem hann sialfur giører nockud wr med forundrunarlegum Meistaradoom. Vid slijkt kannadest blessud Jungfrw Maria, þar hun sagde: Luc. 1. Hann leit a Læging Ambaattar sinnar; siaa, hiedan af, munu mig allar ætter Sæla kalla.

Eñ sa er Sannarlega i Hiartanu aumur, sem helldur sig overdugann allra GUds Velgiørninga, hvert þeir eru andleger, edur lijkamleger: Eñ sa sem hefur nockurshaattar Iñbirling um sialfann sig, og meinar sig ad vera nockud, þar hañ er þo eckert, hañ finnur ecke GUds Naad, helldur skwfar hañ heñe fra sier, med siñe ofdirfd; GUds Naad blijfur ecke hia þeim manne, sem helldur sig sialfann ad vera nock-

nockud. Sa sem alijtur sig nockurs verdugañ, hann medtekur ecke allt ad giøf, edur þiggur med þockum af Gude: Hvad þu hefur gott i þessu, edur ødru Lijfe, þad er alltsaman GUds, enn ecke fyrer þina Forþienustu, edur Verdskulldan: Mannenum er ecke neitt eiganlegt, nema Synden, Eymden og Ostyrkuren, hittallt annad er af Gude.

Skodadu Skuggañ Eikareñar, hvad er hañ? Ecke neitt. Ef Eiken hræreft, þa hræreft og eiñinn Skuggeñ. Hvers er nu Hræringen? Ecke Skuggans, helldur Eikareñar; So er Lijfed eigi þitt helldur GUds, so sem skrifad stendur, Act. 17. J hønum lifum vier, hrærunst og erum vier. Eple Eikarennar siaast ad sonnu i Skugganum, þo heyra þau ecke Skugganum til, helldur Eikenne: Eins skalltu vita þo þu berer gooda Avexte, þa eru þeir þo ecke þiner, þeir siaast vel a þier, so sem i einum Skugga, enn þeir koma fra þeirre eilijfu Uppsprettunne sem er GUd: Þvi lijka sem Epled vex ecke wr Trienu, sem faafrooder menn kunna ad meina, iafnvel þo þad haange vid þad, sem Barn a briooftum Moodur sinnar, helldur vex þad af þeim friooffama Kraptе, sem er i Eikenne, annars kynne hvert eitt Trie ad gefa af sier Eple, þo þurt og vised være. Aller menn eru, af naatturunne til, þurr og avaxtarlaus Trie,

og þvi seger Christur, Luc. 23. Ef þeir giøra þetta vid þad græna Tried, hvad mun þa ske vid þad þornada? Enn GUD er Trwadra manna lijfs kraptur og friðofgun, so sem David vottar, Ps. 18. Og fyrer munn Oseæ Cap. 14. seger Drottenn. Eg vil heyra hanns Bæn, og leida hann, ieg vil vera sem grænkande Grenetrie, þinn Avøxtur er fundenn ad vera af mier. Og hia Joh. 15. seger Christur: Ef þier blijfed i mier, þa færed þier mikenn Avøxt.

Þegar Madurenn er i siinu Hiarta aumur, vesæll, og ecke neitt, enn treyster upp a Naad GUds i Christo JEsu alleinasta, þa lijtur GUd til hans miskunsamlega. Nu er GUds Tillite ecke so vared, so sem þegar einn madur lijtur utvortis til annars, hvar med ecke fylger neinn Kraptur eda Verkann, helldur er GUds Tillit fullt af Krapte, Lijfe og Huggun, Vernd og Hialp. Fyrer soddan Drottens astwdlegt Tillit, eru mædd og kramenn Hiortu alleinasta medtækeleg, og þau gledia sig þar vid; og þvi meir hallda þau sig þess omakleg, sem hann lijtur til þeirra optar med unumarsamlegu Astar-tillite. Þetta lijtelæte høfum vær a Jacob fyrermyndad, þar hann Gen. 32. seger sig minne øllum GUds Miskunsemdum og tijmanlegre blessan. Epter þessu hanns Dæme hroopar þad Hiarta,

sem

sem riettelega er lijtelaatt, og seger sig overdugt ad vera, til ad faa Himneska Huggun, og iafnvel þa minstu Akenning gudlegrar Vitiunar, a þennann haatt: O Drottenn! Overdug er Saala mijn, til ad vera umvafen þeirre omælanlegre Ast og Giædsku, sem þw hefur henne audsynt i Christo JEsu; Eg er nu orden ad tveimur Fylkingum, i þvi, þu hefur gefed mier þinn Son, og alla gooda hlute med honum, sem eru giæde Naadarennar og Dyrdarennar. Sannlega þo madur wthellte so mørgum taarum, sem Vatned er i Sioonum, þa være hann þo ecke verdugur þeirar minstu GUds Huggunar, þvi hun er ein skiær, og oforþient GUds Naad, enn mans sialfs Verdskulldan eckert annad enn Refsing og eilijf Fyrerdæming.

Sa sem vid þetta riettelega kannast i Trwnne, hann sier sialfs sijns Eymd, og verdur af Gude naadarsamlega alitenn, og fyrer utan soddan þeckingu sinnar eigen Eymdar, kann madur ecke ad odlast GUds miskunseme. Hier fyrer seger Heilagur Paulus. 2.Cor. 12. Eg vil giarnan hroosa mier af mijnum Breyskleika, so kraptur Christi bwe i mier: Þvi so stoor er Miskunseme GUds, ad hann vill ecke leifa ad sijn Skepna faae Spilling, helldur þess veikare sem hun er af sialfre sier

til, þess sterkare er GUDS kraptur i henne, epter þvi sem Drottenn sagde vid S. Paal. 2.Cor.12. *Laat þier nægia mijna Naad: Þvi minn Kraptur er i breyskum mættugur.* Þar fyrer þess aumare, sem einn edur annar Christenn madur þyckest vera, þess helldur alijtur GUd hann, so ad hann kunne ad auglysa Rijkdoom sinnar Dyrdar a *Kerum Miskunarennar*, Rom. 9. Og þarfyrer giæder hañ Manneskiunna, fyrer utan sialfs hennar Forþienann, med himneskre Huggun, laangt frammyfer þad sem nockur madur kann ad skynia.

Ein manneskia er ecke, og skal ecke þarfyrer reikna sig auma og vesæla, þo hun sie saatæk, og hafe einga mannlega Huggun i þessum Heime, helldur þessvegna, ad hun er syndug; þvi være eingen Synd til, þa være eingen Eymd i Heimenum. Mannenum kann ecke so stoor Eymd til ad falla, ad hann hafe ecke þyngre forþienad: Þarfyrer skal madur einganveigen taka sier þad til Angurs, þo GUD veite honum ecke marga og mikla Velgiorninga, þar hañ hefur ecke forþienad af honum þad minsta gott, og ecke ad halldа sijnu eigen lijfe, med hveriu hann lifer, og þo Holldenu þyke hardt ad heyra þetta; samt sem adur, ef vier vilium Naadar

GUds

GUds niootande verda, þa hlioótum vier þo Saunleikann oss ad segia, og hver einn ad straffa og Aviita sialfañ sig fyrer Syndernar.

Hvad heslur þa Madurenn, af hveriu hañ kunne ad hroosa sier? og til hvers skyllde hañ vilia uppliwka sijnum munne, so hañ tale nockud? Pad besta, sem kann ad framkoma af mannsins Munne, eru þesse Ord: Eg hefe syndgad, GUd! vertu mier Syndugum Naadugur. Sannlega heimter GUd ecke meira af Mannenum, enn þetta tvent: Ad hann syrge, og sie angraadur fyrer sijnar Synder; og bidie um Naad vegna JEsU Christi Forþienustu. Hver hañ gleimer þessu tvennu, hann gleimer þvi hinu besta i sijnum Lifnade. Hird þu ecke um þad, o madur! ad hella ut Taarum fyrer þinn Lijkama, þvi þad er liettvægt, þo hann þiaaest i Hwngre og þorsta, þo hann lijde Offsookner, þo hann sie reirdur med Faangelsis Vidium, þo hann sie aumur og veikur; aumkadu helldur þina Saal, og laattu Taara-brunnenn wtflooa fyrer hana, þad er, ad hun verde ad bwa i Hollde og Bloode, sie Syndenne og Daudanum undervorpen. Jeg vesæll madur, hver mun frelsa mig af Lijkama þessa Dauda, seger H. Paall Rom. 7. Siaa! þesse ChristelegaÞecking þinnar Eymdar, þesse Id-

ranen, sem er þyrst i Naadena, þesse Trw-
en, sem alleina helldur sig vid JEsum Christ-
um, upplykur fyrer þier, o madur, Dyrum
Naadennar i Christo, inn um hveriar GUD
kemur til þijn, og þarfyrer seger hann i Op-
enb. B. 3. Cap. Vert kostgiæfenn, og giør
Jdran; Siaa, eg stend vid dyrnar, og klappa
uppa, ef nockur heyrer mina Raust, og lyk-
ur upp dyrunum, til hans vil eg inngaanga,
og Kvølldsverd med hønum snæda, og hann
med mier. Þesse Kvølld-maaltijd er ecke añad,
enn Syndanna Fyrergefning, Huggun, Lijf, og
Forsælld: J þessum Trwareñar dyrum, mæt-
er sa astrijke Trygda-vinurenn, Elijfur GUD,
vorre aumu Saalu a riettum tijma; Hier
uppvex Sanleikureñ af Jørduñe, og Riettlæted
lytur af Himnum ofan; Hier mætest sijn a mill-
um Miskunsemen og Sannleikurenn; Riett-
vijsen og Fridurenn kysser hvert añad. Ps. 85.
Hier er su sorgande Magdalena, Saal eins
trwads mans, med Blygdun, øll i Taarum
flooande, og smyr Fætur Drottens, hwn
þvær þær i Hiartans Audmykt, med dropum
sinna Augna, og þurkar med Haarlockum
sinnar Hlydne i stærstu Undergefne. Hier
er sa andlege Biskup i heiløgum Trwarennar
Skrwdu, og fram̃ber þad rietta Offur, sem
er kramed og sundurknosad Hiarta, og þa
sætu Reykelsis-Beifun sannarlegrar Jdranar,

og

og Angurs trega: Þetta er það rietta og helgada vijgda Vatn, med hveriu þeir andlegu Israelitar, þvost og hreinsast, fyrer Trwna, og JEsu Christi Bloods krapt.

So hefur ydur þa, Bornenn GUds, sagt og synt vered, hvernin þier kunnid ad ødlast naad GUds, af þeckingu ydar eigen Eymdar, fyrer Trwna a JEsum Christum; þvi þess aumare sem hver einn þykest vera, epter sialfs sins Alite, þess kiærare er hann Gude, og þess blijdlegar og astwdlegar lijtur GUD til hanns, bæde hier tijmanlega, og sijdan eilijflega.

# Cap. XX.

## Fyrer Sanna Jdran betrast vort Frañferde daglega og madurenn verdur med þvi mote Hendtugre til GUDS Rijkes, og styrkest til eijlijfs Lijfs.

2. Cor. 7. v. 10.

Sw Hrygd, sem er af GUde, verkar Jdran til hiaalprædes, Hvers eingann þarf ad idra enn þessa Heims Hrygd verkar Dauda.

Sannur Christendoomur er innefalenn i Trwnne, i riettsinnudum Kiærleika, og Hei-

Heilogum lifnade: Enn Heilagur lifnadur hefur ſinn Uppruna af riettre Idran og yfer-boot, og ſialfs mannſens grandvarlegre Þeck-ingu, þegar hann lærer alltijd meir og meir ad þeckia ſijna eigenn Breſte, og Avirdingar, leidrietter þa dag epter dag, og verdur fyrer ſanna Trw hluttakande HErrans Chriſti Riettlætis og Heilagleika; Ef ſoddan a ad ſkie, þa hlytur þu chriſten Saala alltijd ad lifa i ſannarlegum GUds Otta, ſo ſem hlyded og audſveipt Barn, og ecke vera offſialfraad i þijnum giedſmunum, til ad giora hvad hollded lyſter: Allt leifeſt mier, Seger Heilagur Paulus 1. Cor. 6. Enn þad er mier ecke allt nytſamlegt edur til uppbyggingar; lijka ſem eitt Barn, maa ecke i ſijns Fodurs Huſe, giora allt epter ſijnum eigenn vilia, og hvad þvi ſialfu gott ſyneſt; Helldur hlytur þad ad vera med-ſijfelldum Otta fyrer ſijnum Fodur, og hafa augum alltijd a hans vel þocknan: Eins a Sannchriſtenn madur og eitt gott GUds-Barn ad hafa auga a ſijnu Sinne og Skyln-ingar vitum, og hallda þeim i Taume med chriſtelegum Setninge og Sidferde, Hebr. 12. Giora hverke nie tala nockud an GUDS Otta; helldur ſkicka ſier ſem eitt vel ſidad, hlyded og audſveipt barn, ſem lijtur alltijd fyrſt til ſijns Fodurs, þegar þad ſkal tala edur giora

giøra nockud, og allar þess at-hafner eru Fullar af Otta seme: Flester meñ, a þessum døgum, giefa sig til tijmannlegrar glede, an alls GUds otta; enn þad er betra ad hafa alltijd GUds Otta i hiartanu, eñ ad lifa i Heimsens bijlijfe, þvi Otte GUds er uppsprettu brunnur Andaktarennar og Vijsdomsens, enn fyrer þa Faanytu og Forgengelegu Heimsens Glede misser madur hann andlega Vijsdom, Andakt og Otta GUds.

Madurenn endurnyast daglega fyrer sijfelldt Angur, Hrygd, og deyding Holldsens, epter þvi sem þar stendur 2. Cor. 4. þo vor ytre madur Fordiarfest, þa endurnyast sꝏ innre daglega, og soddan færer med sier Guddomlega og Himneska glede, og o-utseganlegann Sætleika; Hvar a mot ad Vellyst Heimsens aflar hrygdar, og fæder af sier vondann Orm i hiartanu; Ja, so stoor er Hørmung Saalarennar, og so mikell Skada misser a Himneskum Gaafum sem hlytst af Vellystingum Holldsens, og Heimsens Sællijfe, ad sa sem þad vill grant grunda, Hañ fer ecke a mis vid þad, ad hafa ecke oþocknan og vidbiod a Heimsens Glede.

Tveñt er þad, sem hver einn skyllde vel og vandlega yfervega i sijnu Hiarta, og muñde hann

hann þa traudlega gledia sig af heimsens Vellystingum, eda hryggiast af nockru tijmanlegu motkaste: þad eina er Straff þeirra fordæmdu. Ef ad su eilijfa pijnan er riett ynervegud i Hartanu, þa lætur hun manneñ alldrei slaa sijnu Sinne til Heimsens, Pred. 5. eda forlysta sig i hans Girndum, einkum, þa hann þeinker, ad þær Helvijtsku pijsler sieu eilijfar. Annad er eilijfs Lijfs eilijf Glede: þar sem ad hiartad mannsens Høndlar hana og smackar i Andanum, þa lætur hun ecke mannenn af nockre olucku vera leinge hryggann i þessum Heime, nie gleima himneskre Huggun, sem yferbevijsar ad glede annars Lijfs verde eilijf, og ad allt þad tijmannlega sie Faanytt og Forgeingelegt. Eñ Faavitska, blindne og Hardydge vors Hiarta velldur þvi, ad vier ecke grundum eda yfervegum neitt af þessum hlutum riettelega, og þar fyrer kiemur þar skialldan Heilagt Angur og Jdran, edur Himnesk Glede i vor Hiortu. Einn christenn madur skal ecke glediast miøg so, edur fagna af nockrum tijmanlegum Hlutum, helldur skal hann forlysta sig i Gllde og yfervegun eilijfs lijfs, ecke helldur ber honum ad falla i ofmikla Sorg og Angist vegna forgeingelegra hluta; Enn af tøpun einnrar Saalar, sem er komen i eilijfa glotum, hefur madur

madur orsøk til ad syrgia alla sijna lijfdaga, þvi christenn madur misser eckert af þeim fallvølltu giædum, so ad hann faae ecke hundradfallt aptur i ødrum Heime; Enn Saal su sem einusinne tapast, kann alldrei aptur ad giefast;

Þar fyrer er sa madur Sæll, sem reyner bæde þessa Gudlega Hrygd, so og einnen þa andlegu og Himneſku Gledena; vier erum þraatt og opt inntekner af liettferdugum Hlaatre, og oſkickanlegre ossakiæte, þar oss hefde vored helldur ad vera døprum og graatande, þvi þar er eingenn sønn gladværd edur Frelse, nema i GUds Otta og goodre Samvitsku, hveria madur kann ecke ad geima, nie henne ad hallda an Trwareñar, og Heilags Lifnadar. Tijmenn, sem fylger gudlegre Hrygd, leidrietter dag epter dag Mannsens brest, Fyrer Heilagann Anda. Sa sem ecke betrar daglega sijna Breste og avirdingar, forsoomar þad allra besta i þessu lijfe, Hann stendur a mote þeirre Nyu Fædingu, forhindrar GUds rijke i sialfum sier, og kañ ecke ad frelsast fra sijnum hiartans Blind leika.

Sa er alleina forsiaall og vitur, sem med allre astundan rymer þvi fra, sem hann meinar ad hindra kunne Lijfsens leidriettingu, og

og framførena i Himneskum gafum; Enn heppenn er sa madur, sem ecke einasta lærer ad uñ flya þad, sem hanns lijkama er til Skada, helldur og einnen miklu framar þad, sem hann skyniar ad Saalunne kunne þyngsle edur Skadsemd ad auka. Tak þier þess vegna fyrer Hugprydе i þijnu Hiarta, og giefdu þig orugglega a mote þijnum Ovin. Vertu viss um, ad vondur Vane kann med goodum yferunnenn ad verda, epter ordum Postulans Paals Rom. 12. Laattu ecke yferstijga þig hid vonda, Helldur yferwinn þu þad vonda med goodu. Madureñ kann vissulega ad leidriettast, ef hann giefur framar giætur ad siaalfs sijns Frañferde eñ añara: Littu fyrst tilsialfs þijns, adur eñ þu dæmer adra; Aminntu fyrst sialfann þig, og sijdan adra, Hverium þu villt vel.

Hafer þu gudlega Hrygd og Angur i þijnu Hiarta vegna Syndanna, og verder þu þarfyrer af Heimsens bornum foraktadur, so ad eingenn mannleg Gunst nemur stadar hia þier, þa laattu þad ecke falla þier næsta þungt, edur auka Sorger þijnar, Helldur vertu þar fyrer Hryggur, og kvarta um þad med sialfum þier, ad þu kallest christenn, eñ lifer þo ecke so christelega, sem þu skyllder: þu ber christed Nafn, eñ giorer þo ecke so

mørg christeleg verk sem þier soomer. Pad er gott og heilsusamlegt fyrer þig, ad þu sturlast af Heimenum, so ad GUD mege gledia þig aptur, epter þvi sem hann seger Esa. Cap. 57. v. 15. Eg Drottenn by i Hædunum og i Helgedomenum, og hia þeim sem hafa sundurknosadann og lijtelaatann Anda, so ad eg lijfge Andann þeirra lijtelaatu, og þau sundurknosudu Hiørtu. Pad er hartnær omøgulegt, ad bæde Gudleg og Veralldleg Glede sie under eins og a sama tijma i mannsens Hiarta, þvi þær eru hver annare gagnstædeleg og hafa olijkann uppruna, þvi heimsens glede kvikuar mest, þegar vel geingur, enn su Himneska i Krosse og Motlætingum.

Pad er ecke Natturlegt ad menn gledie sig af harmkvælunum, og sieu epter S. Paals ordum, sem Syrgiendur enn þo jafnan glader, so sem faatæker, enn þo marga auduga giørande, so sem þeir ed eckert hafa, eñ eignast þo alla Hlute: Enn Naad GUDS forbetrar Naatturuna, so sem vottast a Postulunum, þvi þeir gløddust þar af, ad þeir urdu verduger ad lijda nockud fyrer Nafned JEsu Christi. Eins er þvi vared um alla Sann-christna, sem eru ny Skiepna, þeir fagna motgangenum; Motlæted sturlar ad sønnu gamla mannenn, eñ þvi tekst þad

ecke vid þann Nya; þvi hann hroosar sier i Hørmungunum med hinum Sæla Paale Rom. 8. Gleden, su sem ad ofan kiemur, er miklu ædre enn jardnesk vellysting; ad lijda forakt og smaan vegna Christi, er glede fyrer einn christenn mann. Enn vier sialfer erum orsøk til þess, ad su Himneska gleden hlotnast oss so skialldan, þvi vier erum so magnlega innlijfader faanytre Heimsens glede.

Hver sem sannarlega er lijtelaatur, hañ reiknar sig verdugann þeirra Hørmunga og Hrellinga, sem hønum tilfalla, eñ overdugañ til ad faa Gudlegar Hugganer; eñ þess overdugre sem hann helldur sig, þess optar og iñelegar heimsæker GUd hañ i sijnum sætleika, og þvi meir og optar sem hann er Angurvær fyrer Synder sijnar, þvi beiskare og leidare finnst hønum Heimurenn.

Sa sem sialfann sig athugar so sem vera a, og tilhlijdelegt er, hann finnur laangtum fleira, sem hønun ma vera til Hrygdar, enn Fagnadar; og nær hañ ransakar annara manna lifnad, finnur hann fleire orsaker til ad graata yfer þeim, enn ad øfunda þa: þegar HErrañ Christur griet yfer Borgenne Jerusalem, sem sialfann hann offsokte, og hønum kom i daudann, þa harmade hann vegna

vegna hennar Blindleika, og svijvirdelegra Synda; Eins lijka høfum vier stærstu orsøk til, ad graata vegna vorra og annara Synda og Jdrunarleyses. Ef madur liete sier so opt koma til hugar, ad hann ætte ad deya og sidan frame fyrer Dom-Stol Drottens ad standa, sem hann þeinker um sitt Lijf, ad hann meige þvi bijhallda, og um Lijkamans hagsmune, þa munde hañ vissulega daprare verda, og astundunarsamare til Jdrunar og yferbotar. Ef hann gaumgiæfde eilijfar pijsler riettelega, þa kynne hann ei annars, eñ fa hatur a Heimsens vellystingum, og þær yrde hønum beiskar, enn jafnvel þær stærstu, heimsens hrellingar, liettar, ad reikna mote eilijfre pijnu; eñ sokum þess vier høfum so mikla girnd til Holldsins epterlætis, og laatum epter þvi i øllum pørtum, þa verdum vier ecke upplyster sem skyllde med andlegu Forstande, eda med brennande andakt upptendrader.

J stuttu maale ad segia: Pad ma hver einn vita, ef hanns lijkama gengur vel, og lifer i sijnum Vellystingum, þa er þad drepsoott fyrer Andann, eñ krossfestest holldet med þess girndum og tilhneigingum, þa lifer Andenn: Daude þess eina er Lijf hins annars; Ef Andenn a ad lifa, þa hliota þeir naatt-

urlegu Kraptarner ad deya i andlegann maata, og verda eitt lifande Offur. Þetta lijfsens haattalag hafa aller þeir Heilogu haft, fra upphafe Heimſens, þeir hafa med þacklæte eted ſitt Sorgarbraud, og med glede drucked ſinn Harmabikar, hvar um David talar i Pſalm. 80.6. þu fæder oſſ, ſeger hann, med Harmabraude, og birlar oſſ drick med ſtoorum mæler fullum taara; og i Pſalm. 42. *Mijn Taar voru mijn Fædſla Nott og Dag;* og i Pſalm. 102. v. 10. Øſkuna et eg lijka ſem braud, og med harmenum ſamblanda eg miñ Dryck. Þetta Harmabraud ma Trwenn ſætt giøra, og þeſſe Taaradryckur utpreſſaſt fyrer ſanna Jdran af þeim ſundurknoſudu Hiartnanna vijnþrwgum, og þad er ſu *hrygden til Saaluhialpar, hverrar mann idrar ecke;* þar þvert a mote, *verkar þeſſe Heimſhrygd Daudann*, epter S. Paals ordum: Soddan Ver alldleg Hrygd kiemur þar af, þegar menn miſſa Heidur vølld og virdingar ſtundlegar, ſem og einnin fallvalltann aud, og kviknar þar af opt og tijdum, ſo margt og miked Angur, ad menn heingia ſig ſialfer, ellegar ſlaa ſig i hel; af hverium Dæmum noglegt er i Hiſtorium Heidenna manna, enn chriſtner menn ſkylldu hier uñ betur frædder vera: Hverninn er þad mogulegt ad miſſer tijmanlegra Fiemuna ſkule preſſa lijfed ut af Mañenum? Er

Er ecke Lijfed dyrmætara eñ gots alls Heimsens? Syrg ecke, mitt Barn, søkum missers tijmanlegra Giæda, helldur þeirra eilijfu, sem Adams Synder og þijnar hafa orsakad.

Brwkun tijmanlegra Muna er skam̃vinn, hun nær ecke lengra enn til þess vier deyum: J Daudanum verdum vier aller eins faatæker. Vor Dyrd fer ecke med oss. Hreiñingu Daudans erum vier aller jafnt undervorpner. Kongsens lijkame hlytur ei sijdur ad forrotna, eñ þess aumasta þurfamans, so þa er betre lifande Hundur eñ daudt Lioon, so sem Salomon seger i Predikunar B. 9. Cap. 4. v. Eñ Drottenn mun uppsvelgia Daudann eilijflega; hann mun burttaka Hiwpenn, þañ allt Foolk er medhiwpad og þa Byrginguna, sem allar þiooder eru med byrgdar, og hann mun þerra Taarenn af allra Auglite. Þarfyrer skalltu med stilltu giede um̃bera Skada Veralldlegra muna, og þad þeinkia, ad allur Heimurenn er ecke fullvirde þinnar Saalar, fyrer hveria ad Christur JEsus gaf ut sitt Lijf. Ef þu elskar mogulega þesse faanytu veralldar Giæde, þa verdur þijn Hrelling stilltare, þegar þau skilia vid þig, eda þu vid þau; þad sem madur elskar ofmiked, þad hrygger hañ ofmiked, þegar hann misser þad; og þu hlytur þo ølluu ad sleppa i Daudanum. Erfide

heimstra verdur þeim þungt; seger Salomon Predikunar B. 10. Cap. v. 1. Syner þessarar Veralldar utvega sijn Audæfe med stærstu erfidis munum, og ecke hafa þeir minne Ummhyggiu fyrer þeim a medan þau eru þeirra eign; Eñ allra mest angrast þeir, þegar vid verdur adskilia. Þetta er su veralldarennar Hrygd, sem af sier fæder Daudann.

J Openberingar B. 14. Cap. Lesum vier, ad þeir sem tilbaadu Dyred, høfdu einga Roo: Þessum lijkiast þeir, sem tilbidia þa føgru Dyrs Mynd jardneskra audæfa, þvi þeir hafa einga Hvijld edur Naader, helldur margfalldar plaagur, bæde innra og ytra;

Þeim ma samlijkia vid Cameldyr og Mwl-asna, þvi so sem þau flytia a sijnu bake yfer Fiøll og Halsa, Sylke, Klæde, Edalsteina, Dyrmætar Jurter, Vijn og Balsam, Dragande med sier stoora Fylking af Sveinum og Þienurum, til adgiætslu og vøktunar enn ad kvølldе, strax sem þau eru komenn ad Stallenum, er af þeim dreiged allt dyrindis Skart, og giørvøll pryde, sem þau hafa bored um̃ dagenn, eru þar þa epter þreitt og bersnaud, med meidslum og ørkumslum: Eins eru þeir sem i Heime þessum skarta med Flaugel og Gylline-stycke, elska Gull, Gimsteina,

steina, og adra Veralldar mune, þegar yferkiemur bad seinasta Lijfsens Kvolld, þa bera þeir ekert annad ur bijtum, eñ meidsle og ør Syndanna, sem þeir hafa hloted af vanbrukun audæfanna. Lærdu þess vegna, o Madur! ad skilia vid Heimenn, adur enn hann skilur vid þig, annars verdur yckar Skilnadur þier næsta sorgarlegur. Sa sem skilur sijna Saal, sinn Hug og Sinne vid Heimenn, og snyr sijnu Hiarta og Elsku fra hønum, a medan hann lifer, hann deyr gladlega, og fær einga Hrygd, nie beiskt Angur af misser veralldlegra Gersema. Þegar so var komed fyrer Israels Folke, ad þad aatte ad skilia vid Egypta Land, þa var þad meir og meir underokad med þyngsta byrdum af Pharaone, sem sette sig þar epter, ad þad yrde ølldungis afmaad: Eins lijka, þvi nær sem vier erum Daudanum, þvi meir smeiger sa Helvijtske Pharao, Diøfullenn, þvi i vor Hiortu, ad vier skulum þvijnga oss med tijmanlegum Hlutum, so hann kuñe ad fordiarfa oss ad eilijfu. Og er slijkt furdanlegur Blindleike, þar sem vier gietum ecke eina øgn flutt med oss iñ i Himnarijke, af neinne jardneskre audlegd; þvi þangad er so mioor vegur og þraungur, ad allt þad jardneska, og jafnvel lijkamenn, sem er hyde Saalarennar, verdur fra ad standa,

allt til Upprisudagsens. Pad er þraungur og mioor vegur, sem liggur til Lijfsens, og þeir eru Faaer, sem hann rata, seger Frelsaren vor, Matth.7. v.13. So sem Akurmadurenn adskilur Hveited fra Smælkenu, so frijar Daudenn þad gooda Sæded trwadra Saalna, fra þessa Heims Hisme og øgnum, þad er, jardnesku Gootze og virdingum, þvi allt soddan er raunar ecke annad enn Fis og Agner, Hveriu vindurenn Feyker hingad og þangad. Psal.1. v.4. Þar fyrer laattu þier alldrei ur minne falla, þad sem S.Paall seger: Ad þessa heims Hrygd verkar daudann, enn su hrygd, sem er af Gude, verkar Jdran til Hiaalprædes, hverrar eingann þarf ad idra.

# Cap. XXI.

## Um̃ þa riettu GUds Dyrdkun edur Pioonustu.

Levit. 10. v. 1. og 2.

Syner Aarons bæru annarlegann Elld fyrer Drottenn, og þar giek Elldur ut fra Drottne og Uppsvelgde þa.

ÞEsse annarlege Elldur merker Falska GUds Pioonustu, og kallast annarlegur, af þvi hann var ecke af þeim Ellde, sem ydduglega brann a Alltarenu, og GUd hafde skipad, ad þar til skyllde brwkast. Med þvi Aarons

Syner

Syner giørdu a mote GUds bode, þa straffade GUd þa med einum Hefndar Ellde, sem þeim Fortærde. Hier siaaum vier hvad hastur og harla reidur GUd hefur orded fyrer saker þessa annarlega Ellds, og vill Heilagur Ande setia oss fyrer Siooner, med þessare brwkun annarlegs Ellds, nockurskonar Imynd þeirrar følsku GUds Þioonustu, sem uppfunden verdur af eigen velþocknan, Andakt og Heilagleika, hveria GUd hefur ecke boded, hañ vill syna oss, ad GUd verdur ecke þar med dyrckadur, helldur uppvakenn og egndur til vandlætes og Hefndar, sem einn fortærande Elldur; þess vegna er stoor Naudsyn, ad vier vitum, hvilijk ad sie su rietta GUds þioonusta, so ad ecke kome yfer oss soddan refsing. Þad, ad GUd straffade þa følsku GUds Þioonustu, med tijmanlegum Ellde, i Gamla Testamentenu, hefur þa þyding, ad hann a Tijmum beggia Testamentanna, og þar fyrer og so a Nya Testamentesens døgum vill straffa falska GUds þioonustu med eilijfu Kvalanna Baale, so vel sem hier tijmanlega, med Bardøgum og Bloods uthellingum, Landa og þiooda Eydeleggingum, hvad allt reiknast ma skielfelegur Elldur af GUds Reide upptendradur.

Ef vier vilium riett underskanda, hver ad sie siu sanna GUds þioonusta, hellst i Nya

Testamentenu, þa skulum vier vita, ad hun hefur þrennt sierdeilis inne ad hallda: fyrst rietta þecking a Gude; þar næst a Syndeñe og Jdranenne; J þridia maata a Naadeñe, og fyrergiefningu Syndanna; og er þetta þrennt eitt. Lijka sem sialfur GUd er einn og þrennur, so er og riett GUds þioonusta innefalen i einu og þrennu, ellegar i þremur portum, sem eru eitt, þviad Jdranen og Syndanna Fyrergiefning, kiemur af GUDS þeckingu; enn GUds þecking er innefalen i Trwnne, sem HErrann Christum ummfadmar, hun þecker GUd i honum og fyrer hann, hun þecker GUds Almætte, GUDS Elsku og Miskunseme, GUDS Riettlæte, Sannleika og Speke, og þetta allt er GUD Sialfur, jaa eckert annad enn Almætted Elskan og Miskunsemen; eckert annad, enn skiært Riettlæte, Sannleike og Speke, allt þetta er og einnen Christur og Heilagur Ande. Nu er GUd ecke þetta alleina fyrer sialfann sig, helldur og einnen er hann so vid mig, epter sijnum naadugum Vilia, i Christo JEsu: hann er mier einn Miskunsamur GUd, hann er mier þad eilijfa Lijfed, hann er miñ Almaattugur GUd, mitt eilijfa Riettlæte, hann medtekur mig til sinnar Naadar, fyrergiefur mier mijnar Synder, og er mier

saa eilijfe Sannleike og Vijsdomur. J sama maata er JEsus Christur minn Drottenn, hann er mier þad eilijfa Almætted, mitt almaattuga Høfud, og lijfsens Høfdinge, minn miskunsame Frelsare, mitt eilijfa Riettlæte, Sannleike og Vijsdomur; þvi Christur er oss af GUde giørdur til Vijsdoms og Riettlætes, og Helgunar og Endurlausnar; þetta allt og hid sama er og einnen Heilagur Ande. Þetta er su rietta þeckinga GUde, og er innefalen i Trwnne; hun er ecke eintoomis Vitund, helldur eitt ørugt lifande, og kroptugt Trwnadartraust, fyrer hvert eg finn kroptuglega i mier, GUds Almætte, ad hann ber mig og vidhelldur mier, og jeg er, life, og hrærest i hønum; jaa eg er viss i Hiartanu um hans Elsku og miskunseme vid mig, þvi hvernen kann meire kiærleike ad upphugast, helldur enn sa, sem GUd Fader, Christur JEsus, og heilagur Ande hefur oss øllum yferfliootanlega audsyndt? hvada miskunseme og riettlæte kann fullkomlegra ad vera, enn þad, med hveriu hann frelsar oss fra Syndenne, Daudanum, Helvijte, og Dioflenum; Eda hveriu verdur auked a hanns himneskann og obrygdanlegann Sannleika og Speke.

Siaa þetta er Trwen, sem er innefalen i lifande og kroptugu trwnadartrauste, enn ecke

ecke i toomu ordaskvalldre, og Mælsku hlioomi. J þessare GUDS þeckingu edur Trwnne, ber oss ad fara dagvextum, meir og meir, so sem GUds bornum hæfer: þar fyrer oosskar Heilagur Paall þess, ad vier kynnum ad þeckia kiærleikann Christi, sem yfergeingur alla Skynsemie og forstand, og vier mættum komast ad raun um̃ þad, ad þad er laangtum betra ad elska Christum, enn ad vita alla hlute; Sem villde hann segia: þo vier legdum þar a alla vora aastundan, a medan vier lifum, ad þeckia Christi kiærleika, þa hryckium vier hverge til þad diup ad kanna: Enn ecke a þetta so ad skilia, ad vier skulum vera anægder med þad, ad vita af Christi Elsku, sem utbreider sig yfer allann Heimen̄, helldur ad vier og einnin̄ orðenu og Trwnne meigum formerkia, finna og smacka krapt og liif þessa kiærleika i vorum hiortum; þvi hvernen kann saa ad þeckia riettelega Christi kiærleika, sem alldrei hefur hann smackad! Hvernen getur saa vitad hvernen honum sie haattad, sem alldrei hefur naad hanns funde, edur orded var vid hann sem þeir rettu Trwudu þvi seger H. Paall til Hebræos 6. Cap. þeir hafa smackad þa himnesku Gafu, og þad gooda GUds ord, og krapt epterkomande alldar, hvad allt ad skiedur fyrer Orded i Trwnne: Soddan er uthelling GUds kiærleika i vor hiortu

Hiortu fyrer Heilagann Anda, og er avøxtur og verkun GUds ords. Þetta fylger riettre GUds þeckingu, sem kiemur af Reynslunne, og er innefalen i einnre lifande Trw; og þess vegna kallar Paall Trwna, Understødu edur Grundvøll, og oraskanlega Bevijsing; og þetta er nu saa Fyrste partur af inn vortis andlegre GUDS Dyrkun, sem er þecking GUds, innefalen i einnre lifande Trw, hver Trw ad er ein andleg lifande og himnesk Gaasa, GUds kraptur og lioos.

Finnest nu þesse sanna GUds þecking i oss, fyrer hveria GUd lætur vorar Saaler smacka sinn Sætleika, eins og adra lystelega Fædu, so ad David sem lifde a þessu Sælgiætenn, gietur ecke bundest fyrer ad hroopa upp i Psalm. 34. segiande: Smacked og siaaed hvad sætur ad Drottenn er; þa kann ecke annars ad vera, enn ad þar fylge epter alvarleg Idran, það er hugskotsens endurnyung, og lifnadarens Leidrietting. Þvi af tilfinningu og riettre þeckingu GUDS Almættes kiemur lijtelæted, so ad madurenn audmyker sig og lijtelæckar under vollduga GUds Hønd. Af Smeck GUDS miskunar framm kiemur Kiærleikurenn til Naungans; þvi eingenn, sem þecker GUds miskunseme, gietur vered omiskunsamur, og hvernen skyllde sa kunna

ad

ad vera hardraadur vid sinn Naaunga, sem finnur og formerker GUds rijkuglega Naad og miskunseme vid sig, og þar af kiemur Þolenmæde vid naaungann, sem so er alvarleg og hiartanleg, ad þott einn riettchristenn madur yrde Siosinnum myrdtur og drepeñ a einum dege, og lifnade Siøsinnum aptur, þa villde hann fyrer saker GUDS stooru miskunseme vid sig, giarnan fyrergiefa sijnum ovin allt þad Raanglæte.

Af þeckingu GUds Riettlætes frammflytur þecking Syndanna, so ad vier þar fyrer segium med Spaamannenum; Dan.9. Drottenn þu ert Riettlaatur, enn vier meigum skammast vor; og med David i Psal.134: Drottenn gack ecke i doom vid þræl þinn, þvi fyrer þier er eingenn lifande manna riettferdugur; og enn aptur: Drott:nn, ef þu villt tilreikna Syndernar, hver kann þaa ad standast? Ps.130. Af þeckingu Guddomlegs Sannleika frammkiemur Trygd og truskapur vid Naaungann, sem burtdrijfur allt fals, Svikræde og lyge; so ad riettchristenn madur tekur sier fyrer ad þeinkia þannig i sijnu hiarta: Siaa! ef eg høndla ohreinlega vid minn Naaunga, þaa syndga eg a mote GUds eilijfum sannleika, sem er GUd sialfur þar fyrer lijka so sem GUd er trwr og sannordur vid mig, þa vil eg vera

vera lijka eins vid minn Naaunga. Af þeck-ingu GUDS eilijfrar Speke, uppsprettur Otte GUDS; þvi þar þu veitst, ad GUD ransakar hiortun og Nyrun, og sier alla hlute i giegnum, hvad leynder sem þeir kuna ad vera, þa maattu maklega vera ottaslegenn fyrer augum hans Guddomlega Velldes; Saa sem eyrad hefur plantad, skyllde hann ecke heyra, og sa sem augad hefur skapad, skyllde hann ecke siaa. Psalm. 94. vei þeim sem vilia vera hulder fyrer Drottne, til ad fela sitt æform, hverra giørningar ad eru i Myrkrenu, og segia: hver sier oss? hver þecker oss? hvernen eru þeir so rangsnwner, lijka so sem Mooreñ villde segia til Leirsmidsens, edur verked til sins Meistara, hann hefur mig ecke giørt, og leirpotturenn segde umm sinn Leirsmid; hann þecker mig ecke Esa. 29.

Þetta er nu su rietta GUDS þecking, sem heyrer til sannre Jdran og verkar hug-skotsens endurnyungu, og lætur sig siaa i betrun lifnadarens. Þetta er sa añar partur af riettre GUds Dyrkun, og sa heilage Elld-ur, sem færast maa til Offursens, so framar-lega, sem GUds Reide, og Hefndar elldur, a ecke yfer oss ad tendrast.

Fyrermyndan uppa þessa Jdran var þad forbod sem GUd giørde Kiennemønnun-um fordum, þar hann bannade þeim ad drecka Vijn,

Vijn, edur annann aafeingann dryck, þegar þeir gengu inn i Tialldbwd Vitnisburdarens, þvi ef vier vilium inngaanga i Tialldbwd eilijfs Lijfs, þa hliootum vier ad bindast fyrer Heimsens og Holldsens girnder, og ad sporna vid øllu þvi, sem andenn kann af holldenu med ad underokast; þvi Elskan til Heimsens, Vellysting, Drambseme, og adrer lester, eru so sem sætt afeingt Vijn, sem yfervinna Saalena og Andann, og hindra, so hann kann ecke ad komast inn i Gllds Bwstad, til ad þeckia hanns Helgedoom, og veit ecke ad giøra greinarmun a mille þess heilaga og oheilaga, þess hreina og ohreina: þad er, Madurenn skilur eckert af þeim Guddomlegu og himnesku hlut unum; Skynsemen og þaankarner verda ecke upplyster af þvi eilijfa Lioosenu, helldur sigrast hann af Vijne þessa Heims, og hrapar i þad eilijfa Myrkur.

Þegar nu Jdranen, edur og alvarlegt Angur og hrygd fyrer Syndernar er komed, sem og einnen kroptug Trw a JEsum Christum, þa kiemur efunarlaust a epter Fyrergiefning Syndanna, sem alleinasta er bygd og grundvøllud uppa Forþienustu og verdskulldan JESU Christi, hverrar eingenn kann hluttakande ad verda fyrer utan sanna Jdran, og þess vegna giefst eingen Fyrergiefning Synd-

Syndanna, nema fyrer sanna Jdran. Hier af hlaut Ræningenn a krossenum ad giora Jdran, so hann feinge Syndanna Fyrergiefning, og yrde i fylgd med JEsu inn i Paradis; Og hefur su Jdran eingenn laataglaumur vered, ellegar Munnflapur helldur utgeinged af innsta anda, so sem vottast af hans aavijtunar ordum, sem hann talade vid sinn Lags-Broodur, segande: hvert ottast þu ecke helldur GUd? Vid medtøkum ad søñu, sem ockar giørningar eru verduger, enn þesse hefur eckert vondslegt adhafst; Hier næst seger hann til JEsu: Drottenn minnstu mijn, þa þu kiemur i Rijke þitt: Sannlega eru þetta vissar bevijsingar til þess, ad þar hafe vered fyrer trwad og sundurmared Hiarta. Enn i þeirre naadar rijku aflausn Syndanna, sem idrande Hiarta ummfadmar, og ødlast i Trwñe, er so stoor mikell Kraptur, ad hann bæter umm allt þad hia Gude, sem oss var omøgulegt ad frid-þægia, og lagfæra, og þad fyrer Blood og Dauda JESU Christi, med hverium hañ borgade allt vorra vegna, og giørde ad eingu vora Klæke, lijka sem vorar Synder hefdu alldrei drygdar vered; jaa yfergnæfanlegleike Christi Forþienustu var so mikell, ad hañ ecke einasta gilldte til iafns vid vorar Raanglætingar, helldur gieck langt yfer allann vorn Synda-þunga; þess vegna bidur

hin heilage David i Psalm. 51. ad hann ecke alleina hreinsest af sijnum Syndum, so ad hann verde Snioo-hvijtur, helldur ad hann verde hvijtare enn Snioor, þvi lausnargialldeд var langtum stærra, enn alls Heimsens Synder, so sem strax var aaminst. Hier af kiemur þad, þegar einn Syndare giörer Idran og yferboot, ad GUD vill alldrei minnast framar hanns Synda, so sem stendur hiaa Esech. 18. þvi þad sem fullkomlega og yferfliootanlega er betalad, so ad bwed er ad draga, yfer Skullda Registrid ad fullu og öllu, þad hlytur gleimt ad vera; Enn sönn Idran boot og betran maa þar fylgia med, so sem HErrann giefur ad merkia þar hann seger: Es. 1. þvoed og hreinsed ydur; taked ydar Illsku breitne i burtu fra mijnum Augum; komed sijdan, og eigunst Lög vid; þo ydar Synder sieu raudar sem blood, þaa skulu þær verda hvijtar sem snioor. So sem hann segde: þier heimted af mier Syndanna fyrergiefning, vegna Saattmaalans, sem eg hefe giort vid ydur; þad er riett, eg hefe lofad ydur henne; enn komed, seger hann, vier vilium eigast Lög vid: hefe eg ecke laated predika Idranena fyrer ydur, og þar uppa laated tilsegia ydur Syndanna fyrergiefning? hvar er þa ydar Idran? hvar er ydar sanna og lifande Trw? sie hun til hiaa ydur, þa er allt

allt vel, hier er þa og so til reidu Syndanna Fyrergiefning; og þo ydar Synder være bloodraudar; þad er, so storar og diupt litadar, og groomteknar ad Himen og Jørd, kynne þær ecke ad wtslietta, þa skulu þær þo verda Sniochviitar. Idranen jaa Idranen, sege eg, er su rietta Skriptar-jaatning: ef þu hefur hana i þijnu Hiarta, þa afleyser Christi Blood og Daude þig af øllum þijnum Syndum, þvi þad er þad Hroop, sem JEsu Christi uthellta Blood giører til GUds, og talar betur eñ Abels Blood, so þu verder frij bæde fraa Synd og Sekt.

Soddann Angur og Trege fyrer Syndernar, og Traust til GUds, uñ þeirra Fyrergiefning, er sa riette flotte til Frijstadanna, hvar madur ma vera ohultur fyrer Blood hegnaranum, og skulum vier vita, ad Moises hefur, til fyrermyndunar uñ soddann, adskiled þær þriaar Borger: Beser, Ramoth og Golam, sem skrifad er, Devt. 4. Til hverra sa maatte flya, sem hafde ofyrrersiniu sinn Naaunga i hel sleiged; Med hverre Figuru oss verdur kiendt, ad so opt sem vier slaaum vorn Naaunga i hel med Tungunne, Hugrenningunum, Ofund, Reide, Hefnd, og Omiskunseme, þa sie oss braadlega ad skunda, fyrer flootta Idranarennar og Trwarennar,

ar, til þeſſ ørugga Viiges og faſta Frelſes ſtadur, Naadar og Miiſkunar Gllds, til Kroſſens JEſu Chriſti, og hañs dyrmætu Forþienuſtu; hvad ef vier giorum, og høllddum um̃ hana daudahallde, mun oſſ ølldungis vera ohætt, ſo ad Blodhegnarenn mun ecke hondla oſſ aptur, og ecke mun oſſ verda innmællt med hinne ſømu Mælingu, ſem vier mælltum ut vorum Naaunga.

Þvi ad þeſſer Fryſtader merktu þad ſterka Viiged Herrann Chriſtum. Beſer þyder ſo mikid ſem faſt Slot edur Feſting; JEſus vor Frelſare er ſu rietta Feſting, þvi, Nafned Drottens er øruggur Kaſtale, til hvers ſa Riettvillte flyr og verdur hoolpenn Ordsk.B. 18.Cap. Ramoth merker ſo miked, ſem Upphafenn: Chriſtur er þad rietta Ramoth; þvi hañ er haatt upphaafenn, ja, ſa allra hædſte, i hvers Nafne ſig hliioota ad beigia øll Knie, þeirra ſem a Himne, og a Jørdu og under Jørdunne eru, Phil. 2. Golam kallaſt ſamankomenn Fiollde: Chriſtur er þad rietta Golam, edur nægdargiædſka, hiaa honum er noogleg Endurlauſn, ſo ſem David vottar i Pſalm. 130. Hañ er riikur og miſkunſamur vid alla þa ſem hañ akalla. Og þetta er nu ſa þridie parturen̄ af þeirre Jnnre ſañarlegu og Andlegu Gllds Dyrdkun, ſem upp-

renn-

rennur og frammflytur af GUds Peckingu, og er uppsprettu Brunnur Jdranarennar, og Trwarennar; Enn af Jdranenne og Trwnne frammflytur Fyrergiefning Syndanna. Þetta eru ad sonnu þrijr hluter, eñ þo raunar eitt, þvi þad er su rietta og stadfasta GUds Pecking; og þesse þridie parturenn var med þvi fyrermyndadur, ad Prestarner aattu ad eta af Offre Drottens 3. Moisis B. 10. Cap; þviad vier eigum, so sem andleger Kiennemenn, ad tileinka oss Christi Blood og Dauda fyrer Trwna; og ad Offred skyllde etast i heilogum Stad, mercker þad, ad vier, i sannre Jdran og yferboot, skylldum neita þeirrar Himnesku Fædunnar, þvi Trwen giorer oss, i Krapte Bloodsens Christi, so Heilaga fyrer Gude, so sem vier hefdum alldrei nockra Synd giort; epter þvi sem skrifad stendur hiaa Ezechielem 18. og 33. Cap. *Nær hinn ogudlege snyr sier, þa skal hanns Syndum gleimt verda, og eingen af hans Illgiørdum skal festast i minne.*

Þetta er su sanna GUds Pioonusta, fyrer hveria vier fornfærum Gude Saal og Lijkama, og færum honum eitt skylldugt þackletesens Offur, giefande honum Dyrdena, fyrer þad, hañ hefur openberad oss þennann lærdoomenn, um Jdranena, Riettlætinguna og Syndanna Fyrergiefning; uppaa þad ad GUd

ſie alleina allt; hanns Naad meige riett þeckiaſt, og med þacklaatum Munne og Hiarta pryſaſt ad eiliifu: Þetta meinar og einnen Micheas, þar hann ſeger: Cap. 6. Hañ hefur kunngiort þier, o Madur! hvad gott er, og hvad heimter Drottenn af þier, utan ad giøra riett, og ad elſka Miſkunſemena, og liitelæcka þig og ganga med þiinum Gude?

Vier daudleger menn, ſem Syndanna Fyrergiefning vilium faa, þvi giørum vier ei Jdran og betrum oſſ? þar Kvittanen fæſt ecke nema fyrer Jdranena? hvernen kann Synden ad fyrergiefaſt, þar ſem ad ecke er neitt gudlegt og hiartannlegt Angur fyrer Syndernar? og hvernen kann þar ad vera Angur fyrer Syndernar hiaa þeim, ſem ecke vill laata af Syndunum og betra ſinn Lifnad: GUD giefe oſſ øllum ſanna Jdran og Yferboot fyrer JEſu Chriſti ſkulld! So fær þu nu vel ſkiled, Chriſtenn Madur, ad ſannarleg GUds Þioonuſta a ad vera ſierdeilis i Hiartanu, i GUds Þeckingu, i Umvendan fra Syndunum, fyrer hveria Hollded deydeſt, og madur endurnyaſt til GUds Myndar og verdur um̃ ſiider heilagt GUds Muſtere, i hveriu innvortis Þioonuſta GUds framkvæmeſt fyrer heilagann Anda; ſem er Trwen, Kiærleikurenn, Vonen, Liitelæted, Þolennmæden, Bænen, Þackargiørden og GUds Lofgiord:

Enn

Enn þoott þesse Dyrdkun ahrære sialfann GUD, og veitest honum einum, þaa skulum vier þo ecke laata oss þad til huggr koma, ad hann hafe þorf a vorre þioonustu, edur honum sie nockur nytsemd i henne, helldur erum vier honum um̃ hana margskylduger; hann er so goodur og miskunsamur, ad hann vill giarnan meddeila oss Sier siaalfum, med øllum sijnum ylmande Sætleiks giædum; hañ vill lifa, verka, og bwa i oss, ef vier ad eins fyrer hañs þeckingu, fyrer Trwna og sanna Jdran, fyrer hanns rietta Dyrdkun og Þioonustu, medtokum hann, so hañ meige hafa sitt adsetur og bwstad hia oss; þvi eingenn vor verk eru Gude þeck og þægeleg, nema þau sem hañ sialfur fram̃kvæmer i oss: Þessvegna hefur hañ boded oss ad giora sanna Jdran, ad Trwa, ad Bidia og ad Fasta, so ad vier siaalfer, enn ecke hann, høfum gagn og gooda þar af; þvi eingenn kann ad sæma edur svipta GUD neinu, eingenn ad bæta hanns Raad edur giora honum nockurn Skada.

Ef vier erum froomer þa høfum vier sialfer þar gott af: Sieum vier vonder, þa meigum vier og einnen þar af drecka. Ef þu syndgar, hvada Skada villtu giora Gude þar med? spyr Elihu. Þar fyrer þegar GUD skipar oss ad þiena sier, þaa giører hann þad ecke

 sinna

sinna vegna, helldur vorra vegna. Af þvi hann er siaalfur Kiærleikurenn, þa er honum þad nærsta þægelegt, ad þeir verde sem flester, sem niota hanns Kiærleika, og verde honum fyrer Elskuna innlijfader. Lijka so sem Mooduren verdur þar af harla glød, ef Barned vill af hennar Briooſtum sig metta laata, og kiemur þad so til, ad hun elskar þad heitt og hiartanlega; so skulum vier vita fyrer vijst, ad GUD hefur þar af stoora velþocknan, þegar hanns hiartgrooen Elska smackast oss vel, og vier elskum hann aptur a mot; og skulum vier vita, ad GUds Kiærleike til vor, er i o-utseganlegann maata stærre, enn elska Moodurennar til Barnsens, þvi GUds Naad er stærre enn Himenn og Jørd.

## Cap. XXII.

## So sem Tried þeckest af Avextenum, so þeckest Sannchristenn Madaf eingu odru betur, eñ af Kiærleikuranum og daglegre Lifnadarens Betrun.

Psalm. 92.

Hinn Riettlaate mun bloomgast so sem Paalma vidur; hann mun vara, so sem Cedrus trie i Libanon: þeir sem innplantader eru i hwse Drottens, munu i Fordyrum GUds vors

vors bloomgast; og nær þeir taka alldrader ad verda, þa munu þeir þo bloomgast samt einnen, og Avaxtarsamer og fersker verda; so ad þeir kunngiøre, þad Drottenn vor GUD sie Riettlaatur, og eingenn Raangindе eru med hønum.

Ecke giører Nafned mañenn riettchristenn helldur Christelegur Lifnadur, og hver sem vill vera sannchristenn, skal stunda þar til, ad Christur JEsus siaaest i hønum, og verde auglioos fyrer kiærleikann, lijtelæted, og hoogværdena, þvi eingenn kann Christenn ad vera, i hverium Christur lifer ecke; Soddann lifnadur kemur vissuliga af Hiartanu og Andanum ad innan, lijka sem eitt Eple af innvortis bloomgunar vøkva og krapte Triesens. Andenn Christi stioornar voru lijferne, og giører þad so svipad hans frammferde, ad S. Paall seger þess vegna i Pist.til Rom. 8. þeir sem stioornast af GUDS Anda, þeir eru GUDs Børn; enn sa sem ecke hefur Andann Christi, hann er ecke hanns.

So sem Anden hrærer mannen hid innra og giører hann hreifelegann, so lifer hann hid ytra: þar fyrer er hin stædsta þorf a heilogum Anda til eins christelegs framferdes; þvi hvers eins lijferne stioornast af Andanum, hvert þad er gott eda vondt. Og þess vegna hefur Drottenn JEsus boded oss, ad bidia

uñ Heilagañ Anda, og til einkad oss hann, og hann er Ande þeirrar Nyu fœdingar, sem giorer oss lifande til ad hafa eitt nytt andlegt og himneskt lijferne og haattalag. Af þessum lijfande GUDs Anda, sem alltijd er Avaxtarsamur, hlioota christelegar Dygder ad frammkoma, næsta bloomlegar, so ad saa Riettlaate bloomgast, sem Paalmavidur, og vex, sem Cedrus-Trie i Libani Skooge, hvern Drottenn hefur plantad.

Hier fyrer endurnyast manneskian fyrst hid Innra, i anda sijns hugskots epter GUds Mynd, so ad hans giedsmuner og tilhneigingar verde lijkar JEsu Christo, og alls mannsens Frammferde samlijkest honum, hvad S. Paall kallar ad vera Eph. 4. Skapadur epter GUde. Og hlytur mansens utvortis lifnadur vissulega ad frammkoma af Hiartans grunne, so hann sie eins hid jnnra, og hann syneft ad vera fyrer mønnum hid ytra; og raunar skyllde þar vera meira gott hid innra i mannenum, enn þad er hid ytra, þvi GUD sier innre fylsnenn og rannsakar Hiortun og Nyrun. Og þoott vier kuñum ecke ad vera so froomer hid innra, sem Einglarner, samt eigum vier þo ad stunda þar epter med heitri Hiartans andvarpan, Og meigum vita fyrer vijst, ad GUD medtekur

vel girnd og epterlaangan þeirra trwudu, og Hreinsar oss; Med þui Heilagur Ande kiemur vorum Breyskleika til Hiaalpar, og bidur fyrer oss med o-ummrædelegum Andvørpunum, seger S. Paall. Rom. 8. jaa, Christi Blood Hreinsar oss so fyrer Trwna, ad þar er eingen hrucka edur fleckur a oss, og þad sem enn er meira, ad vor hreinleike, Heilagleike og Riettlæte, er ecke einasta so sem Einglanna, helldur HErrans Christi; Jaa, siaalfur JEsus Christur er giørdur oss af GUde til Riettlætes; 1. Cor. 1. þar fyrer skulum vier þeinkia, ad vor Heilagleike gengur laangt yfer Einglanna Riettlæte, og heilagleika, þui Christur er þad Sialfur Jer. 33. þetta tileinkada Riettlæte, sem er oforþient, og af skiærre Naad giefed, þesse Hreinleike og Heilagleike, a ad endurnyia, vora Lijkame, Saaler og Anda, og verka i oss heilagt Frammferde; þar fyrer skal hver einn af oss, vera i sijnum Christendom, sem eitt ungt Paalmavidar trie, er sijfelldlega bloomgast, vex, og verdur stærra, þui vier eigum ad vaxa og þrooast i Christo; og so miked dafnar hver einn, og þrooskast i Christo JESU, sem honum fer meir framm i Trwnne, i Heilagre Mannpryde, og christelegum Lifnade, og hann sig daglega forbetrar, fyrer þad Lijf sem christur verkar i honum, og þetta heiter ad bloomgast

sem

sem Paalmavidur, so sem þar stendur i Psalm-enum.

Þvi einn christenn madur a daglega ad endur-Nyast, vaxa og giefa af sier bloomst-ur, sem Palmavidur, og setia sier i sinne ad svara til siins Nafns, so sem hann i Dag fyrst være ordenn Christenn, og hefde teked uppa sig Nafn Christenna manna; hann a ad Andvarpa þar um̃ daglega, so hann finnest ecke ad vera fals-christenn. Liika so sem hver einn, sem er kalladur til nockurs Em-bættes, hlytur ad leggia kappa þad, ad standa trwlega i sinne stiett og kallan; eins eigum vier einnen ad giøra, sem kallader erum i Christo JEsu med heilagre Køllun: Hvar soddann heilagur Asetningur ecke er, þar er ecke helldur Betranen, þar er eingen Bloom-gun edur Vidgaangur i Christo, jaa, saa lifgande ande Christi er þar eige. þvi Aform-ed, ad giøra þad gooda, kiemur af heiløgum Anda, og er GUds undangaangande Naad, sem verdur fyrre til, ad hneigia locka og leida Manneskiuna til hins gooda, enn hun fær skiled. Heppenn er sa, sem lærer og hlyder giarnan raust Spekennar sem hroopar a strætunum: Allt hvad madurenn sier fyrer siinum Augum, minner hann a Skaparann; med soddan hætte kallar GUD oss, og vill draga til siin: Þegar

Þegar vier nu formerkium, ad GUD vill lada oss og locka til siin, þa skulum vier jafnsnart taka til ad giøra gott, þvi þad er sa riette og hæfelege tijme; þad kann fliott ad koma ein ønnur tiid, a hverre vier kunnum ad verda hindrader fra þvi ad þeinkia, heyra, giøra og tala þad gooda: þetta sier og veit su eiliifa Specken, og kallar þess vegna til vor allstadar, ad vier sleppum hverke fra oss tijmanum nie tækefærenu.

Giefum giætur ad einu Trie, sem stendur og vænter sijfelldlega epter varma Soolarennar, og loptsens goodre innfliootande verkan; þad er alltijd reidubwed ad taka a mote henne: Eins lijka verdum vier yferlyster af GUds Naad og himneskum innføllum, vier verdum med andlegum GUDS Miskunar straume yferstøkter; ecke vantar annad, eñ ad vier sliitum fra oss hindraner Heimsens, og tøkum a mote þessum Naadar straumum, og dreyppum a Hiørtunn vor, og allann iñra manneñ af þeim, lijka sem þyrster og þurrer Þurfamenn, so Saalin faae vøkvun.

Laattu þier til hugar koma, o madur! hversu stuttur ad tijmenn er; laattu þad hier epter, vera þier til vidvørunar, hversu ad þu hefur hingad til gleimt tækefærenu, ad

ydka

ydka Christelegar Dygder; haalfann tijma þinna lijfdaga hefur þu sofed af þier, og ødrum haalfum hefur þu eydt med brwkun matar og dryckiar, og ymes-legu giaalijfe, og þegar þu skallt nu deya i burt hiedan, hefur þu varla byriad ad lifa vel, og giøra þad gooda.

So sem hver einn vill fundenn verda i Daudanum, so ber hønum ad lifa. Ef þu villt ecke deya ogudlegra manna Dauda, þaa skalltu ecke helldur lifa so sem þeir ogudlegu; vilier þu deya sem einn Christenn, þa maattu og so lifa sem einn Christenn madur! Enn sa sem lifer christenna manna lijfe, hann lifer, so sem hann skyllde deya a hverium dege.

Einn þienare maa alltijd vera til reidu, ad koma fyrer sinn Herra, þegar hann kallar a hann; nu kallar GUD a hvern einn med Daudanum; Sæll er sa þioon, sem Herrañ finnur vakande, þegar hañ kiemur hann mun setia hann yfer øll sijn audæfe: Enn hver er vakande, nema sa sem ecke lætur Heimenn, nie helldur elskendur Heimsens Villa sig? Fordunst hann þess vegna, og hanns villdarmenn, og vitum fyrer vijst, ad hneigslaner eru þeir vondu kvister, af hverium ad Eiken, og jafnvel su sem good er, fordiarfast, so hun kann ecke ad bloomgast og bera Avøxt.

Cap.

# Cap. XXIII.

## Saa madur sem vill vara og prooast i Christo, hañ hlytur ad slaa sier fra miklum Veralldar Selskap.

Psalm. 84.

Hversu elskulegar ad eru þijnar Tialldbwder, Drottenn allsheriar! Saalu mijna forleinger og tregar epter Forgarde Drottens. Mijn Saal og lijkame gledia sig i lifande Gude.

Pu aatt ad fordast ad hafa ofmikla vinattu vid Heimsens Born; þviad so sem hverge fer betur umm oss, helldur enn þegar vier erum heima; so hefur Saalen ecke neinstadar betra, helldurenn þegar hun er i sijnu eigeñ Hwse, þad er þegar hun hvijler i GUde; Til þess hins sama fra hverium hun er utrunnen, verdur hun ad renna og fliooта aptur til baka, ef hun a ad fara vel. Sa er haatur allra skapadra Skiepna, ad þær hvijlast eigi annarstadar betur, enn i sijnum Uppruna; Fiskureñ i Sioonum, Fuglarner i Loptenu, Trien i Jordunne, so og lijka Saalen i Gude. Par fyrer seger Spaamadurenn Psalm. 84. v. 4. Titlingurenn hefur sier Hreise funded, og Turtildwfan hreidur, til ad kleika ut ungum sinum

hiaa

hiaa þijnu alltare Drottenn Sebaoth, minn Konungur og minn GUd. Og so sem þad er ecke gott og þienanlegt ad leifa Bornum og jungfrwm ad reika ute þraalega og raasa um̃kring, Skep. B. 34. eins er þad ecke helldur gott, ad þu slaaer þijnum hugrenningum vijdt wt, og slijker þijnum ordum i bland margra: halltu þeim kyrrum hiaa þier hid innra, so muntu ecke þurfa ad strijda vid so margar Hneixlaner, sem annars kunna til ad falla. J fordyrum GUds vors bloomgast Plantaner Drottens, og Cedrus trien i Libano. Psalm. 92. v. 14. Hveriar eru þa fordyr vors GUds? þad eru innvortis andleger Hiartans Hvijlldar dagar, sa bloomlege Libanus i Eydemorku, Hos. 3. i Einveru Andans J þessa Eydemorku skalltu giefa þig, so þu kunner ad ransaka sialfann þig, og ad yferskoda velgiørder GUds, og hañs Daasamleg Undrunarverk.

Ecke er þier epter þeim ad breita, sem ecke hafa nema gamaned af þvi, ad lesa og ummþeinkia, þad sem er snoturt og aheyrelegt, af hveriu Hiartad þo meir hneigslast enn betrast. Hvad hellst sem ecke styrker og forbetrar Hiartans Rooseme, þvi eiga menn ecke ad giefa vakt, um̃ þad eiga þeir ecke ad tala, þeinkia edur lesa, þvi HErrans Eikur eiga

eiga alltijd ad vaxa og þrooast i Christo. Med þad slag var Heilagur Paulus, hann hirdte eckert ad vita, nema Christum hinn krossfesta. Aller GUds menn hafa eins Sinnader vered; þeir hafa lagt þar a mestu stundan, ad lifa Gudlegum Lifnade i Kyrrlæte og innre Andakt, so þeir være Heilogum GUds Einglum lijker og hvijlldest i Gude, sem er hin ædsta Hvijlld Saalarennar; þar fyrer hefur einn af þeim sagt: So opt sem eg gief mig vijdt wt i bland Folks, kem eg aptur minne, enn ein manneskia; þvi ad vera ein riett manneskia, er innefaled i Samlijkingu vid GUd, hvarfyrer GUd wtmaalar so mannenn, ad hann sie eitt Bilæte Gude lijkt. Þess olijkare sem hañ er GUde, þess minne madur er hann; Eñ þvi framar sem ein manneskia snyr sier til GUds, þvi lijkare verdur hun Gude: Og skule madurenn snwa sier til GUds, þa hlytur hann ad snwa sier fra Heimenum. Sierhvert Sæde ber þann Avoxt, sem er Sædenu lijkur; þar fyrer, ef GUds Sæd er i þier, þad er ad skilia, Heilagur Ande og GUds Ord, þa verdur þu Riettlætesens Trie, Plantan Drottens, honum til Dyrdar og Vegsemdar. Esa. 61.

Þad skiedur tijdum, ad þad Ord, sem framkiemur af þijnum Munne, eda þu kannt

ad heyra, verdur ad einum Brödde i þijnu Hiarta; þad skier, stijngur, og særer Saalena; þar fyrer er eingenn ohultare, og i meire Rolegheitum, eñ sa sem sig helldur heima i kyrdum, og geimer sijna þaanka, ord og giedsmunne innann sinna Hiartans Takmarka. Madur nockur kom til þess Speckings, sem hiet Diogenes, og villde hafa gabbad hann med einu brøgdottu Ræduforme, a þennann haatt: Pad sem eg er, ertu ecke, eg er einn madur, þar fyrer ertu ecke einn madur; hier til segia þeir ad Diogenes hafe svarad og sagt: Alyktunin er ecke riett med þad slag sem þu byriader; Ef þu byriar a mier, þa verdur hun riett.

Sa sem vill tala loflega, hann lære adur vel, ad þegia, þvi margt ad þvetta er ecke Mælsku-snilld, helldur Skwalldur. Sa sem hefur i hyggiu vel ad stioorna, hann lære adur ad vera hlydenn; þvi þad er omøgulegt ad hafa gooda og røksamlega forsioon fyrer ødrum, nema þu hafer aadur lært ad vera Gude hlydenn og audsveipur. Sa sem girnest Frid og Rooseme Hiartans, hañ vakte Muñ siñ, og astunde ad geima gooda Samvitsku; þvi su Samvitska sem vond er, þytur upp sem Sioor, nema hun med Angre og Jdran snwe sier til siñar hvijldar, sem er Christur

ur JEsus: Af þvi ad Dwfan, sem Noe sleppte wt wr Orkenne, gat sier eingann hvijldarstad funded, þvi kom hun aptur i Orkena. Þesse Orkenn er Herrann Christur og hanns Christne, hun hefur ecke utan einar dyr, edur glugga, sem er Jdranin, um̃ hveriar madurenn kiemst til Christum. En̄ so sem Dwfann gaf sig aptur in̄ i Orkena, so skalltu og einenn snwa fliott aptur i þijnu Hiarta til Christum, fra þui diupa Vatne þessa Heims, og stadnæmast hia honum, annars finnur þu einga roolega hvijld. Ja þegar þu um̃geingst a medal manna og ert ad faast vid Veralldlegar Sysslaner, þa vertu audmiukur og ottablendenn, fyrer utan allt Andvaraleyse; vertu lijkur þeim Ungvide, sem Spelkur Trwar og Gllds Otta eru vidbundnar, so þegar Stormur hrellinganna geysar, ad hann faae þig ecke i sundurbroted. Hvad þraalega hefur þad margann prettad, ad hann hefur brukad þennann Heim i ofmiklu athugaleyse? þarfyrer laat þier þad giedgrooed vera, ad treysta eige meir Heimenum en̄ Sioar hafenu, þvi þegar minnst vonum varer, snyst þad ytra Heimsens Stafa-logn i Sterkvidres bylia-vedur, og Veralldarennar kiæte kann fliott ad ordsaka vonda Samvitsku.

O! hvad goodre Samvitsku kynne sa ad biihallda, sem ecke hirdte um̃ ad sækia epter nockre faanytre Glede, og ecke liete niema Veralldlega Umsorg þviinga Hiarta sitt! Hvad roolege giedsmunne mætte sa hafa, sem þeinkte einasta um̃ Guddoomlega hlute, og sette allt sitt Traust til GUds! Hvad mikla og sæta Huggun munde sa ødlast hia Gude sem ecke treyste uppaa Veralldlega Hugsvølun! O! hvad mørg manneskia kynne optlega ad naa sannre Umvendan, Betrun Lifnadarens, og Heilagre Andakt hid innra, hiaa siaalfum sier, sem hun i ofmiklu Heimsens vastre tapar og misser. J þinu Hiarta finnur þu opt þad, sem þar fyrer utan tapast og spillest. Eitt Trie vex ecke annarstadar betur, eñ i þeirre Jordu, af hverre þad er uppkomed; so þrooast hverge fliootara innre madurenn, enn i innsta Grunne Hiartans, hvar JEsus Christus er. Mannsens Samvitska er ecke annad eñ Sorg og Glede: Ef þu brwkar hana til innvortis Gudlegra hluta, þa verdur hun þiin innvortes Glede; Enn brwker þu hana til utvortes Veralldlegra hluta, þa verdur hun þiin innvortis Hrygd og Hiartasorg.

So opt sem trwud Saala er hrygg og angurbiten fyrer siinar Synder, þa grætur hun

hun heimuglega ſina Breſte, og nær hun hefur Taara-Brunenn funded, þa hreinſar hun ſig og þvær øllum nøottum i hønum, fyrer Trwna a JEſum Chriſtum, med Hiaalp og Fulltijnge Heilags Anda; ſo ad hun kunne ad verda heiløg, og verdug til ad gaanga iñ i ſiaalfann Helgedoomenn, og þad allra Heilagaſta, hvar Drottenn kañ ad hafa vid hana heimuglegt Samtal. Og af þvi GUD er einn hulenn GUd, þa hlytur Saalen ad vera ſtillen, og ut af fyrer ſig, frañefyrer hañs Auglite, vid hveria hañ ſkal tala; hvar uñ David ſo ſeger i Pſalm.85. Jeg maa heyra hvad Drottenñ vill tala, og i Pſalm.34. þegar eg leitade Drottens, þa bænheyrde hann mig, og ſviptе mier ur øllum mijnum Hørmungum; Saa faatæke kallade, og Drottenn bænheyrde hann, og hiaalpade hønum ut af allre ſinne Anaud; og enn aptur: Til þijn vil eg bidia; aarla muntu heyra mijna Rauſt: Arla vil eg fyrer þier ſtanda og merkia þad. Eñ þvi meir ſem Saalen vor giefur ſig fraa Heimenum, þeſſ heimuglegre er hun fyrer Gude: Alijka ſo ſem Patriarchen Jacob, þegar hañ var fra ſijnum Børnum, og Hyſke a Reiſunne, þa hafde hann Samtal vid GUD, og hanns Eingla. Þad verdur ecke med ordum noglega utſkyrt, hvad heita Aſt, ad GUD og þeir Heiløgu Einglar, hafa a einne trwadre Saalu.

# Cap. XXIV.
# Um̃ Kiærleikann til GUds og Naungans.

I. Tim. I.

Summa Bodordsens er Kiærleikurenn af hreinu Hiarta, og af goodre Samvitsku, og af omeingadre Trw.

MEd þessum ordum utmaalar oss Heilagur Paulus þaa ædstu Edla-Dygd allra Dygda, Kiærleikann, og giefur oss fernt þar um̃ til undervijsunar: Fyrst, ad Kiærleikurenn sie Summa edur innehalld allra Bodordanna; þvi Kiærleikurenn er Uppfylling Logmaalsens, og þad, i hveriu øll Bodordenn eru innefalenn, og an hvers allar Dygder og Daader eru oduglegar og Avaxtarlausar. Þar næst seger hann, ad Kiærleikurenn fram̃kome af hreinu Hiarta; hver Ord ad tala um̃ þann Kiærleika, sem er til GUds, og syner ad Hiartad a ad vera hreint af allre Elsku til Heimsens, hvar til Johannes aaminner oss einnen, 1. Joh. 2. Sona korn, seger hann, elsked ecke Heimenn, nie þad sem i hønum er, þvi allt þad sem i Heimenum er, sem er Fysn Holldsens, Girnd Augnanna og Drambsamlegt Lijferne, er ecke af Fødurnum helldur af Heimenum, og Heimurenn forgeingur og hans Fysn: Eñ sa sem giøret Vilia GUds, hann

hañ blijfur ad eilijfu. Þar fyrer, hver hellst sem vill hafa hreint Hiarta, laust fraa allre ofickanlegre Elsku til skapadra Skiepna, hañ skal ecke reida sig uppa neinn tijmanlegann Hlut, hveriu Nafne sem hañ heita kann; ecke helldur hafa i nockru soddann alla Hvijlld og Roo sijns Hiarta: Epter þvi sem Asaph kienner oss i Psalm. 73. segande. Nær eg hefe þig ad eins Drotten, þa hyrde eg hverke um Himen nie Jørd; þo ad einenn mijn Saal og mitt Lijf vanmegnest, þa ertu GUd þo alla tijma mitt Hiartans Traust, og mitt Hlutskipte. Slijkur Kiærleike geingur ut af hreinu Hiarta; hann tendrast einnen og brennur med lyst og glede, so ad David seger þar fyrer i Psal. 18. Hiartkiærann hef eg þig Drottenn, minn Styrkleike, Drottenn mitt Hlyfdar-Biarg, mitt ørugt Vijge og minn Frelsare, minn GUd, mitt Traust, a hvert eg treyste, mijn Verndarhlijf og Horn mijns Hiaalprædes, og mitt Athvarf.

J þridia maata kienner Postulenn oss, ad Kiærleikurenn skule vera af goodre Samvitsku; hvert ecke einasta utheimter þad, ad madurenn stunde til þess almennelega, ad hafa hreina og gooda Samvitsku, og framana ecke þverwdarsamlega i Syndunum, helldur og einnen ad hann sierdeileslega hafe Froomleiks vidhøndlan vid sinn Naaunga, og elske hann, ecke alleina fyrer sitt eiged

Gagn og aabata, helldur af sannre og skylausre Elsku; miklu siidur ber honum ad giøra siinum Naaunga Skade of Hreckviise med ordum edur verkum, heimuglega edur openberlega; ecke helldur hafa øfund eda hatur til hans i siinu Hiarta; so ad Samvitskan hafe ei orsøk til ad aaklaga hann þar fyrer, þegar hann er ad bidia GUd.

J Fioorda maata a Kiærleikureñ ad vera af omeingadre Trw, so ad Madurenn giøre ecke neitt a mote sinne Trw og Christendome, afneite ecke Gude heimuglega eda opennberlega, ecke i medlæte edur mootlæte, sorg edur dauda. Þetta er su meining Postulans orda, hvar um̃ vier høfum þetta epterfylgiande framar ad merkia:

Fyrst seger Postulenn ad Kiærleikurenn sie Summa Bodordsens; þvi Kiærleikurenn, sem hefur sinn uppruna af sannre Trw, er sa ædste og beste Trwarennar Avoxtur, sem madurenn kann ad giøra, og GUde best þocknast; þvi GUd heimter ecke af oss þyngslaverk storkostleg i sinne Dyrkun, helldur hefur hann unmbreitt þeim þunga Gudlegrar þionustu, og þeim mørgu Bodorda Reglum, sem voru i Gam̃la Testamentenu, i þad hellsta inntak og Høfud-Sum̃u þar af, sem er

er Trwen og Kiærleikurenn, og hefur þar med giefed oss sinn Heilagann Anda, so sem þar stendur Rom. 5. GUDS Kiærleike er uthelltur i ydrum Hiørtum, fyrer Heilagann Anda, sem ydur er giefenn. J þessum Ordum giefur Postulenn oss til vitundar, hver ad sie Upprune Kiærleikans, sem er Heilagur Ande. Þar fyrer er ecke Kiærleikurenn þungt og torvelldt verk, helldur miøg audvelldt, sierdeiles fyrer goodann mann og trwadann, epter þvi sem þar stendur 1. Joh. 5. Hans Bodord eru ei þung, þad er ad skilia, einum Upplystum sann Christnum manne, hverium Heilagur Ande giefur eitt frijviliugt og gott Hiarta. GUD utheimter ecke helldur af oss mikenn Froodleik, vijsdom eda menter, helldur einsamlann Kiærleikann. Nær hann er skylaus, brennande og alvarlegur, þa er hann GUde langtum kiærare helldur enn Kunster og Vijsdomur allrar Verralldarennar; so ad allar adrar Lister Vitska, Verk og Gaafur, reiknast gagnlausar og daudar an Kiærleikans; jaa þær eru so sem eitt Lijk edur hræ, sem eckert Lijf hefur. Margslags yferburder Naatturunnar finnast so vel hiaa Heidingium, sem Christnum Mønnum; Stoorer og ypparleger giørningar eru trwudum og vantrwudum sameigennleger; Enn Kiærleikurenn

alleina er þad vissasta teikn og merke a Christnum manne, sem ad greiner gott fra illu, riett fra raungu; þvi hvar hellst sem Kiærleikurenn er ecke, þar er ecke helldur neitt gott, hversu sem þad og þad kann ad synast hid ytra vænt og virdulegt, þvi Naad GUds er þar ecke i fylge med, epter þvi GUd er Kiærleikurenn, og sa sem blijfur i Kiærleikanum, hann blijfur i Gude og GUd i hønum. 1.Joh.4.

Kiærleikurenn er og so ununarsamlegur, bæde GUde og Mønnumm, og þar fyrer einnen þeim sem æfa sig i hønum. Þar sem adrar Lister, Vitska og Speke, faast med stæstu erfides munum, Ahyggiu, Mædu, og jafnvel misser siaalfra Krapta Mannsens; þa gledur Kiærleikureñ einsamall bæde Saalu og Lijf; ja, lijfgar þau og betrar, og er eingum til skada, helldur giefur af sier yfer fliootanleguſtu Averte; þvi sa sem elskar, fær Kiærleikann til launa; Mannpryden er siaalfrar sinnar Verdkaup, so sem Lester og klæker, aptur a mot, betala med illu einu.

Aller kraptar Saalar og lijkama dvijna, veikiast og verda ormagna; enn sa riette og stadfaste Kiærleike þreitest ecke, nie lætur af nockurn tijma, þo Spaadomarner hiadne, Tungumalunum slote og Skynsemenne linne. 1. Cor. 13. Jaa þo ad siaalf Trwen dvijne.

Oll

Oll vor Verk, sem Gude eiga ad þocknast, hlioota ad koma af Gude, þvi hann þeckest ecke, nie samþycker neitt, þad sem hann hefur ecke fyrre siaalfur verkad i oss. Og med þvi GUD er siaalfur Kiærleikurenn, þvi hlytur þad allt ad frammkoma af Kiærleikanum, sem Gude a ad vera þocknannlegt; þar fyrer maa og einnen Bænen, sem er H. Anda Verk og Avoxtur Andans, framfliioota af innelegum Kiærleika. Hier af kunna meñ audvelldlega ad alykta, hvad slags Bænagiörder ad mune koma framm af heiptrækn og hatursfullu Hiarta, sem er, eingar þær sem GUD vill aalijta edur bænheyra. Þvi þott ein manneskia, full med Heipt og Hatur til Naaungans, villde vera daglega ad lesa i Davids Psalltara, og bidia GUD med þeim Bænum, sem þar inne standa, þa være þad ecke utan Andstygd fyrer Drottne. Su rietta tilbeidsla er innefaleñ i Andanum, i Trwñe, i Kiærleikanum, enn ecke einsomlum Ordum; laatum oss til Hugar koma Bæn vors Frelsara JEsu Christi, sem hann af hoogværum Anda frammflutte, segande: Fader, fyrer gief þeim. J einu orde ad segia: sa sem ecke elskar GUD, hann bidur og ecke helldur riettelega, enn sa sem hefur Kiærleika til GUDS, honum eru, sijnar Bæner hinar sætustu.

Saa

Saa sem elskar GUD, hann þioonar Gude af Hiarta; enn hann sem ecke elskar GUD, hann þioonar ecke helldur Gude, jafnvel þo hann samanhrwgade fiøllunum hveriu ofan a annad þar fyrer kann mannenum eckert betra, edur hollara til ad falla, eñ ad GUds Kiærleike upptendrest i hønum.

Hvad hellst einn Christenn madur skal giøra, þad a Trwen ad frammkvæme, lijka sem Saalen verkar allt i Lijkamanum: Saalen sier, heyrer, smackar og talar fyrer lijkamañ, so skal og Kiærleikurenn allt verka i þier, þegar þu etur, þu Dreckur, þu heyrer, þu talar, þu lastar, þu hroosar, og hvad þu giører, þa laat þad skie i Kiærleika; lijka so sem Drotteñ vor, JEsus Christur giørde allt af Kiærleika. Ef þu renner Augunum til þijns Naaunga, þa rendu þeim til hanns i hreinum Kiærleika; Ef þu hlyder a hanns Tal, þa laat þad vera i Kiærleika; Ef þu talar til hañs og aavarpar hann, þa stioorna þiñe Twngu til aastudlegrar Medaumkunar. Laattu alltijd þier vera þar umhugad, ad þu bijhallder Root kiærleikans fyrer Trwna, so mun eckert utan gott fra þier koma; og med þvi moote tekur þu til ad uppfylla GUds Bodord, sem eru innefalenn i Kiærleikanum. Þessa Tign Gudlegs Kiærleika hefur einn Lærefader prijsad, segande: O þu

O þu GUds Kiærleike i Heiløgum Anda, þu Sætleike Saalarennar, og Mannsens einasta Gudlegt Lijferne! sa sem þig hefur ei, hann er lifande daudur; Enn hver þig hefur hann deyr alldrei fyrer Gude; þar sem þu ert ecke, þar er Mannanna Lijf, sijfelldur Daude, enn þar þu ert, þar er Mannsens Lijf, Forsmeckur til eilijfs Lijfs: So er þa Kiærleikurenn Høfud-Suma allra Bodordanna.

Þessunæst høfum vier ad athuga, hvernenn madurenn a ad elska GUD af hreinu Hiarta: Hiartad skal vera hreint fraa Elsku til Heimsens: GUd alleina a ad vera Mañsens hædste og beste Goode; þar fyrer seger David i Psalm. 16. Drottenn er mitt Goz og mitt Hlutskipte: þu helldur vid makt mijnum Erfda hluta. og i Psalm. 37. Drottenn þecker daga þeirra Flecklaussu, og þeirra GOts varer eilijflega; Item haf þijna Unadsemd i Drottne, og mun hann veita þier allt hvad þitt Hiarta girnest. J GUde a madurenn ad hafa sijna Ædstu lyst og glede.

GUD er sa sem vorrar Saaler eiga ad elska mest framm yfer alla hlute; hann er sa ædste og beste Goode, siaalf Giædskan, Dygden og Daaden. GUD er eckert annad enn skiær Naad, Kiærleike, Astudleike, Trwfeste, Þolennmæde, Sannleikur, Huggun, Fridur,

Fog-

Fognudur, Lijf og Saaluhiaalp; og þetta allt hefur hann meddeillt JESU Christo: Hver sem hefur Christum, hann hefur þetta alltsaman; og hver sem elskar GUD, hann elskar hanns Sannleika, Miskunseme, Goodgirne, og Christelegar Dygder; þvi sannreindur GUds Elskare, elskar allt þad sem Gude er þægelegt, og hatar þar a mote allt þad, sem Gude hefur Ohocknan a þess vegna skal madur elska Riettlæted, Sannleikann og Miskunsemena, af þvi ad GUd er allt þetta. Hoogværd og lijtelæte ber ad elska vegna Epterdæmes vors lijtelaatasta og hoogværasta Frelsara JEsu Christi. Hier a mote, hatar Sannur GUds Elskara alla lioota Leste, af þvi þeir eru Gude gagnstæder, GUDS oviner og Diøfulsens verk; Hann hefur stakt Ogied a Lygenne, af þvi ad Diøfullenn er Lygare, og þess vegna hatar hann og so adrar Synder, ad þær eru af Diøflenum. Hver sa madur sem hefur Odygder og Leste kiæra, so sem Lyge Raanglæte og annad þviumlijkt, hann er Diøfulsens Barn, so sem þar stendur Joh. 8. Cap. Eñ hver sa sem elskar Christum, so sem sinn Endurlausnara og Saaluhiaalpara, hañ elskar hanns Frammferde, Audmykt, Hoogværd, Þolenmæde og aunur gudhrædslunnar Epterdæme, og þar med

aud-

audsyner hann sig ad vera GUds Barn. Um soddan einn Kiærleika af hreinu Hiarta, skalltu bidia GUD, ad hann fyrer Christi Kiærleika, vilie upptendra hañ i þijnu Hiarta, og giøra hann brennande; hvad hann giører giarnan, ef þu aanyar þad vid hann med sijfelldum Bænum, og lætur þitt Hiarta hønum daglega i tie; jaa, a hverre Stundu og Augnablike.

Ef þinn Kiærleike er veikur og kalldur, og jafnvel slocknar stundum ut af, so þu rasar og dettur, þa statt upp, og endurnær hann aptur; þad eilijfa Lioos Guddomlegs Kiærleika er þar fyrer ecke utsloked. GUD vill aptur Upplysa þig; samt skalltu bidia GUD daglega, ad hann laatte alldrei framar utslockna i þier glooande Elld gudlegs Kiærleika: þetta er sa Kiærleikenn af hreinu Hiarta, þvi sem er laust og lidugt fra Ellsku Heimsens og skapadra Skiepna.

J þridia maatta a Kiærleikurenn ad vera af goodre Samvitsku; eñ þa er hañ af goodre Samvitsku, þegar vier i tijma, stundum til þess, ad hafa gooda Samvitsku, og lifum ecke þverwdarsamlega i nockre Synd, hveriu nafne sem heita kann; annars ef vier ecke so giorum, missum vier Trwna; þvi þeir sem kasta fra sier goodre Samvitsku, lijda Skipbrot a

Trwnne;

Trwnne; og missum vier Trwna, þa er kiærleikurenn og so i burtu. Einkum og sierdeiles a Kiærleikurinn af goodre Samvitsku ad þeckiast af Vidhondlan vid Naaungann, so ad vier elskum GUd med þvi mote, ad vier under eins elskum og einnen vorn Naaunga; þvi Kiærleikurenn til GUds og Naaungans eru so samteingder, ad þeir kunna ecke ad skiliast hver fra ødrum, og þess vegna maa Kiærleikurenn til GUds þrooast, med Kiærleikanum til Naaungans: Ef nockur segest elska GUd, og hatar sinn Broodur, hann er lygare; þvi sa sem ecke elskar sinn Broodur, hvern hann sier, hvernen gietur hann GUd elskad, þañ sem hañ sier ecke, og þad Bodord høfum vier af Gude, ad hver sem elskar GUd, hann skule og elska sinn Broodur. I. Joh. 4. Sem villde hann segia: Kiærleike GUds kann ecke ad bwa i þvi Hiarta sem hefur hatur og fiandskap til Naaungans: Ef þu syner einga Miskun þijnum Broodur, sem þu sier og þinnar lijknar vidþarf, hvernen kantu ad elska GUd, sem þijn þarf ecke vid i neinu.

So sem vier erum bundner vid GUD med Trwnne; so erum vier einnen samteingder bæde vid hann og Naaungann med Kiærleikanum. Sa sem blijfur i Kiærleikanum, hann blijfur i GUde, og GUd i hønum, seger Johannes. So sem Saal og Lijkame giører

einn

einn mann, so bevijsar Trwenn, aasamt med Kiærleikanum til GUds og Naawngans, hann sann-Christenn ad vera.

GUd hefur hiartanlega gott þel til allra manna, sa sem er eins sinnadur, hanns Hiarta og giedsinuner eru eitt med GUde; enn hver sem er ødruvijse lyndtur, hann er Gude a mote, hann er GUds Ovinur, af þvi hann er Ovinur sijns Naawnga. Þad er Kiærleikanum eigennlegt, ad hafa Samaumkun med þeim, sem mannleg Hrøsun uppaafellur, þvi þau tilfelle syna oss, so sem i Speigle, vorn eigenn Vanmaatt og Breiskleika, og leida oss i hug, ad vier erum Menn; þar fyrer skalltu, med Þolenmæde, Lijtelæte og Hoogværd, umbera annars Avirdingar og Breiskleika. Þeir sem ecke syndga af Hreckvijse helldur hrasa, og verda yferfallner, af sijnum breiskleika, eñ rietta sig fliott vid aptur, aasaka sig siaalfa, og medkienna sijnar yfertrodslur; med þeim eiga menn ad hafa Samlijding og aumka sig yfer þa. Ef nockur feller hastarlegann Doom, fyrer utan alla vorkunseme, yfer Feil og Breste sijns Naawnga, og fordæmer hañ strax þar fyrer; þa er þad vijst merke þar til, ad soddan manneskiu vantar GUds og Heilags Anda Miskunarfullann Kiærleika, og hann hefur ecke GUd i sier bw-

 ande;

ande; þvi einn riett-Christenn madur, sa sem med Anda Christi er smurdur, um̃ber af einsamalli Medaumkan og Kiærleika annara breste, epter Dæme Lausnara sijns JEsu Christi. Þetta er sa Proof-Steinn, med hverium einn og sierhver reine og proofe siaalfann sig. Ef nockur formerker sig ecke hafa Kiærleikann til Naawngans, sa maa vita fyrer vijst, ad GUds Kiærleike, jaa siaalfur GUd er fra hønum vikenn; maa hann þvi ut af þvijlijku, skiaalfande og felmts-fullur vera, af insta giede Jdran giøra, og take fyrer sig aptur Eining og Frid vid Naawngann; hvad þegar so skiedur, þa mun GUd samteingia sig hønum aptur, fyrer Kiærleikann, og hvad hellst sem hann ad-hefst, og verdur frammvegis giørande i Trwnne og Kiærleikanum, þa verdur þad allt gott, heilagt og gudlegt; þa æfer sa madur sig i Guds Kiærleika og Miskunseme med lyst og glede, fyrer Kiærleikans saker, sem byr i hønum, og þad er hønum eitt hiartans Ynde ad giøra gott, so sem Drottenn ad orde kiemst fyrer munn, Jer.32.Cap.

Sie ecke Kiærleikurenn i mannenum, þa er hañ olldungis i grunn eitradur og af Dioflenum fordiarfadur, og þetta er orsøken, hvar fyrer ad Diøfullenn gietur ecke giørt neitt gott; þvi þar hann hefur eingann Kiærleika i sier,

hverke

hverke til GUds nie Manna, þa er allt hvad hann giorer alldeilis vont, og vidurstygge-legt, hann stundar ecke epter ødru i øllum sijnum verkum, enn GUds Vanæru og mann-anna Fordiorfun; hvar fyrer, so hann kunne þess helldur, ad utausa sijnu hatre og Fiand-skap, bæde igiegn GUde og Mønnum; þa uppleitar hann þa Menn, sem af Naattwr-unne eru grimmer og Hatursfuller, so hann kunne i þeim og fyrer þaa, ad æsa sig i sinne Reide, Fiandskap, Hatre og Øfund, og ut-hella sinne Vondsku. Af þessu kunna menn ad merkia og reina, hverier þar eru GUds Børn, og Diøfulsens Børn.

Ad sijdustu a Kiærleikurenn ad framm-koma af einnre skiærre og omeingadre Trw, sem er so a sig komen, sem Skripten og Ord-ed fyrerskrifar, og hefur GUd eins kiærann i medlæte og motlæte. Hver sem elskar GUd af Hiarta, hann tekur þeim Motgange øll-um vel, sem GUD tilskickar hønum, epter Dæme Herrans Christi, sem med liwfu gie-de tok sinn Kross uppa sig, þann sem hann visse sier vera uppalagdann af sijnum Fødur. Hier fyrer seger hann, Luc. 12. Eg hefe med Skijrn ad skijrast, og hversu þreyngiunst eg, þar til þad fugiørest? Epter hønum breittu aller Christnennar Pijslarvottar, og baaru

sinn Kross med Fognude. Og i Sannleika, hver hellst sem elskar GUD af Hiarta, sa gietur ei annars eñ bored liuflega sinn Kross, þvi hann veit, ad þad er Oked Christi.

Ef Segulsteineñ getur epter sier dreged þungt Staal, hvad miklu framar mun þaa saa Himneske Segulsteinn, GUDS Kiærleike, þegar hann hrærer mannsens Hiarta, draga vora Krossbyrde epter sier, og mykia hennar tilfinning? Gete Sikred giort þær beisku Jurter sætar, þvi skyllde þa ecke Sætleike Guddomlegrar Elsku giora sætann þann bitra Kross? og hvadann munu þeir heilogu Pijslarvottar hafa feinged þa stooru þolennmæde og hugpryde, sem þeir doou med? utan af þessare brennande Elsku til GUDs, sem hefur giort þa so andlega drucknа, ad þeim hefur fundest, fyrer hans Naad, allt þad swra og beiska, sætt og lystelegt.

## Cap. XXV.

# Um̃ Kiærleikann til Naáwngans Sier-i-lage.

2. Pet. 2.

Af þeim sem hver hefur Sigrast, þess Præll er hann.

Þar

PAr er eingenn þyngre og hardare Prældoomur til enn saa, ad þioona syndugum Girndum og Tilhneigingum, einkum Hatre og Fiandskap; þvi þær binda alla Krapta Liikamans og Saalarennar, og laata ecke mannenn hafa nockurn þaanka friijann. Enn sa sem ydkar Kiærleikann, hann er i siinu Hiarta friaals og frij, hann er ecke Præll nie Py Reidennar, Ofundarennar eda Agirndarennar, ecke Okursens, Drambsemennar, Lygennar eda Baktalsens. Kiærleikurenn giorer hann fra ollu þessu friijann, og lætur hann ecke yferunnenn verda af so skiemelegum løstum, helldur bliifur hann frelsinge Herrans Christi, fyrer frelse Andans; þvi þar sem Andenn er, þar er frelsed, seger S.Paall 2.Cor. 3. v.17. þarfyrer, hver hellst sem geingur i Kiærleika JEsu Christi, hann leggur af, ad vera Præll Syndarennar, og Holldlegra Tilhneiginga; þvi hann er fyrer Anda GUDS Kiærleika frelsadur af yferhønd holldlegra lysta, so þær meiga ecke alldeiles drottna yfer honum, sem þær vilia. Enn ef vier vilium vera frij fra Hatre og Fiandskap, og hafa þann rietta Kiærleika i vorum Hiortum, þa skulum vier epterfylgia vorum Himneska Fødur i Kiærleikanum, so sem Christur biifalar, segande: Vered Miskunsamer, so sem ydar Himneskur Fader er Miskunsamur.

Eñ hvernen mun vera vared Kiærleika GUds vors Himneska Fodurs? GUds Kiærleike utbreider sig til allra manna, hvad hann ecke einasta syner i sinu Heilogu Orde, helldur og einnen i allre Naattwrunne; þvi Himenenn hefur hann gefed monnunum almennelega, hann skyler þeim ollum, hann er bæde minn og mijns Naawnga; eins lijka Soolen, Lopted, Jorden og Vatned heyra so vel til mijnum Broodur og Naawnga, so sem mier: Sa Megtugaste og ypparste maa so vel lifa vid þa somu Sool, Lopt, Jord og Vatn, sem sa Aumaste og allra vesælaste. So sem GUd er sinnadur vid oss, so eigum vier og einnen ad vera sinnader vid vorn Naawnga, þvi GUd hefur sett sig siaalfann oss til Epterdœmes, og hefur eins giedsmunne til vor allra; hann elskar eingann epter þeim almennelega Kiærleika, meirra enn annann, helldur alla jafnt; hann aalijtur ecke verduglleika, edur Forþienustu nockrar Personu, helldur hefur hann oss alla eins kiæra i Christo: So sem hañ audsyner sig vid oss, eins eigum vier ad breita vid vorn Naawnga: So sem vier hondlum vid Naawngan, eins vill hañ vid oss giora.

Þetta Logmaal hefur hann skrifad i vorum Hiortum til ad yferbevijsa oss, ad

lijka

lijka sem hans Hiartalag er til vor, eins eigum vier ad vera giediader vid vorn Naawnga.

Þarfyrer liggur Proof-steiñeñ i vorum Hiortum, og Samvitskum, so ef einhver vill vita i hveriu gyllde hann sie hiaa GUde, hañ maa skoda sijna Samvitsku og hyggia ad þvi, hvijlijkt Hiartalag hann hefur til Naawngans: epter þvi sem hañs þaanke og ande er til añara jafn christenna, epter þvi er hañs maalefnum haattad hiaa GUde; þvi so sem vier breitum vid vorñ Naawnga; so vill GUd breita vid oss aptur a mot, Þar fyrer seger Skripten: Med Goodum ertu Goodur, og med Raangswunum Raangsnwenn: Ps. 18. Hver sem i Trwnne audsyner Miskunseme, hann ber og siaalfur Miskunsemena ur bijtum; enn hver hann hefur hreckvijst og Haturs-fullt Hiarta til Naawngans, hann hefur GUd sier a mote. Vor Naawnge er settur oss til Proofs i þessum Hlut: a vorum Naawnga vill GUd reyna og proofa, hvert vor Kiærleike til hans er riett a sig kommen: GUd þarf ecke vorrar þienustu vid i neinu, nema þvi, sem Naawnganum kann a ad liggia; vier eigum i øllum Hlutum ad rietta oss epter vorum Naawnga, og vera so sinnader vid hann a øllum tijmum, og a hveriu augnablike, sem vier vilium, ad GUd sie sinnadur vid oss.

Eingenn af oss kann, fyrer utan Kiærleikann til Naawngans, ad vera i GUDS Vingan: Naaden er utvegud hiaa Gude, og eingenn Brestur er þar a; allar Heimsens Synder eru einusinne burttekner, og fullkomen fyrergiefning afrekud af vorum Frelsara JEsu Christo. Allt Mannkyned er meint med Personu þess vonda Þioons, sem um̃gietur hiaa Matth. 18. hvern Koongurenn gaf olldungis kvittann, þegar hann hafde eckert til Borgunar; Eñ vier skulum taka oss vara, ad þad gaange vel til uppea vora siidu, so ad vier missum ecke Naadena, sem Christur hefur oss utvegad, eda topum henne fyrer saker vorrar Omiskunseme og Haturs til Naawngans, so sem vier siaaum ad skied hefur fyrer þeim Skulldbundna Þioon: Þvi þegar hann høndlade omiskunsamlega vid siñ Broodur og Samþioon, þa kallade Koongurenn aptur allt þad hañ hafde giefed hønum epter, og vard so þar med hiñ vonde Þion fordæmdur; þess vegna seger og Christur: So mun minn Himneskur Fader giøra vid ydur, ef þier fyrergiefed ecke af Hiarta hver ødrum annars misgiørder. Og i ødrum stad seger hann: med þeirre sømu Mælingu, sem þier mæled ut, mun ydur aptur iñmællt verda. Hier af er lioost, ad madurenn er ecke einasta skapadur siaalfs siijns vegna, helldur og eiñen

veg=

vegna Naawngans, og þad Bodord, umm Kiærleikañ til Naawngans, er so vigtugt, ad þegar þad med Osamlynde, Hatre, og Hefnd-argirnd verdur broted, þa vijkur strax GUds Kiærleike fraa oss, og ein Manneskia verdur strax af GUds stranga Riettlæte dæmd og fordæmd.

Ef vier villdum þetta gaumgiæfa riett-elega, þa mundum vier alldrei verda so bit-rer i Reideñe til vors Naawnga, miklu sijdur laata Soolena yfer henne undergaanga; þvi þo Christur hafe a Krossenum betalad og fullnægt fyrer allar Heimsens Synder, med siñe Pijnu og Dauda, og þo sa eilijfe Him-nanna Koongur hafe fyrergiefed oss allar vorar Skullder, af sinne skiærre Naad, vegna þess sanna Betalings, samt sem aadur, ef vier hotum vorn Broodur, elskum hann ecke, og holldum honum ecke til gooda hans Breste, þa missum vier strax alla Christi Forþienustu, og hofum einga Hlutdeilld i henne, nie i þeirre eilijfu Saaluhiaalp, sem oss er wtvegud fyrer Christi Forþienustu iñ til þess vier betrum oss, giorum Idran, og afleggium Harted til Naawngans. So mik-elega hefur GUd skulldbunded oss til ad elska Naawngann, ad hann vill ecke elskast af oss, utan vier elskum og so Naawngañ; þar fyrer,

ef vier topum Elſkunne til Naawngans, þa hofum vier og ſo tapad GUds Elſku. Og þeſſ vegna hefur GUD ecke viliad ſkapa einn mann ødrum betre, ad vier ſkylldum ecke hafa orſøk til ad hroka oſſ upp, og forakta hver annann; helldur ad vier ſkylldum lifa til ſamans, i fride og eindrægne, ſo ſem ſamborenn Børn, af einum Fødur komenn, og hafa roolega Samvitſku.

Hater þu þinn Broodur, þa hatar þu GUd ſiaalfann, ſem oſſ hefur ſlíkt ſtreingelega bannad, og þa hatar GUd þig aptur a mot: forakter þu þinn Broodur, þa foraktar þu GUd, og GUd foraktar þig aptur a mot, og þad verdur þier til eilijfrar Fyrerdæmingar, ſo þu miſſer Syndanna Fyrergiefning, ſo vel ſem Chriſti Forþienuſtu og Verdſkulldan; þvi þad er omøgulegt, ad ſa ſem hefur eitt hatursfullt og miſkunarlauſt Hiarta, kunne ſier, til Saaluhiaalpar og Syndaña Fyrergiefningar, ad verda hluttakande JEſu Chriſti GUds Sonar Bloods, ſem uthellteſt af ſkiærre Aſt fyrer vorar Synder: jaa, vier ſiaaum af Epterlijkingunni hiaa Matth. 18. ad GUD verdur ecke ſo reidur fyrer þaa Tiju þuſund Punda Skuld, ſem Þienarenn aatte ad giallda, ſo ſem yfer hanns Omiſkunſeme: Skulldenne kuñe hañ ad gleima, eñ Omiſkunſem-

unsemenne kunne hann ecke ad gleima. Þar fyrer skulum vier alldrei láata oss wr minne falla þaa Himnesku Aliiktun, sem giørdest i þessu maale: So mun minn Himneskur Fader giøra vid ydur, ef þier fyrergiefed ecke hver ødrum af Hiarta annars Misgiørder.

# Cap. XXVI.

## Hvarfyrer oss byrie ad elska Naawngann.

Rom. 13.

Vered eingum neitt Skyllduger, nema þad þier elsked hver annann: þvi sa sem elskar Naawngann, hann hefur uppfyllt Løgmaaled.

Ord Spaamannsens Micheæ i 6. Cap. eru so hlioodande:

HVar med skal eg blydka Drottenn? Skal eg blydka han med Brennefoornum og vetur gømlum Kaalfum? Kann Drottenn, ad blydkast af mørgum þwsundum feitra Hrwtra? eda skal eg giefa minn Frumgieten̄ Son fyrer mina Misgiørninga? minn Lijfs Avøxt fyrer Synder minnar Saalu? Þu manneskia þad er þier sagt hvad gott er, og hvad Drottenn heimter af þier, sem er ad halld a Guds ord og hafa Kiærleika, og lijtelæcka þig fyrer þijnum Gude.

Þesse

Þesse greim kienner oss, i hveriu ad su sanna GUds Dyrkun sie falen: sem er, ecke i Ceremonium og Foornfæringum, hveriar einga nytsemd færa Gude, þvi hañs er allt, og hann þarf einskis vid, af ollu þvi, sem vier høfum; ecke helldur i Mannblootum, þott menn villdu offra hønum manneskium; þvi þad hefur hann ecke boded, og þær foorner eru svijvirding fyrer hønum, af þvi þær giora Haadung Forlijkunar foornene JEsu Christi, hvern GUD hefur sett til ad taka i burtu Heimsens Synder; helldur er su rietta GUds Dyrkun innefalen i Trwnne, hveria Spaamadurenn wtmaatar med þessu: ad giøra riett og hallda GUds Ord; þad er ad skilia: hun er innefalen i Trwarennar Ydkun, i Kiærleikanum, i Miskunsemenne, og i eiñre sannre Audmykt; þvi þetta er øllum Fornfæringum ædra, so sem þar stendur i Psal. 51. Þad Offred, sem Gude þocknast er harm þrwngenn Ande; harm þrwnged og sundurkramed Hiarta, muntu GUD ecke fyrerlijta.

So maa su saña GUds Þioonusta koma af innsta Hiartans grunne, af Kiærleikanum og Lijtelætenu, og hier til aaminner og eiñen Postulenn oss i adur framsettur Ordum. Rom. 13. Vered eingum skylldugir, utan þad þier elsked hver annann; þvi hver sem elskar annann, hann hefur uppfyllt Løgmaaled.

I þessu

J þessu er innefalenn Lofprijs Naawngans, og hver vor ævarande skyllda sie til Naawngans, sem er Elskan; og ad vier einnen þar med þioonum Gude og dyrdum hann; hverium ecke kann þioonad ad vera, nema med þvi, sem hann siaalfur verkar i oss, og ecke er adgreint fra Kiærleika til Naawngans.

Til þessarar Naawngasamlegu Elsku aminner oss Postulenn, brwkande næsta vigtugt Argument þar til, fyrer þa alla sem Christelegann Lifnad astunda, segande; ad Kiærleikurenn sie so ypparleg Dygd, ad allar dygder sieu i honum innefaldar, og hann sie Uppfylling Logmaalsens; ecke i þeirre meiningu, ad oss sie mogulegt, ad giora fullnægiu, GUds Logmaale, med vorum Kiærleika, ellegar eilijft Lijf ad forþiena; þvi Logmaaled verkar Reide, hellst hiaa þeim, sem meina ad þeir kuñe ad uppfylla þad, sier til Saaluhiaalpar; helldur er þad Postulans Meining, ad hann vill koma oss i þeckingu ypparlegleika þessarar stooru Manndygdar, og ad hann upphvetie oss til þess, ad yðka hana med mestu Astundan; þvi þegar vier hofum Kiærleikañ i vorum Hiortum, sem Heilagur Ande i þeim uppkveiker fyrer Trwna, þa giorum vier med Hiartans lyst og glede, ecke einasta einn Part af Logmaalenu, helldur allt Logmaaled, sem hond-

höndlar um Skipte vid Naawngann, edur ad minnsta koste, briootum vier þad ecke nie yfertrodum af Asetninge; helldur stundum af fremsta mætte til þess ad leita Naawngans gagns og gooda, og skicka oss so i ollu vid adra, sem vier vilium adrer skicke sier vid oss.

Og med þvi ad virduleike þessarar Edla dygdar er so stor, þa er þorf ad finna fleire Bevijsingar, sem oss kunne ad hneiga til ad elska þessa Mannpryde: Enn allrá vigtugast virdest mier vera þad, sem hinn Sæle Johañes brukar, og skrifad stendur i hans Fyrsta Pistels 4. Cap. þar hann seger: GUD er Kiærleikurenn, og hver sem blijfur i Kiærleikanum, hann blijfur i Gude, og GUD i hönum: Hver munde ecke vilia giarnan þad fyrer sig kioosa, og sier þess ooska, ad vera i GUde og blijfa i GUde, so ad GUd sie aptur i hönum og blijfe i hönum? Edur þar þvert a mote, hverium munde þad ecke ofbiooda ad vera i Dioflenum, og ad Diöfullenn sie i hönum? Enn slijkt skiedur þo so opt, sem Kiærleikurenn er utreckenn, og vort Hiarta verdur innteked af Hreckvijse og Omañlegre Hardwd; þvi so sem GUD er mannanna Vin og Elskare, so er Diöfulleñ þeirra Höfud-Ovinur.

Hier a þad og einnen heima, sem Postulenn Johannes um̃getur i sama stad: Sa sem

sem elskar, hann er af Gude fæddur; og hañ þecker GUD. J þvi eru GUDs-Børn openber og Diøfulsens-Børn: Enn hvad er huggunarsamlegra, helldurenn ad vera GUDS Barn, ad vera af Gude fæddur, og ad þeckia GUD sannarlega? Enn af þessu veit ecke neitt sa sem ecke hefur Kiærleikann i siinu Hiarta, og alldrei hefur vidkannast af Reynslunne hanns Krapt, hañs Liif, hañs Goodgirne, Blydlinde, Laanglundargied og Polenmæde; uñ þann mann er lioost, ad hann þecker ecke helldur GUD, sem ecke er nema Kiærleikurenn. Fullkomen og riett þecking GUDS og JEsu Christi, kann ecke ad vera adskilen fra allre Reynslu og Tilfinningu; þvi Trwen, sem verkar fyrer Kiærleikann, er fullvissa hugskotsens: fyrer hana siaaum vier og smeckum hvad sætur og liufur ad Drottenn er, vier smeckum þad gooda GUDs Ord, og krapt epterkomande Veralldar, stundum meira, stunduñ minna. Sa sem ecke veit neitt af Kiærleikanum, hann þecker ecke Christum, þvi Christur er Kiærleikureñ og Hoogværden; hver hann æfer sig i Kiærleikanum, sa þecker Christum riett; þar fyrer seger S. Petur 2. Pist. 1. Cap. Ef þiet hafed Kiærleikann, þa mun hann ecke laata ydur Avartarlausa i kynningu Drottens vors JEsu Christi.

J ann-

J annann maata seger Frelsarenn hiaa Joh. 13. Af þvi þeckia aller, ad þier erud mijner Læresveinar, ef þier elskest innbyrdis. Enn til þess ad þu verder HErrans Christi Læresveinn, þa næger ecke Nafned, Christenn madur ad heita, ellegar ad jaata hañ einasta med munnenum hid ytra, helldur verdur þar til ad koma Trwen a Christum, ad elska hann og epterfylgia hønum, i hønum ad lifa, hønum ad hlyda, innelega ad vera elskadur af hønum, og ad verda niootande hañs, og allra hanns dyrmætu giæda: Þar fyrer hver sem ecke hefur HErrans Christi Kiærleika, hann hinn same er ecke Christi; þvi hvernen maa HErrann Christur þeckia hañ, sem ecke trwer a hann. Lijka so sem Epled þeckest af Smecknum, og Bloomstred af Ylmanenne, so þeckest Christenn madur af Kiærleikanum.

J þridia maata seger Heilagur Paulus diarflega og fyrer utan øll dulmæle. 1.Cor. 13. ad allar haafar gaafur sieu ecke neitt an Kiærleikans. Og sannlega giører þad ecke Sann-Christenn mann, þo hann kunne adskilianleg Twngumaal, þo hann giøre Teikn og Stoormerke, þo hann vite leynda Dooma, ellegar annad þvilijkt; helldur Trwen, sem verkar fyrer Kiærleikann og Audmykt-

ena. GUd hefur ecke helldur lagt oss uppaa stoora vandasama og torvellda hlute, helldur Kiærleikann og audmyktena. Ecke vill GUd spyria ad þvi a effsta Dege, hversu þu hafer forfarenn vered i Listum, Tungumaalum, og Vijsdoome, helldur hvernen þu hafer bevijsad þina Trw med Kiærleikanum: Hungradur var eg, mun vor Frelsare segia, og þier gaafud mier ad eta, Þyrstur var eg, og þier gaafud mier ad drecka, Nakenn var eg, og þier klæddud mig. Og Postulenn Paulus vottar, Gal. 5. ad i Christo JEsu duge hverke Umskurn nie yferhwd, helldur Trwenn sem verkar fyrer Kiærleikann.

J Fioorda maata seger Johannes 1. Pist. 4. Cap. Ef nockur segest elska GUd, enn hatar sinn Broodur, hañ er Lygare; þvi sa sem ecke elskar siñ Broodur, hvern hann sier, hvernen getur hañ GUd elskad, þañ hañ sier ecke, og þetta Bodord høfum vier af Gude, ad sa sem elskar GUd, hañ skule og elska sin Broodur. Allt þetta kienner oss eitt og hid sama, ad Elskan til GUds kunne ecke ad standast fyrer utan Elsku til Naawngans, þvi sa sem ecke elskar siñ Naawnga, hañ er GUds Ovinur, og Mannanna Fiandmadur, er og GUds Fiandmadur, med þvi GUd er Mannanna Elskare.

J fimta maata er Kiærleikurenn Naattwrunnar Løgmaal, af hverium allt gott framkiemur vid mannkyned, og ef hañ være ecke, þa hlyte þad ad forgaanga; þvi hvad hellst sem Mannenum tilfellur gott, þa kiemur þad allt af Elskunne. Hier fyrer nefner Heilagur Paulus Kiærleikann, Band Algiørleg-leikans, Col. 3. og til Rom. 12. utmaalar hañ hvad ypparleger Avexter sprette af Kiærleikanum; og sialfur Frelsarenn vor seger Matth. 7. Allt hvad þier vilied mennerner giøre ydur, þad skulu þier og einnen þeim giøra. Þessa Reglu hafa og einnen Heidingiarner vitad af Liooſe Naattwrunnar, ad þad sem einn vill ecke sier sie giort, þad skal hann ecke helldur ødrum giøra; hvarfyrer og einnen sa Loflege Heidne Keysare, Severus, giæddur med haaum dygdum og daadum, hefur haft þessa maalsgrein opt i munne, og laated færa hana iñ i siñ Laga-riett.

J Siøtta maata er Kiærleikurenn nockurskonar Jmynd og Forsmeckur eilijfs Lijfs; i hveriu þeir Utvølldu munu elskast innbyrdesinnelega, og hafa hverier af ødrum sierlegt Epterlæte; þeir munu hallda sijnum flota med ununarsamlegu Samlynde. Þarfyrer, hver hellst sem lyst hefur til ad faa Akienning af eilijfre Sælu, hañ stunde nu Elskuna og Kiær-

Kiærleikann fyrerfram, og mun hañ þar af hreppa i innsta Anda, sierlegt Sælgiæte og gladværd.

J Siounda maata skulum vier vita, ad þess hreinne, heitare og meire, sem Kiærleikenn er i Mannenum, þess nær geingur hañ GUds Naattwru; af þvi, ad i GUde, Christo og Heilogum Anda, er hiñ skiæraste heitaste og hiartanlegaste Edla-Kiærleike: Hreinn og Skiær er Kiærleikureñ, þegar vier elskum so, ad vier væntum oss eingra Haagsmuna þar fyrer; helldur elskum vegna GUds eins, sem vier vitum ad oss hefur elskad af skiærre Naad, og haft oss i Epterlæte an siaalfs siins Gagns edur Abata. Sa sem ecke giører þetta, helldur elskar Naawngann vegna siins eigenn Avinings, þess Elska er ecke hrein og gudleg. Og i þessu er innefalenn Mismunur a mille Kiærleika Heidingiana og Christenna Manna: þeir Heidnu spilla øllum siinum manndygdum, med Astundan eigenn Vegsemdar, og Abata, eñ einn Riett-Christenn madur elskar siñ Naawnga i Gude og JEsu Christo, an þess, ad hann vænte sier nockurs Betalings þarfyrer. Af Hiarta elskum vier Naawngann, þegar þad skiedar fyrer utan Hræsne og laataglaum, þegar Elskan geingur ut af Hiartanu; enn hefur ecke siin upptøk a Tung-

 unne,

unne, nie Vorunum, hvad margann hefur sviked, og enn nu svijkur.

I Attunda maata fylger hier a epter, ad vier eigum og so ad elska Ovine vora, so sem Christur bydur oss hiaa, Matth. 5. Elsked, þier Ovine ydar, blessed þaa, sem ydur bølfa; giøred þeim gott sem ydur hata, og bidied fyrer þeim, er ydur ossækia; So ad þier sieud Børn Fødurs ydar, sem a Himnum er: Þvi ef þier elsked ecke utan þa, sem ydur elska, hvert Verdkaup hafed þier þa? og þo þier laated kiært ad eins vid Bræthur ydar, hvad giøred þier ad sierlegra? giøra og ecke þad sama Tollheimtumenn? þar i eru innefalder Riett-Christenna manna Yferburder og Virduleike, ad þeir þvijnge og dempe Naattwrunnar vondar Girnder, ad þeir drottne yfer Hollde og Bloode, og sigre Heimenn, og allt illt, med Trwnne, Kiærleikanum og Ydkun dygda og mannkosta: Þetta er sa riette Edalskapur þeirra Christnu. I Exod. 23. Cap. seger GUD: Ef þu mæter villuraafande Naute edur Asna, þins Ovinnar, þaa leid þu hann strax aptur til hans; Ef þu sier Asna þess sem þig hatar, liggia under Byrde, þa vara þig, laattu hann ecke liggia, helldur forsooma giarnan þitt eiged gagn, fyrer hann. Til þess hefur Heilagur Paall lited, þegar hann skrifar, 1. Cor. 9. v. 11. a þennann haatt: Hvert ber GUD þa umhyggiu fyrer Nautunum? v. 10.

eda seger hann ecke þetta i alla stade vorra vegna? og vill þar med aminna oss, ad vier skulum audsyna vorum Naawnga Kiærleikann. Hann seger og einnen, Rom. 12. Ef Ovin þinn hwngrar, þa gief hønum ad eta, þyrste hann, þa gef hønum ad drecka. Þar fyrer er þad ecke noog, þo þu giorer ecke þijnum Naawnga, sem er þiñ Ovin, Skada; þu skallt ad vijsu giora honum Gott, annars ertu ecke GUds Barn, og elskar ecke þinn Naawnga.

J Niunda maata: Sa sem ecke stundar Christelegann Kiærleika, hann skilur sig fraa Andlegum Christi Kiærleika, og hanns Søfnude, og fer a mis vid alla Christi Velgiorninga, epter þvi sem þar stendur, Eph. 4. Ein Trw, ein Skijrn, einn GUd, og Drottreñ, og so framveiges: þvi so sem Limerner, sem adskila verda vid Høfuded, missa Lijfed og øll Lijfgunarennar Innføll, og deya þess vegna; eins lijka þeir, sem ecke lifa i Kiærleikanum, og verda þvi vidskila vid Høfud Christelegrar Kyrkiu, sem er Christur, þeir missa hanns Lijf og lijfgande Verkaner i Hiartanu. Þar fyrer seger Heilagur Johannes, 1. Pist. 3.Cap. Sa sem ecke elskar sinn Broodur, hann blijfur i Daudanum; þad er, hann er lifande daudur.

Ad Sijduſtu; med þvi ſier hver gaaſa verdur ad faaſt af Gude, fyrer Bænena, og an hennar er ecke ad vænta epter Hiaalp, Huggun nie Frelſe, þaa kann og eingen Bleſſan ad falla oſſ til, fyrer utan Kiærleikann; þar eingenn kann ad bænheyraſt, utan ſo ſie, ad Bænen kome af Trwnne, og þeſſ vegna og ſo af Kiærleikanum epter Herrans Chriſti Ordum, Matth.18. Ef tveir af ydur ſamannſtaka a jørdu; um̃ hvern hellſt hlut ſem þeir bidia, ſkal þeim veitaſt af mijnum Fødur ſem er a Himnum; Lifum þeſſ vegna og blijfum i Kiærleikanum, þvi i honum er Fridur og Eining; Enn þar ſem Fridurenn er; þa er þar GUd Fridarens; þar ſem hann er, þar hefur Drottenn tilſkickad, ad Bleſſanen og Lijfed ſkyllde vera ad eilijfu. Pſal.133.

# Cap. XXVII.

## Hvar fyrer vier eigum ad elſka vora Ovine.

Matth. 5.

Elſked þier Ovine ydar, bleſſed þa er ydur bølva, giøred þeim gott, er ydur hata, og bidied fyrer þeim, ſem ydur giøra Skada, og Oſſookn veita, ſo ad þier ſieud Børn Fødurs ydar, ſem a Himnum er.

Sa

SAl fyrste grundvollur þar til, ad vier eigum ad elska vora Mootvilldarmenn, er þetta Bodord GUds: *Elske þier Ovine ydar*; og fære vor Herra einga adra Orsøk þar til enn þessa, *ad vier sieum Børn Fødurs vors a Himnum; þvi hann elskade oss, þa vier vorum hanns Oviner*, epter þvi sem Postulenn vottar, Rom.5. so sem villde hann segia: Ef þier elsked ecke Ovine ydar, þa gieted þier ecke vered Børn ydars Himneska Fodur; enn sa sem ecke er GUds Barn, hvers Barn er hann þaa? o hvad miked er oss þa abootavant uppa Framførena i goodu! hvad langt erum vier enn nu fra þeim riettu Avoxtum GUds Barna, epter þvi sa madur skal loksens heita sannarlegt GUds Barn, sem hefur so mikenn Kiærleika i sier, ad hann elskar sijna Ovine?

Þar næst seger Johannes. 1. Pist. 3.Cap. *ad hver sa sem ecke elske sinn Broodur, hann blijfe i daudanum.* Hvar fyrer? þvi hañ hefur ecke i sier þad sanna Lijf af Christo. Þad rietta andlega og Himneska Lijf er innefaled i Trwnne a GUd, og skilst alldrei fra Kiærleikanum til Naawngans, epter þvi sem Postulenn kienner i sama stad, þar hann seger: *Vier vitum ad vier erum leidder ur Daudanum til Lijfsens; þviad vier elskum Brædurnar.* Hier af er lioost, ad brodurlegur Kiærleike er

Vitnisburdur þar uppa, ad vier sieum liifsgader i Christo; og Fiandskapur til Naawngans, sierdeiles ef hann drottnar i Mannenum, er Beviising til þess, ad hann sie eiliifum Dauda underorpenn; þvi sa sem so deyr i Hatrenu, hann deyr eiliifum dauda, vid hveriu Christur varar oss þo trwlega.

J þridia maata, nær einn madur hatar sinn Naawnga, þa eru øll hans Goodverk, GUds-þioonusta, og Bæner til forgiefens; þar fyrer seger S. Paall. 1. Cor. 13. Þo eg sundurdeillde saaræktum til Fædes alla mijna Aleigu, og giæse ut minn Lijkama, so eg brynne; enn hefde ecke Kiærleikann, þa stodade mig þad eckert.

J Fiorda maata er þad eitt aagiætt verk, og merke til haarra ypparlegra og gudlegra Giedsmuna, ad fyrergiefa einum, þad sem hann hefur giort honum a mote, og minnast ei a þad framar. Gief giætur ad Gude, hversu hann er langlundar goodur, og lætur sig snart blydka? hversu fliott hañ fyrergiefur, þegar hann er bedenn. Skodadu Frelsarann, Drottenn vorn JEsum Christum, i hanns Pijnu, hversu þad hann var þolennmoodur, sem Lamb, og lauk ecke upp sijnum Munne, midt i þeim saarustu Pijslum, og grimmustu Kvolum, er hann leid Esa. 53. Cap. Rendu

þijn-

þijnum Augum til Heilags Anda hvar fyrer mun hann hafa opennberast i Dwfulijking? An alls Efa vegna sinnar Guddomlegrar Millde og Hoogværdar. Settu þier fyrer Siooner þann GUds mann, Moysen, med hvad stoorre Polennmæde ummbar hann Foolksens Aaustur, Last og Skammaryrde? Hvar fyrer hann forþienade þann Prys, sem skrifadur stendur Num. 12. ad hann hafe vered sa Hogværaste madur af øllum mønnum, sem a Jørdunne voru. Virdtu fyrer þier David, þann mann epter GUds Hiarta med hvad mikillre Sinnes hægd hann ummleid bølf og formælingu Simei 2. Sam. 16. þar fyrer segia menn.

Qvò qvisq; est major, magis est placabilis iræ,
Et faciles motus mens generosa capit.

Madur hver, sem mikell er,
Myker Reide braada,
Lynde gøfugt lætur sier
Laungum Hoogværd raada.

Hier til lijtur og Mantuanus, þar hann seger.

Ardua res vicisse alios, victoria major
Est animi fluctus composuisse suos.

Ad vinna adra veiter tregt,
Verk er eingu minna

Hver sem gietur hræring speckt,
Hugrenninga sinna.

Menn plaga og ad segia:

Parcere Subjectis, et debellare Superbos,
Hæc est in magnis gloria magna Viris.

Offstækum ad auka þraa
Enn Aumum fyrergiefa,
Høfdingianna heita maa
Hefdarstycke aan efa.

Sannur Kiærleike, sagde eiñ, kañ eingum ad reidast so fliott sem siaalfum sier, og sannur Fridur er ecke innefalenn i stoorre lucku, helldur i lijtelætes Hoogværd og þolenmæde, þegar Mootgaangurenn aadynur. Publius Syrus hefur sagt: Hreinlyndes Giedpryde aktar ecke fyrer neina Forsmaan; item Seneca: Ef þu ert giæddur med edla Giedsmunum; þaa muntu alldrei hallda, þu verder fyrer nockre Haadung: þo ad einhver villde lasta Soolena, og segia hun være myrk, þa yrde hun ecke þar fyrer myrk. Þeinktu uñ þessa maalsgrein er seger: ad forlaata og fyrergiefa, er su rietta hefnd. Epter þesshaattar aagiætum Lijfsreglum hafa vituger froomer og ypparleger menn, jafnvel a medal Heidingianna skickad sier. Þegar saa mikels haattar Mælskumadur, Pericles i Gricklande, hafde heilann Dag maatt heyra

heyra uppa einn, sem hann nydde og skammyrdte; þaa liet hann þo um Kvollded fylgia hønum heim i sitt Hws, so hann skyllde ecke faa skada, og lagde þetta til: Þad er eckert Meistara-stycke, ad lasta eins dygder, enn ad breita epter þeim, þad maa heita konst. Þegar Furstenn Phocion i Athenuborg, sem hafde giort Foolkenu þar, mikla og merkelega þienustu, var af Hatre og Ofund dæmdur fra lijfenu, og ad sijdustu ad spurdur, hvert hañ villde skipa nockud sijnum Syne, aadur enn hañ dœe, svarade hañ; alldeiles ecke neitt, utan þetta alleina; ad hann skule ecke hefna þess Ofbelldes og oriettar sem hañ hefde lided. Þad er skrifad uñ Keysarann Titum, ad þegar hann hafe formerkt, ad tveir Brædur i Room stundudu epter Keysaradæmenu, og høfdu svared hver ødrum ad þeir skylldu hañ myrda og drepa; þa giorde hann þeim þo eckert Mein, helldur hafde þa til giesta hia sier, aa sama Kvellde, og um Morguunen epter, took hann þa med sier uppaa Sioonar Plaatsed, og liet þa sitia næst vid sig, og yfervann so þeirra Bondsku med Miskun og Hoogværd. Þegar ad sa Skarpvitre Raad-herra i Room, Cato Uticensis, hafde stunged siaalfañ sig i hel, sagde hanns Fiandmadur Julius Cæsar: þar med

mista

mista eg mijna yppurstu og hærstu Sigur-vinning; þvi jeg hafde þeinkt ad fyrergiefa honum allt þad, sem hann hafde mier a moote giort.

I Fimta maata bætest hier vid Dæme vors Endurlausnara; Sa sem ecke leidest til ad elska sijna ovine af GUds-Sonar allra stærstu Þolenmæde og Hoogværd, hañ hneigest þar ecke helldur til med Epter-dæmum Heilagra, auk helldur Heidingianna. Hvada Ofbellde edur vondska kann meire ad upphugast enn þesse: ad GUds Eingeteñ Sonur, Riettlaatur og Saklaus, Lioome Fodursens dyrdar, og hanns Hiartans Ynde og Epterlæte, var af mannanna Børnum so saargrætelega illa utleikenn, so barenn og hwydstryktur, so hæddur og med Hraakum spyttur, so nyduglega a Krossenn stegldur, myrdtur og lijflaatenn? þo hefur GUd þad alltsaman af sinne Naad fyrergiefed, og vor Drottenn JEsus hefur hann þar ummbeded, segande: Fader! Fyrergief þeim þad. Med þessum hætte hefur vor sæte Endurlausnare sett oss fyrer siooner sitt haablessada Epterdæme, so þad skyllde vera voru lijferne hin kroptugasta Lækning, a øllum vorum Afestundum, til ad lækka i oss allann metnad og ofstopa, til ad endurnæra og hressa þad sem være kramed

og

og vanmegna orded, til ad afskiera allt hvad odùganlegt være, og ad betra hvad hellst sem fyndest spillt og fordiarfad. Hvernen maa nockur Drambseme og Hofmoodur vera so stoor i einne manneskiu, ad hann skyllde ecke kunna ad rymast burt, med so diupre Audmykt og Nidurlægingu GUDS Sonar? Hvernen kann Agirnden ad hafa feinged soddan yferhønd i mannenum ad hun skyllde ecke kunna ad lægiast med yfervegan Orbyrgdar og Faatæktar Herrans Christi? Hvern en kann Reiden ad vera so grimm, ad hun sefest ecke þegar menn þeinkia umm Christi stooru Hoogværd? Hvernen kann Hefndargirnden ad vera so bitur, ad hun ecke kunne ad læknast med Þolenmæde GUds-Sonar? Hvernen kann nockur Manneskia ad vera so iis-kolld i Kiærleikanum, og alldeiles elskulaus, ad hun fyrer yfervegan Christi Kiærleika og Velgiorninga skyllde ecke kunna aptur til Elskunnar ad vekiast? Hvar skyllde vera eitt Hiarta so steinhardt, ad Christur kunne ecke ad mykia þad med siinum graat og Taarafloode?

J Sietta maata, hver villde ecke ooska sier þess af innsta Hiartans grunne, ad hann mætte samlijkiast GUde, hanns Elskulega Syne JEsu Christo og Heilögum Anda, og

vera

bera dyrdlega Mynd Heilagrar Guddoomsens Þrenningar sem sierdeiles er innefalen i Kiærleikanum, og Fyrergefningu Misgiordaña? Þvi þad er GUds allra hærste Eigeñlegleike, ad audsyna Miskunseme, vægia, vera Naadugur, og fyrergefa. Hver skyllde ecke stunda epter þeirre dygd, fyrer hveria madureñ verdur Gude lijkur, sem er sa ædste Goode?

Ad Sijdustu, er þad su hærsta Trappa Mannprydennar, ad yfervinna Siaalfann sig, ad ummbera, fyrergiefa, ad snwa Reidenne i Naad, Goodgirni og medaumkan; þar fyrer segia menn:

Fortior eſt, qvi ſe, qvam qvi fortiſſima vincit
Mænia, nec virtus altius ire poteſt

Sig ad vinna, segia maa
Sigur mestann Vijga;
Ei kann Dygden adra aa,
Efre Trøppu stijga.

Þetta er nu allt hid sama, og þad sem stendur i Ordſ. K. B. 16. Cap. Einn Þolennmoodur madur er betre enn Sterkur; og saa, sem er Herra sijns Sinnes, helldur enn saa sem mwradar Borger yfervinnur. Þetta er sw hærsta Mann-Dygdanna Trappa, hærra verdur eigi komest; þvi þa tekur vid Hvijlden siaalf, og fullkomen Unadsemd i einum GUde.

Cap.

# Cap. XXVIII.

## Hvernig og hvarfyrer, ad Skaparenn eige meir ad elskast enn allar adrar Skepnur, og hvernig vor Naaunge eige ad elskast i Gude.

I. Joh. 2.

*Ef nockur elskar Heimenn, i hønum er ecke Kiærleike Fødursens.*

MAnnsens Hiarta hefur þa Naattwru, og sa Eigennlegleike er þvi af GUde inngefenn, ad þad kann ecke ad lifa fyrer utan Elsku. Þad hlytur efalaust eitthvad ad elska; annadhvert skal þad elska GUD, eda Heimeñ, eda sig sialft: Nu med þvi madurenn skal eitthvad elska, þa er þad tilheyrelegt, ad hann elske þad allra besta, sem er Sialfann GUd, og ad hañ gefe Gude aptur þa Kiærleikans Tilhneiging, sem han sialfur hefur fyrer Naattwruna plantad i vorum Hiortum; hveria hann hefur siidan enn þa framar endurnyad fyrer Naadena i øllum riettrwudum, og fyrer Heilagann Anda upptendrad, lofar og einnig, ad hann vilie þa hina sømu upptendra meir og meir þegar vier hann þar um bidium. GUd elskar þig fyrst, þu GUds Barn, og upptendrar þinn Kiærleika

leika med sijnum Kiærleika; eñ elsker þu hañ aptur a mot, þa verdur þu þess framar af honum elskadur, so sem þar stendur Joh. 14. Sa sem mig elskar, hann mun minn Fader elska. Sie nu þesse GUds Kiærleike i mannenum, þa kann Madurenn ecke ad hafa vont Hiartalag til nockrar manneskiu; þvi GUds Kiærleike vill ecke nockrum Mane illa; helldur vill hann, ad aller menn skule Saaluhoolpner verda, og komast til Sannleikssens vidurkenningar. Sa sem nu epter Naattwru og krapte Guds Kiærleika, vill eingum manne illa, hann vill og ecke sviikia nockra manneskiu, edur styggia hana i ordum eda verkum: og þvilijkt utrietter Guds Kiærleike i oss.

Margar manneskiur, ja flestar, eru so innteknar af Heimsens Elsku, ad GUds Kiærleike kann ecke ad stadnæmast i þeirra hiortum, hvad þeir siaalfer bevijsa med sijnum ofroomleika, og false vid Naawngann, Svikum, og ymislegre Raanglætes vidhondlan. Heimurenn og þad sem i Heimenum er maa ecke so elskast af nockrum, ad GUds Kiærleike þar med skadest, eda lijde nockra hindrun. Hvad er sa slæme og faanyte Heimur ad reikna hia þeim allra hærsta Gude? So sem GUds oendanleg vera yfergeingur allar sijnar skapadar skepnur, so er hans Heilage Kiærleike

leike, med hverium hann yferburdanlega elskast, ypparlegre, betre og kostulegre, enn allur sa Kiærleike med hverium skapadar Skiepnur elskast; þess vegna eru allar Skepnur oflakar til þess, ad Guds Kiærleike, vegna Kiærleikans til þeirra, skule lijda nockurn Skort.

H: Paall seger 1. Cor. 9. Hver plantar Vijngardenn og etur ecke af hans Averte; sem villde hann segia, hverium heyrer til Eikanna Avoxtur, nema þeim sem hefur plantad þær? Eins lijka, hver skyllde framar niota þijns Kiærleika, enn saa, sem hefur plantad hann i þijnu Hiarta, og fyrer hvers Kiærleika þu lifer? fyrer GUDs Kiærleika i JEsu Christo lifum vier aller, og til þess sama Kiærleika skulum vier hallda oss, og treysta uppa hann alla vora lijfdaga, og alldrei laata hann ur minne falla, hvad hellst sem aadynur. So sem Sioofarande menn plaga ad kasta ut Akkerum, þegar Stoorstormur kiemur uppa, so ecke bere uppa skier edur boda; eins lijka, þegar þesse olgufulle Heimsens Sioor hrekur vort Hiartans Skip hingad og þangad, med brwsande bylgium Syndanna, so sem er: Reide, Drambseme, Agirnd, Lostaseme og Ofolennmæde, og adrar þvilijkar Synder; þa skulum vier

einnig kasta ut vorum Atkerum, og hallda oss fastlega i Trwnne vid GUds og JEsu Christi Kiærleika, so sem eitt obifanlegt Atkere, og ecke laata oss þar fra hrekia. Eins eigum vier ad giora, ef vier føllum i andlegar Freistingar, og røtum fyrer hrakning af Syndenne, Daudanum, Dioflenum, Helvijte og adskilianlegum Mannraunum, so sem af ødrum Hafs-ølldum, sem ad oss kreppa; þa skulum vier hallda oss vid GUds og JESU Christi Kiærleika, og laata oss alldrei þar fra skiliast. Pad Fiall sem Loth var syndt fordum, og skipad ad flya til, so hañ kynne ad biarga sijnu lijfe, merkte GUds Kiærleika, þangad ætte, hver einn Christen madur ad flya ur Sodoma þessa Heims, vilie hañ ecke verda fordiarfadur af Veralldlegum girndum, sem ad eru skadlegre eñ Elldurenn i Sodoma. Ja, Otte og Elska til GUds er þad, sem Mannen vardveiter fra Heimenum, eins og Joseph fra Eigenkonu Potiphars.

Pad ad Madurenn elskar so mikelega þennann Heim, kemur þar af, ad hañ hefur ecke feinged riettann Smeck af GUds Kiærleika, og finnur ecke hans Krapt og Sætleika. Pad einn hatar siñ Naawnga, misann honum, svijkur hann og prettar, kiemur allt þar af, ad hañ hefur ecke i sier GUds Kiærleika.

Hvar af kiemur su mikla Umhyggia og Sorg, sem meñ laata sier tilfalla vegna Heimsens? mun hun ecke koma þar af, ad Madurenn elskar ecke GUD hiartanlega; þvi GUds Kiærleike er so sætur og lystelegur, ad hañ giører mannenn i allre Sorg og Aугist, og þad meira er, i sialfum Daudanum, hughraustann og giedprwdann.

Þad er Naattwra Elskunar, ad hun virder þad alleina mikels, sem hun elskar, enn sinner ecke neinu odru, so ad hun kunne ad niota þess, og bijhallda þvi sem hun hefur Elsku a: Þarfyrer, epter þvi menn segiast elska GUd; þvi gleima þeir þa ecke og forakta allt annad, sem i Heimenum er, Virdingar, Vellyst og Audæfe, uppa þad þeir kunne ad niota GUds, og bijhallda honum alleina, og sijna ad þad sie Sannleikur, ad þeir elske hañ? þad hafa Heilager GUds Menn giørt til forma, þeir hafa so merkelega sookt epter GUds Elsku og Sætleika, ad þeir hafa gleimt þess vegna Heimenum og sialfum sier, og þess vegna hafa þeir i Heimenum vered halldner fyrer Daara, iafnvel þo þeir hafe vered hiner Allra-Vijsustu. Hver er sa Vijsaste? Sa sem yfer alla hlute frañ elskar og adhyllest þañ eilijfa GUd: Hvarfyrer þeir sem hielldu soddann meñ fyrer Heimskingia,

voru ſialfer hiner allra ſtærſtu Sicker og Bitleyſingar.

Einn riettur GUDs-Elſkare elſkar GUD, og ſtundar hañ ſo, lijka ſem þar være eckert under Himnenum, nema einn GUD, verdt ad elſka, og ſo finnur hann i GUDe allt þad ſem hann i Heimenum elſka kynne: þvi GUD er Allt, hann er ſa ſanne Heidur, ſa riette Fognudur; hann er ſialfur Fridurenn, Lyſteſemen, Audlegden, og Yypparlegeikenn: Allt þetta finnſt i GUDe med ædra mote eñ i Heimenum. Elſker þu nockud ſem er dæelegt; þvi elſkar þu þa ecke GUD ſem er Brunnur allrar Fegurdar og alls Vænleika? Elſker þu nockud gott, þvi elſkar þu þa ecke GUD, ſem er ſa eilijfe og ædſte Goode, an hvers ecke er neitt gott? Allar ſkapadar Skepnur eru ad þvi-leite goodar, ſem þær hafa ſo ſem nockurſkonar neiſta edur dropa af Giædum GUDs, enn eru þo i ollu ſoddann ofullkomnar; enn GUD er ſialf Giædſkunnar Vera og Fullkomlegleike, hann er Uppſprettu-lind og hærſte Fullkomlegleike i ollu Goodu, hann er veruleg Giædſka og Brunnur allrar Goodſemdar, þvi elſkar þu hann þa ecke miklu framar enn allt annad? þeſſ minna ſem einn Hlutur hefur af Jordunne, ellegar af Jardneſkum Þyngſlum, þvi liettare er hann, og þvi audvelldlegar færeſt

est hann uppi lopted; enn þvi meir sem hann hefur i sier af Jardneskum Hlutum, þvi baagara er ad hefia hann: Eins lijka, þvi meir sem mannsens Hiarta þyngest af Jardneskum Hlutum, þvi minna kann þad ad hefia sig og glediast i GUds Kiærleika: Enn þvi minne sem Heimsens Elska er hia einum, þvi audvelldara kann hans Hiarta, ad hefiast til GUds og þeirra Andlegu Hlutanna, og þess meir er i hønum af GUds Kiærleika. Enn Kiærleikenn til Naawngans fylger epter Kiærleikanum til GUds; þvi Kiærleike til GUds og Naawngans kunna ecke ad adskiliast: Hver sem elskar GUd hann elskar og einnig sinn Naawnga; og sa sem þorer ad moodga GUd, hann hlyfest ecke helldur vid ad giøra Oriett sijnum Naawnga.

# Cap. XXIX.

## Hver sem eige forlijkar sig vid sinn Naawnga, þa aptur kallar GUd sijna Naad.

Num. 5. v. 6.

Þegar einhver madur syndgar a moote einum, þa syndgar hann einnin a mote Drottne.

ÞEsse Ord eru eptertektaverd, hver ed samtengia GUd og Manneskiuna, GUds Kiærleika

leika og Mannanna Kiærleika, GUd stigd-ann vegna Motgiordar vid Naawngann. Þvi Moyses seger wtþrickelega, Hver sem syndgar i mote Manne, hann syndgar og i mote GUde.

Hier af filger omotseganlega a epter, ad hver sem vill forlijka sig vid GUd, og veita honum þann Heidur og Lotning sem hann a skiled, hann a og ad forlijka sig vid siñ Naawnga, og audsyna honum þañ Riett sem honum ber; þvj nær Madur giorer einum a mote, so syndgar hann a mote Gude og stigger hañ. Þarfyrer hverhellst sem hefur GUde a mote giort, og sijnum Naawnga, hañ getur ecke fridþægst vid GUd, nema hañ og forlijke sig vid siñ Naawnga, og audsijne honum þan Riett, sem hañ adur af honum hafde ræntaun, hvert ed Christur liooslega kenner oss hia Matth. 5. Cap. segande. Ef þu villt offra þijna Gaafu, og þier kemur i Hug, ad þiñ Brooder hafe nockud a mote þier, gack fyrst og forlijka þig vid þinn Broodur, kom sijdan og offra þijna Gaafu.

Hier giorest þorf, ad vier enn fremur tolum uñ GUds og Naawngans Kiærleika, hvernin þeir eru hver vid annann samteingder, og kunna eige ad adskiliast. J 1. Pist. Joh.

4. stend-

4. stendur skrifad. Hver sem seger sig elska GUd, og hatar sinn Broodur hann er Lygare, þvi hver hann ecke elskar sinn Broodur, þann hann sier, hvernin kann hann þa GUd ad elska þann hann sier ecke? og þetta Bodord høfum vier af hønum, ad hver sem elskar GUd, han skal og elska sinn Broodur. Þarfyrer so kann og ecke GUds Kiærleike ad vera fyrer utan Naawngans Kiærleika. Ef GUds, sanne, hreine, og ofalsade Kiærleike er hia einne manneskiu, so er og einnin Naawngans Kiærleike þar sannarlegur, og þar þvert a mote, sie GUds sannur Kiærleike ecke hia mannenum, þa hefur su sama manneskia ecke annad enn hræsnisfullann fals Kiærleika til sijns Naawnga. Þarfyrer er Naawngans Kiærleike sa riette Proof-Steinn a hverium Kiærleikenn til GUds reinest, hvert hañ er hreinn edur ecke hia mannenum.

Hieraf kann madur og so riettelega ad dæma, um̃ Naawngans Kiærleika, og þa Broodurlegu Forlijkun, og Eining. Tvær Reglur, eru hverium manne fyrersettar, epter hverium hañ alltijd a ad maata og rietta sitt Lijferne; su eina er GUds, eñ su onnur er Naawngans Kiærleike; epter hverre fyrer sig hañ skal alltijd kostgiæfa, ad hañ gete komest nær og nær, og i GUds og Naawngans Kiærleika meir og meir aukest og prooest,

þviad þar til eru aller menn Skapader, Endurleister og Helgader. Ja vor Herra JEsus er sialfur su Mæleſnwra epter hverre vier eigum ad gaanga. Eñ þess nær sem vier erum Kiærleikanum, þess nær erum vier Christo og hans Lijferne. Þarfyrer vard GUd Madur, ad hañ sette oss fyrer siooner, eina lifande og skinbarlega Imind og Lijking sijns Kiærleika, og audsynde ad hann i sinne orannsakanlegu oendanlegu og guddomlegu Verú sie Sialfur Kiærleikurenn; uppa þad madurenn skyllde so verda þessare GUds upphaflegu Imind lijkur, sem er Christur i Kiærleikanum.

So sem GUd og Madurenn eru i Christo samteingder med o-uppleisanlegu Bande; lijka so innebindur GUds Kiærleike Naawngans Kiærleika i sier, og so sem su Guddomlega og Manndomlega Naattwrann i Christo kunna ecke ad adskiliast, so getur og ecke helldur GUds og Mannsins Kiærleike adskilest, Lijka so sem Madur kann ecke ad giora Christi Manndoome i mote, so hann giore ecke Guddoomenum imote, so kann madur ecke helldur neinum rangt til ad giora, ad hann ecke undereins stygge Gud, og syndge hønum i mote; þarfyrer kann eingenn ad skilia sig og sinn Kiærleika fra Naawnganum, ad hann giøre sig ecke asamt GUde vidskila. Eingenn kann

kann so Osamþyckur ad vera vid siñ Naawnga, ad hann sie ecke lijka Osamþyckur vid Gud. Eingenn getur so giort sijnum Naawnga rangt til, ad hann ecke undereins giore Gude oskil. Þetta kann Madur ad Jmynda sier, af Samlijking tekenne af einum Cirkel edur Hring. Þegar Madur gierer einn Hring, og i hønum midium einn Punct og dregur so Hringenn fullann med iafnlangar Lijnur og Strik, þa koma allar Lijnunnar samann i Midpunctenn, og snerta þar hveria adra, og sa same litle Punctur medtekur þær allar, so eingen Lijnan skilst vid adra, utan hun sie undereins skilen vid Midpunctenn, i hverium allar Lijnunnar mæta hver annare. So er og GUD vor Midpunctur, og skilie nockur sijna Kiærleiks Lijnu fra sijnum Naawnga, þa skilur hañ hana undereins fra GUde, og so sem allar Cirkels lijnunnar snerta hver adra i Midpunctenum, so snerter og lijka eins Mans Eind og Motlæte hiñ annann so hañ maa hafa Medaumkun og Medlijdun ned þeim ødrum, so framt sem hann er i GUde, so sem i þeim einasta Midpuncte inntekenn og innefalenn.

Þar uppa hofum vier fagra og Andlega Epterlijking i Jobs Historiu; þa Job heyrde ad hans Hiarder og Audæfe voru burtteknar, hrelldest hann ecke so mieg þar af, helldur

sagde hann Drottenn gaf, Drottenn burttok, Drottens Nafn vere blessad, enn þa hann heyrde ad sijn Born voru laatenn, þa sundureif hañ sijn Klæde, og barmade sier miøg. Bornen merkia sierhvers mans Naawnga: Heyre madur sijnum Naawnga gange illa, þa a þad ad ganga manne meir til hiarta, enn þo hann misse sitt eiged gots. Þad er Kiærleikans Art og Eigennlegleike, ad hann angrar sig ecke so miøg yfer sialfs sijns vanluckn og ohamingiu, sem yfer skada sins Naawnga. O! Hvad farsællt Lijf være hier a Jordunne, ef vier aller geingum so i Kiærleikanum, þa munde eigenn svikia nie sturla añañ eda giora honum nockud i mote. GUD skapade i Ondverdu, ecke nema einn Mañ, sem var Adam, enn af honum bigde hann sijdan Evu, af hverium aller Menn eru sijdan komner, þvi Eva er allra lifendra Mooder, og þad giorde hann þarfyrer, ad epter þvi aller menn eru af einnre Root uppkomner, þa skylldu þeir þeßhelldur og framar elska hver annann inbirdis. Hann skapade ecke so marga Menn, sem hañ skapade morg Villudyr, margar Jurter, morg Trie, helldur alleinasta einn Mann, so þeir aller sem Greiner a einu Trie, skylldu þeß meir elska hver annann, þesse Kiærleike er listelegur og

ununarsamlegur ad æfa og idka, hann þvijngar hverke Mannsins Lijkama nie Saal; helldur orsakar framar og meir eitt gott rolegt og stillt Lijferne, og er ecke vorre Naattwru motstædelegur, helldur hugkvæmur. Hefde GUd boded þier ad hata þinn Naawnga, þa hefde hann skipad þier langtum þingra efne, enn ad þu skyllder elska þinn Naawnga, þvi Ofund Hatur og Fiandskapur er fyrer Hiarta og Saal stoor Birde og Pijna, nagar og særer bæde Saal og Lijkama. Enn Kiærleikurenn styrker, gledur og vidhelldur bæde Saal og Lijkama, og hverugt þeirra hindrar nie fordiarfar, sem Ofund og Hatur giorer. Þeim sem elska GUd er Lyst og unun ad elska sinn Naawnga, enn þeim sem ecke elska GUd, er og þverstædt ad elska Naawngann. Falle þier þwngt vegna þinnar spilltrar Naattwru ad elska þinn Naawnga, þa hugsa ad þad mune verda miklu þyngra fyrer þig ad brenna i Helvijte. Þad er Vesæll og aumur Madur, sem helldur vill eilijflega brenna i Helvijte, enn hier ad elska sinn Naawnga, og aflaata hann ad hata. Ja sierhver madur finnur þad og so i sijnu Hiarta, enn ecke Saalenn, ad so sem Trwenn giorer Frid vid GUD sem S. Paall seger Rom. 5. so giorer og Kiærleikurenn Frid og Forlijkun vid mannen, og þar
med

med linun og Roo i Hiartanu. J annann stad ad Hatur og Ofund, Fiandskapur, og oeining, giøre Saalunne Hrigd og Angist. Stuttlega ad segia, sierhver Dygd launar þeim sem hana hefur, og sierhver Løstur plaagar þann sem hann hefur, sierhver Dygd heydrar þann sem hana hefur, og sierhver løstur spiller þeim sem hann hefur.

So syner og Skriften, med hverium hætte Forlijkunen skule ske, fyrst skal sa Seke medkenna sijna Synd i mote sijnum Naawnga fyrer Gude, þar næst skal hann vid sinn Naawnga, sem hann hefur stygt og oriett giørt, audsijna sig af Hiarta goodann og vinsamlegann, og laata siaa i Verke og Sannleika, ad þad angri sig, ad hann hafe giørt sijnum Naawnga rangt til, og þar sem þad kann ad hiaalpa til Fridar Einingar og Forlijkunar, þa skal hann og so einninn bidia sinn Naawnga umm Fyrergefning, ad hann vilie hønum þad fyrergefa, framar meir skal hañ og so ef hann getur, og hafe hann Efne til bæta sijnum Naawnga þann skada, sem hann hønum giørt hefur, þarfyrer seger Drottenn i 4. Moisis. B. 5. v. 6. 7. ad Madur skule medkenna sijna Synd sem hann hefur giørt i mote sijnum Naawnga, og gefa þeim sem hann hefur i mote giørt Høfud Summuna aptur;

enn

enn sie eingenn til sem þad eige ad hafa, þa skal hann gefa þad Drottne. Hver sem af Hiarta idrast sinna Synda, og hefur andstygd a þeim, hann hefur einga Roo, firr enn hañ hefur bætt og borgad sijnum Naawnga, þann skada, sem hann med rongu honum giort hefur, ef hann hefur Efne og Raad þad ad giora; Giore Madur ecke so, vill hallda þvi sem hann hefur rænt og stolid, eda i annann maata vill ecke giora sijnum Naawnga riett skil, þa angrar hann ecke enn þa hans Synd, og hefur ecke neina rietta Jdran; þar fyrer seger Augustinus. Synden fyrergefst ecke med miña mote, enn þad stolna og raangfeingna gots aptur skilest, og þar til leggur hann; Nær Madur getur aptur skilad, þad hann hefur med rongu burtteked, og giorer þad ecke, so er hans Jdrun eingenn Alvara helldur Hræsne.

Riett Umvendan sem mannenum snyr til GUds, setur allt tijmanlegt til sijdu, og virder þad einskis i mote GUds oendanlegre Naad i Christo, og lætur þarfyrer hvern Mann fa sitt aptur Hvar uppa vier hofum lioost og agiætt Epterdæme Luc. 19. a Sacheo, sem ecke einasta liet sierhvern fa sitt aptur, og þad so rijflega, ad hann gaf ferfallt aptur, og þarfyrer utan gaf hann Helming sinna

Aud-

Audæfa Faatækum. Hvilijkar manneskiur sem so alvarlega umvenda sier finnast nu faar, og miog sialdan. Su sanna Umvendan til GUDs, hreinsar Hiartad og Samvitskuna fyrer Trwna, og drijfur mann til ad burtkasta fra sier og skila aptur þvi rangfeingna Fie, so Hiartad meige verda hreint bæde fyrer Gude og Monnum. Þo einn laate af ad stela, enn vill þo ecke leggia aptur nie afhenda þad, sem hann hefur stoled og rænt, þa hialpar honum þad eckert, þo hann hafe laated af ad stela edur ræna, hann er þo ecke ad sijdur fyrer GUDe, enn þa i sijnu eigenn Hiarta og Samvitsku einn Þioofur. Skule þijn Umvending vera riett sem ber, og Samvitskan hrein, þa mattu greida og apturskila þad ødrum tilheyrer, so framt sem þad mogulegt er; enn sie þier ecke møgulegt þad ad giora, þa bid þu GUD, ad hann vilie þad borga og endurgiallda.

Enn Orsoken hvar fyrer Borgunen og Afhendingen eige ad ske i alvarlegre Idran, er þesse, ad Madur a hier ad høndla vid Tvær Personur GUD og sinn Naawnga. Skule þa Idranen vera riett sem ber, þa skal Madur gefa þad Gude sem honum ber, og Naawnganum þad sem hans er, og lwka so baadum Skulldina, þvi GUD medtekur ecke

þa Jdran þina, ef þu ecke forlijkar þig af Hiarta vid þinn Naawnga. Þad hiaalpar ecke, ad þu seger vid Gud, Drottenn Gud þeim og þeim hef eg rangt giort, hef hann prettad, hef teked fra honum hans Biorg og Næringu, hef fra honum dreged hans Akur og Abata, hef ecke so giort og høndla vid hañ, sem eg villde ad hañ skyllde høndla og giora vid mig, i þessu hefe eg Oriett giort, og ecke sem mier hæfde, forlaattu þad og fyrergefdu, fyrer saker þijns Elskulega Sonar. Enn Gud seger so, gief honum aptur þad þu hefur prettvijslega fra honum dreged, og kom þa til min, so vil eg fyrergefa þier: Ecke er þetta so ad skilia sem Madur þar med kynne af Gude ad forþiena, slijka Fyrergefning; þvi Madur er adur sijnum Naawnga fyrerframm, um allt soddann skyldugur, og miklu meir, hvernin kinne þa Madur nockud ad forþiena þar med? Enn þad er so meint, ad Gud hafe so aliktad þad, ad so sem þu høndlar vid þinn Naawnga, so vilie hann høndla vid þig, og mæla þier aptur, med þeim sama Mæler.

Hier ad hnygur su greim Matth. 5. Forlijkadu þig vid þinn Broodur, og kom þa ad offra þin gaafu Esa. 1. Þvoed og hreinsed ydur, taked burt þad vonda Athæfed fra mijnum Augum laated af illu, enn læred gott ad giøra, astunded Riettlæted, og hiaalped

þeim

þeim Veſæla, giøred þeim Fødurlauſá riett, og ſtirked Eckiunnar Maaleſne, komed ſo og laatum oſſ eigaſt Løg vid, ſeger Drottenn; þo ydar Synder væru ſo raudar ſem Purpure þa ſkylldu þær þo verda Snioohvijtar, og þo þær væru ſem Skarlats litur, þa ſkylldu þær þo verda hvijtar ſem akur ull. Eſa. 58. Pad er ſu Faſta ſem eg utvel, laattu þa ut, ſem þu hefur med oriettu faangad, lat þa lauſa ſem þu ofþinger, gief þa lauſa ſem þu þreinger, tak burt allann Ofurþunga, brioot þu Hwngrudum þitt Braud, og inleid þa Voludu og Landflootta i þitt Hws. Sier þu nockurn Nakenn, þa klæd þu hann, og ovird ecke þitt eiged Holld, þa mun þitt Lios hier frammbriotaſt ſem Morgunrødenn, og þin Velgeingne vaxa, og þitt Riettlæte mun ganga frammefyrer þier, og Dyrden Drottens, mun taka þig til ſijn. Par ſtendur þad wtþrickelega, ad GUD vil einga Boot, Idran nie Bæn alijta, utann madur forlijke ſig vid ſiñ Naawnga, og audſijne honum ſijna Elſku.

## Cap. XXX.

## Um Kiærleikans Avexte.

### 1. Cor. 13. v. 4.

Kiærleikurenn er Þolenmodur og Vingiarnlegur, Kiærleikurenn vandlæter eige, Kiærleikurenn giører eckert illmannlega, eige blæs hann ſig upp, eige er hann oſidſamur, eige leitar hañ þeſſ hvad hans er,

er, eige verdur hann til ills egndur, hann huxar ecke vondslegt, eige fagnar hann yfer Raanglætenu, enn fagnar Sannleikanum, hann ummber alla Hlute, hann trwer øllu, hann vonar allt, hann ummlijdur alla Hlute, Kiærleikurenn dodnar alldrei, þo Spaadomanner hiadne, og Tungumaalunum slǫte, og Skinsemenne linne.

Lijffsens Trie stood midt i Paradijs, og bar þann Avoxt, ad hver sem aat þar af, aatte ad lifa eilijflega, so Moyses þarfyrer seger, Gen. 3. nu̅ vora fyrstu Forelldra, sem høfdu misbrwkad þa Naad, ad Madurinn skyllde ecke wtrietta sijna Hond, og taka af Lijffsens Trienu, og eta, og lifa so Eilijflega, þa dreif GUD Drottenn hañ wt af þeim Alldenngarde Eden, ad hañ skyllde yrkia Jordena. So sem nu Lijffsens Tried var sett i midia Paradijs, so hefur og GUD, sett JEsum Christum midt i Christelegrar Kirkiu Paradijsar Alldengard, so ad aller trwader skylldu fa Lijf og Kraft af honum: Eñ ad þeir hafe Lijf og Krapt af honum, þad eiga þeir ad audsijna i Trwnne og Kiærleikanum; þvi allur Christenndoomurenn er innefalenn i Trwnne og Kiærleikanum. Fyrer Trwna a Christum þocknast Gude Christens Mans Lijferne, eñ skule vorum Naawnga vera þient, þa a

þad einnin i Kiærleika ad ſke, þvi allar Dygder og lijka Trwenn ſialf eru daudar an Kiærleikans og gyllda eckert: Hvi þo Trwenn alleina giøre riettferduglega þar hun alleina medtekur GUds Sonar Forþienuſtu, og til ad ødlaſt Riettlætinguna, alijtur hun eckert Verk undannfared, nærverande edur eptersilgiande, helldur Christum alleina, ſamt ſem adur þar ſem Kiærleikurenn ecke medfilger, þa er Trwen ecke riett helldur Hræſne, jafnvel þo hun giørde furduverk og undarlega giørninga; þvi ſo ſem lijkamenn er daudur an Saalarennar, ſo er og lijka ſa innre andlege madur an Kiærleikans daudur, hvers Limer allar Dygder eru, þvi H. Paall ſetur Kiærleikann Trwnne til proofs og utkrefur ſoddann Trw ſem verke fyrer Kiærleikann. Sannlega ſkil eg þad riett, ad i Efnum Riettlætingarennar, um̃geingſt ecke Trwenn med nein verk, Rom. 4. Eñ þegar hun a ad høndla vid Naawngann a Torge Kiærleikans, þa ma hun um̃gaangaſt med Verkunum, og þioona ſijnum Naawnga i Kiærleikans Athøfnum, ſem eru Proof Trwarennar; þar fyrer er hun nefnd, Gal. 5. ein Trw ſem verkar fyrer Kiærleikann. Eñ hvada edla Averxte þeſſe fagra Eik, Kiærleikurenn, giefe af ſier, þad ſyner S. Paall 1. Cor. 13. hvar hañ teiknar þa Fioortan ad tølu. Fyrſt

Fyrst seger hañ ad Kiærleikureñ sie Polenn-modur. Polennmæden er sa fyrste Avoxtur Kiærleikans: Hana hefur eingeñ betur syndt eñ Drotteñ vor JEsus Christur. Eñ vier meigum ecke einasta leita epter þessum Averte a Christo, so sem vi sanna Lijffens Trie, helldur og einnen eigum vier hanns ad neyta, so hann snwest oss i Holld og Hams: þar fyrer, so sem hann þolde Illsku Heimsens, med forundrunarlegre þolenmæde, og lockade þar med Syndarana til Idrunar og yferbootar, eins lijka skalltu giora, so ad sa hogvære Christur life i þier, og þw verder hønum samteingdur, eins og limurenn vid Høfuded.

Annar Avoxtur Kiærleikans er Vingiarnlegleike, sem i Drottne vorum JEsu Christo var og so hiñ meste. Hvar hafa menn heyrt rædt uñ so aastwdlegar Varer, sem hanns, epter þvi sem þar stendur, Psalm. 45? Hvereinn maatte forundra sig yfer þeim Hiartnæmu Ordum, sem framgeingu af hans blessada Munne, a medan hann umgieckst vor a medal, so sem lesa maa, Luc. 4. Gior lijka so minn kiære Vin! þvi ef þw elskar þinn Naawnga af Hiarta, þa mun Herrann Christur tala fyrer þinn Munn, og verdur þu hønum þa samteingdur: Enn siaa vel til, ad hvad þu giorer, þad framkome af hreinne

Elsku, so ad Munnur og Hiarta verde samstemmande.

J Pridia maata er ecke Kiærleikurenn øfundsiwkur, þad er, hann er ecke Hefndar-giarn, helldur gleimer giarnan Motgiordunum og fyrergiefur þær, so sem siaalfur GUD plagar ad giøra, epter þvi sem þar stendur i Psalm. 103. Hann er ecke æfenlega bistur og reidest ecke eilijflega; hann breiter ecke vid oss epter vorum Syndum, og endurgelldur oss ecke epter vorum Misgiørningum; og hia Ezech. Cap. 18. Ef sa ogudlege idrast allra sinna Synda, sem hann hefur framed, þa skal hann lifa og ecke deya, allar hanns Afertrodslur, sem hann hefur giørt, skulu ecke i Minne lagdar vera Item Jer. 31 Cap. J eilijfum Kiærleika hefe eg elskad þig, þess vegna hefe eg ladad þig ad mier af skiærre Miskunsemie, þar fyrer hræhast mijn Jdur yfer hønum, so ad eg hlyt hønum miskunsamur ad vera. Eg vil fyrergiefa þeim þeirra Misgiørninga, og alldrei meir i Minne leggia þeirra Synder. og enn framar stendur hia Esa. 43. Cap. Eg, Eg em Hann, sem afmaae þijnar Jllgiørder minna vegna, og hugleide ecke þijnar Synder. Giør þu nu, minn Brooder og Syster, slijkt hid sama, væg þu til, gef kvitt, og fyrergief giarnan; þa vill GUD og einnen gleima þijn um Syndum, og fær þu þa Christi Giedsmune og verdur hønum samteingdur. Sa

Sa Fioorde Avoxtur Kiærleikans er þetta: ad hann giører ecke neitt hreckvijslega edur illmannlega; þad er, hann hefur eckert skelmers Stycke J framme vid sinn Naawnga, til ad svijvirda hann, spotta hann, edur giora honum nockurn Skada i Ordum eda Atvikum: Soddañ Vondsku-hrecke hefur ecke Kiærleikurenn i framme, helldur byr hann yfer froomum og hreckialausum Giedsmunum. Settu þier fyrer siooner þiñ Frelsara, JEsum Christum: hann hafde eitt hreint og heilagt sinnislag, bæde vid Vine og Ovine, og villde øllum vel af iñsta Hiartans-grunne, hann stundade innelega epter þvi, ad verka allra manna Saaluhialp: Gior þu eins lijka, og er þa Christi Giedgiædsta, Trwskapur og Froomleike i þier. Lijka so sem Christur hefur unnad oss vel af Hiarta, so skulum vier og einnen giora hver ødrum, annars verdum vier ecke honum samteingder, so sem Limerner Høfdenu.

J Fimta maata blæs ecke Kiærleikureñ sig upp, þad er, hann er ecke Ærugijrugur, þrwtenn eda hrokafullur. Þennann Avoxt maattu sia a Lijffsens Trie, JEsu Christo; þvi þegar ein Kvinna upphof sijna Raustu, og tok til ad hroosa honum medal Folksens, segande: Sæll er sa Kvidur er þig bar, og

 þau

þau Briooſt er þu mylkter, þa ſvarade hann; jaa, Sæler eru þeir, ſem heyra GUds Ord og vardveita þad; og ſnere ſo þeim Lofſtijr, ſem hønum þo vel tilheyrde, fra ſier med Hoogværd og Lijtelæte, og til einkade hann, þeim ſem elſka GUd. Ef þu ſetur þier fyrer þetta ad giora, þa lifer ſa Audmiwke Chriſtur i þier, og þw i hønum: þad er Audkieñingar Teikn Kiærleikans, ad venda Roſſtijrnum fra ſialfum ſier, og tilleggia hann ødrum.

J Siotta maata er ecke Kiærleikurenn wſenn ohyr eda grimmur, ſo ſem þeir illſinnudu, helldur lætur hann Blydlynded og Vingiarnlegleikann lyſa af ſijnu Andlite. Rendu þijnum Augum til Frelſarans JEſu, þeirrar lijflegu Myndar, hver epter Eſaiæ ſpaadome 42. Cap. ecke var møglunarſamur, nie hrædelegur; hañ hefur lited ſijnum miſkunar og medaumkunar-augum til hvers mañs. Gior þar fyrer lijka ſo, og muntu þa verda ſvipadur Chriſti Aſioonu og Yferlit, og hønum æfenlega og eilijflega ſamteingdur.

Sa Siounde Kiærleikans Avoxtur er þeſſe: ad hann leitar ecke þeſſ ſem hans er, og hefur eckert Kiærara nie ununarſamlegra, helldur eñ ad þocknaſt ødrum fyrer ecke neitt. Þad er ein Hiartans glede fyrer einn Elſkumann, ad hann kann ad þiena ødrum an

Bet-

Betalings, og fyrer utan eiged gagn og abata, og þess fleire sem þar kunna ad hafa gott af, þess kiærara er hønum þad; so giorer GUD: hañ giefur oss allt, fyrer ecke neitt, og hefur þar eckert gagn af. Pad þu þienar GUde, þar af hefur GUD eingann Abata, helldur þu sialfur. Pad, ad GUD hefur þier skipad ad vera froomur og ottast hann, þad hefur hann giort þess vegna, ad þw kunner ad nioota hanns Elsku, og bera so wr bytum Blessunena. J sama maata hefur vor Ast-vinur JEsus Christur, ecke stundad sitt Gagn, helldur alleinasta siins Fødurs Veg-semd og vora Saaluhialp; hann kom eige til þess ad laata sier þioona, helldur til ad þiena oss.

Lijka sem Avaxtarsøm Eik giefur af sier Avøxt, fyrer utan manngreinar Allit, og hefur eingenn not þar af; hwn frammfærer Avøxtenn so goodann, sem hun hefur hann af GUde feinged; ef hun hefde hann betre til, þa giæfe hun hann betre eptertalslaust: so hefur Christur giefed sig oss allann; jaa, sialfur GUd hefur giefed sig oss i Christo til Eignar, so ad aller Hluter skule vera vorer i Christo, einnen GUd sialfur; hann er sa ædste og beste Goode, og meddeiler oss sialf-ann sig. Hver hellst sem astundar ad giora

sliikt hid sama, hann verdur Riettlæteſens Trie, Gude til Lofs og Dyrdar. Esa. 61. HErrann Christur bloomgast i honum, og hann verdur eitt lifande Viinvidartrie, og palmavidur jafnan bloomlegur Psalm. 92.

Attunde Avoxtur Kiærleikans er, ad verda ecke egndur til Reide; þad a ad skiliast um̃ þa Heipt Giedsmunanna, i hverium Heimurenn fer nu vaxande, i mesta maatta; so ad hun og so brytst wt i giegnum Muñeñ, med smaanarlegum Lastmælum og bitrum Formælingum vid Naaungann: Enn so ad þw kunner ad brynia þig a mote soddann Bræde, og ecke verda af henne hertekenn, þa bid GUD ydugleg a, ad hann vilie stioorna þijnu Hiarta, Munne, og Twngu; og haf jafnan fyrer Augum Epterdæme þijns Lausnara JEsu Christi, af hvers Munne ecke gieck neinn Hugmoodur, nie Vanvirdingar Beysskleike, helldur einskiæra Blessan og Lijf: og þo hann hroopade Vei yfer Chorazin Kapernaum og Bethzaida, sem og einnen Phariseunum, þa var þo sliikt eingen haturs-full Bræde, edur Uthelling Heiptarennar, til ad hefna fyrer sig, helldur skørp Vand-læting i hanns Embætte, og alvarleg Id-ranar Predikun, hvar med hañ leitade epter Betrun bæde þeirra og annara. HErranns

þien-

þienare (seger Ritningen) a ecke ad vera þrætu-giærn, helldur vingiarnlegur v:d hvern mañ sa ed gietur ummbored þad vonda; 2. Tim. 2. og i odrum stad stendur so: Siaaed so til, ad eingenn forsmaae GUds Naad, ad eingeñ beisk Root uppvaxe, og Ofrid giøre, og marger fyrer þad saurgader verde.

Niunde Kiærleikans Avoxtur er, ad hafa ecke neinn vondann Asetning odrum til skada: soddañ fodurlegt Hiartalag hefur vor goode GUd, uñ hvern skrifad stendur Jer. 29. Eg veit hveria þaanka eg hefe yfer ydur. þaanka Fridarens, enn ecke Pijnunnar, so ad eg vil giefa ydur þa Ending, sem þier vænted epter, og þier skulud akalla mig, og ganga i burtu, og bidia mig, og eg vil bænheyra ydur; þier munud mijn leita, og mig finna, seger Drottenn. Hier fylger þad a epter, ad sa sem hefur Fridar þanka yfer Naunganum, hann hefur Hiarta GUds, og Siñe JEsu Christi, og verdur hann lifande Limur samteingdur vid Hofuded, og af þvi iñtekeñ og upplystur.

J Tijunda maata fagnar ecke Kiærleikurenn yfer Raanglætenu: þad er ad skilia, Kiærleikurenn hefur ecke gott þar af, þo þad gange odrum illa fyrer utan Ordsok; hann fagnar ecke þar af, þo ad sa Frome og Saklause verde ad lijda Oriett, eins og David

þegar hann flæde fyrer Absalon og vard ad heyra Bolf Simei, helldur hefur hañ Medaumkun med þeim, sem ad lijda saklauser og grætur med graatendum; ja, hann aumkast þar ad auke yfer þeim sem fellur og forsier sig af Breyskleika. Giefum giætur ad JEsu Christo; hvad hiartanlega Medlijdunarseme hann bar med Petre, þegar hann var þo ordenn Meinsæres madur, og reiste hann vid aptur med sijnu Astwdlega Tillite; so sem stendur i Psalm. 146. Drottenn reiser vid þa, sem nidur eru slegner. Hvad stoora Medaumkan hafde vor HErra yfer Foolkenn, þegar þad var tvijstrad, sem Sauder, er eingann Hirder hafa Matt. 9. Hversu leitade hann grandvarlega epter þeim tijndu, og kallade þa aptur til sijn Luc. 15. hvad hørmulega griet hann med miklum Taarafollum yfer Jerusalems Fordiørfun Luc. 19. Laatum oss breita epter þessum Elskunnar-Meistara, good GUds Børn; so þegar vier siaum einhvern falla, þa laatum þad ganga oss til Hiarta, sijnum honum Vorkunseme, og hialpum honum til ad bera sijna Byrde, og þar med uppfyllum vier Christi Løgmaal, sem hefur bored allra vorra Byrde, og so erum vier hanns sanner Limer, og hanns Lijf er i oss; þvi Lijf Høfudsens giører, alla Limena lifande.

J Ell-

J Ellesta maata gledur Kiærleikurenn sig yfer Sannleikanum og þvi, þegar allt geingur vel til: Lijt til þijns Frelsara JEsu, hversu hann gladdest i Anda, þegar þeir Siotiju Læresveinar komu aptur, og tiaadu honum, ad sier hefde geinged vel; hann þackade sijnum Himneska fødur þar fyrer. Gief giætur ad Dæme Heilagra Eingla, sem HErrann Christur seger, ad gledjest i Himnenum, þegar syndugur Madur giører Yferboot: Ef vier giørum eins og þesser, þa høfum vier Sinnislag GUds og Einglanna.

Sa Toolfte Avoxtur Kiærleikans er, ad ummlijda allt, so ad Band Fridarens raskest ecke, epter Dæme hins Heilaga Paals, þar hann so ad orde kiemst 1. Cor. 9. þeim sem Breyster eru, er eg ordenn, sem være eg Breystur, so ad eg avinne þa breysku. Øllum er eg ordenn allshaattar, so ad eg, advijsu giøre ein hveria Saaluhoolpna. Kiærleikurenn Trwer øllu, þad er hann hefur einga vonda Grunsemd umm Naawngan. Hann vonar allt, þad er; hann oskar ad þad mætte gaanga allt vel til, fyrer Naawnganum; hann um lijdur allt, uppa þad, hann kunne ad vera sijnum Naawnga til mikels Gagns. Renn þijnum Hugskots Augum til þijns Frelsara, JEsu: hann leid fyrer vorar Synder, og umbar alla Hlute, þa stærstu Haadung, þær-

þær grimmustu Pijsler, mestu Faatækt, so ad vier i hønum og fyrer hann hreptum Fognud og Heidur.

Sa Þrettande Avoxtur Kiærleikans er þetta: ad hann þreitest ecke, nie hvijlest, lijka sem GUD sialfur, hvers Miskunseme ad varer fra Eilijfd til Eilijfdar, yfer þeim sem hann ottast Psalm. 103. hann frestar sin̄e Reide, so ad hann kunne ad vera oss Naadugur; hann dregur Straffed undan, so ad hann Miskune oss. Eingenn Hlutur kann ad skilia oss fra hans Elsku, hun er so sterk sem Daudenn Lofqv. 4. Hveria mørg Vøtn kun̄a ecke wt ad sløckva Lofqv. 8. Hann miskunar sig yfer oss med eilijfre Miskunseme Esa. 54. og þo hann sege, Jer. 15. ad hann kunne ecke framar ad vera Miskunsamur, þa vijkur þad alleinasta þeim vid, sem traatzuglega reka fra sier GUDs Naad, forakta hanns Miskunseme, og vanbrwka hana med stærsta Glappahætte og Hreckvijse; annars þreitest ecke hanns Kiærleike, helldur varer hann æfenlega, yfer þeim sem hann ottast, epter þvi sem þar stendur Esa. 54. Fiøllenn skulu wr stad hræraſt, og Hædernar nidurfalla, enn mijn Miskun skal ei i burt fra þier vijkia, og Saattmaale mijns Fridar skal ecke bifast, seger Drottenn, þinn Miskunare. Epter þessu Dæme a vor Elska ad skicka sier, so hun

hun þreitest alldrei nie hvijlest: a sijnum tijma munum vier uppskiera oaflatanlega. Ja vor Elska a jafnvel ecke ad þreitast vid vora Ovine, helldur eigum vier ad segia med ævarande Miskunar-rijkum Kiærleika: Fader fyrergief þeim. so lifer og bidur Christur i oss.

J Sijdasta maaka: er Kiærleikurenn hin stærsta Dygd a medal allra Dygda; þvi sialfur GUd er Kiærleikureñ; hañ er Sum̃a Bodordsens, og Logmaalsens Uppfylling, og i honum eru øll Bodordenn innebundeñ; hann varer og einnen eilijflega, þo Trwen, Vonen, Twngumaalenn og Spaadomarner take enda, þegar Sælan vor verdur openber, hver ad er Ender Trwarennar: So eru øll vor Verk og allar Manndygder eckert an Kiærleikans. Kiærleikurenn giefur oss eiñen Vitnisburd ad eilijfu, ad vier høfum ødlast Sæluna, fyrer Trwna a JEsum Christum. Af þessu øllu er audskiled, ad Christeñ madur a ad stunda framar epter Kiærleikanum, enn øllum ødrum gaafum og Konstum: þad er miklu betra seger Postulenn, ad elska Christum, enn ad vita alla Hlute; og oskar þeim i Epheso, ad þeir uppfylltest med allshaatt-adre GUds Gnægd, og Avøxtum Kiærleikans Eph. 3.

# Cap. XXXI.

## Ad eigen Elska og Sialfs-þotte, fordiarfe, og ad eingu giore, jafnvel þær bestu, hærstu og prydeleguſtu Gaafur.

1. Cor. 13.

Þo Eg talade Twngum Mannanna og Eingelanna, og hefde eige Kiærleikann, þa være eg sem hlioomade Maalmur, eda hvellande Bialla.

SO ad eingenn, kann skie, undre sig þar yfer, ad Heilagur Paulus hroosar so mikelega Kiærleikanum, þa sie vitanlegt, ad sialfur GUD er Kiærleikurenn; þar fyrer, so haaloflegur sem GUD er, so haaloflegur er Kiærleikurenn i Gude; þvi þar er eingenn stærre Dygd til, hverke hiaa GUde nie mönnum, enn Kiærleikurenn. Enn su Elska, sem Mönnunum viðvijkur, er Tvøfølld: Önnur Sönn, lifande, hrein, og oflekkud; Enn önnur Følsud, Hræsnesfull og Saurug:

Sa hreine og oflekkade Kiærleike er þad, sem Heilagur Paulus wtmaalar, med sijnum margføllðu Eigennlegleikum og Avøxtum so sem lesa ma i næst fyrerfande Capitula.

Enn

Enn sa Falske og ohreine Kiærleike er þad, sem i øllum Hlutum, øllum Ordum Verkum og Utlaatum, stundar epter sinne eigen Vegsemd, Æru og Abata: hann kann fullvel ad hafa þad utvortis Skin, ad hann stunde til þess, ad þiena bæde Gllde og Mon̄um, enn sæker þo ecke epter neinu ødru, af innsta Hiartans Grunne, enn adursagdre eigenn Virdingu, eigenn Lof-stiir og eigenn Abata: Enn hvad hellst sem framm flytur af þessum Brunne, þad fram̄kiemur ecke af Gllde, helldur af Dioflenum, og er ein forgipt, sem eitrar øll good Verk, og allar goodar gaafur; likia sem eitt Bloomstur, sem vera kann ad Lit, Smeck og Ylman hid lystelegasta, duger eckert, ef þad kann ad vera seyrt med Eitre; þviad med þad slag er þess dægelege Litur, Ylmur og sætur Smeckur, ecke einasta gagnlaus fyrer Mannenn, helldur og einnen i mesta maata skadlegur: Eins er þvi haattad og vared fyrer Mannenum, þo hann hafe ypparlegar Dygder til ad bera, og lioome, jafnvel af Einglanna Gaafum, en̄ er fullur af Hofmood og Drambseme, Eigen-Æru og Siaalfs-Elsku; þa eru þær Gaafur honum, ecke ad eins gagnlausar, helldur og einnen næsta skadlegar. Allt þad sem i Raun og Sannleika skal heita gott, þad verd-

verdur ad hafa GUD fyrer Upphaf, af Gude ad koma, og i GUde ad endast; hafe þad nockurn annan Uppruna, Skamt edur Ender, þa kann þad ecke ad vera gott; þvi GUD er uppspretta til alls goods.

Hvad sem gott er, þad kann ecke ad hafa nockurn annann Uppruna og Stofn enn GUD siaalfann: Þad sem GUD verkar i þijnu Hiarta, þad er alleina Gott; enn hvad þinn siaalfs Þotte, Siaalfs-Elska, eiged-Hroos, Gagn og Abate verkar i þier, og lockar þig til, þad kann ecke gott ad vera, þvi þad kiemur ecke af GUde. GUD alleina er goodur, og GUD er Kiærleikurenn; þar fyrer kiemur allt gott til vors Naawunga af Kiærleikanum, þad er, af GUde siaalfum, sem er Allt Gott.

Þar fyrer hefur einn Heilagur Madur fordum þess vituglega oskad sier, ad hann mætte vera þad fyrer sijnum Gude, sem hans eigen Hønd være fyrer honum siaalfum; þvi lijka so sem, þegar ad vor Hønd tekur nockud til sijn, og leggur þad fra sier aptur, þa tileinkar hun sier ecke þar af neina Æru eda Vegsemd, med þvi hun er ecke utan einfalldt Verkfære til ad medtaka edur giefa: Eins ætte Madurenn, i stærsta Einfalldleika, ad vera fyrer þeim gooda GUde, so sem hanns eig-

eigenn Hønd, ad hvad hann hefur af Gude medteked, þad ſkal hann einfalldlega fyrer utan eiged Hroos og Æru, af hreinum Kiærleika aptur fra ſier giefa, ſo ſem hann hefur þad ødlaſt af Lioosens Fodur, og byriar hønum ecke ad hrooſa ſier þar af, helldur heyrer Hrooſunen þeim til alleina, af hverium hann hefur þad ødlaſt: GUde alleina heyrer Vegſemden til. Pſalm. 115. Vier erum ecke utan GUds Verkfære, til ad medtaka af GUde hanns Gaafur og utdeila þeim aptur.

Hver ſem ecke hefur þennan ſkylauſa Kiærleika, ſa er med øllum ſijnum Gaafum eckert; jafnvel þo hann kynne ad tala Twngum Einglanna; þo hann viſſe alla leynda Dooma og alla Vitſku; þo hann hefde þa Trw ſem giørde ſtor Taakn og Undur; þo hann giæfe alla ſijna Alleigu; jaa, þo hann yfergiæfe ſinn Lijkama, ſo hann brynne, 1. Cor. 13.

Øll Sialfs-Elſka, øll Aſtundan eigenn Heidurs, eigenn Lofs og eigenn Gagns, kiemur af Dioflenum; og þad var Dioful- ſens Fall, fyrer hvert hann var rekenn i burt af Himne; þvi þegar GUd hafde ſkapad Satan einn ypparlegann Eingel, og prydt hann med ſierdeiles haaum Gaafum, Vænleika,

Vijsdoome, Lijooma og Vegsemd, leit hann a þessar sijnar Gaafur, so sem þegar einn Paafugl er ad virda sijnar fiadrer fyrer sier, og took til ad elska heidra og lofa sialfann sig; þar fyrer hlaut hann ad falla; þar fyrer steypte GUD hønum af Himnum ofan; þar fyrer var hønum kastad burt med øllum sijnum Einglum, sem hann hafde med sier afvega leidt til Drambseme og Metnadar: Þvi Satan, edur Lucifer, hefur vissulega haft eitt Hofdingia dæme a medal Einglanna, so ad Heilagur Judas seger þess vegna, ad Einglarner hafe ecke vardveitt sitt Høfdingiadoom: Og St. Paall til Col. 2. vottar, ad Christur hafe afflett Høfdingia doomana, og Maktarvølldenn, og syndt þad openberlega, þar hann hafe hroosad yfer þeim Sigre a Krossenum.

Nu med þeirre sømu Synd, sem Lucifer hafde sier Olucku bakad, med henne fellde hann og einnen vora fyrstu Forelldra; hann snere þeim fra Elsku og Heidre GUds, til sialfra sinna; so þad kviknade i þeim su Siaalfs-Elska og Ærugirnd, ad þau villdu vera GUde lijk; hvar fyrer þau urdu burtrekenn wr Paradijs, motlijka og Satan wr Himneskre Sælu. Þesse sama Siaalfs-Elska og Ærugirnd, sem orsakade Fall vorra fyrstu Forelldra, er oss fra þeim til erfda komenn, hun er innpløntud i allra Manna Naatt-

Naattwru, og þeim i Hollde og Bloode medfæddt.

Vid þessu banvæna Afalle og megnu Meinsemd finnst hverke nie fæst nockur Boot, nema sw dyrmæta Forþienusta JEsu Christi, sem med Trwnne verdur hondlud og umfodmud, fyrer hveria vier endur-nyustum i HErranum Christo, og krossfestum vort Holld med þad slag: ad i stadenn fyrer þad, sem Madurenn elskade adur sialfann sig, þa lærer hann nw ad hata sialfann sig, Luc. 9. þad er, ad hafa einga þocknan a sialfum sier; og i stadenn fyrer þad, sem hann adur heidrade sialfann sig, þa lærer hann nw ad afneita sialfum sier Luc. 14. edur ad virda sig einskis; og i stadeñ fyrer þad, ad sækia epter sinne eigen Vegsemd og Abata, þa ma hann nw læra ad forakta sig, og gaanga a mis alls þess, sem hann hefur, og setia ecki hid minnsta Traust til nockra jardneskra hluta, og strijda so stijfelldlega a mote sijnu eigenn Hollde og Bloode; annars kann madur ecke ad vera Christi Læresveinn: Med soddann hætte, hlytur sw slæma Spilling i Mannenum, fyrer Christum og sanna Hiartans Umvendan, efalaust ad snwast til Betrunar.

Enn med þvi, ad slijkt var ecke i manulegum kroptum; (þvi af Naattwrunne kunn-

um vier ecke annad, enn ad elska og mikla sialfa oss, og leita epter vorum eigeñ Gagnsmunum, og Abata i øllum Efnum; j stuttu maale ad segia: vier kunnum ecke neitt annad, enn ad syndga, og þad er oss med fædt;) þar fyrer vard GUd sialfur ad vera Upphaf, Maate, og Ending vorrar Saaluhiaalpar; Sonur GUds vard ad klædast voru Hollde, uppa þad, sw mannlega Naattwra kynne fyrer hann ad fa nya Vidrietting, og vier, fyrer hann, i hønum, og af hønum, verda endurfædder og ny Skiepna: þvi so sem vier vorum i Adam andlega dauder, so eigum vier i Christo ad verda andlega lifande, og so sem vier, fyrer holldlega fæding, høfum teked Syndena i arf epter Adam, so meigum vier i Christo, fyrer Trwna, og andlega fæding ødlast Riettlæted. Lijka so sem Synden, Sialfs-Elskan, Ærugirnden, og eigen Hroosan, er oss af Adam, fyrer lijkamlegann Gietnad og Tijngun medfædd, so blytur vor Naattwra ad endurnyast, hreinsast og helgast af JEsu Christo, fyrer Trwna og Heilagann Anda; og oll eigen Elska, Sialfs-Þootte, og Ærugirnd i oss a ad deya, so ad vier ødlustum nytt Hiarta, og nyann Anda af Christo, so sem vier høfum af Adam feinged syndugt Holld. Søkum þvilijkrar nyrrar

Fæd-

Fædingar kallaſt Herrann Chriſtur, Eiliijf-
ur Fader, hia Eſa.9.

So meiga þa allar vorar Athafner, ſem GUde eiga ad þocknaſt, ſem og einnen vorar Gaafur, koma og upprenna af þeirre nyu Fædingu, þad er, af JEſu Chriſto, og af Heilögum Anda; annars gillda þær eckert fyrer Gude, hvad mikels-haattar og yppar-legar ſem þær kunna ad vera, jafnvel Kraptaverk og Daaſemder. Þar fyrer ſkulu og einnen allar þær Gaafur, ſem GUd oſſ lienar, af oſſ i Kiærleika brwkaſt og handtieraſt, 1.Cor. 16. vorum Naawnga til Betrunar og Uppbyggingar, Rom.15. Fyrer utan eigen Gagnſemd, og Lofſtijr, ellegar ad vier þar med vilium leita vorrar eigen Virdingar og Abata. Þeſſ vegna hefur GUd ſett oſſ fyrer Sioner ſiñ Elſkulegann Son, til Epterdæmes og Fyrermyndar; i hverium ad ecke var nein Siaalfs-Elſka, eingen Ærugirnd, eingen Siaalf-hælne, eingen Eigen-girne; helldur hreinn og ſkylans Kiærleike og liijtelæte, ſem kom af innſta Hiartans Grunne. Ecke var hañ ſettur oſſ til þvilijks Epterdæmes, ſem adrer Heilager (a hverra Dæme vier horfum einaſta hid ytra) helldur til eins lifande Epterdæmes, ſem a ad lifa i oſſ fyrer Trwna. Og med ſoddann hætte kiemur öll vor höndlan, Ord, Lærdomur og Giörningar, af og fra Chriſto,

sem af einum lifande Grundvelle og Uppsrettu; annars duga vor verk eckert, jafnvel þo þau væru so ypparleg sem Einglanna. Þvi hvar Siaalfs-Elskan er, þar er Hatur til Guds; hvar eigenn Virdingar og Lofstyr rijker, þar er Guds Forocktun: Hvernen kunna þa þau Verk ad þocknast Gude, sem giorast med þad slag?

Laatum oss þvi bidia Gud, af Hiartans Grunne, ad giefa oss Trwna og hreinann Kiærleika, sem ei er fleckadur af Æru-girnd, eigenn Abata, og Lofstijr, sem ad fram-geingur af hreinu Hiarta; so munu ecke einasta miklar Gaafur, og hofdingleg Verk, þeirra sem þau hafa til ad bera, Gude þocknast; helldur og einnen þau allraminnstu og audvirdelegustu, jafnvel þo vier giæfum ecke utan kalldann Dorstateig af vatne einhverium ad dreka: Þvi eitt lijtelsierlegt verk, sem fram-kiemur af hreinum Kiærleika, og audmiwkum Anda, er betra og Gude þægelegra, enn þau Stoormannlegu, sem hafa sinn Uppruna af Hofmood, Drambseme, Æru-girnd og eigen Lofstijr.

Cap.

# Cap. XXXII.

## Trwen, sem verkar fyrer Kiærleikann, bevijsar Mannenn Christenn og GUde Þeckann, enn ecke stoorar Gaafur.

I. Cor. 4.

GUds Rijke er ecke foolged i Ordum; helldur i Krapte.

ÞEgar Heilagur Paulus vill wtmaala, einn Christenn mann, hvernen hañ a ad vera skickadur og asigkomeñ, þa seger hañ, 1. Tim. 1. Summa Bodordsens er Kiærleikurenn af hreinu Hiarta, og af goodre Samvitsku, og af Omeingadre Trw; so sem hañ villde segia: Til ad vera eiñ Christenn Madur og Gude þeckur, wtheimtast ecke marger stoorer og Haavigtuger Hluter, so ad madur skule naudsynlega hafa til ad bera diwpann Vijsdoom, vera ferdugur og slijngur til ad wtrietta mikels-haattar saker, hafa stoorar Gaafur, vera Spaamadur, snotur Mælskumadur vita mørg Twngumaal, kunna ad giora Teikn og Stoormerke, og annad þviumlijkt; helldur utheimtest þar til Trwen, og ad madur giore allt i Kiærleika, sie Gude einum ahaangande, og laate sig stioornast af Heilogum Anda.

Þar fyrer skal madur ecke so giefa sig epter þvi, hvad lærdur einn kañ ad vera i ymsum Twngumaalum, eda hvad mivkt og snidugt Ordfære hann kann ad hafa; helldur hvernen hann syne sijna Trw fyrer Kiærleikann, og Deydingu sijns Hollds; þvi þeir sem Christo tilheyra, krossfesta sitt Holld med Girndum og Tilhneigingum; þad er, sijna Siaalfs-elsku, Ærugirnd, eiged Hroos, Vegsemd, Abata og allt hvad Holldlegt er. Þar fyrer neitar Postulenn Paall þvi, ad Gllds Rijke sie foolged i Ordum edur Gaafum og Kunstum, helldur i Krapte; Þad er, i lifande ydkun Trwarennar, Kiærleikans, Hoogværdarennar, Þolenmædennar, og Lijtelætesens.

Þar fyrer er eingenn ødrum framar aliten i miklu gillde hia Gllde, eda ber wr bijtum eilijft Lijf, þess vegna ad hann hefur stoorar Gaafur, helldur er hann þar fyrer Sæll, ad hann finnst i Herranum Christo, fyrer Trwna, og lifer i hønum, so sem ny Skiepna. Og þo nockur sie med so stoorum og haaum gaafum giæddur, ad eingenn sie hanns Lijke; enn gleimer daglegre Idran og Yferboot, endurnyast ecke i Christo JEsu, afneitar ecke Heimenum, þecker sig ecke Overdugann allra þeirra Gllds Velgiørninga, sem hann

hann þiggur, afneitar ecke sialfum sier, hatar ecke sialfann sig, og helldur sig ecke alleina vid GUDs Naad, so sem Barn vid Brioost Moodur sinnar; um̃ hann er þad vijst, ad hann verdur med øllum sijnum Gaafum og Listum fordæmdur.

Þvi ecke giefur GUD oss Gaafurnar til þess, ad vier fyrer þær skulum verda mikler eda Saaluhoolpner, helldur ad hans Christne uppbyggest þar af: Þar fyrer, þegar þeir Siøtiju Herrans Christi Læresveinar, komu aptur med Føgnude, og søgdu: Lavardur, Diøflarner hafa oss einnen undergiefner vered i þijnu Nafne; þa svarade hañ: Fagned ecke af þessu; sem villde hañ segia: Hverke giøra ydur Kraptaverk nie Gaafur Saaluhoolpna; helldur meiged þier glediast af, ad ydar Nøfn eru skrifud a Himnum; þad er, ad þier trwed og þecked mig. Fyrer Trwna vard Moises Hoolpeñ, eñ ecke fyrer Kraptaverkeñ, sem hañ giørde: Ecke helldur giørde Maalsnillen Aaronem Gude þacknæmañ. Maria, Moysis Syster, var giædd med Spaadoms Anda, fyrer hveria Ande Drottens talade; samt var hun strøffud med Lijkþraa. Postulaña Jardteikner og adskilianleg Twngumaal giørdu þa ecke Saaluholpna, helldur Trwen alleina. Aller þeir sem vilia verda holpner, so vel þeir yppurstu, sem þeir audvirdelegustu,

ustu, meiga ganga under Krossen Christi, lifa i Trwñe; i Lijtelætenu, i Jdraneñe, i Krossfestingu og Deydingu Holldsens, i Nyrre Skiepnu, i Kiærleikanum; annars kannast Christur ecke vid þa, og þeir verda ecke af hønum medtekner, so sem þeir ed hønum tilheyra. Christelegur Kiærleike er sa riette nye Lifnadur i einne Manneskiu; jaa, Lijfed sialfs JEsu Christi i þeim Trwudu, og sw kræptuga Heilags Anda Jbwd; hverrar Heilagur Paulus oskar oss, Eph. 3. Þar hann bidur, ad vier mættum verda uppfyllter af allshaattadre GUds Nægd. Þad meinar og Heilagur Johannes, þar hann seger: Gud er Kiærleikurenn, og sa sem blijfur i Kiærleikanum, hann blijfur i GUde, og GUd i hønum: Þar fyrer, hver hann formerker og finnur Kiærleikann i sijnu Hiarta, hann finnur i sier GUd sialfann. Enn so ad vier kynnum ad hafa hier uppa eitt vijst Proof og Merke, og ecke verda prettader af vorre Sialfs-Elsku; þa afmaalar Postulenn Kiærleikann fyrer oss merkelega, 1. Cor. 13. so sem eina dægelega Eik, med sijnum wtbreiddum Greinum. Kiærleikurenn, seger hann, er Þolennmoodur og Vingiarnlegur, og so framveigis, hvar um adur er talad. J stuttu maale ad segia: GUd Fader er Kiærleikurenn; GUd Sonur er

Kiær-

Kiærleikurenn; GUd Heilagur Ande er Kiærleikurenn; Allur sa andlege Lijkame, Christur og hans dyrkeypte Søfnudur, er med Kiærleikans Bande samanbundenn, og ecke er nema einn Gud, einn Christur, einn Ande, ein Skijrn, og ein Trw, og sialft Lijfed Sælunnar, pad Eilijfa, verdur eckert annad enn skiærаste Kiærleike.

Þar fyrer er þad vijst, ad sa Limur a Lijkama JEsu Christi, sem ecke lifer i Kiærleikanum, hann er Daudur; enn so sem einn daudur Limur hefur eingann lijfsvarma i sier, og misser þar fyrer olldungis Lijfed; eins er sa sem ecke lifer i Kiærleikanum, hann hefur eckert af þvi andlega Lijfe JEsu Christi, hann er daudur fra Gude og Christo; þvi hann vantar Trwna, og er, so sem þurr og visenn Kvistur a Vijntrienu; hann hefur og einga Hlutdeild i Gude, i Christo, i Heilogum Anda; og er fyrer utan Christelega Kyrkiu, og þad eilijfa Lijfed; kann og alldrei ad koma þangad sem GUD er, edur sialfur Kiærleikurenn.

## Cap. XXXIII.

## GUd alijtur ecke Verkenn edur Personurnar, helldur so sem Hiartad er eins og sierhvers, so dæmer GUd um hanns Giorninga.

Ords.

## Ordskvid: B. 21. Cap.

Hverium Manne þijker sinn Vegur riettur, enn Drottenn ransakar Hiartad.

Vier lesum I. Sam. 16. þegar Spaamadurenn Samuel, aatte epter Skickun GUds ad smyria David til Koongs, og var inngeingenn i hanns Fodurs-Hws, og villde hella Vidsmiorenu yfer Eliab, hans Frumgietenn son; Pa sagde Drottenn til hanns: Þw Skallt ecke alijta hans fagra yferlit, eda Vøxt hans Personu; þvi eg hefe burtkastad hønum; þvi pad geingur ecke til epter Alite Mannsens, Madureñ sier pad sem fyrer Augunum er, eñ Drotteñ alijtur Hiartad. Med þessu Dæme kienner GUd oss, ad hann hirder ecke um nockurs manns Persoonu, hversu vegleg edur mikels haattar, sem vera kann fyrer Heimenum, þegar Hiartad er ecke gott, froomt, trwad og audmiwkt. Ja, GUd dæmer ecke alleina Personu mannsens, helldur og einnen øll hans Verk, epter þeim innre Anda, Sinne, og Giedsmunum, so sem Salomon kienner i frammsettre Maals grein, af Ordsk. B. 21. Cap. og eins dæmer hann umm allar Gaafur Mannsens: hvad haar, kroptugar, ypparlegar, og loflegar sem þær vera kunna fyrer Heimenum, þa gillda þær þo allar saman ecke neitt fyrer GUde, utan so sie, þær frammkome af hreinu Hiarta, og brwkest ad

øllu

øllu leite til GUds Dyrdar, og Naawnganum til Gagns, Nota, og Uppbyggingar; fyrer utan alla Drambseme, Hofmood, Sialfs-Elsku, eigenn Abata, Æru, Prijs og Vegsemd: Þar fyrer, þier menn, hverier hellst sem vera kunned, laated ydur þad sagt vera! þo GUd hafe a medal ydar einn ellegar annann prydt, med mørgum Gaafum, fram yfer alla adra; ef sa same brwkar þær ecke GUde til Dyrdar, og Naawnganum til Nytsemdar, helldur slijkar þeim, og fer med þær, til ad fa Lof af þeim, Vegsemd, Heidur, og Gagn; þa eru soddann Gaafur ein Andstygd fyrer GUde, og verda sialfum Mannenum ecke utan Synd, Olifian og Ylmur Daudans til Daudans. Giefum giætur ad Lucifer: þar var eingeñ fegre og ypparlegre Eingell til a Himnum enn hann: enn med þvi hann brwkade sijnar Gaafur af Sialfs-Elsku, sier til eigeñ Æru og Vegsemdar, enn ecke af Elsku til GUds, hønum til Lofs og Dyrdar; þa vard hann strax ad einum Diøfle, og fra GUde utsnaradur.

Þar fyrer, skule nockurt Verk gillda fyrer Gude, þa hlytur þad ad koma og upprenna af Trwnne, og madur maa hafa þar hia hreinann Kiærleika til GUds og Naawngans, fyrer utan Girnd til eigenn Æru og Vegsemd

seimdar, so miked sem einne manneskiu, i þessa Hollds Breyskleika, fyrer Naad GUds, kann mogulegt ad vera; þvi skrifar so Heilagur Paulus: þo eg talade Twngum Einglanna og Mannanna, enn hefde ecke Kiærleikann þa være eg sem hliomande Maalmur, og hvellande Bialla; þad er, onytur Hlutur, i hverium eingenn Kraptur eda nytsemd være. GUd hyrder ecke um fordilld edur Maalsnille, helldur alijtur hann lijtelaatt Hiarta; ecke metur hann mikels Kunster, Lærdom, eda Vijsinde þessa Heims, helldur ransakar hann og proofar mannsins Anda, hvert hann er inntekenn af Sialfs-Elsku, stundar epter sinne eigen Æru, eda GUds Æru, og Naawngans Velferd; ecke helldur metur GUD mikels þa Trw, sem giörer Undur og Stoormerke, hrærer Fiollenn wr stad, og hefur mikid Allt i Heimenum, ef madur þar med sæker epter sinne eigenn Vegsemd: helldur lijtur hann til þess Auma, sem hefur sundurmarenn Anda, og hrædest fyrer hans Ordum Esa. 66. Ecke helldur giefur hann gaum ad stoorum Olmusu giördum, ef madur giörer þær sier til Nafns og Virdingar, til ad þocknast Monnum, og til ad vera mikels metenn fyrer þeim; ja, hann sier ecke epter þvi, þo madur giæfe wt sinn Lijkama til ad brenna, so sem Paall vottar, til ad leita þar med epter

storum Lofstijr; helldur alijtur hann einasta Hiartad, hvernen og i hverre meiningu allt soddan skiedur.

Dæme hier uppa høfum vier a Cain og Abel: hver um̃ sig færde Foorner Gude, en̄ þeirra Hiørtu voru olijk; þar fyrer leit GUD Naadar samlega til Abels Foornar, enn til Cains Foornar leit hann ecke Naadar-samlega. Saul og David færdu baader einslags Offur, þad eina var medteked enn ødru wtskwfad: Orsoken var, þeirra olijku Hiørtu David, Manasses, Nebucadnezar og Petrus fundu Naad hia Gude, afþvi þeir giørdu Jdran; enn Saul, Pharao og Judas fundu i sinne Jdran einga Naad: Hvar fyrer? Þvi þeirra Hiørtu voru næsta olijk. Pharao og Saul sogdu, eg hefe syndgad: Manasses sagde hid sama; enn hvad olijk laun baaru hverier fyrer sig ur bijtum? Esther prydde sig fagurlega; Jsraels Dætur giørdu lijka so. Esa. 3. Esther fær Hroos; enn hinar verda lyttar. Ezechias, Josua og Gideon baadu um̃ Teikn af Himne, og þeim verdur hroosad þar fyrer; Pharisæarner baadu og so umm Teikn af Himne, og feingu þar Last og Amæle fyrer Matth. 12. Toll-heimtumadurenn og Pharisæarenn giørdu baader Bæn sijna, i Musterenu; enn feingu olijkann Doom: sa eine

eine gieck riettlaatur i sitt Hws, annar ecke. Ninivitarner føstudu, og GUD leit naadarsamlega til þeirra: Gydingar og Pharisæi føstudu og so; enn GUd gaf ecke gaum þar ad, og þar fyrer segia þeir: Esa. 58. Hvar fyrer høfum vier fastad, og þu aleitst þad ecke? Eckia sw sem lagde i Olmusu-Kistuna tvo Skarfa, var losud af Drottne, enn ecke hiner sem meira gaafu. Herodes gladde sig þar af, ad hann mætte siaa Christum: Zachæus gladde sig þar af og so; enn hvad olijk Laun feingu þeir? þad kiemur allt þar af, hvernen ad Mannsens Hiarta er a sig komed; þvi GUD alijtur þad, og giefur giætur ad þvi, hvert ad Verkenn gioerast af hreinne Trw, hreinum Kiærleika, og sañre Audmykt eda ecke. Þvi þegar eitt Verk er fleckad af eigen Æru, eigen Elsku, eigenn Lof-stijr og Virdingu, sem madur stundar epter, eda þad kiemur af vantrwudu Hiarta, þa duger þad ecke neitt fyrer Gude, hvad ypparlegt sem þad syneft vera; og jafnvel þo madur villde þar med tapa sijnu Lijfe, og wthella sijnu eigenn Bloode: so sem þegar Achab og Manasses aflijfudu sijn eigenn Born, og offrudu þeim epter sinne eigen Uppafindingu i Vantrw, og voru þar fyrer ein Svijvirding i GUds Auglite.

Cap.

# Cap. XXXIV.

## Mannsens eigenn Kraptar kunna eckert ad giora, edur wtrietta til sinnar Ummvendunar og Saaluhiaalpar, helldur giorer GUDs owtsegianlega Naad þad alltsaman i Christo; þegar madurenn ad eins stendur ecke a mote þeirre somu Naad, helldur adhlydest hana, og lætur GUd hondla vid sig, sem einn Lækner hondlar vid þann Siwka: Item þeir verda ecke Hluttakarar Christi Forþienustu, sem ecke giora saña Jdran, og laata af illu.

1. Cor. 1.

Christur, er oss af GUde giørdur til Vijsdooms, Riettlætes, Helgunar og Endurlausnar.

ÞEsse kroptuga Maalsgrein kienner oss, ad vor Endurlausnare, HErrann Christur, hafe þad allt forþienad, sem heyre til vorre Saaluhiaalp, og ad vier allein a fyrer Christi Naad, verdum bæde endurleyster, riettlætter, ad nyu fædder, og helgader; þvi þegar vier retudum ecke Vegenn til Lijfsens, þa

var hann giørdur oss til Vijsdoms; þegar vier vorum Syndarar, þa vard hann vort Riettlæte; þegar vjer vorum fyrer GUde Vidurstyggeleger, vard hann vor Helgun; þegar vier vorum Fordæmder, vard hañ vor Endurlausn. Hier af er þad Deigenum liooſ-ara, ad Madurinn gietur ecke med eigenn Kroptum, Verkum eda Frijvilia, stodad i neinu sijna Saaluhiaalp, hverke so miked sem ahrærer Upphafed, Midiuna, nie Enderenn. Syndgad getur madurenn eñ eing-annveigenn giørt sig aptur frijann fra Syndenne og riettlaatann; hañ kañ vel ad glata sier sialfum, eñ ecke ad leita epter sier, eda ad finna sig aptur; hañ getur fyrerfared sijnu Lijfe, eñ ecke giørt sig aptur lifande; under Diøfulsens Magt og Valld, kann hañn ad fleigia sier, enn ecke fra hønum aptur ad frija sig: Þvi so sem daudt Hræ, getur ecke sialft giefed sier Lijfed, eins kann ecke helldur Madurenn, sem i Syndenne liggur daudur, sier siaalfum ad biarga, Eph. 2. Lijka sem vier kuñum ecke ad hiaalpa i neinu til vorrar Skøpunar, so kuñum vier ecke helldur i neinu ad stoda vora Endurskøpun, eda vora Endurlausn, Umvendan og Riettlæting: Endurlausnen, Endurfædingen og Riettlætingen eru ecke minne eñ Skøpunen: Til þess eina Verksens wtheimtest

so

so vel oendanlegur Kraptur, sem til hins aũars; so ad S. Paall, Eph. 1. syner þar fyrer, ad þad er sa same Kraptur, fyrer hvern Christur var uppvakenn fra Daudum, þar hann seger: Vier trwum epter Verkan GUds volduga Styrkleika, sem haũ hefur verkad i Christo, þa hann uppvakte hann af Dauda.

Þar fyrer, med þvi þad stood ecke i vorre magt, ad betra vort Stand; þa vard GUds Sonur Madur, so ad hann vidriette aptur þad, sem i Adam var tapad, og giørde þad aptur lifande, sem i hønum hafde Lijfed mist: Hvar uppa vier høfum eina Figuru og afmaalan i GUdspiallegre Historiu, uũ þann mann, sem gieck fra Jerusalem ofan til Jericho, og hrasade a medal Ræningia, af hverium hann var herfelega wtleikenn, og grimmelega særdur; þvi þo ad sw Epterlijking eige sierdeilis heima hia Audsyningu Kiærleikans vid Naawngann, þa kann hun þo epter figurulegum Hætte, ad heimfærast uppa Frelsun Mannsens fra Syndarennar Dauda. Þad er skrifad, ad Ræningiar hafe illa wtleiked greindann mann; jaa, so illa med hann fared, ad hann la nidursleigenn, og haalfdaudur og kunne alldeilis einga Biorg sier siaalfum ad veita: Eins erum vier og einnen af þeim Helvijtsku Ræningium, fyrer Syndarennar magt og Tyrannaskap, miog illa wtleikner,

alldeiles ſpillter, og fordiarfader, liggiande nidur ſlegner i voru Bloode, og Saurendum naattwrlegs Naanglætis; ja, vier erum haalf-dauder, þvi vier hoſum af Naattwrunne til, ecke epter, nema einaſta þad nattwrlega og ſynduga Lijfed, og erum, ad þvi leite, Børn Neidennar; Enn høfum miſt þad Andlega Naadarennar Lijf, jaa, ad viiſu, vier høf-um þad ſo alldeiles miſt, ad þar er ecke neitt epter af þvi hia oſſ, vier erum alldeiles Daud-er i vorum Syndum og Yfertrodſlum.

Og lijka ſem þeſſe Auma Manneſkia, ſem hraſade a medal Ræningianna, kunne ecke ſialfre ſier ad hialpa; ſo kunnum vier ecke helldur ad hialpa oſſ ſialfum, i nockurn maa-ta, wr vorre Eymd, høfum eckert Skyn-bragd a þvi, ſem heyrer til GUds Rijke, og þvi Andlega Lijfe; þvi hvad holldeð ſkyniar er Fiandſkapur i giegn Gude, og Naattwr-legur Madur ſkilur eckert af þvi, ſem GUds Anda tilheyrer: Vier kunnum ecke ad ſlaa uppa neitt þad, ſem oſſ frije fra Syndarenn-ar Dauda; þvi allt hvad vier giørum fyrer utan GUds Naad, er ecke utan Dauder Giørn-ingar, ſo ſem þeir nefnaſt i Piſtlenum til Heb-ræos 6. Cap. Underorpner Neidenne og Daud-anum, ſem er Verdlaun Syndarennar. Enn ſo ſem ad Samaritanenn kom, og hialpade

þessare vesölu Manneskiu, ad hun raknade vid, þegar hann hrærde vid hana, so kiemur og Christur til ad hiaalpa oss af Eymdum vorra Synda; þvi hann er komen ad leita ad þvi, sem tapad var, ad lækna þad sem var spillt og fordiarfad, ad uppvekia og giora þad lifande, sem fyrer Syndena var daudt og i Hel sleiged; og þad giorer hann fyrer sijna Miskunseme, sem hrærer vid oss med Ordenu, og ödrum Hiaalprædesens Medölum, sem vier brwkum.

Og lijka sem þessum Vesalings manne vard hiaalpad, med þvi, hann stood ecke i mot Læknisdom og Umhirdingu þess Samverska, helldur var stillenn og liet hann fara med sig sem hann villde, so hiaalpustum vier og einnen og frelsustum fra Syndarennar Dauda, og Tyrannaskap, þegar vier stondum ecke Christi Naadarverkun a mote; helldur fyrer yfernaattwrlegan Krapt og Verkan Heilags Anda, adhlydustum undangaangande GUds Naad, brwkum Saaluhiaalparennar Medöl af allre Alwd og Kostgiæfne, og sneidum hia öllu þvi sem kann ad hindra, þeirra heilsusamlegann Avoxt og Gagnsemder; þvi þa verkar og framkvæmer miskunarfullur kraptur JEsu Christi, og hans undangaangande Naad i oss þad, sem fyrer honum er

þacknæmelegt, jaa, hann uppbyriar og full-
komnar i oss þad gooda Verked: Þvi nær þad
er komed so laangt ad ein Manneskia strijder
ecke leingur a mote Naadenna, i þvi, ad skwfa
fra sier Saaluhiaalparennar Medolum, ann-
ad hvert hid innra edur ytra; helldur medtek-
ur þau alvarlega, giefur Rum Naadenne,
felur sig henne alldeiles a valld, fylger henne
og adhlydest hana, giører Jdran, snyr fra
Ogudlegu Athæfe, og lætur sijn Synda Saar
verda þveigenn og hreinsud, med þvi skarpa
Vijne Løgmaalsens, og þvi miuka Evangelii
Huggunar Vidsmiøre; þa strax uppkveiker
Christur i henne alla Trwarennar Avexte,
Riettlæte, Lijf, Frid, Glede, Huggun, og
Saaluhiaalp, verkande bæde Viliann og
Framkvæmdena epter sinne Velþocknan; þvi
soddan stendur ecke i Vilia edur Tilhlaupe
nockurs manns, helldur GUds Giædsku og
Miskunseme i Christo JEsu; þad er alltsam-
an ein yfernaattwrleg GUds Gaafa. Hver
kann ad giøra eitt Steinhiarta ad einu kiot-
legu Hiarta, utan GUDS Naad, Eg vil,
seger Drottenn, Ezech. II. burttaka Stein-Hiart-
ad fra ydur, og giefa ydur aptur eitt Kiøt-
legt Hiarta; Jeg vil giefa miñ Anda i ydur,
og giøra soddann eitt Foolk af ydur, sem geing-
ur i mijnum Bodordum og helldur mijn Riett-
inde. Af Naattwrunne og fyrer utan GUds
yfer-

yfernaattwrlega Naad og Mijſkunſeme, er Madurenn Præll Syndarennar, Joh. 8. og kann eckert annad en ad ſyndga; þar fyrer ſeger Spaamadurenn Jeremias 13. Cap. til Syndinganna: Kan nockud Blaamadurenn ad ſkipta um ſinn Skinnslit, eda Pardus um ſijna flecke? eins kunned þier ecke helldur ad giøra hid gooda, þvi þier erud vaner til þeſſ hins illa: Þeſſvegna vard heilſuſamleg GUds Naad auglioos øllum mønum, fyrer Evangelium, kiennande oſſ ad afneita ogudlegu Athæfe, og Veralldlegum girndum, og lifa ſparlega, riettferduglega og Gudlega i þeſſum Heime, Tit. 2.

GUds Ord og Ande, ſem ecke lijdur argviſtugar Synder, og ogudlegt athæfe, knyr mann til ad laata af þvi vonda, og ſannfærer hanns Samvitſku, bæde hid innra og ytra þar um, ad ſlijkt o-gudlegt framferde er oriett, og ad han meige ſleppa þvi, vilie hann vera Hoolpenn. Og ef madurenn fylger epter þeſſare Hræringu, þeſſare Yferbeviiſingu og Typtan, og lætur ſig leida til þeſſ, ad laata af Syndunum, og øllum ogudlegleika; þa verkar GUds yfernaattwrlegur Kraptur og Naad i hønum allt gott; uppkveiker Trwna, Kiærleikann og alla Trwarennar Averte. Þar fyrer ſeger Paall: Vakna upp þw ſem ſefur, rijs upp af Dauda, ſo mun Christur upplyſa þig, Eph. 5. og aptur ſeger han um

Gydinganna Forherdingu og Blindne: Ef þeir snwa sier til Drottens, þa verdur Skijlan burttekenn, sem hanger fyrer þeirra Augum. 2. Cor. 3. Ef nockur giører Vilia mijns Fødurs, seger Christur, þa mun hann þeckia, hvert þesse Lærdoomur er af GUde; þa upprennur þad rietta Lioos fyrer einum; þa upplyser GUd hans Hugskot, og giorer Myrkurenn ad Birtu; þa skijn Liooſed fyrer þeim sem sitia i Myrkrum og Daudans Skugga.

GUd sialfur, af sinne eigenn Giædsku, hlytur ad upptendra þvilijkt Lioos fyrer oss. So lijted sem Myrkred kann ad upplysa sig sialft, so lijted kunna naattwrleger Kraptar og Gaafur, hvad storar og ypparlegar sem þær kunna ad vera, ad færa einum nockurt andlegt Lioos: Madur mætte yfred leinge sperra upp Augun, til ad siaa Lioos Soolarennar, og þad forgiefens, ef ad siaalf Soolen skine ecke fyrer oss; so kann og einginn ad verda hluttakande i Lioose naadarennar, nema þad renne siaalf-krafa upp fyrer oss. GUd hefur, af sinne owtskijranlegre Giædsku og Miskunseme, laated sitt Naadar Lioos upprenna fyrer Mønnunum, og þad almennelega, med þvi hann kallar alla til Jdranar og yferbootar, so ad þar fyrer verdur sagt, ad Christur upplyse alla Menn sem koma i þennann Heim, og hann hafe fared ad leita

epter øllu þvi, ſem tapad var; og giører han̄ þad laangtum framar, ſierdeilislega vid þa, ſem eru hlyduger hanns Himneſkre Køllun, ſem medtaka hans Naad, ſtanda ecke henne a mote, elſka ecke meir Myrkred enn Liooſed, ecke Syndena og Naanglæted, framar enn Chriſtum, Sool Riettlæteſens; þvi þa giører hann ſo hluttakande i ſijnu Liooſe, ad þeir verda Liooſsens Børn, og ummvendaſt fra Dimmunne til Liooſsens, fra Satans Myrkre til GUds, og verda ſo ſannarleg GUDS Børn.

Enn þeir ſem þad ecke giora, þeim hiaalpar þad ecke, þo GUds Naadar Lioos hafe ſkined þeim i Augu; þvi þar ſem þeir villdu ecke hafa Bleſſunena, þa er hun langt fra þeim; og þar þeir utvelia Bølfunena, þa kiemur hun yfer þa, og hun geingur inn i þa ſem annad Vatn, og ſem annad Vidſmiør i þeirra Bein, ſo þeir verda einaſta verre af þeirre Naad, ſem yfer þeim hefur lioomad, med þvi þeir villdu ecke henne ſiña. Lijka ſem Læknarinn ſeger til hins Siwka, þad maattw ecke giøra, þw verdur ad vara þig vid þvi, annars kann eingen Lækning þier ad hiaalpa: Eins ſeger ſa riette Læknarenn, vor Endurlauſnare JEſus Chriſtus, til eins og ſierhvers Syndara, ſem hann

kallar til sinnar Naadar: Þw hlytur ad betra þig, þw hlytur ad afleggia ogudlegt Athæfe; þw maatt ecke laata Drambseme, Agirnd, Holldz Vellystingar, Reide, Hefndargirne og adra þvilijka vidurstyggelega Leste, og Odygder Drottna i þier, og hafa yfer hønd; þw maatt ecke syndga vijsvitande i mote þinne Samvitsku, annars heyrer þw mier ecke til, og hefur eckert Gagn af miñe Naad og heiløgum Lækniz dom minnar dyrmætu Forþienustu og Verdskulldunar. Þesse er Orsøken, hvar fyrer Drottenn baud Postulunum allra hellst ad predika Jdran og Yferboot, so sem hann og siaalfur, liet þetta vera hid hellsta i sinne Predikun, segande: *Giøred Jdran og trwed Evangelio;* þvi eckert Jdranarlaust Hiarta kann ad hafa Hlutdeild i Christi Forþienustu.

Gud hefur ad vijsu lofad Syndaña Fyrergiefningu, af skiærre Naad, an Verdskulldunar, enn hverium? ecke øllum, fyrer utan Mismun, helldur þeim sem giøra Jdran og Yferboot. Þar fyrer seger Drottenn, fyrer Munn Ezechielis: Cap. 33. *nær sa Ogudlege snyr sier fra sijnu vondu Athæfe, og giører þad sem riett og gott er, þa skal hann lifa og ecke deya; eingra hanns Synda, sem hann hefur giørt, skal verda endurmiñst; hann skal lifa og ecke deya.* Nær þa? Þegar hann

hann ſnyr ſier, og yfergiefur ſitt ogudlegt Athæfe.

Ad viiſu ſeger eiliijfur GUds Sonur: *Hver hann trwer a mig, ſkal hafa þad eiliijfa Lijfed;* enn vier ſkulum vita, hann talar ecke ſoddan um̃ hveria eina Trw, helldur um̃ retta Trw ſem daglega ſtendur a mote þvi hinu vonda, kroſſfeſter Hollded, og þann Gamla Mannenn, med ſijnum Girndum og Tilhneigingum; þvi ſa madur alleina hefur rietta Trw, ſem ſnyr ſier fra Syndenne, Dioflenum og Heimennum til Chriſtum, og leitar alleina epter Hvijlld og Rooſeme Saalarennar i hønum, fyrer utan alla mañlega Verdſkulldan og Forþienuſtu: Sa ſem ødruviiſe trwer eda meinar, ad GUd vilie fyrergiefa hønum allar ſijnar Synder, jafnvel þo hann ane motþrooanlega fram̃ i þeim, og hallde vid ſitt ogudlegt Athæfe, hañ hefur eina falſka Trw, og verdur alldrei hoolpeñ, a medan hann helldur vid i ſijnum Raanglætingum, og ødlaſt ecke þa ſoñu Heilagleikans Trw, ſem ummflyr þad vonda.

Tollheimtumadurenn Zachæus ſkillde riettelega þennann Lærdom um̃ Trwna og Betrun Lifnadarens, og ad þad være ſu rietta Trw, fyrer hveria madurenn ſnere ſier fra Syndunum til GUds; og ad ſa ſem villde

villde faa hia Christo Syndanna Fyrergiefning, og hafa gott af hans dyrmætu Forþienustu, hañ hlyte ad laata af illu og hallda sier vid Christum, med hiartanlegu Trwnadar trauste til GUds um Syndanna Fyrergiefning: þvi i þeirre Meiningu hiellt hann sier til Christum, ad hann under eins aflegde Ogudlegleikann, og sierdeilis vitanlegar og motþrooanlegar Synder, og skilade þess vegna einum og sierhverium þvi aptur, sem hann hafde raanglega fra honum teked; þvi so skilde hann þessa Christi Predikun: Giøred Jdran og Yferboot, og trwed Evangelio; Hann visse grant ad þad var Meiningenn: Laated af illu og hugged ydur vid mijna Forþienustu, og leited alleina epter Syndanna Fyrergiefningu hia mier; þess vegna sagde hann og einnen til vors Herra: Halfpartenn af mijnu Gooze gief eg Faatækum, og þar sem eg hefe sviked nockurn, þa vil eg giefa honum þad ferfalldt aptur. Med þessu hroosar hañ ecke sijnum Verkum, helldur þeirre Naad, sem hann hafde ødlast, og fyrer hveria hann var uppfrædddur, hvernen hann skyllde snwa sier og bæta Raad sitt, sem villde hann segia: þad eg hefe nockurn sviked, sturlar mig HErra JEsu, so mikelega, ad eg vil giefa honum ferfalldt aptur, og Helmingeñ af mijnum eignum Faatækum:

og med þvi eg þecke nw mijnar Synder, og hefe fullkomlega aſett af þeim ad laata, og eg trwe a þig; þa bid eg þig ad þw vilier taka mig til Naadar; þegar hañ ſo giorde kom Læknarenn, og ſagde: J dag hefur þetta Hws ødlaſt ſaaluhiaalp, þvi mannſens Sonur er komenn til ad lækna þad ſem tapad var, og þad hoolped ad giøra. Þeir ſem ſtanda a mote Naadenne og ecke vilia yfergiefa ſitt ogudlegt Frammferde, þa hina ſømu yfer giefur GUds Naad, og lætur þa blijfa i ſijnum Ogudlegleika; þvi GUd kaſtar ecke ſijnum Perlum fyrer Svijn, edur Helgedoome fyrer Hunda; hañ leggur Vijngardeñ fyrer Odal, þegar hañ vill ecke bera Avoxt af hans Naadar Regne. Af þvi þier kaſted fra ydur GUds Orde, ſeger Poſtulenn til Gydinganna, og giøred ydur ſiaalfa eilijfs Lijfs omaklega, þa ſnwum vier oſſ til Heidenna Piooda. Enn ef vier medtøkum Naadena, og giefum oſſ epter henne, ef vier afleggium ogudlegt Athæfe, þa endurfæduſtum vier med þvi mote, og ſnwuſtum a riettann Veg; vier verdum uppvakter af Syndarennar Dauda, ſem ſagt er.

Og þegar vier erum endurfædder og uppvakter af Syndarennar Dauda, og erum hluttakande ordner þeſſ Andlega Lijfsens, ſo ad vier gaungum i Andanum, þa giorer

þeſſe

þesse hin sama GUDS Naad oss einnen ad goodum Gllds Verkfærum, so ad vier sialfer verum oss ad, fyrer GUDS Naad, ad nioota Syndaña Fyrergiefningar, og Gllds Rijkis, og med Ugg og Otta ad erfida uppa þad, ad vier verdum holpner, og beriustum godre baraattu, uppa þad ad vier vijhölldum Trwnne og godre Samvitsku, og naaum Gagnsemd Trwarennar, sem er eilijf Saaluhialp; Enn soddann giorum vier ecke af oss sialfum, helldur af GUDS Naad sem er maattugur i vorum Breyskleika þar fyrer seger Paall um sitt Erfide i Andanum og Trwnne: Ecke hefe eg þad giört, helldur GUDS Naad sem med mier var, og hans Naad i mier hefur ecke forgiefins vered.

Og þo tilreiknast oss þad sem GUDS Verkfærum. Lijka sem einn sa Skoola-meistare, er kienner Börnum ad skrifa, hann helldur umm Hendena a Barnenu, og dregur til Stafanna med Barnsens hende; sijdan þegar fared er ad hyggia ad, segia menn: þad hefur Barned skrifad; jafnvel þo þad hafe ecke giort, nema lied sijna Hönd þar til, enn sialfur Skoola-meistarenn hefur skrifad þad med Barnsens Hende: Eins tilreiknast þeim Trwudu good Verkenn, sem þeir giora i Stande Naadarennar og Endurnyungarennar, jafnvel þo þeir sieu ecke nema GUds

Verk-

Verkfære þar til; enn GUD, fra hveriumi allt gott kiemur, er sialfur Hofud-orsoken þar til, an hvers vier kunnum ecke neitt gott ad giora, so ad Christur seger til sijna Læresveina; an mijn faaed þier einskes orkad Joh. 15. þad vonda kunnum vier af oss sialfum nogsamlega ad giora, þvi midur, enn gott ecke neitt, fyrer utan GUds Naad, þad kiemur alltsaman fra honum; þar fyrer hefur Hollded ecke af neinu ad hroosa, þad er alltsaman einsamalle GUds Naad ad þacka.

Nw þo vier kunnum ecke ad giora þad gooda af oss sialfum, þa reiknast þad þo oss til af Naadenne, med þvi GUD virdest ad brwka oss til Kiera, edur Verkfæra sinnar Naadar: jaa, øll forþienusta JEsu Christi verdur oss þar ad auke af Naad tilreiknud, so sem hun være vor eigen; og so berum vier einnen ur bijtum unnmijder eilijst Lijf; hvar fyrer Andenn seger i Opennberingar-bookarennar 22. og 21. Cap. Sæler eru þeir sem hans Bodord hallda, so ad þeirra Magt sie i Lijfsens Trie: og hver hann yfervinnur, han skal erfa þad allt saman, og jeg vil vera hans GUd og hann skal vera minn Sonur;

Enn þeir Jdrunarlausu, og Vantrwudu, og Foraktarar GUds Orda hafa einga Hlutdeild i nockru soddan. Hundarner skulu vera fyrer utan þa Himnesku Jerusalem, seger Ande GUds

GUds Op. B. 22. og Petur mæler so til Simonar, sem hafde Sannsagnar-Anda P. G. 8. Þyw hefur einga hlutdeild i þessu orde; þvi þitt Hiarta er ecke riett stickad fyrer GUde. Sæll er þar fyrer sa madur, sem vijkur fra allre Vantrw, Jdrunarleyse og Ogudlegleika, sem giefur sig fangenn under GUDS Vilia, og lætur sig af GUds Anda i øllum Hlutum stioornast; sa sem giefur sig af innsta Hiartans Grunne a Valld sijnum Himneska Brwdguma; hvered stendur sijfelldlega fyrer Dyrunum, og klappar uppa, af þvi hann vill til vor inngang, og Kvølldverd med oss snæda; hver ed lætur sijna Naad hvern Morgun yfer oss nya upprenna, og þeinker fyrr uppa oss, enn vier uppa hann: og þetta allt giører hann uppa þad, ad vier vijkium fra Syndenne, medtøkum hann med Glede, og eigum Hlutdeild i honum; so ad hanns dyrmæta Blood og Forþienusta verde ecke til forgiefens, og spillingar a oss.

## Cap. XXXV.

## An Heilags og Christelegs Lifnadar, er allur Vijsdomur, allar Lister, og Speke, og jafn vel Þecking allrar Heilagrar Ritningar, til forgiefins.

Matth.

Matth. 7.

Ecke aller þeir sem segia, HErra, HErra, munu ingaanga i Rijke Himnanna; helldur sa sem giører Vilia mijns Fødurs, sem a Himnum er.

AF þvi ad Kiærleikurenn nær til allra Mannsens Athafna, og allt hvad heyrer til Christelegu Frammferde, er innefalled i Kiærleikanum: so sem Postulenn syner 1. Cor. 13. hvar hann upptelur marga hans Eigennlegleika; og allt Christi Heilagt Lijferne, var einsamall Kiærleikur, og hiartanleg Elska: þar fyrer skyllde hver og einn alvarlega stunda þar epter, ad hann kunne ad hafa i sier hreinann og sannann Kiærleike.

Enn þad er Edle og Naattwra Kiærleikans, ad hann leitar GUds Dyrdar i øllu, og tileinkar hønum allt gott, enn sier ecke; hann elskar ecke nie prijsar sialfann sig, stundar ecke epter sijnum Abata, Lofstijr og Heidre, fyrer þad sem hann giører gott; helldur hefur hañ sierdeiles Vilia, Lysting og Epterlaungun til ad forframa GUds Dyrd i øllum Hlutum, og ber sig ad, med stærstu kostgiæfne, ad þioona GUde og Naawnganum, hvert sem hann hefur gott af þvi i þessum Heime eda ecke, hvert helldur menn giefa ad þvi gaum eda ecke; jaa, hann lætur ecke fæla sig fra þvi gooda,

jafnvel þo hañ vite, hañ hafe ecke neins annars þar af ad vænta i þessum Heime, enn Haturs Forakts, og Offsooknar.

Hver sem ecke hefur þeñañ Kiærleika til ad bæra, og ecke fær af honum Hræring til ad giora þad sem honum ber, hañ er Hræsnare og Augnaþienare: Þviad i øllum sijnum Verkum stundar hañ eingann nema sialfann sig, og ecke hefur hañ neinar Giætur a GUds Vilia ed ur hans Dyrd, og þar fyrer er hans Kiærleikur ecke utan fals og yferdrepskapur. Og þo hann kynne alla Heilaga Ritning fyrer utan, og giæte talad þar um med Einglanna Twngu, þa være hañ þo ecke utan Hlioomande Malmur og hvellande Bialla, I.Cor. 13. sem klijnger fyrer ødrum, og veit ecke neitt hvad þad hefur ad merkia. Sa hiñ same Madur hefur eckert Gagn eda nytsemd þar af, hann predikar fyrer ødrum, eñ er sialfur forherdtur: Hañ er lijkur Smidunum sem bygdu Noa Ørk, eñ maattu þo kafna i Floodenu. Þad er ecke noog ad vera froodur i GUds Orde, og kienna þad ødrum, nema sialfur Læremeistarenn giøre þar og einnen epter, i sijnum Lifnade, ef hanns Vitsmuner eiga ad verda honum til gooda. GUds Ord hlytur ad hafa þa Verkun i oss, ad vier færum af þvi Gudlegt Lijferne, fullt af Elsku til Naa-

wung-

wngans, annars höfum vier eckert Gagn þar af. Likaso semFædan hiaalpar oss ecke, nema hun snwest oss i Holld og Hams, so giörer oss ecke helldur neitt Gagn Brwkun Ordsens og Sacramentanna, utan hun um̃vende oss til Heilags Fram̃ferdes, og verke i oss þa riettu Trwar Avexte.

Þarfyrer seger S. Paall, 1. Cor. 13. Þo eg hefde Spaadom, og visse alla leinda Hlute, og allan Vijsdoom, og eg hefde alla Trw, so eg kynne Fiöllenn wr Stad ad hræra, og hefde ecke Kiærleikann, þa være eg eckert: Þad er, ef eg Astundade med þessu miñ eigenn Heidur, eñ ecke GUds i öllum Hlutum, og Naawngans Uppbygging, þa være þad allt Svijvirding fyrer Gude, og þocknadest honum ecke: Þarfyrer munu sodd- ann Manneskiur segia a efsta Dege: Matth.7. Herra, Herra, höfum vier ecke spaad i þijnu Nafne, og i þijnu Nafne Diöfla wtreked, og höfum i þijnu Nafne giört mörg Kraptaverk? Eñ Christur mun þa svara þeim og segia; alldrei þeckta eg ydur; fared fra mier aller Illgiörda-Menn: Þvi þier hafed mig ecke af Alvöru stundad; helldur hielldud þier mest uppa sialfa ydur. Sömu Meiningar er þad, sem Heilagur Paulus seger: Þo eg giæfe Fatækum alla mijna Aleigu, eñ hefde ecke Kiærleikann, þa stodade mig þad eckert. Hver-

nen talar Postulenn þetta? Kañ nockur ad giefa øll siin Audæfe Faatækum, og ecke hafa Kiærleikann? Vissulega, nær hann giorer þad ecke einungis fyrer GUds Skulld, helldur sialfs siins vegna, ad hann vill hafa Æru og Lofstjr þar af hia Mønnum. Med soddann Hætte var Phariſæanna Riettlæta, sem giordu mikel Helge-Offur, og komu ødrum til ad giefa Musterenu Gaafur af siinum Eignum, og miklu ad kosta til Fornanna, so þeir yrde þar fyrer af mønnum tignader: Þesser Ærugiirugu Dioonar gleimdu a medan þeim Voludu, um hveria ad þeim bar enn þa helldur ad huxa i Miskun og Medaumkun. Fyrer þennann Falls kiærleika, straffade Herrann Christur þa, segande: Matth. 23. Vei ydur Skriptlærdum og Phariſæis, þier Hræsnarar, þvi ad þier uppeted Hwß Ecknanna, hafande laangar Bæner. So finnast marger vor a medal, sem eru orlaater i Veitingum, og sniikia epter Alþiidu-Lofe þar med; þeir gefa ymsum, og mest þeim sem koma laangt ad, so ad þeirra Vegsemd verde mikel, nær og fiær: En soddan wtlaatum fylger opt og tiidum ecke hinn minnste Elskunnar Neiste til GUds; þvi þar a mot asælast þeir Naawngann þvi framar, i allre Houndlan, og kwga þa raanglega, sem under þa

eru glefner. Hvilijkt hatursfullt Orlæte og Hræsnes-Elska, er næsta vidurstyggeleg. Spamadurenn Habacuch seger: Sa Ritt-læte lifer af sinne Trw: Laatum oss þarfyrer vera giædda med Saaluhialplegre Trw. Giørum sanna Jdran, og foornfærum oss sialfa Gude, med þvi ad deyda og krossfesta vort Holld, og framleida allra handa Kiærleiks Verk, af hreinne Elsku til GUds og Naawngans: Annars høfum vier eckert Gagn af þessum Goodgiørdum, sem koma af Siaalfs-Elsku; ja, þo þw lieter þinn Lijkama brenna; enn hefder ecke Kiærleikann, þa være þier þad eingen Nytsemd, seger Postulenn.

Ei helldur komast þeir leingra sem Hwdstrykia sig sialfa, og setia Brennemerke uppa sinn Lijkama, til ad þiaa og þvinga sijna Saalu, so sem Esaias ad orde kiemst i 58. Cap. þvi þeir vilia þar med sijna nockurs konar sierdeilis Heilagleika, og staka GUdrækne, framar ødrum: Enn soddan skiedur þo ecke neitt Gude til Æru, helldur ad þeir hafe stort Alit þar fyrer hia Mønum, sem ecke vita neitt ad segia af þeirre riettu GUds Dyrkun: Þar fyrer verda marger af þeim forblindader, so ad GUD leyfer, ad yfer þa kome sa Villudoomur, ad þeir, jafnvel laata kasta sier a logande Ellds-Baal, so þeir verde reik-

nader fyrer Christi Pijslarvotta, þo þeir giøre ecke þvijlikt fyrer Christs-saker; helldur sialfra sinna vegna; so þeir kunne þar med ad stadfesta sinu Villudoom og falska Innbyrling, fra hverre þeir hafa sett sier ad vijkia ecke, þo þad kostade þeirra Lijf. Þetta kallar S. Paall, 2. Tess. 2. Andskotans Styrkleika, med allshaattudum lygelegum Krapte, Taaknum og Stoormerkium. Af orsøkenne, hvar fyrer madur lijdur Pijslar-vætte, skal dæmast, hvert hann sie riettur Bloodsvottur, enn ecke af Pynunne, sem hann wtstendur. Diøfullenn hefur marga Heidingia so forblindad, ad þeir hafa viliuglega laated sig deyda, sijna banvæna Hiaatrw og Haturs-þioonustu þar med ad stadfesta. Hvad er þa ad undra sig þar yfer, þo þvilijkt giørest af þeim, sem giefa sig falsklega wt fyrer Christna, med þvi, ad sialfer Heidingiarner asettu sier med þessu Lijftioone ad hafa odaudlegt Nafn? Mun ecke Sialfs-elskan og eigen Begsemd hafa sviked, bæde Mwnkana og adra, til ad myrda Herra og Fursta, so þeir kynne þess helldur ad wtbreida þau Papisku Trwarbrøgd, og hafa ecke svarad, ad lijda Daudann þar fyrer; hvad þeir hafa ecke giørt fyrer Christi skulld, helldur Paafans til ad innvinna sialfum sier eitt odaudlegt Nafn. Þetta er sa falske og

blinde

blinde Kiærleikur, sem hefur laated falskann Glampa sviikia sig.

Sie þad þa vitanlegt, ad an þess hreina Kiærleika til GUds og Naawngans, og fyrer utan heilagt og Christelegt framferde, stooda ecke neinar Lister, Viisdomar, nie Frægder; eige nockur Speke, þo hwn være jafnvel meire enn Salomonis; eingen Kunnaatta Heilagrar Ritningar; og jafnvel þo madur villde giefa wt bæde Liif og Goots, þa være þad þo einskis verdt, ef ad Kiærleikenn til GUds og Naawngans, og eitt Christelegt Frammferde fylger þar ecke med; þvi ad hafa GUds Ord yferfliootanlegt og lifa þar ecke epter, þad eykur Stærd Fordæmingarennar; so sem vor HErra giefur ad merkia, þar hann seger. *Ef eg hefde ecke komed og sagt þeim þad, þa hefdu þeir einga Synd; enn nw hafa þeir eckert, þad þeir affsake siina Synd med.* Joh. 15.

# Cap. XXXVI.

## Þeir sem ecke lifa i Christo; helldur eru faster i siinu Hiarta vid Heimenn, þeir hafa ecke utan þann ytra Bookstaf Skriptarennar, enn smacka ecke hennar Krapt, og þad soolgna Manna, sem þar er inne.

X 4 Apoc.

Apoc. 2.

Þeim sem yfervinnur, vil eg giefa ad eta af þvi foolgna Manna; og eg vil giefa hønum goodan Vitnisburd; og i Vitnesburdenum nyrt Nafn skrifad; þad eingenn veit, nema sa sem þad medtekur.

I þessum Ordum verdur oss kient, ad þeir einer smacke Sætleika himneskrar Glede, og Huggunar i GUds Orde, sem yfervinne Hollded og Heimenn, med allre sinne Dyrd og Vegsemd, og þar med einnen sialfann Diøfulenn; þvi þeir krossfesta sitt Holld med girndum og tilhneigingum, fyrer daglegt Hiartans Angur og Idran; þeir sem o-aflaatanlega deya Heimenum og sialfum sier, hverium sitt giorvallt Lijferne er bitur Kross: þeir hiner sømu eru þad, sem verda af GUde hier ad ofan innvortis mettader, med þvi Himneska Manna, og dryckiader med sætu Paradijsar Vijne. Þar hvert a mote, þeir sem hafa sijna Huggun i þessum Heime, þeim er omøgulegt, ad smacka þad foolgna Manna: þvi hver einn Hlutur dregur sig epter sijnum Lijka, og þeir sem eru innbyrdes gagnstæder, hafa eingañ Fielagskap sijn a millum. GUds Ord er GUde lijkt; þess vegna sameiner þad sig ecke vid þa, sem eru Veralldlega sinader, nie finnur rwm i þeirra Hiørtum.

So

So sem Lijkamenn fær eingann krapt af þeirre Fædu, sem Magenn smeltter ecke; so hreſſaſt ecke Saalarennar kraptar, af þvi Himneſka Manna, Guds Orde, nema hwn medtake þad i Andanum og Trwñe, og ſkicke ſier þar epter i ſijnu frammferde, jaa, ſo ſem þeim finnſt allt ramt og beiſkt, ſem eru yferkomner af Kolldu-Soott; ſo geingur þad og einnen til fyrer þeim, ſem liggia ſiwker i Heimſens Kolldu, þad er, i Biwkſorg, Agirnd, Drambſeme, og Loſtagirndum, Guds Ord ſmackaſt þeim ecke vel, þa væmer vid þvi, ſo ſem Kolldu ſiwkur madur hefur Vidbiood a Matnum: Enn þeir, ſem GUDS Anda hafa, þeir finna i honum þad foolgna Himna-Braud, a hveriu þeir kienna alldrei, ſem hræraſt af Ande Heimſens: þvi þad eina kann ecke ad lijda hitt annad, og hefur eckert Sidblende hvert vid annad. Hier af kiemur þad, ad marger finna litla Andlega Glede, og Lijſteſeme af Evangelio, þo þeir heyre þad daglega leſed; þvi þeir ſtioornaſt ecke af Anda Guds, og hafa ecke Himneſkt Sinne, helldur Jardneſkt. Sa ſem vill ſkilia riettelega Guds Ord, hann ma finna þeſſ Krapt, og eta af þvi Himneſka Manna; hann ma aſtunda af ollum kroptum, ad vera i Lijfe og Lifnade riettſkickadur epter Guds Orde, og

JEsu Christi Lijferne. Þegar so skiedur, þa mettar hann þa lijtelaatu med Naadenne; þa Hogværu med sijnum Kiærleika; þa þolen moodu med sinne Huggan; hann giorer þeim sitt Ok sætt og sijna Byrde lietta: þvi Sætleika þess Himneska Braudsens smackar madur best under Oke Christi, og þa uppfyllest þad sem Maria seger: Hungrada fyllte hann giædum, og Rijkum slepte hann faanytum.

Þau Ord, sem eg tala, seger Frelsarenn Joh. 6. þau eru Ande og Lijf. Nu ef GUDS Ord eru Ande og Lijf, þa kunna þau ecke vel ad smackast, Holldlegu, Vellystinga fullu og Ogudlegu Hiarta; helldur hlioota þau medtekenn ad vera i Andanum, med diupre Audmykt og stoorre Epterlaangan, og menn eiga ad laga sinn Lifnad epter þeim, annars hafa þeir ecke af þeim, nema ytre Bookstafenn og Hlioom Ordanna. Heyre madur einasta, ad þad er vered ad leika Hliood fære, enn skilur ecke hvad þad er, þa hefur hann ecke riettelegt ynde þar af, og eckert gagn: eins er þvi vared fyrer þeim, sem hlyda GUDS Orde; þeir kunna ecke ad faa edur finna þess guddoomlegann Krapt, nema þeir medtake þad i Andanum og Trunne, og skilie þad, so og einen laata þad a sannast i lifnadenum:

þar

þar fyrer seger Vor HErra um̃ þa riettrwudu, sem yferviña Hollded, Heimen og Diofuleñ: Eg vil giefa hønum goodann Vitnesburd, og i Vitnisburdenum nytt nafn skrifad, þad eingenn veit, nema sa sem þad medtekur þetta er nu Vitnesburdur Heilags Anda, sem giefur GUds Orde Vitnisburd i vorum Hiortum; og þad sama GUds Ord giefur vorum Anda Vitnisburd Rom. 8. Baader þesser Vitnisburder samstemma, og verda einn Ande, og þetta er þad nya Nafn, sem eingenn þecker, nema sa sem þad medtekur, þvi so sem eingeñ finnur Sætleika Hunaangsens, nema sa sem þad smackar, so þecker og eingenn þad nya Nafn, sem Vitnesburdur Heilags Anda verkar i vorum Hiortum, utan sa sem hefur þad i sijnu Hiarta. Sa einn þecker Svølun GUDS huggunar, sem hefur hana sialfur funded og smackad.

Þesse Vitnisburdur og þetta Nafn kallast nytt, af þvi þad hefur siñ Uppruna af þeirre nyu Fædingu, sem kiemur ad ofan, fyrer heilags Anda verkan. Sæll er sa madur, hverium GUD giefur sig þannen til Smecks i Hiartanu, og dryckiar med Vijne sijns Sætleika. Sæler voru Spaamennerner, hveria GUd hefur, fra upphafe Heimsens, mettad med sijnu Himneska Braude, sijdan einnen Postulana; hann hefur openberad sig þeim

þeim; fyrer sitt eilijfa Ord, sem skiede til þeirra, og þess vegna hafa þeir kunnad þvi betur ad tala þar um; þvi þeir hafa funded þess Sætleika i sijnum Hiertum: a þann haatt er og einnen Heiløg Ritning samsett; ad H. Petur seger, ad þeir Heiløgu GUds-Menn, hafe talad tilknwder af Heiløgum Anda. Og i Sannleika talar GUD enn nw i Dag, til allra Manna, og lætur ei af, ad frammreida þeim heilnæma Saalarfædu hid innra, med þvi, hann, fyrer Heyrn Ordsens, lockar þa til ad giora Boot og Betran, og nidursender Geisla sinnar Naadar i þeirra Hiortu: enn flestar Manneskiur eru ofþyckheyrdar; jaa, næsta daufar, til ad hlijda Raustenne Drottens, þær heyra ecke neitt þar af; giefa helldur gaum ad Heimenum enn GUde; fylgia helldur epter sijnum eigenn girndum, enn GUds Orde: þar fyrer kunna þær ecke ad eta af þvi foolgna Mañna; helldur eta þær af forbodnu Trie Daudans og sinna eigenn Girnda, enn Lijffsens Trie. Pad er ein stoor Blindne og Vitleysa, ad Madurenn vill ecke laata sier þad skiliast, ad i GUde er langtum stærre Unadsemd og Sætleike, enn i Heimenum. Sa sem einusinne hefur smackad Elsku og Giædsku GUds, þa finnst hønum Verollden med ollu hennar Sæl-

Sælgiæte beiskare enn Gall. Vier vitum ad vorer fyrstu Forelldrar urdu af Heimenum so forvillter, ad þau aatu af þeim bannáda Averte Skilnings-Triesens Goods og Ills, og stofnudu þar med sier og siinum Epterkomendum i Daudann; þo erum vier so fraſiña og forblindader, ad vier meinum þad vel fyrersied, ad faa Vidurvære af holldlegum Vellystingum, þott vier bijdum þar af Daudann: þvi ef þier lifed epter Holldenu, þa munud þier deya, seger S. Paall; og HErrann Christur, þad sanna Lijfsens Trie, og þad sanna Lijfsens-Braud seger, hver hann etur af mier, hann skal lifa eilijflega: Joh. 6. Enn hvad er þad, ad eta af Christo, nema ad trwa a hann, ad hafa i honum Fognud og Glede; ja, i honum einum alla siina Unadsemd og Vellysting? þar fyrer er þad stor Villa og mikell Holldsens Blindleike, good GUds Børn, ad villa þioona Heimenum, med so storre Mædu Girnd og Epterlaagan, einasta fyrer fallvalltann Hiegoma, sem hañ hefur ad veita; enn afrækia GUds Þionustu sem endurgielldur þeim med eilifum giædum, sem hann heidra og honum þionkan veita. Hver audsyner GUde slijka Trwfeste, slijka Hlydne, edur hefur til hans soddan Epterlaungun, sem vier siaaum almennelega, ad flest-

flester hafa til Heimsens Audæfa, Metorda, og Vellystinga? optlega hikum vier ecke vid þad, ad giora laanga ferd fyrer litla fiemune; enn vegna þess Eilijfa Lijfs erum vier later ad hræra Hond edur Foot. Þeim sem binggu fordum i þeim nafnfrægu Kaup-stødum, Tyro og Sidone, kostudu Spaamennerner þvi i naser, ad þeir giørde sier langar Reisur yfer Hafed, ad sækia sijna Kaupmans-Vøru; enn til ad na eilijfum Giædum, villdu þeir ecke vijkia sier þverfootar. Eins er þvi vared enn nu fyrer mørgum: Heimurenn verdur elskadur, þvi midur, meir enn GUd, og þad i øllum Stiettum. Margur Lærdur Doctor Studerar noott og dag, so hann komest til Vegsemdar i Heimenum; enn til ad avinna þa Eilijfu Æru og Vegsemd, giefur hann sier skialldan stunder til ad lesa sijna Fader Vor. Margur vogar Lijfe og Bloode i Strijd og Hernad, til ad faa og ødlast edallega Tign og Riddaraskap; enn hann fær þo ecke af sier, ad strijda a mote einne Oðygd sijns Synduga Holldz, so hann mætte bera wr bijtum þann eilijfa og Himneska Edaldom. Margur fær hroosad Sigre yfer Løndum og Rijkium; enn kann þo ecke ad yfervinna sialf-ann sig. Hvad marger eru þeir sem sækia epter tijmanlegu Gotse, enn tapa þo sialfum
sier

þar med, sinne Heill og Velferd? Eingenn af þeim, sem giøra soddann, hafa feinged riettann Smeck af þvi hreina og foolgna Maña GUds heilsusamlegu Orda; þeir fa ecke Heimeñ yferunned, helldur verda yferuñer af Heimenum: Þvi sa sem vill smacka þetta Himneska Braud, hann hlytur, fyrer saker Elskunnar til GUds, ad forakta og yfervinna Heimenn. Sa sem þetta kann ad giøra, hann skal efalaust faa, og finna þa allra sætustu Huggun Heilags Anda, og verdur yferhelltur med Sælgiætes Vellysting af Himnum ofan; af hverre eingenn veit ad segia, nema sa sem hana hrepper. Laatum oss þvi vera þar uṁ hugad, ad Lijfsens Trie groodursetiest fyrst i oss, so ad vier kunnum ad foostrast af þess Avoxtum, og ad vort Hiarta, sem girnest ad endurnærast af Himneskre Huggan, meige adur snwast fra Heimenum til GUds. Vier laatum Heimsens Huggun vera oss stoora Glede, enn yfervegum þad ecke, ad sw minnsta Huggun GUds kann ad vera oss til meire Glede, enn allur Heimurenn: þvi þad er Degenum lioosara, ad allt þad, sem GUd giører, er alltijd langtum ædra og ypparlegra, enn þad sem nockur skøpud Skiepna kann adgiøra. Sa lærdomur, sem ad ofan kiemur, fyrer Innblaastur Heilags

Anda,

Anda, er laangtum Gofugre og agiætare, enn sa sem mannleg Skynseme kann ad wtvega, jafnvel med storum Erfidismunum: So sem Epled edur Lilian, sem Naatwran framleider, er miklu ædre og betre, enn þad, sem hinn Kunstrijkaste Meistare smydar; jafnvel þo þad være giort ur klaaru Gulle: So er og einn sa allra minnste Neiste, edur Drope af guddomlegre Huggun langtum betre og ædre, enn stort Siooarhaf fullt af Heimsens Glede. Vilier þu niotande verda þessarar GUds sætu Huggunar, þa skalltu lijtels virda Veralldareñar Huggun og Glede. Ef nockur vill heyra a mijna Rædu, þa verdur hann ad hlusta til mijn; vilie nockur skilia mig riett, þa verdur hann ad snwa sijnu Hiarta og þaunkum til mijn; vilie nockur siaa mig grant, þa hlytur hann ad renna Augunum til mijn. So skalltu snwa ollu þijnu Hiarta og Skilningar vitum til GUds, og muntu siaa hann, heyra, skilia, finna og formerkia, epter þvi sem þar stendur hiá Jeremiam i 29. Pegar þier leited mijn af ollu Hiarta, þa skulud þier finna mig, seger Drottenn.

Margur seger opt og tijdum, med stoore Forundran: o! Hversu mioeg er þesse Madur, Rijkur, Megtugur Lærdur og Skynsamur: Enn

Enn hvad hann er Hoogvær, Lijtelaatur, Þolenmoodur, og Andheitur til GUds, þar um̃ er ecke stoorum eptersputt. So giæta meñ þa ecke ad ødru, eñ þvi ytra og lakasta; enn ad þvi sem er innvortis, og hid besta, giæta þeir ecke, og giora sier ecke neina þaanka um̃ þad. Menn segia og giarnan: Þesse madur hefur margt sied og reint; hañ hefur fared um morg Lønd og Konga-Rijke; heyrt og sied okunnugra Þiooda Haattu og Twngumaal: Eñ þad være laangtum betra, ad meñ kynne ad segia þad um̃ hañ med sanne, ad hañ hefde, i Andanum og Trwnne, þeckt og sied Gud sialfann; þvi þad er hiñ beste fraine. So sega menn og einnen, ad sa og sa hafe vered hia Stoor-Hofdingium, og þient þeim: Enn sa sem hefur kunnad GUde riett ad þioona, og haft Um̃geingne med hønum, hañ hefur vered i þeirre bestu Þienustu og Selskap. Marger, af Elsku til Heimsens og þess tijmanlega, klappa sier Lof i Loofa, fyrer þad, þeim hafe audnast ad lifa a þeirre Olldu, sem sie bæde Lærdooms-rijk og Vitskufull, framar þvi sem vered hafe i langann tijma; eñ þeim bære under eins þar um̃ ad þeinkia, ad sw ædsta Konst og Speke, er ad elska JEsum Christum; hañ ad þeckia i riettre og Saaluhiaalplegre Trw, er betre,

Y enn

eñ allt annad: Enn soddan Vijsdoms Speke er a þessum Tijmum mestann part horfen, og eydelagd, so þad finnast Harla faaer Herrans Christi sanner Læresveinar, sem vilia læra af hønum þa riettu Audmykt, Hogværd, og Þolenmæde: Jaa, þad er so komed a þessum døgum, ad flester af þeim Lærdustu og Skynsømustu i Heimenum, eru giarnan framande fra þvi Andlega Lijfe, sem er huled med Christo i Gude, og hafa enn nw ecke þad numed, ad þar er til eitt riettelegt Athæfe i Christo JEsu. Sømuleides skyllde þeir hiner sømu og so þeinkia, ad Lærdoomurenn er ecke nær so mikell, sem Ord er agiørt: Þviad flester grundvalla nw sijna Konst framar a Snillelegum Ordum, smaasmuglegum, næmum og skarpvitrum Innbyrlingum enn Sannleika; hafa meira i sier af þootta enn Vijsdoome; vita framar Ord og Tilgaatur, enn Sannleikans riett asigkomulag; i hveriu þo sw rietta Speke er ecke innefalen: Þvi hwn utheimter meir Vijsdoom enn Tilgaatur; meir Verk enn Ord, meir Sannleika, enn faafeingelegann Hiegooma, hvar uñ fleira er talad i þvi skrife, Uñ Vijsdom þeirra Gomlu. Þad være jafnvel tilhlydelegra, ad menn segde, ad þesse tijd være ogudleg Olld, i hverre allt Riettlæte, GUdræk-

ne,

ne, og Trwleike, er ad mestu wr Heimenum burtrymd, og hartnær er ecke neitt annad epter, enn Ogudlegleikans, Raanglætesens, Ofroomleikans og Vondskunnar Dreggiar.

Pad verdur sagt um suma, ad þeir hallde kostulegt Bordhalld: Enn þeim, sem ad smackast GUds Ord riettelega, hann hefur laangtum kræselegre Riette a Borde, hann etur þad folgna Manna, þad eilijfa og lifande Himna-braud. Peim sem ad GUd og hans Heilaga Ord smackast vel, hann kann ecke ad smacka neitt illt; og þeim sem GUd og hans Heilaga Ord smackast ecke vel, hvada Glede kann hann ad hafa? GUd sialfur er sw Glede, sem geingur yfer allann þann Fögnud, sem menn kunna ad hafa af skopudum Skiepnum: O! ad sa Naaduge GUd villde þreyngia sier i giegnum vor Hiortu med birtu sinnar Himnesku Glede, og ad hann villde hreinsa, upplysa, gledia, og giora lifande vora Anda og Krapta? O! Hvenær mun sa tijme koma, a hverium GUd vill metta oss med sinne Nærveru, Jbwd, og allra handa himneskum Giædum? So leinge, sem þad eige skiedur, þa verdur eingen fullkomen Glede i oss: Vier meigum þar fyrer taka oss, nw sem stendur til þacka, þa Huggunar Mola, sem falla af Bordum vors Herra, þar til sw rietta Glede þess Eilijfa Lijfsens biriast.

Siáa, eg stend fyrer Dyrunum, og klappa uppa: seger vor HErra, Ef nockur heyrer, mijna Raust, og lijkur upp Dyrunum, til hans mun eg inngꜵnga, og Kvølldverd med hønum hallda, og hann med mier, Openb.B. 3. Cap. Heyr þu, o Madur! þar kiemur einn Edla giestur til þijn, villtu laata hann standa fyrer dyrum wte? þad er ad vijsu ein stoor Vanvirda, ad laata godann Vin leinge standa wte, og biooda hønum ecke iñ, eñ laangtum stærre Skom̃ og Vanvirda er þad, ef þu lætur þinn GUd wtestanda, sem vill vera þiñ Giestur, þu þarfst ecke ad hafa kostnad fyrer hønum, hann bordar fyrer þier siaalfur; einasta skalltu eta med hønum þad sæta Himnabraud, og þad foolgna Manna. Færer ecke einn Stoorherra med sier sitt Bordhalld; þegar hann ferdast til sijns Faatæka Vinar?

Drottenn seger: Heyr mijna Raust, og lijt upp fyrer mier. Enn so sem eingenn Hlioodfæra Saungur kann ad heyrast i þvi Hwse, sem fullt er med Haareyste og Skarkala, hversu fagur eda lystelegur, sem hann kann ad vera: So kann GUds Raust ecke helldur ad heyrast i einu Veralldlegu Hiarta; þvi þar verdur ecke upploked, Madurenn tekur hann ecke inn til sijn; þar fyrer kann soddann eitt Jardneskt Hiarta ecke ad smacka þa Himnesku Fæduna: Þegar Heimsens

Haavade ſefaſt og dvijnar i Mannſens Hiarta, þa kiemur GUd, klappar uppa, og lætur til ſijn heyra; þa kantu ad ſegia med Spaamannenum Samuel: Taladu Drottenn, þinn þioon heyrer, 1. Sam. 3. Um̃ þeſſa Andlegu innre og Himneſku Kvølldmaaltijd, talar einnen Poſtulenn til Hebr. 6. Cap. ſegande: Þeir ſem eitt ſinn eru Upplyſter, og ſmackad hafa þaa Himneſku Gaafu, og Hluttakarar eru ordner Heilags Anda, og ſmackad hafa hid gooda GUds Ord, og Krapt epterkomande Alldar. Hier verdur oſſ kient, ad i hverium þeim manne, ſem Heilagur Ande er, og verdur ecke hindradur, þa nærer hann og foſtrar hans Saalu daglega, med þvi goda og lifande Himnabraude GUds ylmſæta Ords, ſem framgeingur af GUds Munne og vier lifum af.

Þetta hid ſama hefur ſa Konunglege Spaamadur David, fyrer Heilagann Anda, ſannreindt i ſijnu Hiarta og Saalu, þar hann ſo ad Orde kiemſt, Pſalm. 16. Þu Drottenn, giørder mier kunnan Vegenn til Lijfſens, fyrer þier er gnogt Fagnadarens, og gledelegt Lijf til þinnar hægre Handar eilijflega; og i Pſalm. 34. Smacked þier og Siaaed hvad ſætur ad Drottenn er: Sæll er ſa madur ſem a hañ treyſter. Pſalm. 23. Þu hefur tilreidt Matbord fyrer mier, i mote þeim er hrella mig; þu hefur ſmurt mitt Høfud med Vidſmiø-

smiøre; og skienker fullt a fyrer mig. Psalm.63. Þijn Miskun er betre enn Lijfed; mijnar Var er skulu lofa þig. Psalm.36. GUd hversu dyr⸗mæt er þijn Miskun? og Mannanna Syner hafa Traust under Skugga þinna Vængia. Þeir verda druckner af Nægdargiædum þijns Hws; og þw dryckiar þa med rennande Vat⸗ne þinna Vellystinga: Þvi hia þier er Lijf⸗sens Uppsprettu⸗Brunnur, og i þijnu Lioose siaum vier Lioosed. Psalm. 70. Fagne þeir all⸗er, og glediest i þier, sem ad þier leita, og þeir, sem þitt Hiaalpraad elska, skulu ætijd segia: Haaleitlega sie GUd lofadur; enn eg er Faat⸗ækur og Aumur, GUd hiælpa þw mier: Þw ert mijnn Hiaalpare og minn Frelsare, Drott⸗enn, dvel þw ecke. Af þessum Ordum er þad augliost, hverier hellst þeir sieu, sem hid innra metteft af Orde GUds, þad er ad skilia, þeir sem eru volader i Anda, og i ein⸗um GUde hafa sitt Traust, og sijna Vellyst⸗ing. Þeir hiner sømu eru verduger ad smacka þær Himnesku Saafur; um̃ hveriar Heilag⸗ur David talar i Psalm.84. a þennann haatt: Hversu elskulegar eru þijnar Tialldbwder, Drottenn allsheriar: Saalu mijna forleing⸗er og tregar epter Forgarde Drottens; mitt Hiarta og mitt Holld hafa Gladværd i GUde lifanda. Hier af ma skilia, ad sw minnsta Vel⸗lysting eilijfs Lijfs, geingur langt yfer alla stær⸗stu Heimsens Glede: Þvi Ande GUds seger,
ad

ad einn Dagur i Hwse Drottens, sie langtum betre, eñ Pwsund hier. Sa sem eitt Sinn, hefur komest ad riettre Raun hier um̃, so hann hefur smackad GUds Sætleika, og stendur so stødugur i þvi hinu gooda, hann færleida a Heimenum, og gietur ecke smackad hann framar; þvi hann hefur kient a ødru betra. Sømu Meining hefur sw Eilijfa Speken, þegar hwn so ad Orde kiemst i Syr. B. 24. Cap. Mijn Minning er sætare, enn Hunang og mijn Arfleid sætare eñ Hunangs-Seimur; hver af mier etur, hañ hwngrar jafnan epter mier; og hver af mier dreckur, hann þyrster jafnan epter mier.

Þetta er eitt heilagt Hwngur og Þorste, sem eingen skøpud Skiepna kann ad slockva, nema GUd einn med Ast sinne. Hier af kiemur þad, ad þeir Heiløgu verda andlega druckner af GUds brennande Kiærleika, epter þvi sem þar stendur, i Lofkv. 5. Cap. Eted og dreckeð, mijner Viner, og giøred ydur glada mijner elskanleger. Soddann Sælgiæte lætur GUD sijnum Astvinum tilfalla, ad hann kunne ad draga þa til sijn, og ad þeir gleime þvi sem i Heimenum er, enn faae Hugsvølun af hønum sialfum. Og þar sem oss veitest i þessu Lijfe þvilijkt Sælgiæte, sem ecke faaum þo nema Molana af þvi foolgna Manna, og smøckum einasta Dropa þess nya Vijns, af

þvi Himneska Vijntrienu, hvad miklu meira mun þad þa verda i þvi eilijfa Lijfenu, hvar vier mun um gaanga ad sialfum Brūnenum til ad drecka, og i siaalft Vista-hwsed til ad eta? Þegar vor HErra sagde a Krossenum, Mig Þyrster; þa þyrste hann einnen þar epter ad hañ kynne ad upptendra i oss einn Heilagann, Andlegann og Himneskann Þorsta; og lijka sem hann endurnærer og mettar vort Andlegt Hwngur og Þorsta, so skulum vier og einnen, metta hans Hwngur og Þorsta; þvi hann hwngrar og þyrster langtum meir epter oss, enn oss laangar epter hönum, So sem stendur, Joh. 4. Minn Matur er sa, ad eg giøre Hans Vilia, sem Mig sende, og Eg fullkomne so hans Verk: þvi þad er GUDS Vilie og Epterlaungun, ad Meñerner giøre Jdran og Yferboot, og verde Saaluhoolpner. Ef ad oss þyrste so epter hönum, sem hann er þyrstur epter oss, þa villde hann med sijnum Anda, so rijkuglega og sætlega dryckia oss, ad af vorum Lijkama uppsprytte Vøtn lifande Vatns; þad er, allt yrde i oss Andlegt, heilsusamlegt og lijflegt: ja, hann munde giefa oss ad drecka af Straumum siñar storu Giædsku, so ad vor Saal og Lijkame, og aller vorer Kraptar gleddu sig i GUde lijka sem þar være wthellt stooru Vatns Floode af Himneskre Glede i vorar Saaler:
Vor

Vor Fridur munde verda sem eitt Vatns-Flood, og vort Riettlæte sem hafsens Bylg-iur; Esa. 48. Þvi eckert er so stoort, sem Saal Mannsens i siinu Gladværdar Frelse, þegar hwn hefur i sier GUd siaalfan, Himen og Jord og alla Hlute: so sem þar þvert a mot, er eckert minna, enn Mannsens Saal i hennar Nidurlægingu; þegar hwn af Aud-mykt vid GUd, varpar sier nidur under allar skapadar Skiepnur.

## Cap. XXXVII.

## Þeir sem ecke epterfylgia Christo i Trwnne, i Lifnadenum og i dag-legre Jdran, kunna ecke ad friiast fra siinum Hiartans Blindleika; helldur bliifa þeir i siifelldu Myrkre: þar med gieta þeir ecke riettelega þeckt Christ-um, nie haft nockurn Fielagskap edur Sameining med honum.

1. Joh. 1.

GUd er Lioos, og eingenn Myrkur eru i høn-um: Ef ad vier segdum, ad vier hefdum Samfielag med hønum enn geingum þo i Myrkrenu, þa liwgum vier og giørum ecke Sannleik; Ef vier gaungum i Liooſenu, liika sem hann sialfur er i Liooſenu, þa høfum vier Samfielag innbyrdes.

TJl ad skilia riett, hvad Liooſed sie og Myrkurenn, þa meigum vier giefa giætur ad wtmaalan Liooſsens hia Johannem: GUD er Liooſed, seger hann; enn hvad er GUd? GUd er ein Andleg Vera, Eilijf, Oendanleg, Almaattug, Miskunsøm, Naadarfull, Riettlaat, Heiløg, Sannord, alleina Vijs, og ad Kiærleika og Trwfeste owtskijranleg; GUd Fader, Sonur og Heilagur Ande, ad Verunne einn, enn ad Persoonunum Þrennur; Sa hædste Goode, jaa, verulega allt gott, og þad sanna og Eilijfa Lioos: þar fyrer sa sem sig giefur fra Gude og hanns Kiærleika, Miskunseme, Riettlæte, og Sannleika, hann snyr sier fra Liooſenu og fellur i Myrkureñ; þvi fyrer utan GUd er ecke nema eilijf Myrkur. Sie nw GUD eitt Lioos, þa verdur GUds Høfud-Ovinur, Diøfulleñ, þar þvert a mote, ad vera Myrkur: og sie GUd Kiærleikurenn og allt gott, þa er Diøfulleñ griñ Reide, Fiandskapur, Hatur, Øfund og Mergd allra Synda og Glæpa: þar fyrer, sa sem snyr sier til Syndanna, hann giefur sig inn i Myrkurenn, og til Diøfulsens, og frelsast ecke þadan, fyrre enn hann snyr sier aptur fra Myrkrunum til Liosſens, fra Syndunum til Riettlætesens, fra Diøflenum til GUds. Giorn. B. 26. Og þetta er Verk

þeirr-

þeirrar lifande og sonnu Trwar, fyrer hveria ad Hiortun vor hreinsast; þvi hver sem trwer a JEsum Christum, sa giorer hvern dag Yferboot, og snyr sier fra Syndunum, og Dioflenum til GUds og Christum. Lijka so sem Adam snere sier, fyrer Syndena, fra GUde til Diofulsens; so hliootum vier aller, fyrer sanna Jdran, Boot og Betran ad snwa oss fra Dioflenum til þess Heilaga og gooda GUds.

Hier af kiemur þad, ad Madureñ kann ecke upplystur ad verda, nema hann snwe sier fra Syndenne til GUds; þvi hveria Hlutdeild hefur Raanglæted vid Riettlæted? eda hvert Samfielag hefur Liooſed vid Myrkred? seger S. Paall. 2. Cor: 6. Jdrunarleysed er Myrkur: þar fyrer hefur Lioos riettrar Þeckingar JESU Christi, einga Hlutdeild þar med; so ad þeim sem lifa i Myrkrum Raanglætesens, er omøgulegt ad upplijsast af Andanum, og Liooſe eilijfs Sannleika; enn ef þeir snwa sier, þa upplysast þeir: Þar fyrer seger Postulenn so umm Gydingana 2. Cor. 3. Þegar þeir snwa sier til Drottens, mun Skylan fratakast; þad er Myrkurenn, Blindleikenn, og Faavitskan mun burtryma, og þa verda þeir af JEsu Christo upplyster.

Þvi hver kann stærre Blindleike edur þreifanlegre Myrkur ad yferfalla mannanna Hug-

Hugskot, enn Vantrwen, med sijnum Avøxtum, so sem eru, Drambseme, Agirnd, Reide, Lostagirnd, og hvilijker Lester? Sa sem er inntekenn af hvilijkum Syndum, hañ kann ecke ad þeckia HErrann Christum, þad sanna og eilijfa Liooſed, miklu sijdur ad trwa a hann, treysta honum, og verda fyrer hann Saaluhoolpen: þvi Hvernen kan sa ad þeckia JEsu Christi lijtelaata Hiarta, sem er fullur af illaluktande Hofmod og Drambseme? Hvernen fær sa hans Hoogværd kiendt, sem er af Grimd og Hatre uppblaaſenn? Hvernen kann sa ad sa þecking a hans stooru þolenmæde, sem hefur sitt Epterlæte i Hefndargirndenne og Osamlyndenu? Sa sem ecke þecker Christi Hoogværd, Lijtelæte og Þolenmæde, hañ hefur eñ þa ecke þeckt HErrann Christum i Trwnne. Vilier þw þeckia Christum riettelega, þa maattu fyrer Trwna hafa soddann eitt Hiarta, sem hann hefur þw hlijtur ad fiña og formerkia i þijnu Hiarta, hans Audmykt. Hoogværd, og þolenmæde, og þa veitstu fyrst hvad Christur er. Vilier þw þeckia einn goodan Avøxt edur Alldene, þa smackadu a honum, og verdur þw þa viſſare þar umm: Eins lijka hlijtur þw ad smacka Avoxtenn af Lijfsens Trie Christo, vilier þw þeckia hann riettelega. Ef þw smackar i

Trwne

Trwne hans Audmykt, Hoogværd, og þolenmæde, þa neyter þw af hans Avoxtum, þa finnur þw Hvijlld og Rooseme fyrer þijna Saalu, og verdur hluttakande i hans Guddoomlegre Naad og Huggan; enn giorer þw þad ecke, þa finnur þw einga Rooseme fyrer þijna Saalu: þvi GUds Naad og Huggan kan ecke ad skijna inn i eitt trwarlaust Hiarta, i hveriu ad ecke er Christi Hogværd og Lijtelæte; þvi GUD veiter ecke Naadena, neima þeim lijtelaatu. Hvad Gagn giorer þa Christur þeim manne, sem ecke vill hafa neina Hlutdeilld med hønum? Nw hafa þeir sem lifa i Myrkrum Syndanna, einga Hlutdeild med Liooseд, sem er Christur: þar fyrer er hann þeim ecke til neins Gagns; þvi so seger Johannes: Ef vier segium, ad vier høfum Samfielag med hønum, og gaungum i Myrkrunum, þa lixgum vier, og giørum ecke Sannleikann; enn ef vier gaungum i Lioosenu, lijka sem hann er sialfur i Lioosenu, þa høfum vier Samfielag innbyrdes. Þetta utskijrer hann enn þa liooslegar i 2. Cap. segiande: Myrkurenn eru frammhia geingeñ, og hid sanna Liooseд skijn nw: hver hann seger sig i Lioosenu vera, og hatar sinn Broodur, sa er enn nw i Myrkrum; Sa sem elskar sinn Broodur, hann er i Lioosenu, og hia hønum er eingen Hneixlan: enn hver siñ Broodur hatar, sa er i Myrkrenu, og i Myrkrenu

kenu raasar hann, og veit ei hvert hann fer, þvi Myrkurenn hafa hans Augu forblindad. So leinge þa, sem madurenn raasar i þeirre skielfelegu þoku Syndanna, þa kann hann ecke ad upplysast af JEsu Christo, sem er þad sanna Lijoos, ellegar ad komast i sanna þeckingu GUds. Vilie madur þeckia riettelega GUd og Christum, þa ma hann vita ad GUd og Christur er einskiær Naad og Kiærleike; enn eingenn kann ad vita hvad Kiærleikurenn er, utan sa, sem er giæddur med hønum, og ydkar hann. So kiemur sw rietta og fullkomna Þecking þeirra Hluta, sem gioraſt skulu, af Reynslunne; so er þvi og einnen vared um̃ Kiærleikann, hans riett þecking kiemur og so af Reynslunne: þar fyrer, hver hann ecke æfer sig i Kiærleikanum, hann veit ecke hvad Kiærleikurenn er, hversu miked sem hann skvalldrar eda skrafar umm hann. Christur er einskiær Elska, Lijtelæte, Hoogværd, Þolenmæde, hann er einskiær Dygd, og Froomleike: Sa sem ecke æfer sig i þessu, hann veit ecke hvad Christur er, nie þecker hann riettelega, hversu miked sem hañ talar um̃ hann, eda vill vera vid hañ kiendur.

GUDS Ord er ecke utan Ande; þar fyrer hver hann ecke lifer i Andanum, hann veit ecke hvad GUds Ord er, þo hann hafe mik-

miklar Rœdur um̃ þad. Sa sem alldrei hefur æft sig i Kiærleikanum, hvernen kann hann ad vita hvad Kiærleikurenn er? Hvad skyllde sa madur kunna ad segia af Lioosunum, sem hefde seted i Myrkva stofu alla siina daga, og alldrei sied Lioſed? Nw er Trwen og Christelegur Kiærleike Lioſed i Mannenum, so ad Christur seger þess vegna hiaa Matth. 5. laated ydar Lioos lysa fyrer mønnumm, so þeir siae ydar good Verk, og dyrke Fødur ydar, sem er a Himnum. Þegar vier virdum fyrer oss þad allra heilagasta Lijferne JEsu Christi, þa finnum vier, ad þad er einskiær Kiærleike, laatum oss þar fyrer læra af hønum i sannre Trw, hans Kiærleika, Lijtelæte Hogværd, og Þolenmæde, so sem hann hefur oss befalad; þa um̃myndustum vier til hans Myndar, og verdum upplyster af hans Lioose, so sem med sialfum Christo, sem er þad eilijfa og sanna Lioos, epter þvi sem þar stendur Eph. 5. Vakna þw upp sem sefur, og rijs upp fra Daudum, so mun Christur upplysa þig.

Þar fyrer hverier hellst, sem ecke uppvakna af þessa Heims Synda Svefne, af Fysn Holldsens Girnd Augnaña, og Drambsomu Lijferne, þeir kuña ecke af Christo upplyster ad verda: Enn þeir verda einasta af Christo upplyster, sem taka uppa sig Christi

edla

edla Lijferne, og epterfylgia hønum þar med.

Sa ſem ecke fylger Chriſto epter i Lijfe og lifnade, hann elſkar meir Myrkred enn liooſed; þar fyrer kann hann ecke af Chriſto upplyſtur ad verda, epter þvi ſem ſialfur Lauſnarenn ſeger: Joh. 8. Eg em Lioos Heimſens: Sa ſem mier epterfylger, þad er ad ſkilia, i Trwnne, Kiærleikanum, Vonenne, Þolenmædenne, Hogværdenne, Lijtelætenu, Otta Gllds og Bænenne, hann geingur ecke i Myrkrunum, helldur hefur hann lioos Lijſſens. So hafa þa Chriſti ſanner epterfylgiarar einaſta Lijſſens Lioos, þad er, þa ſonnu Upplyſing og Lioos JEſu Chriſti þeckingar. Þetta alijtur S. Paall, þegar hann kallar þa trwudu, Lioos, Eph. 5. Þier vorud, ſeger han, fordum Myrkur, eñ nw erud þier Lioos i Drottne. Item þegar hann kallar þa Liooſens Børn, I. Theſſ. 5. ſegiande: Aller þier erud Børn Liooſens, og Børn Dagſens; iklædder Brijniu Trwarennar og Kiærleikans, og þeim Hiaalme, ſem er Von Saaluhialparennar.

J Speckennar B. I. Cap. ſtendur ſo Speken kiemur ecke i eina hreckvijſa Sœlu, og byr ecke i þeim Lijkama, ſem Syndenne er undergiefenn, enn hwn giefur ſig œ og jafnan inn i Saaler þeirra Heilogu, og giorer af þeim Spaamenn og Gllds Vine. Fyrſt ad Vijsdoom-

doomurenn fordast nw Saaler þeirra Ogud-legu, hvernen kunna þeir þa ad verda upp-lyster? Ja HErrann sialfur seger, Joh. 14. ad Heimurenn, þad er holldleg og idrunarlaus Hiortu, kunne ecke ad medtaka Heilagann Anda. Uppa þad menn kynnu ad hafa eitt fullkomed Epterdæme allra Dygda, þa vard GUds Sonur, Madur, og med sijnu Hei-laga Dygdafulla Lijferne, Lioos Heimsens, so ad aller meñ epterfylgde honum, trydu a hañ, og yrde upplyster af honum.

Ymser Heidingiar, sem hafa elskad Dygd og Froomleika, giora Skom̃ til Christnum Monnum, hverier ed vita, ad Christur er hid fullkomlegasta Riettlæte, og sialf Dygd-enn, eñ hyrda þo ei um̃ ad epterfylgia honum i Lijfernenu. Plato, Aristoteles, Cicero, Seneca, og adrer Vijsenda menn Heidner hafa sagt: Ef Menn kynnu ad siaa Dygd og Froomleika, þa være hwn skiærare enn Morgunstiarnan: Eñ þeir sem HErrann Christum hafa sied med Trwarennar Aug-um, þeir hafa sied þa Fogru Morgunstiornu, ja, sialft Ord Lijfsens, og hafa þreifad a þvi, sem Johannes seger 1. Joh. 1. Hafe nw Heid-ner Menn elskad so mikelega Dygdena, og girnst ad siaa hana; hvad miklu framar hæf-er þa Christnum Moñum, ad elska hana øllu

 fram-

framar, þar sialfur Herrann Christur, er sialf Dygden, sialfur Kiærleikurenn, sialf Hoogværden, jaa, GUd sialfur.

Ad elska Christum, seger Heilagur Paall, er betra, eñ allt ad vita: Eñ sa sem Christum elskar, hann elskar hans Hoogværd og Lijtelæte, og af skiærre Elsku til hans stundar þar til, ad epterfylgia hønum i øllum Dygdum og Daadum, og verdur þvi upplystur, og daglega um̃ynd adur til Christi Jmyndar 2. Cor. 3. þeim lijtelaatu giefur GUD Naad, seger hinn Sæle Petur; I. Pist. 5. þvi Naadarennar Straumar fliota nidur, enn ecke upp, epter þvi sem Bernhardus ad orde kiemst. Hvernen skyllde þa Naad Lioosens og Guddomlegrar Þeckingar, veitast þeim Manne, sem ecke lifer i Christo JEsu, helldur geingur a Dioefulsens Vegum? Trwen, edur Trwarennar Avexter, laata oss ecke vera lata edur ofriofsama i Þeckingu Drottens vors JEsu Christi, 2. Pet. I. J audmiwkum Manne lifer Christur; þar fyrer hvijler yfer þeim sama Ande Vijsdoomsens og Skilnigsens, Ande Raads og Styrkleika, Ande Þeckingar og Otta Drottens, Esa. II. so sem yfer sialfum Christo. Christur byr i þeim manne, i hverium hans Lijferne og Lioos er, þvi hann er þad alltsaman sialfur. S. Petur seger: Giorn. B. 2. v. 38. Giøred Jdran, og mun-

munud þier medtaka Giøf Heilags Anda; so sem hann segde: Ande GUds sem upplyser Hjørtun, giefur sig ecke ofan i ønnur Hugskot, enn þau, sem trwud eru, og Jdran giøra.

Þar fyrer hver hann frijast fra Hiartans Blindleika, og fra eilijfum Myrkrum, jaa, fra sialfum Dioflenum, hann fylge Christo epter i Trwnne, i sannre Jdrun, Boot og Betran. Þess nær sem madur er Christo, þvi nær er hann eilijfu Liooſe; og þvi nær sem hann er Vantrwnne, þvi nær er hann Dioflenum og Myrkrunum. Þesser tvenner Hoopar fylgiast alltijd ad: Trwenn, Christur, og allar dygder; Vantrwenn, Diofullenn og aller Lester. Þeir Heiløgu Christi Postular epterfylgdu Christo i Trwnne, forøktudu Heimenn, og afneitudu sialfum sier, og med þvi þeir giørdu þad, urdu þeir hier ad ofan upplyster, og ødlu dust Heilagann Anda; þessum var sa wnge auduge madur olijkur, hvers gietid er hia Lucam 18.Cap. Hvar fyrer hann bleif i Heimsens Myrkrum, og vard ei upplystur til eilijfs Lijfs; þvi sa sem elskar Heimenn, i hønum er ecke Kiærleike Fødursens: Þar fyrer seger Heilagur Johañes 1. Pistl. 2. Cap. Hver hann hatar sinn Brooder, hann er i Myrkrunum, geingur i Myrkrunum, og veit ecke hvert hann fer; þvi

Myrkurenn hafa hanns Augu forblindad. Uppa þetta stendur sa Kijrkiunnar Lærefader, Taulerus fastlega, i öllum sijnum Predikunum, ad fyrer utan rietta Æfingu Trwareñar, og an þess, ad madureñ afneite sier sialfum, og deye fra Syndunum, og nema hañ snwe sier af öllu Hiarta til GUds, og giefe sig honum alldungis a Valld, þa kunne hann einganveigen ad finna i sier þad Guddomlega Lioos.

J stuttu maale ad segia: So miked sem fer til þurdar, og eydest i Mannenum af Verkum Myrkranna, fyrer GUds Anda, þegar madurenn er umvendadur, so miked upplysest hann: Og þar þvert a mote, þvi meir sw vonda Naattwra, Hollded og Heimurenn hefur yferraad i Mannenum, so sem er, fysn Holldsens, Girnd Augnanna, og Drambsamlegt Lijferne; þvi meira er Myrkred, þvi minne Naaden, Liosed og Andenn, GUd og Christur, i þeim hinum sama: Þar fyrer kann eingenn ad verda upplystur fyrer utan sanna Jdran. Sa sem ecke vill dempa eina Synd, hann giefur Orsok til margra Synda, þvi þar kiemur alltijd ein Synd af annare; ja af einne Synd uppsprettur önnur, og eykur sig wt, so sem annad Jllgrese, og vond Urt, og lijka sem Myrkred og diman vex alltijd

tijd þess meir, sem Soolen vijkur leingra i burtu: Eins lijka vara þvi meir i oss Myrkur Syndanna, sem þad edla Lijf, og Framferde Christi er leingra fra oss, þar til Manneskiañ hrapar um̃ sijder i þau eilijfu Myrkur. Hier a mote, sa sem, fyrer Naad GUds, tekur til ad æfa sig i einne Dygd, hann ver og þrooast ad Mannprydе; þvi dygdernar eru samteingdar hver annare, so ad S.Petur þar fyrer giører so sem eina Gullkediu þar af, segande: 2.Pet.1. Þvi hafed þa alla Kappsmune a, og audsyned i ydvarre Trwo Dygdena; og i Dygdenne Vitsmunena; og i Vitsmunum Hoofsemena; og i Hoofsemeñe Polenmædena; og i Polenmædenne Gudrælnena; og i Gudhrædslunne Broodurlegann Kiærleika; i Broodurlegum Kiærleika; Almeñelegañ Kiærleika; þvi ef þetta er nooglegt hia ydur, þa mun þad ecke laata ydur vera o-avaxtarsama i Vidurkieñingu Drottens vors JEsu Christi. So sem hann segde: hver sem sig giefur ecke allann til ad stunda og elska þessar Dygder, sa þecker ecke riett Herrann Christum: Enn sa sem þrooast i þeim, fyrer Trwna, hann þrotskast og ver i Christo. Hver sa sem er Neidegiarn, Stolltur, Agiarn, Ohólennmoodur, og i ødru soddann vidurstyggelegur, hann ser ecke varande i Christo, helldur i Satan.

Lijka so sem einu Barne fer fram̃ ad Lijkamans vexte med Alldrenum, so byriar oss ad vaxa i Trwnne og Astundan Dygdana, so hver af oss verde fullkomenn Madur, Eph. 4. v. 13. sa ed sie epter Mæling fullkomens Alldurs Christi: Col. 2. Enn sa sem ecke hefur þessa Hlute, hann er blindur seger S. Petur, 2. Pet. 1. og sier ecke langt; hann forgleimer Hreinsun sinna fyrre Synda; þar fyrer skulum vier einganveigen frammana i Syndunum, helldur skal Daude JEsu Christi vera i oss avaxtarsamur, so ad vier deyum fra Syndunum, enn lifum i Christo; annars er sw Hreinsun og Betalingur, fyrer vorar fyrre Synder, oss ad eingu Gagne. Ef vier laatum af Syndunum, giorum Boot og Betran, og trwum a Christum; þa verda oss allar vorar fyrre Synder kvittar giefnar: En þar sem vier laatum ecke af Syndunum, hvada Nafn sem þær hafa kuña, þa liggia þær, og allar adrar Synder a oss, og meigum lijda fyrer þær allar saman, i þeirre eilijfu Fordæmingu. So kann ein Manneskia, einasta fyrer saker Neidennar og Hefndargirndarennar, ad verda Fordæmd. Laate hwn af soddan, þa fær hwn Fyrergiefning fyrer saker JEsu Christi; enn giøre hwn þad ecke, þa er hwn blind, seger Heilagur Petur, og forgleimer Hreinsun sinna fyrre Synda.

Þetta

Þetta er nw ein miøg vigtug Orsøk, hvar fyrer vier eigum ad betra vorn Lifnad, og laata af ogudlegu Athæfe: Þvi þo HErrann Christur hafe daaed fyrer vorar Synder, og wtlagt fyrer þær omælanlegt Verd siins dyra Bloods, þa niootum vier þo ecke þeirrar hans Forþienustu, og eckert stodar hwn oss, nema vier giorum Jdran: Og þo ad øllum sie heited Kvittun Syndanna, fyrer HErrans Christi Verdskulldan, þa samt kiemur þad þo ecke þeim vid, sem eru vantrwader, og idrunarlauser; helldur einasta þeim sem giora Jdran og endurbæta siñ Lifnad; med þvi þad er riettviist; ad þær Synder fyrergiefest ecke, sem vier hugsum ecke umm ad fordast; helldur þær alleinasta, sem vier berum Angur fyrer, af innsta Anda: og so fullkomnast þad, sem Christur seger Matt. II. Faatækum verdur Evangelium bodad; þad er, þeim verdur Fyrergiefning Syndanna kunngiørd. Laatum sem einn hafe uñ mørg Ar lifad i Raanglæte og Agirnd, sem Zachæus; i Lauslæte og Saurliife, sem Maria Magdalena; i Reide og Hefndargirnd, sem Esau: Og sa hinn same fær nw ad heyra, ad hann skule vissulega laata af siinum Ogudlegleika, annars hafe hann eckert gagn af Christi Bloode og Dauda; og hañ þa audmyker

myker sig fyrer GUde, ber Hiartans Angur og Trega fyrer Syndernar, bidur umm Naad, og trwer a JEsum Christum, og asetur sier af fremsta mætte, ad siaa vid sodd- ann Syndum frammveges; þa verda honum allar hans Yfertrodslur, af skiærre Naad, an nockrar Forþienunar, alleinasta fyrer Dauda og wthellt Blood JEsu Christi, fyrergiefnar. Enn hver sem ecke einsetur sier ad afleggia Agirnd, Okur Drambseme, Lostagirnd, og adrar þvilijkar Vammer og Skammer, hann vænter forgiefins epter Fyrergiefningu sinna Synda, og a vijst ad pijnast fyrer þær i Helvijte eilijflega; þvi hann hefur ecke rietta Trw, sem hreinsar og forbetrar Hiartad: þar fyrer seger Heilagur Paulus, Gal. 5. ad þeir, sem þvjlijkt giøra, eignast ecke GUds Rijke; sem villde hañ segia: Aññad- hvert skal madur betra Lifnadenn, ellegar honum er eilijf Fyrerdæming bwen.

Þar sem ad finnst sønn Ummvendan til GUds, og riett Trw, þar er vijs Fyrergief- ning Syndanna og GUds Naad; þar sem GUds Naad er, þar er HErrann Christur: þvi an hans giefst eingeñ Naad; hvar Chr- istur er, þar er hans dyrmæta Forþienusta, hvar Christi Forþienusta er, þar er fullkomeñ Betalingur fyrer vorar Synder; hvar Be-

talingurenn er fyrer vorar Synder, þar er Riettlætingen; sie þar Riettlætingen, þa er þar Fridur og glod Samvitska; þvi Riettlæted og Fridurenn kysser hvert annad Psalm. 85. sie þar gladvær Samvitska, þa er þar Heilagur Ande; sie þar Heilagur Ande þa er þar Glede: þvi hann er Gladværdarennar Ande; sie þar Glede, þa er þar Uppbyriun eilijfs Lijfs: þvi eilijft Lijf er eilijf Glede.

Siaa þetta er Lioos þess eilijfa Lijfsens, fyrer þeim sem lifa i Christo, og daglegre Idran; hwn er Upphafed, eñ Daude JEsu Christi er Grundvollurenn. Hier a mote þar sem eingen Idran er, þar er eingen Fyrergiefning Syndanna: þvi sie þar eckert heilsusamlegt Augur og Trege i Hiartanu, þa er þar eingen Naad, sie þar eingen Naad, þa er ecke helldur Christur þar, sie ecke Christur þar, þa er þar ecke helldur hans dyrmæta Forþienusta; sie ecke Christi Forþienusta þar, so er þar ecke helldur neinn Betalingur fyrer Syndernar, sie þar eingen Betalingur fyrer Syndernar, so er þar ecke helldur Riettlæted, nie Fyrergiefning Syndanna; sie þar eckert Riettlæte, so er þar eingenn Fridur, eingen Sammvitskunnar Glede, nie Uppbyriun edur Forsmeckur eilijfs Lijfs, helldur einsamall Daude, Hel-

viíte, Fyrerdæming, og eilijf Myrkur. Þar fyrer er þad openbert, ad sa sem ecke epterfylger Christo i sijnu Frammferde, fyrer sanna Jdran, hann kann ecke ad frijast fra sijnum Hiartans Blindleika, og ef hann bæter ecke Raad sitt, þa fellur hann umm sijder i þau eilijfu Myrkur.

## Cap. XXXVIII.

## O-Christelegt Lijferne er Orsok til Vantrwar, til Falslærdooms Afvegaleidslu, og Forherdingar; item umm þa eilijfu og Raadarfullu Utvalningu.

Joh. 12.

Liooſed er litla Stund hia ydur: gaanged þvi a medan þier hafed Liooſed, ſo ad Myrkurenn yferfalle ydur ecke.

MEd þvi Christo og Trwnne verdur afneitad med Ogudlegum Lifnade, og næstum þvi burtskwfad, hvad skulum vier þa giora med hans Lærdoom? Hvad stodar hann oss þa? Þvi hans Lærdoomur Ord og Sacramenta eru oss til þess giefenn, ad þau skulu leida oss til Heilags Lijfernis, og ad vier af Ordenu og Sacramentunum skulum verda Nyfæddar, Heilagar og Andlegar Manneskiur, sem einn goodur Avoxtur af agiætu

agiætu Sæde. Sa er Riett-christenn, sem af Andanum, Ordenu og Sacramentunum er endurfæddur fyrer Christum, trwer a Christum, og lifer i Christo. Lijka sem Barned kviknar af Fødurnum, fyrer Gietnadenn, eins lijka fædest Madurenn i Andleganu maata af GUde og Christo fyrer Trwna. Eñ fyrer þad vier vilium ecke lifa epter Christi Lærdome, helldur skickum oss þar þvert a mote i voru Frammferde; hvernen kunnum vier þa ad vera fædder af Gude, og hvada gagn høfum vier þa af hans Lærdome? hvad gagnar oss hans Lioos, þar sem vier vilium gaanga i Myrkrunum? þar fyrer vijkur Liooſed i burtu, og Myrkurenn dynia yfer, sem eru: raanger Lærdomar, Villur og af Afvegaleidsla. Fyrer þessu hefur vor HErra tecked oss vara, segande: Sona korn, a medan þier hafed Liooſed, þa gaanged i þvi, so ad Myrkurenn høndle ydur ecke, þad er ad skilia, Villu-Lærdoomar, Afvegaleidslur, Blindleike, og Forherding. Hvilijk myrkur ad høndludu Pharaonem, Gydingana, og Julianum Trwar-Nijding, hver þo um sijder vard, fyrer straffed, i sialfs sijns Samvitsku þar um sannfærdur, ad sa Krossf-ste JEsus, sem hann hafde offookt og spottad, være sannur GUD, þvi hann sagde

sagde þess vegna: þw Galilæare hefur siigurenn unned: Enn það hefde vered honum hollara, hann hefde sagt: Miskuna þw mier, enn það gat hann ecke, vegna siins Blindleika og Forherdingar; þvi hann var bwenn fra sier að recka Naad HErrans Christi, og hafde afneitað honum.

Hvilijk Forherding eru þau skielfelegu Myrkur, sem griipa þa og hondla um̃ siider, sem ecke vilia i Lioosenu ganga, og hwn er þeirra Straff, sem giora Gis að Sannleikanum; eins og Pharao, segiande; Exod. 5. hver er sa Drottenn, að eg heyre hans Raust, og laate Israel lausann? Eg þecke ecke þann Drottenn. Þar fyrer maatte hann finna og formerkia Almætte þess sama Drottens: þvi GUD synde siina Makt og Styrkleika a honum, og liet hann verða með straffenu, so sem annað Skoðunar merke til Epterdæmes fyrer ollum Heimenum, so það yrde vitanlegt, að Madurenn megnade eckert a mote GUDe.

Eins liika þegar Gydingarner villdu ecke vera GUDs Raust hlyduger, þa slo hann þa með Blindu og Forherdingu, sem Moijses hafde laungu aður fyrerspaað: 5. Mos. B. 28. og 32. Ef þw villt ecke vera hlydugur Raustenne Drottens, þa mun hann slaa þig með Raadleysu, Blindleika, og Hiartans Sinnu-

Sinnuleyse. Og þad skiede og einnen, so sem Esaias vottar 6. v.9. Hvar af menn kunna ad alijkta, ad soddan Blindne og þverwd sie riettferdugt Straff fyrer Vantrwna, og Foroktun GUds og þess Himneska Sañleika; epter þvi sem Postulenn vottar 2. Thess.2. af þvi þeir hafa ecke medteked Kiærleika Sañleiksens, so þeir yrde hoolpner; þvi mun GUD senda þeim megnann Villudoom, so þeir trwe Lygenne, og verde aller dæmder, þeir sem ecke hafa trwad Sannleikanum, helldur høfdu Lysting a Raanglæteenu; Af þessu lærum vier, hvar fyrer GUD lijdur, ad þesskonar Blindleike og Forherding skule skie.

I Sannleika er sa illa farenn, og kann ecke ad komast aptur til rietta, sem GUD svipter sinne frammbodinne Naad, eins og Pharaonem og Julianum, sem adur er sagt. Fra þeim, sem GUD tekur sitt Lioos, hann hlytur vissulega ad raafa i Myrkrunum: enn hañ tekur þad ei fra neinum, utan þeim sem ecke vilia i þvi ganga, og ecke svipter hann neinn sinne Naad, nema þann, sem henne skwfar fra sier: þar fyrer seger Heilagur Paall skyrlega: Hann Miskunar sig yfer hvern, sem han vill, og forherder hvern, sem hann vill: Rom. 9. Enn nw vill hann miskuna sig yfer þa alla, sem hans Miskunseme vilia þeckiast; og forherda þar a mote

þa,

þa, sem Hans framinbodna Naad recka fra sier, og hafa ad Spotte, so sem Postulenn utþryckelega giefur ad merkia, þar hann seger til Gydinganna: Post. G. B. 13. þad byriade ad ydur skyllde GUds Ord fyrst segast; enn af þvi þier reked þad fra ydur, og halldeð ydur sialfa eilijfs Lijfs omaklega; siaa, þa snwum vier oss til Heidenna Pioóda; þa hiner Heidnu heyrdu þad glødduſt þeir, og vegsómudu Ord Drottens, og so marger urdu trwader, sem til eilijfs Lijfs voru stickader, þad er, so marger, sem ecke raaku fra sier Orded Naadarennar, sem ad er Medal til Trwarennar.

Þar sem Gydingar voru seker i þessu Forakte Ordsens, þa gaatu þeir ecke trwad; þvi hædstur GUd hefur eingann þann til eilijfs Lijfs fyrerhugad, sem rekur fra sier med Ogiede, hans Ord. Utvalningen til eilijfs Lijfs hefur skied i Christo, med þad slag, ad GUd tilbydur øllum sijna Naad, fyrer Evangelium, og hverier sem hana medtaka, þeir eru til eilijfs Lijfs fyrerhugader; enn þeir sem skwfa henne fra sier, þeir hallda sig sialfa overduga eilijfs Lijfs, þad er þeir giøra þad sialfer, ad þeir verda overduger eilijfs Lijfs; þeir wtelykia sig fra almennelegre GUds Naad; þeir wtslietta sitt Nafn af Bookenne Lijfsens, þad er, af Christo, og skwfa

skwsa fra sier GUds Orde, af sinne þverwd og Jdrunarleyse, so þeir kunna þar fyrer ecke trwader ad verda: enn þeir reka ecke alleinasta fra sier GUDS Ord, sem ecke vilia medtaka Lærdomenn um̃ Christum, hvilijker ad eru, Gydingar, Tyrkiar, og adrer Vantrwader; helldur og einnen þar ad auke, þeir sem ecke vilia hallda sig vid Footspor HErrans Christi, og ecke giefa sig epter hanns Heilaga Frammferde; þeir vilia ecke ganga i Lioosenu; helldur i Myrkrenu: þar fyrer hlytur GUd ad taka fra þeim sitt Sañleiks Lioos.

Eg em Lioos Heimsens, seger Christur Joh. 8. sa sem mier epterfylger, hann geingur ecke i Myrkrunum, helldur hefur hann Lioos Lijfsens. So fylger þad a epter, ad hver sem ecke epterfylger Christo i sijnu Lijferne, hann geingur i Myrkrenu, þad er, ratar i Villu, Blindleika, og Forherdingu. Giefum giætur ad þeim sem eru hiner Drambsømustu, Tignarlegustu, Vegleguustu, vijsustu, og Lærdustu i þessum Heime, hvernen þeir hrapa i stoorar Villur, verda forblindader og afvega leidder. Hver er Orsøken? er þad ecke þesse, ad þeir lifa ecke i Christo, og breita ecke epter hans hablesbada Lijferne? hvar fyrer þeir gieta ecke haft Lioosed Lijfsens

ens þetta er og einnen Orsøken, ad þar eru margar Afvegaleidslur og Villudoomar allsstadar i Heimenum, sem Postulenn Paall kallar Satans Verkaner edur Urriettingar, fyrer allra-handa lygelega Krapta, teikn og undur 2. Th. 2. sem alltijd vara meir og meir, følskum Lærdoome til stadfestu; med þvi øll Verollden er so sinnud ad hwn hirder ecke um̃ ad fylgia Christo epter i Lijfe og Lifnade, helldur Dioflenum. Þvi hvert Samfielag hefur Liooſed vid Myrkurenn, eda hveria Sameining hefur JEsus Christus og Belial, 2. Cor. 6. seger Paull; þad er Meiningen: sannarlegt Lioos Gudlegrar Þeckingar kann ecke ad vera hia þeim, sem lifa i Dioflenum, Myrkrunum, Drambsemenne, Agirndenẽ, Vellystingunum, og ødrum þvilijkum Løstum. Hver hann segest þeckia GUd; enn vardveiter ecke hanns Bodord, sa er Lÿgare seger Johannes I. Joh. 2. og þad er ecke Sannleikurenn i hønum; hvar madur kastar fra sier goodre Samvitsku, þar lijdur hann Skipbrot a Trwnne; og riett Trw er Heilags Anda Gaafa, sem flyr þa ogudlegu og andvara lausu. Þar fyrer kann ar, hverke ad vera sonn Trw, nie GUds þecking i þeim, sem lifa ogudlega. Þeir sem lifa epter Holldenu, edur laata Holldenn hafa hia sier Yferhond, þeir munu deya, seger Heilagur Paul-

us Rom. 8. þad er, þeir missa þad Andlega Lijf; þar fyrer kann þad sanna GUds Lijf, og GUds þecking ecke ad vera i þeim, so ad þeir þar fyrer leidast afvega. 1. Sam. 4. Þegar Syner Eli voru a døgum, foraktade Foolked Herrans Mat-Offur, og Ord Drottens var þa dyrmætt i Landenu: Hvar af kom þad, utann af Eli Sona Ogudlegleika, sem aat um sig, lijka sem annar Krabbe? Þegar Saul stioornade, hirdtu men eckert um Ørk Drottens 1. Kron. 13. Hvad munde þvi vallda, utan sa store Ogudlegleike hia Foolkenu, sem þa hafde yferhønd, vegna Sauls ogudlegrar Stioornunar. Ef vier vilium bijhallda Saaluhiaalplegre Trw og GUds þeckingu, þa meigum vier sleppa o-christelegu Lijferne, epterfylgia Christo, og vakna upp af Syndenne; so mun Christur lijsa oss med riettu Trwarennar Lioose.

Sa sem ecke geingur i Footspor JESU Christi, þad er, sa sem ecke stundar hans Kiærleika, Lijtelæte, Hoogværd, Polenmæde, og GUds Otta, han verdur afvega leiddur; Ef þad skiedur ecke i Wtvortis Jaatningu, þa skiedur þad þo ad minnsta koste i Hiartanu: Þvi hann geingur ecke a þeim Vege, sem leider til Sannleikans, helldur til Lygennar. Ef vier lifdum i Christo, ef

vier gengum i Kiærleikanum, og Lijtelætenu, ef øll Ydkun GUDs Orda giørdest einasta til þess, ad Hollded og vor Gamle Madur mætte deya, eñ Christur aptur a mot lifa, so ad vier i yferynnum oss sialfa, Hollded, Heimenu og Diøfullenn; þa yrde þar ecke so mikel Spilling i Lærdoomenum, og þa nidurfiellu aller Villudomar sialfkrafa.

Hver var Orsøken, ad þeir 400 Falls-Spaamenn leiddu Achab afvega, og yfertøludu hañ med sijnum lygum, ad byria Herfør i mote Syrlendskum, annad eñ hanns ogudlega og tyranniska Frañferde? Þeim falska Lifnade fylgde epter soddann eitt falskt Lioos, ad hann trwde Lygunum, sier sialfum til Fordiørfunar. Sa sannorde Spaamadur Micheas, sagde hønum berann Sannleik, og ad hañ munde falla i þvi Strijde; eñ þvi villde hañ ecke trwa: Fals-Spaamennerner søgdu hañ munde komast heim aptur med Fride; þad var Lyge, þo trwde hann þvi: Eñ hañ kom med þad slag heim, ad hundarner sleiktu hans Blood, so sem hañ hafde forþienad, 1. Reg. 21.

Þetta er þad sem hiñ Heilage Paall seger: 2. Cor. 4. GUD þessarar Veralldar hefur forblindad Hugskot þeirra Vantrwudu, So þeir sia ecke þad klaara Evangelii Lioos. Og hia Esa. 29. Cap. Hootar GUD ollum Hræsnurum,

um, sem tala fagurt um̃ Christum, og hans Lærdoom med Munnenum, eñ afneita hønum i Verkunum; ad hañ vilie senda þeim Falls-Spaamenn, sem þa skule sviikia. Af þvi, seger hann, ad þetta Foolk nælgäst mig med siinum Muñe, og heidrar mig med siinum Vørum, eñ þeirra Hiarta er laangt fra mier; þa skal Speken þeirra Spekingaña undergangá, og Skilningur þeirra Vitringanna hyliast. Drottenn mun tilbyrgia þeirra Augu; þeirra Spaameñ, og þeirra Høfdingia, sem Siooner siaa, mun hann blinda, og Ord Drottens mun vera, sem innsiglud Book, sem ecke kann ad lesast. Um̃ Gydinga talar Postulenn sierdeilis, 2. Cor. 3. ad þar haange ein Skyla fyrer þeirra Hiarta, iñ til þessa dags; þegar Moses og Spaamennerner verde lesner, so ad þeir kunne ecke ad finna edur sia Messiam i þeim; eñ ef þeir snere sier til Drottens, þa yrde Skylan fra þeim teken.

## Cap. XXXIX.

### Til ad biihallda Heilogum Lærdoome og GUds Orda Hreinleika, er ecke einasta þorf a Spurningum og Disputatium, sem og ymeslegum goodum Bookum, helldur og einnen þar ad auke, sannre Jdran og Christelegum Lifnade.

2. Tim. 1.

Blijf þu vid Form heilsusamlegra Orda, sem þu hefur heyrt af mier, i Trwnne og Kiærleikanum i Christo JEsu, þad gooda, sem þier er tiltrwad, þad vardveit þu, fyrer Heilagann Anda, sem i oss bygger.

ÞAr er stoor Naudsyn til, ad þeim hreina Lærdome og Sannleika Christelegrar Trwar, veitest Vernd og Forsvar, a mote vondum Kiennendum og Villumonnum, og ad þeirra falske Lærdomur verde til baka rekenn; þvi i Gamla Testamentenu, finnum vier noog Dæme til þess, ad Spaamennerner hafa skarplega predikad, a mote Falskiennendum og Af-Guda-dyrkurum. So hefur og Christur i Nya Testamentenu, reked til baka þa Skriptlærdu og Phariseos, og stappad til a þeim Munnenn. Gudspiallamadurenn Johannes hefur og geinged þañ sama Riettlætesens Veg, og skrifad sijn Gudspioll a mote Ebioni og Cerintho; enn sijna Openberingar-Bok a mote Villu-Samkundu Nicolaitanna. Vier siaum og einen, hvad alvarlega ad Postulenn Paall, hefur teked sier fyrer ad forsvara, þær Hofudgreiner, uñ Riettlæte Trwarennar, uñ Good-Verkeñ, uñ Upprisu Framliđenna, uñ Christelegt Frelse, og þessu lijkt, a mote Fals-Postulunum.

Slijk-

Slijkum Epterdæmum, hafa þeir Heilegu Byskupar og Fedur, i þeirre Fyrstu Christne kostgiæfelega eptersylgt: Þeir hafa, med mørgum vigtugum og velgrundudum Frædum, hraked bæde þau Heidnu og Skwrdgodafullu Trwarbrogd, sem og einnen Villudoma sialfra Villumannanna, sem upp hafa rised. J þeirre Meiningu hafa og einnen þær almennelegu Raadstefnur vered stiptadar, af þeim Haaloflegu og Gudhræddu Keysurum, a mote Høfud-Villu-mønnunum, bæde Arrio, Macedonio, Nestorio og Evtychi. Og hvad merkelegt Slag og Afall, ad Papiskan, og adrer Villudoomar hafa feinged fyrer nockrum Tijmum, af Motmæles-Skrifum þess yppvarlega Lærefødurs Lutheri, er flestum Mønnum alkunnugt. So er þar þa eingenn Efe a, ad Gllds Orda Kiennendum byriar ad skrifa, predika og Disputera, a mote Villu-mønnum og sølskum Lyge-Meisturum, til ad hallda vid Magt hreinum Gllds Lærdoome; so sem Postulenn Paall hefur boded, ad avijta þa skarplega, sem i mote mæla, Tit. 1. Eingu ad sijdur hefur soddann allt til skammra stunda storum misbrwkad vered, so ad Gudlegt Lijferne, sw sanna Jdran, Gudhrædsla og Christelegur Kiærleike, er fyrer margar Disputatiur og Skrif-deilur, mestann vart

under lok lidenn: Þvi menn hafa giefed sig so miøg epter hvilijkum Prætum og Disputatium, eins og sa Riette Christendoomur være mest innefalenn i mørgum ordføgrum Strijds-Bookum, og ecke i þvi, ad Mønum byriade, epter Heilögu Evangelio, ad hafa rietta Trw, og færa Heilagann og Christelegann Lifnad.

Giefum giætur ad Epterdæme Spaamannanna, Postulanna, og siaalfs GUds Eingietens Sonar: Þeir hafa ecke einungis staded ørduglega a mote følskum Spaamonnum, Fals-Postulum og Skwrdgodafullre GUds Dioonustugiørd, helldur og einen reked hardt epter um Jdranena, og Christelegt Framferde: Þeir hafa med skørpum Aviitunar-Predikunum bevijsad, ad med Jdrunarleyse og ogudlegu Framferde, yrdu Trwarbrøgdenn og GUds Dyrkun nidurbrotenn; Christnen yrde eydeløgd, Lønd og Rijke med Hwngre, Strijde, og drepsoott fordiørfud; so sem Raunen hefur þar um opt vitne giefed. Hvad predikar Spaamadurenn Esaias añad fyrer Gydingunum, i sinnar Bookar 5. Cap. eñ þetta, ad med þvi Vijngardur Drottens færer eingen good Vijnber af sier, helldur einsømul Ville-Vijnber; þa hafe hærstur GUd asett, ad setia hañ i eyde. Þetta syner oss klaar-

klaarlega, ad ogudlegt Athæfe er Tilefned, hvar fyrer GUd take fra oſſ ſitt Ord.

Sømu Meining hafa Ordenn Frelſarans, hia Johañem 12. þar hann ſeger: *Ganged a medan þier hafed Liooſed, ſo Myrkurenn høndle ydur ecke.* Hvad er þad annad, ad gaanga i Liooſenu, helldur enn ad breita epter Lijferne JEſu? Eda hvad er þad, ad vera gripenn af Myrkrunum, annad enn ad miſſa hreinann Lærdoom, og þecking Evangelii? Hier af er liooſt, ad eingenn kann upplyſing ad faa af Sannleikans Liooſe, nema hann giøre ſanna Jdran, og fære heilagt Frammferde. Þvi Heilagur Ande, ſem er Hiartnanna Upplyſare, flyr fra þeim ogudlegu og andvaralauſu, og giefur ſig i Saaler þeirra Heilogu, hveria hann giorer ad GUds Vinum og Spaamønnum. *Otte Drottens er Upphaf Viſkunar,* ſeger ſa 111. Pſalmur. Þar fyrer, er og einnen Ogudleikenn, Upphaf Faaviſkunar.

So ſiaum vier þa, ad ſannarleg Þecking Chriſti, og hans Vidurkienning, ſo vel ſem hreinn Lærdomur, er ecke alleinaſta i Ordum innefalenn, helldur i Verkum, og heilogu Frammferde. Heilagur Paall ſeger þeſſ vegna til Titum 1. Cap. um þa ogudlegu: *Þeir ſegaſt þeckia GUd; enn afneita þvi med Verkunum, med þvi GUD hefur Andſtygd*

a þeim, og þeir eru til allra goodra Hluta ostickanleger. Af þessu er auglioſt, ad Christo verdur ſo vel afneitad med ogudlegu Framm-ferde, ſem med Ordum; hvad S. Paall giefur og ſo ad merkia, þar hann enn aptur ſeger, um̃ þa o-gudlegu og vantrwudu 2.Tim.3. þeir hafa Skin Gudræknennar, enn hennar Krapte afneita þeir; og hvernen ſkyllde ſa riette-lega þeckia Christum, ſem einga Vijsbend-ing þar til giefur i Verkunum? Sa ſem alldrei ſialfur hefur ſmackad, og funded iñra i Hiart-anu Christi Lijtelæte, Hoogværd, Polenmæde, og Kiærleika, hañ þecker ecke Christum riette-lega, og hvernen ſkyllde hann, nær Hætta er a ferdum, medkienna hann? Hver ſem vidurkienner Christi Lærdom, og fylger ecke hans Lijferne, hann geingur vid Christo ad halfu leite: og hver ſem predikar einaſta wt af Christi Lærdome, og ecke af hans fram̃-ferde, hann predikar Christum ad helminge. Umm Trwar-brogdenn hafa adſkilianlegar Spurningar, og Disputatiur halldnar vered, og margar Bækur ſkrifadar; enn ecke nærre ſo margar umm heilagt Lijferne. Jafnvel þo Prætu-ſkrifenn kuñe ad uppbyggia Lær-domenn, þa er þo þeim Sanna Christendom og gudlegu Lijferne lijted þar med þient; þvi hvad er Lærdomurenn an Lifnadarens, añad enn ſo ſem avaxtarlauſt Trie? J Sannleika:
hver

hver sem ecke fylger Christo epter, i hans Lifnade, hann fylger hønum ecke helldur epter i Lærdomenum; med þvi Hofudpartur Christelegs Lærdooms, er Kiærleikurenn af hreinu Hiarta, godre Samvitsku og omeingadre Trw 1. Tim. 1. hier af kiemur þad, da margur kann ad tala miked aheyrilega umm þa Trwar Articula, sem eru i þrætu, so hans Ræda hefur miked Allit; enn i Hiartanu er hann næsta vondur og hreckvijs, fullur af Hofmood, Ofund, og Agirne, so ad sa hinn same kann ad vera verre og skadlegre, enn eiñ Orma Konungur edur Hoggormur. Heilagur Paulus setur, ecke an Orsaka, Trwna og Kiærleikann til samans, þar hann seger til Timotheum, ad hañ skule blijfa vid þad wtþryckelega Lærdooms form uñ Trwna og Kiærleikann; og vill þar med sijna, ad Lærdomurenn og Lifnadurenn skal ad øllu-leite samstemma jafnvel þo vier ecke kiennum, ad Saaluhiaalpen faaest fyrer vora krapta og Froomleika, (þvi vier verdum vardveitter i Guds Krapte, fyrer Trwna til Saaluhiaalpar) 1. Pet. 1. samt er þad augliost, ad fyrer ogudlegann Lifnad verdur Heilagur Ande burtrekenn, med øllum sijnum Gaafum, a medal hverra ad ei eru hinar minnstu, Trwen Peckingen, Skiln-

ingurenn, og Speken edur Vijsdoomurenn. Hvernen kañ þa Sañleike, þess hreina Lærdoms ad vardveitast, fyrer utan heilagt Framferde? Og þess vegna kunna þeir ogudlegu, sem ecke epterfylgia HErranum Christo, einganveigen ad upplysast med þvi sanna Lioose. Hier þvert a mote, þeir sem i Lioosenu gaanga, þad er þeir sem feta epter HErrans Christi Foot-sporum, þa alleina upp lyser þad sanna Lioos, sem er Christur, og vardveiter fyrer allre Villu: þar fyrer hefur sa gamle Kyrkiu-Læremeistare Taulerus sagt: Strax sem madurenn giefur sig allann Gude i valld, afneitar sijnum eigenn Vilia, og strijder a mote Holldenu, þa tekur Heilagur Ande til ad upplysa hann, og bygaafa med sonnum Lærdoome; þvi þa helldur madurenn, i GUds Auglite, sannarlegt Sabbath edur Hvijldardag, i sijnu Hiarta, so ad vondar Girnder, Vilie og Giorningar, verda dempadar og liggia i stille. Þetta a ad skiliast um daglega Upplysing Mannsens i Naadarennar Stande, og Aukning Gaafnanna i þeim trwudu epter Ummvendanena.

Hia Joh 14. Cap. seger vor HErra, ecke an orsaka. Eg em Vegurenn, Sannleikurenn og Lijfed; hann nefner sig fyrst Veigenn, af þvi hann hefur vijsad oss Veigen: enn hvern-

hvernen hefur hann vijsad oss Veigeñ? Ecke
einasta med sijnum Lærdoome, helldur og
einnen med sijnu lijtalausu Framferde: Þetta
hans Lijf og Lifnadur, færer oss og leider
til sannrar Jdranar og Ummvendunar, til
Sannleikans og Lijfsens, i hveriu ad sa gier-
valle Christenndoomur er innefalenn, i hveriu
allar Bækur og Bodord eru grundvollud.
J þessare Lijfernis-Book JEsu Christi, hofum
vier noog ad lesa og studera uppa, alla vora
Lijfdaga, þad er ad skilia, uppa sanna
Jdran, uppa Vonena, uppa Hoogværdena,
uppa Þolenmædena, uppa Audmyktena,
uppa Bænena, og Elldhrædsluna, uppa
þann rietta Veg til Sannleikans og eilijfs
Lijfs: og þetta er sa miooe Vegur og þad
þraungva Port, a hvert faaer rata, og sw
einasta Lijfsens Book i hverre faaer studera,
og hwn innehelldur þo allt hvad einn Chr-
istenn madur hefur naudsyn fyrer; so vier
þurfum ecke vid annara Booka til Saalu-
hialpar: Þar fyrer er og Heilog Ritning, skrif-
ud i faaum Bookum, uppa þad vier skulum
siaa ad Christendoomurenn er ecke innefalenn
i margfolldum Skrifum, helldur i Lifnade,
Trw, og Epterbreitingu JEsu Christi;
hvar umm Salomon og so talar i Predikar-
ans Bookar 12. Cap. segiande: Þar er ein-
genn

genn Ender a þvi, ad giøra margar Bækur; og mikell Lestur er Lijfs leiding: laatum oss heyra Innehalld alls Lærdoomsens: Ottastu Gud og halldtu hans Bodord; þvi þad er allra manna Skyllda.

Hvad er þad og einnen, ad Ovinurenn saaer Illgresenu, i bland Hveitesens, a medan menn sofa? Eckert annad enn þetta, ad hann saaer giarnan Falslærdomsens Sæde, a medan Foolk sefur i Andvaraleyse og Ogudlegleika, og menn eru druckner af Elsku til þessa Heims, hafa meire ummhyggiu fyrer þvi tijmanlega og fallvallta, enn þvi eilijfa og oforgeingelega; þvi þa hefur Diofullenn þañ besta hentugleika, til ad wtbreida raangann og ogudlegann Lærdom. Þeir menn sem fleckader eru af ymsum Vømmum og Skømmum, eru hendtugur Akur handa Satan, til ad sa i Villudoomum, Falskienningum og Tviidrægne. Fyrer Hofmood og Þotta, hafa bæde Einglar og Menn mist þad sanna Lioos; Af Drambseme hafa allar Villur siñ Uppruna: hefde Satan og Adam hallded vid Audmyktar Frammferde Christi, þa hefde eingen Afvega leidsla komest inn i Heimenn. S. Paall seger Eph. 5. Vakna þw upp, sem sefur, so mun Christur upplysa þig; þvi eingen Upplysing kann ad skie, nema þvi ad eins, ad madur uppriise af Svefne Syndanna; þad

er

er af Jdrunarleyse, Andvaraleyse, og Ogud-
legleika; þar fyrer stendur þar og einen i Giorn-
inga B. 2. Cap. Snwed ydur, og munud
þier ødlast Heilags Anda Gaafur, og hia Joh. 14.
Heimurenn kann ecke ad medtaka Sannleikans
Anda, Enn hvad er Heimurenn annad, enn
þeir, sem lifa i honum ogudlega? og hvad er
þad, sem vor HErra seger, af þeirra Avøxt-
um meige þier þeckia þa? Ecke annad, enn ad
riettrwader Menn, þeckiast af þeirra Lijfernis
Avøxtum; og ecke þar af, ad þeir hafa full-
ann Munnenn af Glldræknenne, og segia:
HErra, HErra; þvi þeir Falschristnu fegra
sig med Skine þess hreina Lærdooms, so sem
med ødrum Saudaklædum, jafnvel þo þeir
sieu i sijnum Hiørtum ecke neitt sijdur enn
Christner. Ad vijsu byriar eingum ad dæma
um̃ eins Lærdoom af hans Lifnade, og hafa
þa Innbyrling, ad Lærdoomurenn sie þar
fyrer raangur og falskur, ad hann finnst hia
þeim, sem færa slæmann Lifnad: So sem
Endurskijrarar og Papistar dæma raanglega
um̃ vorn Lærdoom, þar af, ad marger a
medal vor lifa illa, so sem a medal þeirra.

Þad fylger einganneigenn a epter, ad
Lærdoomurenn sie þar fyrer slæmur og osann-
ur, þo ad þad Foolk, sem hann hefur, skicke
sier illa, i sijnu Frammferde: þvi þa hefde
Christ-

Christur og Postularner maatt hafa kient þad, sem var rangt og oheilnæmt, med þvi, þad voru margar vondar Manneskiur a þeirra døgum, sem þeir høfdu vid ad sysla. Eingu ad siidur er Lifnadurenn eitt Merke og Teikn a Mannenum til þess, hvert hann er Falschristenn eda Sannchristenn: life hañ ødruvijse, enn hann kienner, þa trwer hann ad sønnu riett; enn fleckar þo sijna Trw med ogudlegum Lifnade: Alla þa sem eru med soddan hætte, nefner HErrann Christur Falschristna, avaxtar laus Trie Matt. 7. til einkis nyt nema til ad brenna i Ellde. Ad siidustu, med saaum Ordum ad segia: þa er þad sw rietta Trw, sem verkar fyrer Kiærleikann; hvar med madur verdur ny Skiepna, fædest ad nyu og samteingest vid GUD; hvar med Christur byr i oss, lifer og verkar i oss, hvar med GUDs Rijke uppbyggest i oss; hvar med H. Ande hreinsar og upplyser vor Hiørtu. Hier um vitna adskilianlegar Gyllene-greiner Heilagrar Ritningar, so sem er, a medal annara, þesse, sem stendur 1. Cor. 6. Sa sem helldur sier vid Drottenn, hann er einn Ande med hønum; Enn hvad er þad, ad vera einn ande med Christo, utan ad hafa sama Sinne, Hiarta, og Giedsmune, sem Christur? og þad er þad nya heilaga Edla-Lijferne Christi i oss. Aptur seger Postulenn: 2. Cor. 5: Ef

nockur

nockur er i Christo, þa er hann ny Skiepna enn hvad er þad ad vera i Christo? ecke alleinasta ad trwa a hann helldur og einnen ad lifa i hønum. Pad sem Drotteñ seger: Hos.2. Eg vil trwlofa mig þier ad eilijfu, eg vil trwlofa þig mier i Trwnne; hvad er þad añad, eñ ad manneskian verdur alldeilis samteingd vid Christum i andlegann maata? so ad hvar Trwen er, þar er HErrann Christur; og hvar Christur er, þar er hans Heilaga Lijferne; hvar Liferned Christi er, þar er Kiærleikurenn; hvar Kiærleikurenn er, þar er Gud sialfur, þvi Gud er Kiærleikurenn, og þessvegna er þar einnen Heilagur Ande. So maa þa allt þetta vissulega vera til samans, og haanga hvert vid annad, so sem Høfuded vid Limena, og ein verkande Orsøk, vid þad, sem af henne hlytur ad koma. Þvilijk Trwarennar og Lijf ernesens Sameining verdur wtmaalud af Postulanum Petre, 2.Pist.1. þar hañ seger: Hafed þar alla kappsmune a, og audsyned i ydvare Trw, Dygdena; og i dygdeñe Vitsmunena; og i Vitsmununum Hoffsemena; og i Hoffsemenne Þolenmædena; og i Þolenmædenne Gudræknena; og i Gudræknenne Brodurlegann Kiærleika; og i Brodurlegum Kiærleika Almennelegann Kiærleika: Þvi ef þetta er nooglegt hia ydur, þa mun þad ecke laata ydur vera Lata, nie oavaxtar sama i Vidurkienningu Drottens vors JEsu Christi;
enn

enn hann, sem þetta hefur ei, sa er Blindur, og faalmar med hendenne, og forgleimer hreinsun sinna fyrre Synda. J þessum Ordum syner Postulenn skyrlega, ad hia hverium ecke sie, Sameining Trwarennar, og Christelegs Lifnadar, hann þecke ecke Christum riett, hafe falled fra Trwnne og gaanga i Myrkrunum þvi had er sw rietta Trw, fyrer hveria allur madurenn verdur lifande og endurnyadur i Christo, so ad hann lifer og bliifur i Christo, og Christur i honum.

# Cap. XL.

## Nockrar nytsamlegar Reglur, hvernen Madurenn a ad skicka sier i siinu Christelegu Frammferde.

1. Tim. 4. v. 7. 8.

Ydka þig sialfann til Gudrækne: Þvi Gudhrædslan er til allra Hluta nytsamleg; hafande þessa Lijfs fyrerheit, og so hins epterkomanda.

ÞEsse Maalsgrein er stutt wtmaalan Christelegs lifnadar, og kienner oss, hvad einn Christenn madur eige sierdeilis ad stunda alla siina Liifdaga, sem er Gudrækne, hver ed i sier innebindur allar Christelegar Dygder og Mannkostu, og leggur Postulenn þar til twær vigtugar Orsaker: Sw fyrre er þetta; ad

ad Gudrænen er til allra Hluta nytsamleg. Þvi þegar GUds Otte folger øllum vorum Jþroottum, Ordum, og Verkum, þa giører hann þau øllsamann good, og fører med sier GUds margfalldann Vijsdoom. Aunnur Orsøken er sw, ad Gudhrædslan a von a Launum, bæde i þessu Lijfe og ødru: J þessu Lijfe skiedur þad med þvi mote, ad GUD koronar þa froomu med sinne Naad; so sem vier høfum Dæme til a Joseph, Daniel, og ødrum fleirum; enn i epterkomanda Lijfe med þad slag, ad þar uppskiera menn Blessunena an aflaats.

I Þo þw ecke kunner ad lifa so fulkomlega, sem GUds Ord wtheimter, og þw giarnan villder, þa skalltu þo alltijd hiartanlega þier þess oska, og laata þig alltijd þar epter laanga, ad þw kunner þad ad giora; þvi soddan heiløg og alvarleg Girnd og Epterlaangan þocknast Gude vel, og hann medtekur þad fyrer fullt: Þo skalltu alltijd kroßfesta Hollded, og lijd þvi ecke, ad þad faae ad drottna, edur hafa Yferhond.

II. J øllu þvi, sem þw þeinker, talar eda giører, þa kostgiæfdu ad vardveita þitt Hiarta hreint, og þijna Samvitsku, og saurga þig ecke med Draumbsømum Hugrenningum, Ordum og Verkum, ecke helldur med

Hatre, Reide, og þvijlijkum holldlegum og dioſullegum Athøfnum; þvi med ſoddann hætte verdur þitt Hiarta oped og ǿndverdt fyrer Dioflenum, eñ tilbyrgeſt fyrer Gude.

III. Stundadu þar til af fremſta mætte, ad þu kunner ad bijhallda Frijheitum þinnar Saalar oſkiertum, ſo ad þw giorer hana ecke ad þye og þræl ſkapadra Skiepna, med oſkickanlegre Girnd til jardneſkra Hluta. Þviad Saala þijn er ypparlegre, eñ allur Heimurenn, þvi ſkyllder þw þa giora hana, undergiefna Þrældoome ſlæmra og forgeingelegra Hluta, og feſta þitt Hiarta vid þad, ſem er faanytt og einſkisverdt.

IV. Varaſtu koſtgiæfelega þeſſa Heims Hrygd, Sorg og Hugar hrelling, þvi hwn aflar Dauda, og kiemur af Agirnd, Øfund og aafergelegre Hyggiu, fyrer ſinne Næringu og Abata, hvar med giarnan fylgeſt Vantrw og Oþolenmæde: Enn elſkadu helldur þa Hrygd ſem Gude þocknaſt, hver ed ſtendur af Umþeinkingu þinna Synda og þeſſ Helvijtſka Straffſens: Þvi þad er heilſuſamleg Hrygd, ſem verkar Betrun til Sæluhialpar, hvertar eingann idrar, ſem Poſtulenn kienner i 2. Cor. 7. helldur fæder af ſier Frid og Fognud i Gude; ja ad vijſu; eingann mann a ad taka ſaarara nockurt Tioon veralldlegra Hlute enn ſijnar Synder. V.

V. Ef þw treyster þier ecke til, ad bera þinn Kross med Glede, so sem ber ad vera, þa skalltu þo taka hann uppa þig med Audmykt og Þolenmæde, og laattu alltijd GUds Forsioon og Vilia vera þijna Huggun: Þvi GUds Vilie er jafnan hid besta, og leitar i øllum Hlutum epter vorre Velferd og Saaluhialp: Þar fyrer vilie GUd laata þig vera Hryggvann eda gladann, Faatækann eda Rikann i Anda, Nidurlægdann eda Upphafenn, Heidradann eda Foraktadann; þa vit fyrer vijst, ad þad er þier alltsaman gott, og hønum þocknast ad laata svo vera: Hvad hellst sem hønum þocknast, þa laattu þier þad og so þocknast, og vera þijna Huggun, adGUd ser med þig, so sem hønum er giedfelldt, og hann þar med leitar epter þinne Velferd. Øll Verk GUds eru good, seger Syrach, 39.Cap. og David i Psalm. 145. Riettlaatur er Drottenn i øllum sijnum Vegum, og Heilagur i øllum sijnum Giørningum. Þad er laangtum betra, ad þw laater GUd alltijd fullkomna sinn Vilia i þier, sem alltijd vill þier hid besta, helldur enn þw framgaanger epter þijnum eigenn Vilia, sem er af Naattwrunne ætijd hneigdur til hins illa.

VI. Þær Himnesku GUds Hugganer og Naadar Innføll Heilags Anda, medtak þw

 med

med audmiwku Packlæte; enn take HErrann fra þier sijna Hugsvolun, þa skalltu vita ad Holldsens Deyding er þier nytsamlegre og betre, helldur enn Fognudur Andans: Þvi oss sem erum Syndunum underorpner, er þad laangtum hollara, sem færer med sier Sorg og Hrelling Hiartans, enn Fognudur og Lijsteseme; þvi marger falla i andlegann Hofmood og Drambseme, sem hafa Nægd af andlegum Huggunum. Drottenn veit best hvad einum og sierhverium þienar, og hveria hann vill leida um̃ þann fagra Lioosens Veg, sem er fullur, af Himneskre Huggun og Glede, og hverium þad hagar betur, ad hann fære þa i giegnum þann ogreida, orduga og klwngrootta Stijg til eilijfs Lijfs. Þw skallt ætijd þeinkia, ad þier sie þad miklu hollara, ad gaanga med þeim Hætte inn til Lijfsens, sem GUddoomleg Speke hefur tilætlad, enn þinn eigenn Vilie og Velþocknan æsker: Betre er Hrygd enn Hlaatur, seger Salomon Pred. 7. Cap. þviad hiartad forbetrast vid Hrygdena: Vitra manna Hiørtu eru þar sem Hrygden er; enn Faavijsara manna Hiørtu; þar sem Gleden er.

VII. Kunner þw ecke ad bera fram̃ fyrer GUd so stor og mikel Offur, Andakt, Bæner, Packargierd, og annad þvilijkt, sem þw annars villder, þa ber þo frammfyrer

hann

hann, þad þw hefur og megnar, og þar til goodann Vilia, heilaga Girnd og Epterlaangan til þess, ad þijn Þioonusta meige hønum vel þocknast fyrer saker JEsu Christi. Þvi þad er og stor GUds Gaafa, þegar madur hefur slijka Astundan, Girnd og Hiartans Epterlaangan, til ad giøra sijna Skylldu, og þad þocknast GUde miked vel. Og so stoor sem vier giarnan villdum, ad vor Audakt være, og þackargiord skyllde vera fyrer Gude, so stor er hwn og so fyrer hønum, ef vier annars strijdum a mote Syndunum, og af fremsta Mætte stundum epter þvi hinu gooda, og Verkum so vora Saaluhialp med Ugg og Otta. Þvi þo GUd epter Logmaalenu wtheimte af oss fullkomna Hlydne, epter skarpasta Riette, samt hefur hann þo, epter Evangelio og Naadarennar Saattmaala, Medlijding med vorum Breyskleika: Hann alijtur i þvi vorn godann Vilia og Asetning, og utheimter ecke neitt annad af oss, epter sijnum Fridar Saattmaala, enn þad, sem hans Naad i oss verkar. Vier kunnum ecke helldur ad laata hønum i tie, meira enn hann hefur oss siaalfur giefed, hvad hann og einnen i Naad og Miskun af oss medtekur.

Þo skalltu æ og jafnan bidia þinn Herra, JEsum Christum, ad hann med sijnu eina

fullkomna Offre, vilie giora allar þijnar Saaf-ur og Offur fullkomenn. Þvi i hønum er allur vor Fullkomlegleike: Enn i oss sialfum er ecke annad, enn Ofullkomlegleike. Seg þar fyrer innelega af Hiarta: O! Goode GUd og Fader, medtaktw mijna Andakt, mijna Trw, Bæn og Þackargiørd, i þijnum Elskulega Syne, og virdtu ecke þetta so, sem þad er i sialfu sier, helldur epter Fullkomleg-leika Sonar þijns JEsu Christi, so muntu laata þier þad velþocknast i hønum, sem þad være fullkomed; Minn Sæte Endurlausnare mun leggia þad til anægiannlega, sem mig vantar. Nær vier so giørum, fær vor Gud-rækne, Bæn og Andakt stoorann Verdugleika, Fegurd og Vegsemd af Christi Forþien-ustu, hverju sem hwn er annars i sialfre sier veik, oskijr og ofullkomen. Lijka sem eitt faatækt Barn er næsta oasiaalegt, þegar þad er naked, ohreint, og illa til fara; enn ef þad er þveiged, færti hrein Klæde, og prwdbwed, þa verdur þad øllum ad Asyndum þægelegt: Eins eru øll þijn Verk, þw Christenn madur, i sialfum sier eckert; enn ef þau prydast med Christi Fullkomlegleika, þa verda þau føgur og þacknæmeleg fyrer Gude. So sem þad reiknast miøg somalegt fyrer Mønnum, þeg-ar eitt Eple verdur frammbored i þeirre Skaal,

sem er af Gulle edur Silfre: Pvi jafnvel þo Eplenn sialf, verde ecke þar fyrer betre, þa verda þau þo þægelegre: Eins lijka verda vorar Bæner, Andakt, og þackargiordir i Christo, fyrer GUde þeckar og vel af hønum medteknar, þvi hann giørde oss þægelega i sijnum Elskulega Syne.

VIII. Synder þijnar og margfalldleg Afbrot skulu giøra þig næsta hryggvann, enn þo ecke ørvæntenn. Sieu þær margar, þa settu þier i þaancka, ad Naad GUds er miklu meire, og hia hønum noogleg Endurlausn Psalm. 130. Sieu þær storar, þa þeinck-tu, ad Forþienustan Christi er langtum stærre, og segdu med David af Psalm. 51. Miskuna mier GUd, epter mikellre Miskunseme þinne; og þegar þw idrast Syndanna, fyrer Guds Naad, og mæner uppa JEsum i Trwnne, og reider þig uppa hann, þa idrar GUD einnen Strafssins. Epter þessa þijna Gudlega og Heilsusamlega Hrygd, kiemur Kvittun og Fyrergiefning Syndanna, og þad skiedur so opt, sem þw af Hiarta andvarpar til GUds: Lijka sosem sa Lijkþraae læknadest a Augabragde, þegar hann sagde til Christum Matth. 8. Drottenn, ef þw villt, þa gietur þw mig hreinsad, þvi vor herra svarade; eg vil, vertu hreinn; eins sliootlega hreinsar GUd þig hid innra, segande: Vertu

hughrauftur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. Þesse lijkamleg Hreinsun þess Spitelska, er so sem einn Speigell uppa innvortis andlega hreinsun Saalarennar, og Syndanna Fyrergiefning. Enn af þessare GUds stooru Miskunseme skyllde eingenn taka sier Orsøk, til ad syndga i Andvaraleyse, helldur ad elska og vegsama GUD þvi framar, og segia alltijd af insta Hiartans grunne: **Lofa þu Drottens Saala mijn, og allt hvad i mier er, hans Heilaga Nafn: Hann fyrergiefur þier allar þijnar Synder, og græder allar þijnar Meinsemder.**

IX. Hvad stooru Baktale Haadung og Ranglæte sem þu fær ad mæta, þa skalltu ecke verda vid þad oþolennmoodur, reidur og hefndargiarn, helldur þeink, ad soddan er til ad reina þitt Hiarta, med hverin GUd vill ad auglioſt verde, hvad i þvi dylst, hvert þad er Hogværd og Lijtelæte, ellegar Drambseme og Heiptrækne. Hvilijkann mann hver hefur ad geima, kann ad siaast, þegar hønum er a moote giørt: Sie þar til Audmykt og Hoogværd hia þier hid innra, þa ber þier med Giedpryde ad yfervinna þa Haadung, sem þier er giørd; þui þu skallt hallda þvilykt fyrer Typtan þess hins Almattuga. So giørde David, þegar Simei joos yfer hann Skammaryrdum, segiande: Drottenn hefur

bod=

boded hønum og sagt, Bølfa þw David. 2. Sam. 16. Þess er og ad giæta, ad forakt og Forsmaan er Partur af Christi Pijnu, sem hans rietter Limer meiga þola og lijda med honum, sinu Hofde; soad þess vegna stendur i Pistlenum til Hebræos, um Christum Hebr. 13. Laatum oss gaanga wt med hønum, og bera hans Vanvirding. Siaa, med hvad hogværu Hiarta Christur leid sijna Forsmaan; eins skalltu alykta, ad þw eiger vegna hans ad umbera, med hægu og stilltu Giede, Haadungar og Raanginde, sem þier kunna til ad falla. Seg ecke, skal eg þetta hafa so bwed af hønum? Þvi fyrer saker Christi Hogværdar, og þolennmædis skalltu þad giarnan lijda. Þarmed og einnen er GUD so godur og trwfastur, ad hann, vegna oforþientrar Haadungar, vill veita þier langtum meire Æru og Virding. David Kongur hiellt þad vijst Merke þar til, ad GUD villde veita hønum Æru, þegar Simei bølfade hønum, og sagde þess vegna; Skie ma, ad Drottenn alijte mijna Eynd, og umbune mier godu fyrer þessa Dags Bølfan: þarfyrer laattu ecke Mannanna vondskulegt Munnæde trubla þig, helldur skalltu fagna þar yfer, og þeinckia ad GUds Ande hvijlest hia þeim, sem verda an saka forakrader og smaader. Sosem S. Petur vottar 1. Pistl. 4. Cap.

X. Alla þijna Ovine, og þa sem þig lasta, skalltu med Froomleika og Goodgiordum yfervinna. Madur vinnur ecke neitt þar med, þo hann betale illt med illu; Skamaryrde med Skammaryrdum, Hatur med Hatre; Hefndargirne med Hefndargirne: Med Mannpryde kann Madur ad vinna Sigur, enn ecke med Odygdum, Skømmum og Løstum, a medal hverra ad er Hefndargirnden. So sem einn Diøfull kann ecke annann wt ad reka, so kunna ecke helldur Skammer og Lester ødrum illum Athøfnum til optrunar ad verda: Hefndargirnd og Formælingar yfervinna ecke Spottarann, helldur giøra hann verre. Ef einhver vill beria þann med Svipum, sem er fullur af Saarum og Kaunum, þa læknast hann einganveigen þar med, nie verdur heilbrygdur: einslijka kann ecke einn vondur og banvænn madur ad leidriettast med Grimd og Hefndargirne, helldur med Hogværd og Miwklynde. Siaum hvada Adferd GUD brwkar til ad yfervinna oss: yfervinnur hann ecke vora Vondsku med Goodsemd, og sefar vora Reide med sijnum Kiærleika? lockar ecke hans Giedgiædska oss til Idrunar? So skulum vier og einnen med Fromleika yfervinna þa sem oss hata; hvad Heilagur Paulus hefur oss boded, segiande: Rom.

Rom. 12. Lær ecke þad vonda sigra þig, helldur yfervinn þad vonda med goodu, og þad er sw rietta Sigurvinning.

XI. Siaer þw ad einn hefur þa Gaasu af Gude þeiged, sem þw hefur ecke, þa varastu hann þar fyrer ad øfunda, helldur skalltu glediast, og giøra Gude þacker þar fyrer; þvi aller Riettrwader eru Limer eins Lijkama, enn þær Gaafur og Pryde, sem hver einn Limanna hefur til ad bera, færa øllum Lijkamanum Sooma. Hier a mote, ef þw fornemur nockra Eymd liggia a Naawnga þijnum, þa laattu þig angra þad, so sem þw sialfur ætter hana ad bera, þvi soddann er sameigenleg Hørmung, sem allt Holld er underorped sa sem ecke hefur i sier neina Samaumkun, hann er ecke Limur a Christi lijkama. Hefur ecke Vor HErra reiknad vora Eymd fyrer sijna Eymd, og þar med frelsad oss fra vorre Eymd? Þarfyrer seger Heilagur Paulus: Gal. 6. Einn bere annars Byrde, og so uppfylled þier Christi Løgmaal.

XII. Elska og Hatur til Naawngans skal skie med þeim Greinarmun, ad þw alltijd hafer stora Andstygd og Vidbiod a hans Syndum og Løstum, so sem Diøfulsens eigenn Verckum; enn sialfann mannenn, ad þvi leite, sem hann er GUds skøpud Skiepna,

og

og þinn Naawnge, skalltw ecke hata, helldur elska; þw skallt hafa Medlijding med honum, aumka þig yfer hann, og hialpa honum, ef møgulegt er, med hoogværum Anda; so og einnen bidia fyrer honum, lijka sem Christur bad fyrer sijnum Ovinum a Krossenum; segiande: Fader, fyrergief þeim. Þvi sa sem hatar sinn Naawnga i Hiartanu, ecke so þar fyrer, ad hann lifer ogudlega, og er Guds Ovinur, (hvar um David talar i Psalm. 139. segiande: Drottenn, eg hata þa, sem þig hata) helldur af þvi, hann hefur honum a mote giort, hann er Manndrapare, epter þvi sem Johannes kienner; Sa hinn same kañ eingannvegenn ad vera þeckur Gude, sem hefur Andstygd a øllum Hatursfullum, og Hefndargiørnum Manneskium; vill og ecke ad nockur skule tapast, helldur ad aller menn verde hoolpner, og komest til Sannleikssins Vidurkienningar. Christur er og ecke komeñ til ad glata Mønnunum, helldur þa ad frelsa, og Saaluholpna ad giøra.

*XIII.* Þo þw viter ad aller menn sieu Synduger, breysker og brestotter, þa skalltu ecke þarfyrer þykiast mikell, so sem þw siert øllum sterckare i Andanum og Trwnne, og minne Syndare enn þeir, helldur hallt þig fyrer þann veikasta og breyskasta Syndara.

Hver

Hverſu ſtoor Syndare, ſem þinn Naawnge er, þa ſkalltu ecke taka þier Orſok þar af, ad þeinckia, ad þw ſiert þar fyrer betre fyrer Gude; Sa ſem þykeſt ſtanda ſeger Poſtulenn Siaae hann til, ad hann falle ecke. Hvad kiemur þier einn annar vid? hver einn hlytur ad bera ſijna Synd: þwert hverke þinn eigenn Doomare, til ad upphefia þig ſialfann, nie annara, til ad fordæma þa. Jeg dæme mig ecke ſialfur ſeger Paall. Drottenn er ſa, ſem dæmer mig. 1. Cor. 4. og um adra ſeger hañ: hver ertw ſem annatlegan Þion dæmer? hann ſtendur og fellur ſijnum Herra. Vier eigum ecke ad giora Reikningſkap fyrer adra, helldur fyrer ſialfa oſſ, þarfyrer kiemur oſſ ecke vid ad dæma adra.

Aller Menn eru af Naattwrunne til i jafnre fordæmingu, og Born Reidennar; og eingenn er ad Upprunanum odrum betre edur verre: vier hofum aller Skort a þeirre Hrooſſun, ſem fyrer GUde gillder. Sie þar nockur Mismunur manna a mille, ſijdan Falled, ad eiñ hefur funded Naad, ſo hans Synder eru fyrergiefnar, enn annar ecke; eda einn kann ad vera fleckadur med minne ſyndum enn annar, þa er þad allt ſaman GUds ſkiærre Naad og Miſkunſeme ad þacka.

Hvad hefur madurenn Þad, hann hafe ecke medteked? þarfyrer ſeger S. Paall til

þeirra i Rom, sem voru ordner Naadarennar Hluttakendur, og so sem innplantader i Safnaderens Oliutrie, ad þeir skule ecke hroosa sier i giegn þeim afhøggnu Kvistunum, Rom. 11. þad er i giegn þeim, sem voru fyrer utan Naadena og doou i sijnum syndum; item ad þeir skulu ecke hroka sier upp, helldur vera ottaslegner, ad þeir verde ecke og so afhøggner og misse Naadena, lijka sem hiner adrer; þad er og langtum betra, ad þw audmyker þig under alla adra, enn ad þu hefier þig yfer nockurn annann, þui hver sig sialfann upphefur, hann mun nidurlægiast enn ef þw audmyker þig under alla adra, og helldur þa ad vera betre enn þig, og ad þw siert einn med þeim stærstu Syndurum, þad er þier gott og gagnlegt: þvi þa vill GUds Naad hallda þier vid sig; þvi þar sem er stoor Audmykt, þar er stoor Naad; þvi hver sig lijtelæckar, hann mun upphafenn verda; og GUd mootstendur dramblaatum, enn lijtelaatum giefur hann Naad. Þarfyrer hiellt S. Paall sig fyrer þann stærsta Syndara, og segest þess vegna hafa ødlast Naad; Jeg vil seger hann 2.Cor.12.v.9. hellst hroosa mier af mijnum Breyskleika, so Kraptur Christi bwe med mier.

XIV. Sw rietta Upplysing færer þad med sier, ad madur forachtar Heimenn. Þvi lijka

ka so sem þessa Heims-Børn hafa sinn Arf hier a Jørdunne, sem er tijmanlegur Heidur forgeingelegt Rijkedæme og jardnesk Vegsemd (hvad þeir reikna fyrer dyrmæt Audæfe, og Dyrgripe) so er Gllds-Barna Fie sioodur. þar þvert a mote: Faatækt, Armoodur, Forsman, Spott, Haadung, Offokn, Daude, Pysler og Pintingar: þar fyrer er þad til Ords tekid Hebr. 11. ad Moyses hafe framar elskad Christi forsmaan, enn Egyptalands Audæfe, og þad er sw rietta upplysing.

XV. Þau riettu Christenna Manna Nofn, sem eru skrifud a Himnum, er riett Þecking JEsu Christi i Trwnne, fyrer hveria vier erum Christo innplantader, jaa i hann innskrifader, sosem i Lijfsens Book; hvadan ad lifande Dygder Christenna Manna fram-fliota, hverium Glld mun hroosa a Sijdasta Deige Matth. 25. og leida i Lioos allt þad ligg-iande Fie, sem þeir hafa i þessu Lijfe sier a Himnum saman safnad 1. Tim. 6. Hañ mun laata øll þeirra Verk verda opennber, sem i Glde hafa giord verid. Joh. 3. 21. Vier finnum ecke gieted um neinn af þeim heiløgu, sem ecke hafe vered giæddur med ein hverre sierdeilis Dygd, og þeirre Dygd verdur all-drei gleimt, hvert helldur þad hefur vered Trwen, Kiærleikurenn, Miskunsemen, Þol-

ennmæden, edur adrer hvilijker Mannkoster; soddan Dygda-Æfing bevijsar ha, sem med henne giædder eru, Sannheilaga ad vera, og þeirra Nofn verda eilijf a Himnum Apoc.3. hvar um talad verdur i Annare Bookenne med fleirum Ordum.

## Cap. XLI.

### Stutt Agrip þeirrar Fyrstu Bookar, þess Innehallds, ad sa heile Christenn Domur se innefalenn i þvi, ad GUds Mynd uppbyggest i Mannenum enn Satans Mynd nidurbriooteſt.

2. Cor. 3.

Nw skodum vier aller Birte Drottens, so sem i Speigle, med ohulldre Asioonu, og verdum umbreitter til somu Myndar; fra einne Birtu til annarar, so sem af Drottens Anda.

Pad eilijfa Lijfed er i þvi innefaled, ad madur þecke riettelega JEsum Christum, hans Personu, hans Embætte, hans Velgiorninga og þau Himnesku og Eilijfu Giædenn; hver Þecking ad upptendrast i vorum Hiortum, fyrer Heilagann Anda, sem eitt nytt Lioos, og verdur alltijd skiærara og skiærara, eins

og

og þegar vered er ad fægia Maalm edur Speigel; ja, hwn vex alltijd meir og meir, so sem þad Ungbarn, sem þrottskast ad lijkamanum dag fra dege. Þvi Manneskian verdur i sinne Umvendan endurfædd, og giædd med Christi Riettlæte fyrer Trwna; hwn endurnyast þar epter daglega meir og meir, og odlast GUds Lijking og Jmynd; enn er þo ecke sem fullordenn Madur, helldur sem eitt Barn, hvert Heilagur Ande uppfostrar þadan af, og giører meir og meir samlijkt JEsu Christo. Þvi Christelegt Framferde hier a Jørdunne, a eckert annad ad vera, eñ uppreisn GUds Myndar i trwudum Manne, so ad hann life jafnan i þeirre nyu Fædingu, og þar a mote; deyde hvern dag þann Gamla Mannenn.

Þesse Lijfernis haattur a ad byriast i þessum Heime, eñ fullkomnast annars Heims. Hver sem ecke byriar þetta adur eñ Efste dagur kiemur, edur hans Dauda-Dagur, sa fær alldrei Vidrietting ad eilijfu. Þessvegna hefe eg hallded Naudsyn vera, aptur ad itreka, hvad GUds Mynd sie, og hvad Satans Mynd sie; þviad med Utskyringu þessara tveggia Greina, faaum vier grant skiled, hvad Christelegt Framferde sie og under eins verda margar Trwarennar Høfudgreiner lioos-

are; so sem til dæmis; um Uppruna-Syndena, um Frijvitiann, um Idranena, um Trwna, um Riettlætinguna, um Bænena, um Endurfædinguna, Helgunena, og nya Hlydne. Hier um skulum vier adgiæta epterfylgiande Undervysun.

Saala Mannsens er einn odaudlegur Ande, giæddur af Gude med ypparlegum Kreptum, med Skilninge, med Vilia, Minne og ødrum Hræringum og Hneigingum Hugarens.

Henne skulum vier hallda riett andspænis vid GUd, og skoda so i henne afmaalada GUds Mynd, so ad GUd siaaest og þeckest i Mannsens Saalu, so sem i ødru sioonar glere: Þui þad meinar Heilagur Paulus, þegar hann seger: 2. Cor. 3. ad GUds Birta siaaest i endurnyadre GUds Mynd, so sem i Speigle.

Nu so sem GUds Underſtada og Vera er good og heiløg; so hefur og Saalarennar Underſtada og Vera, i upphafe vered good og heiløg: So sem i GUds Veru er eckert illt; so hefur eckert illt vered i Mannsens Saalu: Lijka so sem þad er allt alldeilis gott, sem er i Gude; so hefur þad og allt i fyrstunne vered gott, sem Saalenn hafde til ad bera. So sem GUd er Vitur og vijs, so hefur og Saala Mann-

Mannsens vered skynsom og vijs, full af þeckingu GUds, full af Andlegum Himneskum og eilijfum Vijsdome: So sem Guddomleg Speke hefur niddurradad allt, med Tolu, Vigt, og Mælingu, og þecker Krapta allra skapadra Skiepna, bæde Himneskra og Jardneskra; eins hefur Mannsens Saal yferlyst vered med sama Lioose;

So sem haattad hefur vered Skilninge Saalarinnar, so hefur og einnen Viliena vered, þad er ad skilia heilagur, og samhlioda Guddomlegum Vilia i ollu. Lijka so sem GUd er Riettlatur, Goodgiarn, Miskunsamur, Langlundargodur, Polennmodur, blydlyndur, Hogvær, Sannordur, og Skijrlijfur; so hefur og Saala Mannsens vered. So sem Mannsins Vilie hefur vered samlijkur GUds Vilia, so hafa og einnen allar Hiartans Girnder, Tilhneigingar, Giedsmuner og Hræringar vered Heilagar, og GUds eilijfa Vilia og Sinnislægie fullkomlega samlijkar. So sem GUd er Kiærleikurenn, so hafa og Mannsens Tilhneigingar eckert annad vered, eñ einskiæra Elska: Og so sem GUd Fader, Sonur, og Heilagur Ande eru innbyrdes samteingder med owtskijranlegre og eilijfre Elsku; eins lijka hafa allar Tilhneigingar, Hræringar, og Girnder i Saalunne vered

glooande af skiærum, fullkomnum, og brenn-heitum Kiærleika wt af iñsta Hiartans Gruñe, so ad madurenn hefur haft GUD, og hans Dyrd kiærare eñ sialfann sig.

Lijka so sem GUds skiærasta Mynd hefur liomad og leiptrad i Saalunne; so hefur og einnen Lijkamenn vered Saalarennar Jmynd: Hañ hefur i sijnum Kroptum vered Heilagur og skijrlijfur, fyrer utan allar vondar Tilhneigingar; og under eins frydur, fagur, Yndislegur, heill og hraustur; so og einnen odaudlegur, med øllum sijnum innre og ytre Krøptum og Edlishaattum, an alls Angurs, Leida, Hrygdar, Mootgangs, Eymdar og Elle. J einu orde ad segia: Madurenn allur, med Ønd og Lijkama, hefur vered fullkomenn Heilagur, Riettlaatur, og a allann haatt Gude þeckur: Þvi so sem madurenn var fullkomen GUds Mynd ad øllu leite, þa hlaut Lijkamenn og so ad vera heilagur og Gude samlijkur. Þarfyrer oskar S. Paall þeim Thessaloniſku 1. Thess. 5. v. 23. ad allur þeirra Ande, med Saal og Lijkama mætte heilagur vera: Þvi Madurenn er samsettur af Saalu og Lijkama, og frañkvæmer sijn Verk, Andleg og Lijkamleg; og þar sem ein heiløg og riettferdug Saal, a ad verka og wtrietta nockud fyrer Lijkamann, og i Lijkamanum,

anum, þa hlytur lijkamenn ad vera eitt heilagt Verkfære Saalarennar, og ecke giora henne nockra Hindrun, eda Mootstødu.

So sem Saalen hefur vered upptendrud til GUds med brennande Elsku, so hefur Lijkamans Lijf og Kraptar, aller vered heiter af Kiærleika til GUds og Naawngans. So sem Saalen hefur vered af øllum Kroptum Miskunsom; so hefur og Lijkamenn i øllum Kroptum vered hneigdur til Lijknar og Vægdar; so sem Gudlegt Skijrlife hefur liomad i Saalunne; eins hefur lijkamenn, samt aller innre og ytre Kraptar, og Skilningarvit vered upptendrader af fullkomnum Hreinleika og Skyrlijfe; og i Summu ad segia: Lijkamen̄ hefur i øllum dygdum Saalunne lijkur vered, so sem eitt heilagt samþionande Verkfære. Og so hefur þeim Fyrsta Manne, i Fullkomleikans Stande, vered alhægt ad elska GUd af øllu Hiarta, af allre Saalu, øllum Kroptum, og Naawngann sem sialfann sig: Hier af kiennur þad, þegar hinn hæste GUd heimter Mannsens Hiarta, þa meinast þar med, allur Madurenn, med Saal og Lijkama og øllum kroptum: Og so maattu skilia allvijda i Ritningunne þetta Ord, *Hiarta*, sem er um alla Saalarennar Krapta, Skilning, Vilia, Giedsmune og Tilhneigingar. Eins

lijka, þegar GUD wtheimter Saalu Mannsens, þa skilur hann þar med allann Mannenn, med allre hans Veru, Lijfe og Kroptum, sem a ad vera Gude lijkur, og i Christo ad endurnyast: og med soddann hætte, eigum vier framinvegis ad ganga i þeim nya Andlega Lifnade, og i Andanum.

So sem Madurenn hefur nw haft fullkomenn Heilagleika, Riettlæte og Kiærleika, so hefur hann og einnen haft i Gude fullkomna Glede; þui hvar Guddomlegann Heilagleika ma finna, þar er og guddomleg Glede; þetta hvertveggia er æfennlega til sannans hvert hia ødru, og giører GUDS Mynd: Enn søkum þess, vær høfum ecke i þessu Lijfe fullkomenn GUds Heilagleika og Riettlæte, þa kunnum vier ecke helldur i þessu Lijfe ad hafa fullkomna Glede; Samt sem adur, med þvi Riettlæte JEsu Christi tileinkast hier øllum trwudum, þa byriast og einnen i þeim vissulega sw Andlega Glede, soad andaktugar Saaler, sem eru æsdar i GUds Rijke, finna hana og formerkia. So stoora Elsku, sem Christenn madur hefur til GUds, so stora Glede hefur hann og einnen i Gude: og med þvi Kiærleikurenn verdur i ødru lijfe fullkomenn, so verdur þar og einnen Gleden fullkomen; hvar fyrer Christur seger hia Joh. 16.

Jeg

Jeg mun siaa ydur aptur, og ydart Hiarta skal glediast: þvi Kiærleikurenn einasta er Lijf og Glede; og þar þvert a mote, hvar eingenn Kiærleike er, þar er eingen Glede og eckert Lijf; helldur einsamall Daude, i hverium aller Dioflar, Jdrunarlausar og forherdtar Manneskiur skulu bliifa umm alla Eilijfd. Hvar af hefur Faderenn Glede? af Elsku sinna Barna: Af hveriu gledur sig einn Brwdgume? af Kiærleika sinnar Brwdur. Miklu framar maa þar koma osegianlegur Fognudur af Elsku sialfs Skaparans, vors Himneska Fodur; hver-ed i sætustu Unadsemd mynnest vid oss med Kosse sijns haablessada Munns, þad er i HErranum Christo, og giefur sig inn til vor i honum, fyrer Heilags Anda Kiærleika, og helldur til Herbergis i oss.

Enn um þessa GUds Mynd, sem falen er i Lijkingu vid GUD, og nw er vered um ad ræda, þa er ecke sw Meiningen: ad Madurenn verde ad ollu leite Gude lijkur, og so Heilagur og Riettlaatur, sem hann er, (þui GUD er ogriipanlegur, og omælanlegur ad Verunne, Dygdunum, og Eigennleikunum) helldur þad, ad Madurenn var einasta nockurskonar Epterlijking edur Afmaalan GUds; og ecke odruvijs honum lijkur, eñ ein Skiep-

na kann ad vera sijnum Skapara, hvar um fleira var talad i Fyrsta Capitula. Eingu ad sijdur var þesse Lijking ein Samlijking; og GUD giørde Mannenn, sem ein skiærann Speigel, ad hann kynne ad siaast i hønum, soad þegar madurenn villde vita fyrer vijst, hvad GUD være, so kynne hann ad giefa gaum ad siaalfum sier, og siaa Gud i sialfum sier, sem einum speigle, ja, finna GUDS Mynd i sijnu Hiarta, og hefur þesse GUds Mynd vered Mansens Lijf og Heill. Enn þegar Diøfullenn vard var vid þessa GUds Mynd i Mannenum, misunnte hann hønum hennar, og hafde øll sin Brøgd og Flaaræde i framme, til ad nidurbriota hana, med þeirre Forøcktun og Ohlydne vid GUd, sem hann smeigde inn hia mannenum. Eingenn stærre Svik og Underferle hafa nockurn tijma framenn vered, eda kunnad ad fremiast enn þau, sem Diøfullenn þa brwkade, og þad med stoorre Lyst og Epterlaangan: þvi þad reid a þvi, og þad var hønum ecke dult ad, ef Madurenn hefde i sama Stande blifed, þa hefde hann orded hønum undergiefenn, enn þar sem hann kynne ad fella Mannenn, þa mætte hann drottna yfer hønum æfenlega.

Þar fyrer, þegar Sathan var bwenn ad ransaka alla sina Flærdar og Illsku Krapta, þa

þa fann hann eckert tilhlydelegra, til ad koma þvi afstad, sem hañ hafde upphugsad, helldur enn þa somu Synd, sem sialfann hann hafde skadad, og giort vidskila vid GUd, sem var, ad vilia verda so sem GUd, þessvegna took hann sier fyrer, med Vinsemdar-Rædu i Hoggormenum, ad innbyrla vorre Moodur ad sækia epter Guddomlegu Tignarvellde, giørande þessa sina Uppatekt fagra og aheyrelega fyrer henne, so slijkur Glæpur kynne ad frammkvæmast. Af þessare Drambsamlegre Hugsun, sem þa var eitt sinn innfallenn i Hiarta Mannsens, kom hans hrædelegt Fall og Hrøsun, med Ohlydne og Bodordabrote, þvi Adam og Eva neyttu af Averte Skilnings-Tresens gods og ills; þar med tapadest GUDS Mynd i Mannenum, og H. Ande veik fra honum.

Enn i stadenn Gudsmyndar, kom aptur Mynd Andskotans: vorer Forelldrar urdu Diøfulsens þy, enn hann þeirra Herra, og siidan hefur hann haft Valld yfer mannlegu Kyne, og høndlad illa vid þad, sem einn grimur Rise vid kraptalaust Barn; hann hefur formyrkvad Skilningenn, giort Viliañ fraleitann, og snwed hønum fra GUde, med stærstu Ohlydne; hann hefur giort alla Mansens Krapta Gude gagnstæda, og eit-

rad þa med sinne Diøfullegre Illsku. I stuttumaale ad segia: hann upprætte alla GUds Mynd wr Mannenum, enn inþrykte sinne aptur i stadenn, og uppfyllte hañ med allskyns Synd og Fiandskap i giegn Gude, og þar med deyde Madurenn þeim Eilijfa Dauda. Þvi lijka so sem GUds Mynd var Mansens Lijf og Saaluhiaalp, so er og Misser GUds Myndar sa Eilijfe Daude og Fyrerdæming. Hvernen ad þessum Dauda sie vared, skilia þeir allra gløggvast, sem falla i þwngar Andlegar Freistingar, og verda ad reina Diøfulsens Tyrannaskap, Æde og Grimd i giegn þeirra aumu Saalum, langtum framar helldur eñ almenneleg Magt Syndarennar plagar ad underleggia þa Fromu: Þvi þegar H. Ande helldur iñe sinne sætre Huggun i soddan Freistingum, so þeir formerkia ecke strax hennar lifande Krapt, þa kiemur Satan, og yferfellur þa med Daudans Makt, og kvelur þeirra Saaler med Helvijtis Angistar Pijslum; og nær þeir formerkia ecke neitt annad, slær hañ þeim aldeiles nidur i Daudann: So hlytur allur Lijkamenn ad vanmegnast, Hiartad ad skialfa, Mergurenn ad foreydast, og aller Kraptar Mannsens ad veiklast, so sem þar stendur i Psalm. 6. og 38. þa eru øll GUds Ord, so sem daud og daadlaus fyrer

fyrer Mannenum, so hann finnur eingann Krapt edur Lijf i þeim, hañ finnur ecke til neinnrar Andaktar edur andlegs Lijfs i sialfum sier. Þegar Mannsens Efne eru komenn i soddann Stand, þa er allur mannsens Heilagleike, Riettlæte, Forþienusta, Kraptur, Styrkleike, Rijkdomur, Vegsemd, Æra, Konster og Vijsdomur so sem Dreckur, og kañ eckert ad hiaalpa utan alleinasta GUds Naad.

Þessvegna settu þier fyrer, o madur! ad skynia, hvad vidurstyggelegl Uppruna-Synden sie framar øllu, sem er GUds Erfda-Riettlætes Topun, sem og Erfda-Raanglæte vort, oss af Dioflenum innplantad, fyrer hvert Syndaranum verdur kastad fra Gude, so hann fordæmest til eylifs Dauda, i hverium hann hlytur vægdarlaust Eilijflega ad blijfa, nema hann faae Fyrergiefning Syndanna, vegna Christi Forþienustu, fyrer Trwna. Og so ad þw, vesæla Manneskia, skilier þetta betur, þa vil eg enn þa framar setia þier fyrer Siooner, þessa vidurstyggelegu Spillingu, med hverre þijn Saal og Lijkame er hladenn, gagntekenn og fleckadur; bid eiñen og aminne alla Christna menn ad þeir, fyrer GUds skulld og þeirra eigenn Velferdar, kostgiæfelega athuge þennann Articula, og þeinke umm hañ dagsdaglega, med mestu Astundan,

so

so ad þeir kunne rettelega ad þeckia sijna Eymd Kvalræde og medfædda Fordiorfun, og sieu þar af jafnan stwrande og daprer. Þvi allt Christens Manns Lijferne er ecke annad, eñ sijfelldt andlegt Striid a mote Uppruna-Syndenne, og hennar Nidurdempan med daglegre Idran, fyrer Heilagann Anda, þvi þess meira, sem þw kannt ad dempa Arf-syndena, þvi meir endurnyast þw dag fra dege til GUds Myndar: Þeir sem ecke deyda sialfa sig hid innra, edur Arf-Syndena, fyrer Heilagann Anda, þeir eru Hræsnarar, hversu Heilager sem þeir synast hid ytra fyrer Heimenum: þvi eingenn heyrer til Himna-Rijke, edur hefur Hlutdeilld i þvi, utan þeir sem deya sier sialfum, og endurnyast epter GUds Mynd i Christo; hvar af menn kunna ad siaa, hvad stoor Naudsyn sie a þeirre Nyu Fædingu, og Endurnyungu.

Þetta kann þo allt betur ad skiliast, ef vier epter GUds Løgmaale rañsokum Satans Mynd: Þvi so sem Diøfullenn elskar ecke GUd, helldur hefur a hønum stoorann Fiand-skap, so hefur hann og einnen sviked Saalu Mannsens a syndareñar Eitre, og innhellt i hana ollum sijnum Fiandskap vid GUD, so Maduren elskar nw ecke, heidrar, nie akallar siñ Skapara, hañ hefur ecke neitt Traust a hønum,

um, helldur Ogied, og vill fordast hañ. So sem Diøfulleñ Lifer i daglegre Blindne fyrer utan GUd, og er Hyggiulaus um hanns Vilia; so hefur hañ og einnen forblindad Mannsens Saalu, so hwn er socken i Andvaraleyse, og hirder ecke neitt um ad giefa Gaum ad GUds blessudu Bodordum, allañ siñ alldur. Þesse Blindleikans Þoka i mañlegu Hugskøte, er skielfeleg Foreyding GUds Birtu, og Jmyndar, og hin viderstyggelegasta Synd: þui Madureñ er so þwnglega hallden af þessare Villu, ad hañ seger: Eingeñ er GUd Psalm.14. og þesvegna er allt mannlegt Kyn, andstygd og Bølfan, fyrer hærstum Gude, i øllum siinum Athøfnum.

Advijsu er þar eiñ lijtell Neiste ordenn epter af Naattwru Liioosenu i Mañsens Skilninge, so ad Samvitska hans, sem hønum var i Skøpunenne innplantud, kann ad segia hønum, hvad riett er; og hann kann af Liioose Nattwrunnar ad alykta, ad GUd sie til, og ad hann sie eiñ Rietlaatur GUd, so sem aller Heidner Spekingiar vitna: enn so miked sem ahrærer þad Andlega Lijfed, sem a ad skie epter þvi, sem GUds Riettlæte wtheimter, þa er þad i natwrlegum Manne aulldungis daudt og fared; og sa Sandleikans Neiste, sem epter er ordenn, dempast so ad fullu og øllu,

ollu, af Floode Bondskunnar, ad hann megn-ar eckert, og er, so ad segia, i grunn eyde lagdur.

So sem til Dæmis, ein saurlijfisfull Manneskia, kan maklega ad þeinkia þess a millum: þar er einn GUd til, og hann er Skijrlijfur; so ætte eg einnenn ad vera: Saurlijfis Lauslæte er ein Andstygd fyrer honum. Enn þesse þanke, sem er goodur og riettvijs, og sem ein lijtel Skyma af Liooseinu, formyrkvast sliott, og wtsloknar sem ein lijtell Gneiste med stooru Vatnsfloode, so ad siu vonda lyst og holldsens Brune fær yferhond. Einn Baktalare þeinker stundum lijka so: þar er ein GUd til, riettvijs og sannordur, hann vill ecke ad madur skule liwga a sinn Naawnga a bak, eda giora honum Skada uppa Æru og Lijf: Enn þetta Neista-korn varer ecke leinge, helldur verdur skiott nidur kiæft med Diofullegre Heipt og Fiandskab, so þad andlega Lijf, sem er innefaled i Elsku og Sannleika, er aldeilis daudt i holldlegum Manne. Þeir Heiðnu Vijsenda Menn, hafa alijktad af Liooſe Naattwrunnar, ad þær sie einn GUd til, sem stiorne Mannlegu Kyne, enn hvad sliott hafa þeir orded yferunner af þeirra Hiartans Blindne, so ad þeir hafa efad um GUds Forsion? Af þessu medfædda Myrkre og Erfda Blind-

Blindleika, sprettur upp Vantrw og Efaseme, sem situr i øllum Mønnum af Nattwrunne til, so ad þeir eru þessvegna fyrer Gude andstyggeleger; af þvi þeir lifa ecke i Trwnne, nie hafa stødugt Hiartans Traust til GUds. af þvi andlega Lijfe, sem Gude er kiært, og þeim Verkum, sem þvi fylgia, veit Nattwrlegur Madur ecke par, hann akallar ecke GUd, helldur treyster uppa sialfann sig, uppa sinn eigen Vijsdom, Krapt og Styrkleika, sem er hin stærsta Blindne og Vitleysa.

Af þessare Blindne kiemur Forakt vid GUd, og holldlegt andvaraleyse: Þvi so sem Diofullenn audmyker sig ecke fyrer Gude, helldur er þverbrotenn og drambsamur i giegn hønum, so hefur hann og einnen sviked og eitrad Saalena med þessum Løstum, GUds Forøktun, Ofmetnade, Hofmood og Andvaraleyse, so hwn audmyker sig ecke fyrer Gude, helldur blijfur i sinne Drambseme, og giører hid innra allt epter sijnum eigenn Giedsmunum og Hreckvijse, fyrer utan alla Blygdan og Hrædslu. So sem Diofullenn reider sig uppa sinn eigenn Klokskap og Makt, og rædur sier sialfum; Eins er Saal Mannsens af hønum sviken og eitrud med sama slag, so hwn treyster uppa sinn eigenn Klookskap, Skynseme og Krapta; og vill raada sier sialf.

Lijka

Lijka sem Diofullenn stundar epter sinne eigen Vegsemd; Eins giorer Madurenn, og leitar ecke GUds-Dyrdar. Sosem Diofullenn geysar med storre Grimd a mote Gude; Eins saaer hann Opolennmæde i Saalu Mannsens igiegn honum. Lijkaso sem Diofullenn lastar Nafned Drottens, og er, opacklaatur vid sinn Skapara, og so sem hann er omiskunsamur grim̃ur og hefndargiarn; So hefur hann fordiarfad Saalena med somu Klækium. So sem Diofulleñ vill giarnan Drottna yfer Mannenum, og vegsama sialfann sig; Eins hefur hann med sama mote fleckad Mannsens Saalu, soad hwn er uppvægd af Drambseme, og helldur sinn Naawnga miøg lijtetsverdann, vill giarnan troda hand under footum, og hafa hann fyrer sijna Footskør, ef hwn giæte. Sosem Diofullenn er einn Mordinge, so hefur hann og einnen giort Saalena ad Mordingia. Pad vil eg segia einusinne, og maa vera so gilldt, sem þad være þwsundsinnum sagt, ad GUd talar alltijd til Saalarennar, og alasar henne, enn ecke utvortis-Limunum: Hiartad og Saalen eru Mordingiarner, enn ecke Hendurnar, og ecke Munnurinn: Pegar GUd bydur Mannenum, ad akalla sig i Neydenne, þa skipar hann þad Saalunne, enn ecke Munnenum. Sa sem ecke underskendur þetta, og

ecke sannar þad, hann er næsta faavijs i Utleggingu Ritningarinnar; hann skilur hverke hvad Uppruna-Synden er, nie helldur Jdranen, og sw Nya Fæding; Jaa, hann fær ecke riett gryped nockra Hofudgrein Christelegrar Trwar. Vier siaaum dags daglega fyrer vorum Aügum Mannanna hrædelega Bondsku, Dramb og dreiissuglegann Metnad, Hatur og Ofund vid Naawngann, so ad marger leggia sig helldur i Daudans hættu, enn þeirra Naawnge skule hafa Frid; Sumer unna hønum ecke Lijffsens, helldur vilia raada hann af dogum, ef þeir giæte, eda ad minsta koste, ad hann skule faa þad mesta Nidurdrep, og verda so sem Afhrak annara. Hvad er þetta annad, enn Sæde og Mynd Diofulsens, sem mannenn hefur so haframlega fleckad og affskræmt?

Hærstur GUd innplantade Mannenum i øndverdu, hreina skijrlyfa og Soomasamlega hneiging til Hionabandsens, ad hann giæte Børn epter Andanum og epter GUds Mynd; Þar kunne eingen Heilagre Lyst edur Kiærleike ad upphugast, enn ad wtplanta GUds Mynd, og Mannkijnenu ad fiolga, Gude til Dyrdar og Mannenum til eylijfrar Saaluhialpar. Og þo Madurenn hefde i þvi Saklæysesens stande kunnad ad gieta hundrad þw-

sund Barna, og utauked so GUds Mynd þar med, og hanns Vegsemd, þa hefde þad vered Mannsens hærsta Lyst og eckert agiætara, unnnarsamlegra nie betra kunnad ad skie; þui þad hefde allt skied af Elsku til GUds, og Mannkynsens, so sem GUds Myndar. So sem GUd skapade Manneskiuna med heilagre Vellyst, og hiartanlegre Velþocknan, og hafde sijna Glede og Unadsemd i henne, so sem i sinne Mynd; Eins hefde Manneskian gieted sinn Lijka i heilagre Vellyst, hefde hwn ecke falled, og haft siijna Glede, og Unadsemd þar af, sem af GUds Mynd. Enn hvernen ad Satan, epter Syndafalled, hefur, med siijnum Ohreinleika, fleckad þa hreinu og skijrlijfu Hioonabands Ast, þar um þarf ecke margt ad tala: Madurenn, so sem eitt faavijst Dyr, gietur ecke af sier utan sinn Lijka, i siijnum Bruna og Blindne. Hversu er þad Heilaga Egtastand af þeim fwla Anda, med so skadlegum Loſtum umturnad?

So sem Diofullenn er Oriettferduger, og einn Pioofur og Ræninge; so hefur hann og einnen saurgad Saal Mannsens med sinne Pioofs Naattwru. So sem Diofullenn er einn Roogbere, Margslwngenn uppa allar Vielrædis Lyster, Lygare, GUds og Manna Spottare, hvered raangfærer Ord og Giorder

þeijrra

þeijrra er Sannleikann tala; Hvartil hann synde Merke, þeger hann sveik vora fyrstu Forelldra: So hefur hann og einnen innhellt i Saaler Mannanna sinne eitrudu og lygegiørnu Onaattwru; so þær eru ordnar af þvijlijku innhelltu Diøfuls-Edle, eins og hañ sialfur, Lygegiarnar Spottskar og giefnar fyrer Underhyggiu og Baktale. Þetta Bannvæna Eitur i Mannsens Hiarta, er so megnt og margvijslegt, ad madur kañ ecke ad finna Ord til ad wtsegia þad, þarfyrer stendur so um̃ holldlegar Manneskiur; Ad þeirra Barke sie ein open Grøf, Rom. 3. Og hiñ Sæle Jacob seger 3. Cap. um̃ þaa sem Lygegiarner eru; ad þeirra Twnga sie Verølld full af Ranglæte; hvar med vijsad verdur til þeirrar diøfullegu Forgiptar, sem byr i Saaluñe: Þvi GUD akiærer ecke i sijnu Logmaale alleina Munnenn, Twnguna, Hendurnar, Fæturnar, helldur einkum og sierdeilis Mannsens Hiarta og Saalu, sem er Uppsprettu-Bruñur til alls ills, epter þvi sem hañ giefur noogsamlega ad merkia i tveimur þeim sijdustu Bodordum um Girndena.

Þetta er nu Mynd Andskotans, med hverre hañ hefur Saalena afmyndad, og GUDs Mynd nidurbroted: Þesse Diøfulsens Mynd brytur sig wt med allt slag, i þvi

ad syndga, ad baktala og spotta siñ Naawnga, og ad nidurþryckia hønum, so ad af slijku hafa sumer meñ opt og tijdum stærstu Lyst og Glede. Hvad margann mañ ma finna med þvi Sinne, ad hañ vill heita vel Christenn, enn leitar þo epter Tækefære, til ad wtausa sinne Bondsku yfer sinn Naawnga? og þegar hønum hefur þad tekest, þiker hønum vænt um, og seger: Nw er jeg til Frids; jeg er nw bwenn ad skeita Skape mijnu a hønum; jeg hefe leinge ætlad hønum þetta; og er nw, so sem þad hefde vered tekenn þwngur Steinn af mijnu Hiarta; og mier hefde vered lipt uppi Himenenn. Enn, þw auma Manneskia, veijtstu ecke hver þier hefur inngiefed þetta? Hver þig hefur giørt ad soddann einum Haadungar manne, og Eitur-Orme? sem er sialfur Andskotenn, hann hefur innblaased þier þessare Bondsku, sem þw hefur haft i frame vid þinn Naawnga. J lijkann maata siaast og einnen adrer Diøfulsens Eigennleikar, annad hans Sæde, og og þess Avexter i vorum Saalum, so sem daglegt Reynsla noglega wtvijsar. Siaa! þessa Satans Mynd, sem er Uppruna-synden, maattu, vesøl Manneskia, læra ad þeckia, og ad þitt Hiarta sie næsta groomteked af hennar Sora. Þar med er þad elldungis orded so

for

forherdt og affinna, ad þad geingur yfer Mannanna Forstand, og hverke kantu nie nockur annar ad wtgrunda þa Svijvirdingu, sem þar inne situr. Þess bid eg þig, ad þw villder, þwsundsinnum, ja, aptur þwsundsinnum, laata þier sagt vera, ad þesse Drepsoott og Fordiorfun er so stoor og olæknanleg, ad eingen skopud Skiepna, ecke Einglar nie Menn, kunna hana ad wtslietta, edur og jafnvel ecke i neinn maata ad stilla eda stødva; allra sijst kann nockur sialfur sier hier wti ad hialpa. Þvi hvernen skylldu nockrer af sijnum eigenn Kroptum kunna ad hialpa sialfum sier, sem eru alldeilis fordiarfader og andlega Dauder? Madurenn verdur æfelangt og eilijflega ad blijfa i soddan Eymd, nema þvi ad eins, ad þar kome einn Megtugur Hialpare, sem er Herra yfer Syndenne og Daudanum, og kann ad umbreita, endurnyia og hreinsa Mansens Naattwru. Hier af ma einnen siaa, ad Endurfædingen er ecke neitt Mannlegt Verk, og hvad stoor Naudsyn sie a henne. Þvi Saalen af sijnum eigenn Kroptum, kann ecke ødruvijs ad lifa, enn i þessum Siwkdoome, Jungrooenne Spilling, og Vondsku Syndanna, a mote øllum Guds Bodordum, og sierdeilis a mote þeirre Fyrre Toblunne, hverrar yfertrodsla ad er sa riette Fiandskap-

ur i giegn Gude: Hier er Mannsens Skynsemd og Vilie fangenn og steindaudur, kann þvi ecke af Naattwrunne ad ottast GUD, ecke ad elska hann, heidra, lofa og tilbidia, ecke ad treysta, og þacka honum, eda sier til hans ad umvenda.

Enn so miked sem áhrærer þa Siidare Bodorda Tøbluna, þa veit eg ad i Saalunne eru epter nockrar meniar af Friivilianum, enn þær sømu hafa ecke valld, utan yfer utvortis Verkunum, og þo i stoorum Veikleika, þvi þær kunna einasta, ad nockrulcite, ad þviinga og hepta vondar Girnder, so þær brioteſt ecke wt til ytre Verkanna, so sem Menn kunna ad siaa a ymsum Heidingium; Enn ad umbreita Hiártanu og snwa þvi til GUds, og hreinsa þad af vondum Lystingum, þad er Manninum af Naattwrenne omøgulegt; Guddomleger Kraptar hlioota þar til ad koma: Þvi þo Menn lappe uppa sig hid ytra, og giøre sitt Framferde nockud fagurt, þa er þo Rooten hid innra alltiid bann væn, Liika sosem þegar madur vill dempa Ellds loga ad utann verdu, so ad honum slaae ecke wt, samt brennur hann alltiid hid innra, og er oslockvanlegur.

Væru nw þesse Friivilians Neistar einger til, epter þeirre Siidare Bodorda Toblunne, i ut=

i utvortis Frammferde, þa kynnu Menn ecke ad lifa til samans. Þarfyrer hefur GUD ecke lided Dioflenum ad burttaka alla Naattwrlega Krapta og Giedsmune wr Mannsins Saalu: Naattwru Løgmaaled er enn nw til, og sa naatturlege Kiærleike a millum Hionanna, Forelldranna og Barnanna, annars kynne ecke mannlegt Kyn ad standast og blijfa vid magt: Þvi sa sem epter sinne vondu Naattwru villde og so hid ytra fullkomna allar sijnar Girnder, og Tilhneigingar, hañ slite þar med i sundur allann mannlegann Samfielagskap og hlyte ad vera med Lijfe og Lijkama undergiefenn þvi Veralldlega Sverde.

So hefur GUD þessvegna laated þann naattwrlega Kiærleiks-Varma lifa epter hia Mannenum, so vier þar af kunnum ad skilia, hvad dyrmæt Giæde, og dæleg GUDS Mynd; saa fullkomne Kiærleike mune vera, og hvad stoorre Vegsemd vier høfum tapad i Adams Falle. So miked sem ahrærer þau Andlegu Giædenn, Gllds-Rijke og ejlijfa Saaluhialp, þa er þad oraskanlegur og eilijfur Sannleike, sem Heilagur Paall seger. 1. Cor. 2. Ad Holldlegur Madur skynie ecke þad sem Gllds Anda er, þvi hønum sie þad Heimska, og hann kunne þad ecke ad skilia; þad er, hann hefur eingaunn Neista af Guddomlegu Lioose, er alldeilis steinblindur, i

þui, sem ahrærer þad Himneska, Gudlega og Andlega Lijfed; til hvers madurenn var þo sierdeilis skapadur, so ad hann, af Andlegu Lioose upplystur, sæe med innre Saalarennar Augum Nærveru GUds, og hanns skiærasta Kiærleika vid sig, og liete sig af hønum i þessu Lijfe stiornadann verda, so hann i þvi epterkomanda blife hia hønum eilijflega.

Enn af þessu Andlega Lioosenu, sem lyser til eilijfs Lijfs hefur Naattwrlegur Madur ecke so miked, ad hann hafe einn Neista epter: hlytur þvi ad bliifa i þessum medfædda Blindleika, ef hann verdur ecke af Gude upplystur. Saman vid þetta innvortis Sioonleyse slær sier opt og tijdum utvortis Naattwrunnar Blindleike, þeger mannleg Vondska fær Yferhönd, dempar og myrkt giorer, jafnvel þad Naattwrlega Lioos Dygda og Mañkosta, sem heyra til wtvortis Lijferne. So er þa Saalen alldeilis sleigen med Blindleika, og hefde maatt liggia i þeim Myrkrum eilijflega, ef ad Christur hefde ecke upplyst hana.

Siaa nu Christen Saala, hvad þu ert, þar sem Christur med sijnum Anda ecke endurfæder þig, giorer þig ecke nya Skiepnu, og endurnyar þig til GUds Myndar? hvad þo ecke skiedur i þessum Heime, nema i stoorum

um Veikleicka af þinne Alfu; gief giœtur ad ſialfre þier, þw ſem ert Heilags Anda ny Skiepna: Hvad veik og lijtelfiørleg er GUDs Mynd i þier? Hvad litell GUDs Otte, Elſka Trw og Von? hvad lijtel er þijn Audmykt? Hvad ſtoort er þar a moote þitt Vonarleyſe, Hofmoodur og Oþolenmœde? hvad kolld og andaktar-lijtel er þijn Bœn? hvad veik er þijn Elſka til Naawngans? Hvad lijtell Neiſte er þar til af hreinu og andlegu Skijrlyfe i þijnu Hiarta? Enn þar þvert a moote: Hvad ſtoor einn Loge af holldlegu Saurlijfe og Lauslœte? Hvad ſtoor er þijn Sialfs-Elſka? þyn Girnd til eigenn Heidurs og Gagnſemda, ſem og Brune annara Vondra lyſtinga? Þarfyrer hliootum vier, fyrer Naad Heilags Anda, ad ſtrijda o-aflaatanlega, allt framm i Andlaated, a mote þeim Gamla Adam, og Mynd Diøfulſens, og meig um ecke hafa adra Hiartans Hyggiu meire, eñ ad bidia, ſtynia, leita og knya a, ſo oſſ giefeſt H. Ande ſem afmaae Diøfulſens Mynd i oſſ daglega, og endurnye oſſ epter GUDs Mynd.

Af þeſſu lœrum vier þad, ad oſſ byriar ecke ad treyſta uppa ſialfa oſſ, helldur uppa GUDS Naad, og ad GUDS Naad hlytur ad verka allt i oſſ. So lœrum vier ad leita alls hia Gude i Chriſto, fyrer Trwna,

 ſem

sem vier við þurfum; bidia um allt, og ødlast alla Hlute, það er að skilia, Guðlegann Vijsdoom a mote vorum Blindleika; Riettlæte Christi a mote vorum Syndum; hans Helgun a mote vorum Saurugleika; hans Endurlausn, Krapt, Sigurvinning, og Styrkleika a mote Dauðanum, Dioflenum, og Helvijte: Fyrergiefning allra vorra Synda a mote øllu Rijke Syndanna og Diofulsens; sem og eilijfa Sælu a mote øllum Andlegum og Lijkamlegum Eymdum, og i JEsu Christo alleina það Eilijfa Lijfeð; hvar um talað verdur framar i hinne Annare Bookenne.

## Cap. XLII.

### Niðurlag þessarar Bookar, og hvar fyrer hwn tale so mikeð um Iðranena, og hennar Avexte; item að Maðurenn skule ecke hirða um Veralldarennar Dooma, og hvernen hann eige að vakta sig fyrer Andlegre Drambseme og að eingar Andlegar Gaafur kunne að faast an Bænarennar.

1. Cor. 4.

Hvað hefur þw það, að þw hafer ei Meðtekið? Enn fyrst þw hefur það Meðtekið, þvi hroosar þw þier þa, sem sa, það hefðe ei Meðtekið?

HAd skal vera Ending þessarar Bookar, ad minnast a nockur Stycke, sem vel eru merkiande:

Fyrst, er þad ecke an Orsaka giort, ad eg i þessare Book hefe talad so margt og miked um Idranena, og hennar Averte, Endurnyungena i Christo, og daglega Deyding Holldsens, um Afneitun sialfs sijns, um Forakt Veralldarennar, umm Ydkun Kiærleikans, og annad þviumlijkt: þvi Idranen er Upprune og Grundvollur þess sanna Christendoms, og heilags Frammferdis; jaa, Upphaf vorrar Saaluhialpar, fyrer sanna og lifande Trw: So kañ alldrei sonn og stodug Huggun, ad finnast i þess Mans Hiarta, sem ecke hefur adur riettelega og grant þeckt Uppruna-Syndena, med hennar Avortum, yfer hverre menn kunna alldrei noogsamlega ad klaga, sa ecki kannast vid hvad skielfeleg, daudleg og Diofulleg hun sie, og hvijlykt Helvijtis Eitur; og eige þvijngar hana og krossfester med daglegre Idran. Og i Sañleika eru allar Huggunar-Bækur til forgiefens, ef eige er adur lagdur vel þesse Grundvollur, og madur ecke adur noglega kannast vid sijna Eymd og Volæde, og sierdeilis hvad vidurstyggeleg Uppruna-Synden er, og aktar ecke hvad Hollde og Bloode lijkar i þessu, þvi þad

þad er Edle vorrar Naattwru, sem giarnan fegrar sijn Maalefne, ad hwn vill ecke slykt heyra, helldur vill hwn huggast, fyrr enn hwn þecker sijna Synd, sijna Spilling og Vondsku; hvad þo er fraleitt og þvert a mote allre Heilagre Ritningu, þviad heiler hafa ecke Læknarans þorf, helldur þeir sem siwker eru, og þo HErrann Christur sie sañur Grædare vorra Saalna, þa eru þo hans Lækningar, og Hugganer til einskis Gagns, þeim sem ecke þeckia sijna Soott og Veikende adur.

Einn sannur Christelegur Lifnadur er, eckert annad, og maa eckert annad vera, enn sijfelld Holldsens Krossfesting og Deyding, og þad skalltu laata þier aptur, ja, þwsundsinnum sagt vera, ad ecke kann nockur ad til heyra Christo, sem med ødru mote hagar Lifnade sijnum. Enn þa sem hønum heyra til, lætur hann alldrei Huggun varta. Og þegar Madureñ a þennann haatt, fyrer Yfervegun Evangely og H. Anda Verkan, þecker sijna Synd og Breyskleika; Þad giefur af sier sannarlegar Hugganer, og leyder til HErrans Christum.

Þar næst er hier adgiætande, ad þegar einhver giører hvad gott er, og æfer sig þar i, med sijfelldre Jdran, þa bregst þad skialldan, ad þar verde ecke adskilianleger ranger Doom-

ar

ar um hann af Veralldarennar Børnum. Enn þad skal Madur alldeilis forakta og einskis virda, og vita ad þess haattar Doomarar eru saaraaẟer og blindar Menneskiur, hverier ecke þeckia þeirra eigen Eymd og Vesøld, og skilia eige helldur hvad Adam er, og HErrann Christur; og hvernen Adam eige i oss ad deya, enn HErrann Christur ad Lifa. Enn hver sem þetta vill ecke læra, um hann er vijst, ad hann er af Faavitskunar Myrkrum og Blindleika yferkomenn, og skilur ecke hvad Jdranen, hvad Trwen, edur Endurfædingen er; ecke helldur i hveriu sa sanne Christenndomur sie innefalleñ. Og hvert sem einn Daare lofar edur lastar eiñ, þa verdur hann vid þad hvercke verre nie betre.

J Pridia maata skal madur og varast andliga Drambseme. Þegar hiñ gode GUd byriar i þier ad verka, fyrer sijna Naad, þær andligu Gaafur, nyar Dygder, og nya þecking, þa tileinka þier eingannvegen nockurn Hlut af þessum þijnum Kroptum, helldur GUds Naad: Miklu sijdur skalltu hallda, ad þesse þijn uppbyrind Good Verck riettlæte þig fyrer Gude: Þvi vier verdum Riettlaater af GUds Naad alleina, og øll vor Verk eru ofullkomeñ, og fyrer Guds stranga Doome, so sem saurugt Klæde: Þw skallt og med

eingu

eingu moote brwka þeſſar Dygder þier ſialf-
um til Lofs og Hrooſunar, helldur i ſonnum
GUds Otta, og giefa Drottne Heidureñ.
Þw ſkallt og alldrei dæma þig ſialfann ad
vera goodañ, edur þeinkia þw hafer nw
ſterka Trw, mikeñ Viisdoom edur þvijliikt.
Vakta þig vel þar fyrer, þvi þad er Diofuls-
ſens Jllgreſe, hveriu hañ ſaair i bland Hvei-
teſins: Þw kant ecke ad dæma yfer ſiaalfum
þier, Drotteñ er hann ſem þig dæmer, ſo ſem
Paulus ſeger, jafnvel um ſialfann ſig. Og
eckert af þeim Gaafum, ſem þw hefur, er
þitt, helldur alleinaſta eins GUds; An hvers
Upplyſingar, þu verdur daudur, og fwll og
faanytur Jardarhnaus. Ef hann legde ecke
ſijnar Gaafur nidur hia þier, þa værer þw
ſo ſem tomt Kier. Lyka ſo ſem þær Clenodiur,
ſem madur leggur nidur i eina Kiſtu, heyra
ecke henne til, helldur þeim ſem þær i hana
innlagde: Eins eru eingar af þijnum Gaaf-
um, þijnar eigenn; Þw maatt ecke reiknaſt,
nema ſo ſem ein Hyrdſla, i hveria þær eru
nidurlagdar: Enn ſkyllde nu nockud Jlaat-
ed ſtæra ſig af annara Gootze, ſem þar geim-
eſt? So ſem ſa er Gimſteina a, hefur valld
til, þa ad færa i Annann Skaap, hvenær og
ſo opt, ſem honum lijtſt; So gietur GUd a
hveriu Augnablike apturtekid ſijnar Gaafur;
Hvern

Hvern þu att þessvegna ad hrædast, og med mestu Astundan ad fordast Andlega Drambseme. Þw skallt og einnen þar um hyxa, ad þu aatt, a siinum tyma, ad giøra Gude riettann Reikningskap fyrer soddann Gaafur; og hversu margar sem þær eru, og hvad miked sem sa Himneske Faderenn hefur hia þier i Geimslu laated, þa er þad þo ecke ad reikna, utan Uppbyriunen siaalf a þvi hinu gooda. Þig vantar enn þa mikid og margt.

7. J Fiorda maata skalltu þeinkia, ad eingen fullkomen Giøf fæst af Gude, nema fyrer Bænena, an hverar þad er allt, so sem daudt og vised Korn, sem þu hefur, og ber eingann Avøxt, helldur rotnar þad adurenn þad fær nockurn Fullkomlegleika. Þar fyrer meigum vier bidia GUd um sierhveria Himneska Gaafu, þvi hwn kiemur ecke i vort Hiortu, nema fyrer Bænena; Hvar um frekara talast i minne Bænabook, so og i Annare Book þessa Skrifs: Annars maattu i Bænenne sierdeilis tvent athuga: Sem er fyrst ad Mynd Diøfulsens verde nidurbroten, under hveriu Nafne ad skilst Vantrwen, Drambsemen, Agirnden, Lostasemen, Hatur, Neide, og adrar þesskonar Odygder; Þar næst, ad Mynd GUds uppbyggiest aptur; J þessu er innebunded þetta: Trwen,

Bonen,

Vonen, Kiærleikurenn, Lijtelæted, Polen mæden, Hogværden og Otte Drottens. Þetta tvent er med faaum Ordum innfært i Drottenlega Bæn, so hwn ma segiast ad vera bæde med þier og a moote: Þui ef Nafn GUds a alleina ad helgast, þa hlytur þitt Nafn ad ganga nidur, og þijn Drambseme ad læckast. Ef Rijke GUds a ad uppbyggiast i þier, þa a Diøfulsens Rijke ad foreydast. Ef Vilie GUds a ad skie, þa aattu eigi ad sinna þijnum eigenn Vilia, helldur hønum ad afneita. So heyra nu þesser tveir Partar til sinnarlegre Bæn; Og þegar madur soleidis hefur beded um þau Andlegu Giæde, þa fylger einnen epter Bænen um tijmanleg og lykamleg Giæde, epter þeirre Nød, sem stendur i Drottenlegre Bæn; Hver ad er stutt Agrip Himneskra og Stundlegra Giafa, sem vier tijmanlega og eilijflega vidþurfum. Nær vier so bidium kostgiæfelega vorn Himneska Fødur, so vill hann veita oss allt þad, er hañs Elskulegur Sønur hefur oss skipad um ad bidia. Hvar um añarstadar mun frekara talad verda.



